# ÍSLENDÍNGA SÖGUR.

EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AT TILHLUTUN

HINS KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

Urdar ordi
kvedr engi madr.

*Fjölsvinnsmál.*

## ANNAT BINDI.

LJÓSVETNÍNGA SAGA, SVARFDÆLA SAGA, VALLA-LJÓTS SAGA, VEMUNDAR SAGA ok VÍGASKÚTU, VÍGAGLÚMS SAGA.

KAUPMANNAHÖFN.

Prentadar hjá S. L. Möller.

1830.

# LJÓSVETNÍNGA SAGA,
# SVARFDÆLA SAGA,
# VALLALJÓTS SAGA,
# VEMUNDAR SAGA OK VÍGA-SKÚTU,
# VÍGAGLÚMS SAGA.

EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AT TILHLUTUN

HINS KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTADAR HJÁ S. L. MÖLLER.

1830.

Sögur þær, er hèr koma fram í öðru bindi Íslendínga sagnaflokksins, viðkoma allar Norðlendíngafjórðúngi, ok voru því hèr saman valdar; fara þær og að mestu leiti yfir sama tímabil, og geta víða við sömu manna og atburða, eru og allar líkar að frásagnar hættinum; en að útgáfu hvörrar sögu sèrílagi hefir svo búið verið, sem nú skal greina:

1. LJÓSVETNÍNGA SAGA, er og nefnist Reykdæla, en stundum Sagan af Guðmundi ríka (bls. 1—112), er prentuð eptir pappírshandritinu Nr. 485 í 4blf. (*A*), er það ritað með hálfsettu letri og nýligri rèttritun, sem hèr hefir hvervetna löguð verið að þeim hætti, sem eldri er og í slíkum ritum heldur viðhafður; handrit þetta þikir nærst fara skinnbókarbroti því, er kallast *C*, og má vel vera skrifað eptir því, áður meiri hluti þess glataðist, sem nú er. Pappírshandritinu Nr. 35 í arkarf. í bókasafni konúngs í Stokkhólmi með hálfsettu letri (*S*) ber allvíðarst saman við *A*-bókina; en því er pappírshandritið Nr. 554 í 4blf. með nýligri hendi og rèttritun að öllu leiti samhljóða, og er þess því eigi frekar viðgetið; bæði hafa þau kapitula fyrisögn umfram *A*, og er hún úr þeim tekin. Þessi handrit voru þau ein, er hèr voru til fullkomnust af sögunni, þó enn vanti nokkuð aptanvið hana í þau, hefir og eigi tilspurzt annarra, er betur væri farið, þótt borið hafi verið undir fróða menn á Íslandi, og mun því niðurlag sögunnar eigi framar tilvera. Þá hefir enn verið samanborið skinnbókarbrot úr sögunni í Nr. 162 A í arkarf. (*C*); fyrsta blaðið hefst í 5ta kap. og nær þángað fram í 7da kap., sem í athugasemdum-í um er tilbendt; annað blaðið byrjar í 11ta og nær fram í 13da kap., og það eð þriðja, tekur við í 24da og nær fram 25ta kap. Bókin, sem blöðin eru úr, hefir verið í stóru 4blf. og eigi mjög vel rituð, en er þó að líkendum frá 14du aldar lokum; á henni hafa fleiri Íslendínga sögur verið, því brot er enn til í sama Nr. af Finnboga sögu ramma, er við hin á. Enn hefir hagnýtt verið brot af söguuni á kálfskinnsbók, Nr. 561 C í 4blf. (*D*); það er vel ritað, og eigi líkliga seinna enn á 14du öld. Við rèttritun þess er það helzt aðgætanda, að œ er þvínær hvervetna í upphafi orða brúkað fyrir *e*, líka er ꜵ víða viðhaft fyrir *á*. Fyrra

brotið byrjar á sögunni, og nær fram í 4ða kap., þar sem til er bendt; það er nokkuð frábrugðið, og er helzti orðamunur þess tekinn; síðara brotið byrjar í 13da kap., þar sem þess er viðgetið, segir þar frá með öllum öðrum orðum, er og nokkuð frábrugðið innihaldið, og fer á þann hátt fram allt inn í 18da kap., var eigi hæft að tilgreina þann orðamun allan; en úr því, og þángað, sem brotið endar í 21sta kap., er orðamunurinn stöðugt tilfærður. Þá hefir enn viðhaft verið pappírshandritið Nr. 514 í 4blf. með settaskrift (*B*), og kemur því viðarst saman við *A*, meðan það nær til; en þar sem með 21sta kap. er lokið að segja frá málalyktum eptir Þorkel hák og seinast frá æfilokum Guðmundar ríka, skilur bækurnar, og bindur *B* með tuttugasta og öðrum kap. enda á söguna, er þarí ágrip af seinni viðskiptum Ljósvetnínga og nokkuð um ætt þeirra, og lýkur sögunni þarmeð, sem sjá má af kap. þessum, er í athugasemd er tilfærður. Þareð frásögninni í *B*, sem nú var sagt, lýkur með æfidögum Þorkels háks, og sagan er í fyrisögninni við hann, Guðmund ríka og Þorgeir, kend, er eigi ólíkligt, að frásögn þessi sè sú en sama, er menn kallað hafa sögu Þorkels háks*), því eigi finnst hèr nú í handritasöfnum önnur saga, er við hann sè kend; er og all-líkligt, að Ljósvetnínga sagan hafi áður verið í tveim sögum, og hafi sú fyrri, eða eldri sagan, farið yfir æfidaga Þorkels háks og Guðmundar ríka, og sè það nú talda handrit þesskonar; en seinni parturinn sagt frá æfi Eyólfs Guðmundssonar og ósátt þeirri, er gjörðist milli afkomenda Guðmundar ríka og Þorkels háks, álíka og Vemundar saga og Vígaskútu eru aðgreindar í skinnbókinni Nr. 561 A í 4blf.

2. SVARFDÆLA SAGA (bls. 113—198), er prentuð eptir pappírshandarriti Nr. 161 í arkarf. (*A*), með settleturshendi Síra Jóns Erlendssonar í Villíngaholti, en kapítula fyrisögninni er seinna viðbætt; rèttritunin í bók þessari er á þann veg, að líkligt er hún sè rituð eptir allgóðri skinnbók. Í handriti þessu eru nokkrar eyður í sögunni, og tvær þeirra mestar í niðurlagi 9da kap. og inni í þeim 10da, og er þar mikið úr fallið; hinar í 10da, 11ta, 14da og 25ta kap. skerða lítt meininguna; en ekkert handrit það, er tilfèkkst bætti í skörðin. Að vísu hafði Herra Prófessor Rask á ferð sinni í Íslandi eignazt uppfylling til beggja aðaleyðnanna, er hann af ljúfmennsku sinni lèð hefir við útgáfuna, og er sú uppfylling orðrètt prentuð eptir eginhandarriti hans aptanvið söguna; en bæði bera mörg orðatiltæki í henni og líka einstök orð merki þess, að hún er sjálfri sögunni mikið ýngri, enda má og sjá af samanburði við Landnámu, að höfuðatriðin eru þaðan tilfengin,

*) *Sjá Cfr. Erichsens brèf til Sûhm í hans Samlede Skrifter,* 15de *Decl, Kh.* 1798, *bls.* 445.

en hinu viðbætt, eptir ágizkun, og því, sem sá, er úrbætti, hefir helzt ráðið af efni sögunnar að hlýða mundi; hefir hann því og tvisvar (bls. 195, 196, sbr. bls. 139, 140) sett mannanöfn þau milli aðgreiningar strika, er sjálf sagan telr siðar öðruvis enn Landnáma, en haldið þó Landnámu-nöfnunum; má það og enn sjá og segja, að trauðla hefir sá, er úrbætti, annað viðhaft til uppfyllingar sinnar, enn Landnámu, og líka það, að enn vantar nokkuð í innihaldið, er þó verður að hafa staðið áður í sögunni, þar sem manna er getið eptir seinni eyðuna (t. d. Griss), sem hvorki uppfyllingin, eða það, sem til er af sögunni, nefnir hvörnin ástandi. En því þótti hæft að láta uppfylling þessa, sem svo er ástatt, fylgja sögunni, að svo má strax sjá aðalefni þess, sem glatað er. Glöggt má sjá af eyðunum og öðru, að öll handritin, sem tilfengust af sögunni, og saman hafa verið borin við *A*, eru skrifuð annaðhvort eptir sömu skinnbók sem *A*-bókin, eða þó heldur flest eptir sjálfri henni; eru það: pappírsbók í 4blf. Nr. 484, með fljótaskriftarhendi (*B*); þá pappírsbók Nr. 144 í arkarf. með settlettri (*C*), á henni eru fleiri Íslendinga sögur; þá pappírsbók í arkarf. (flugelsbindisbókin) Nr. 160 (*D*), á henni eru og margar Íslend. sögur; þá pappírsbók í 4blf. Nr. 483, með látinu letri (*E*); þá pappírsbók úr viðbætirnum Nr. 27 í arkarf. (*F*), á henni eru allmargar Íslendinga sögur. Að síðurstu er og samanborin pappírsbókin á bókasafni konúngs í Stokkhólmi, Nr. 68 í arkarf. með settletri (*S*); framan á henni stendur, að hún sè skrifuð eptir gamalli skinnbók.

3. VALLA-LJÓTS SAGA, eða Sagan af viðskiptum þeirra Svarfdæla og Guðmundar ens ríka (bls. 199—228), er prentuð eptir pappírshandritinu Nr. 161 í arkarf. (*A*), sem nú var lýst við Svarfdælu, en í sögu þessari er aungri kapitula fyrisögn viðbætt í handritinu. Handrit þau, er saman hafa verið borin við það eð nú nefnda, eru mjög samhljóða því, og líkliga annaðhvort skrifuð eptir því, þar sem flest eru þau því yngri, eða upprunnin af sömu skinnbók sem það, eins og áður var viðgetið um nokkur þeirra við Svarfdælu; eru það: pappírsbókin Nr. 496 í 4blf. (*B*) með snarhendi, hefir hana átt Þorlákur Skálhólts biskup; þá pappírsbókin Nr. 158 í arkarf. (*C*) með fljótaskrift; þá pappírsbókin Nr. 558 A í 4blf. (*D*) með fljótaskrift; þá pappírsbókin Nr. 558 B í 4blf. (*E*) með fljótaskrift; þá pappírsbókin Nr. 27 í arkarf. úr viðbætirnum (*F*); henni er pappírsbókin Nr. 4 C í viðbætirnum samhljóða; og að síðurstu, pappírsbókin Nr. 68 í arkarf. úr konúngsins bókasafni í Stokkhólmi (*S*), sem fyrr var getið.

4. VEMUNDAR SAGA ok VÍGASKÚTU, er og kallast Reykdælinga saga eða Reykdæla (bls. 229—320), er að nokkru leiti prentuð eptir pappírshandritinu Nr. 161 í ark-

arformi (*A*) með settaskriftarhendi Síra Jóns Erlendssonar, sem Svarfdæla og Valla-Ljóts saga líka eru á, og nær það fram að eyðunni í 30asta kap. En nokkuð af sögunni, nefniliga frá því í aptara hluta 13da kap., og allt þángaðtil í miðjan 20asta kap. fram, og þá aptur frá því framarliga í 21sta kap. og fram í miðjan 28da kap., þar sem við er getið í athugasemdunum, er sagan prentuð eptir kálfskinnsbókarbrotinu Nr. 561 A í 4blf. (*D*); það er úr góðri skinnbók í 4blf. og allgamalli, líkliga ritaðri á 14du öld, og með sömu hendi og úr sömu bók, sem *D*-brotið, sem getið er við Ljósvetninga sögu; meðan það er við, er orðamunur úr *A* við það tekinn; í það vantar, framanvið söguna, nokkuð inn í 13da kap., líka er niðurlag 20asta og byrjun 21sta kap., sem tekur yfir eina blaðsíðu í því, gjörmáð, og þá vantar enn aptanvið söguna í því úr miðjum 28da kap. og fram að eyðunni í 30asta kap. Ei má það fullyrða, hvort *A* er skrifuð eptir *D*-handarritinu, áður enn af því glataðist það, sem nú var talið að vantaði, þó er það all-líkligt, því mjög lítill orðamunur er þeirra hvervetna, og minni þeirra, enn annarra handritanna, og er þessháttar, að vel má vera afskrifara að kenna; var því og *D* fylgt, að því, er hún tók yfir, að hún virðtist frumritið, hefði það ella eigi verið hæft. Kapitula fyrisögn er engin í *A* eða hinum handritunum, en í *D* viðarst máð, og varð þó lesin, og er því viðgetið í athugasemdunum, að hún eigi náði yfir alla söguna. Svo má virðast, sem saga þessi hafi áður verið sundurgreind í tvær sögur, því þar, sem frá Vemundi kögur lýkur að segja, byrjar 17di kap. í *D* með slíkri fyrisögn: saga Vígaskútu, sonar Áskels. Niðurlag sögunnar, er eptir eyðuna kemur í 30asta kap., er prentað eptir aptari blaðsíðu fyrsta blaðsins í skinnbókar brotinu Nr. 561 B í 4blf. (*D*), þar er og á brot af Gullþóris sögu, og er allt í fyrstu úr sömu bók, sem aðalbrotið *D* hèr að framan. Fyrri síða blaðs þessa er gjörmáð, og ekkert handrit hefir það uppspurzt, sem þá auðn fylli, er þar verður, í niðurlagi sögunnar;, en af efninu má ráða, að eigi vantar meira í söguna, enn á því enu máða hálfblaði staðið hefir, og samsvarar það 1½ blaðsíðu prentaðri. En þessi handrit hafa við hin samanborin verið, og orðamunur úr þeim tekinn: fyrst pappírsbókin Nr. 496 í 4blf., sem Valla-Ljóts og fleiri Islendinga sögur eru á (*B*); þá pappírsbókin Nr. 158 í arkarf. með allmörgum Isl. sögum (*C*), og að síðurstu pappírsbókin Nr. 507 í 4blf. (*E*) með fljótaskrift; aptantil í hana er viðskrifað með hendi Árna Magnússonar niðurlags brot sögunnar, er í öll handritin vantar, nema skinnbókina *D* og þessa bók; en þau 3 nú töldu handrit má þvínær kalla *A* og *D* samhljóða, þó *C* beri helzt nokkuð útaf.

5. VÍGAGLÚMS-SAGA, er og kallast Glúma, og þá líka Esphælinga saga (bls. 321—98), er áður prentuð í Ágætum Fornmanna-sögum, að forlagi Vice-

lögmanns B. Marcússonar, á Hólum 1756, í 8blf., bls. 180—240, og betur umvönduð, ef rèttritunin er fráskilin, enn hvör önnur sagna þeirra, er þar eru; öðru sinni er sagan útgefin með titli: Vígaglúms saga, sive Vita Vigaglumi, e Manuscriptis Legati Magnæani, Havniæ 1786, í 4blf., og hefir Guðmundur Sýslumaður Pètursson samið látinsku útleggínguna, sem þar er í, og búið á allan hátt að þeirri útgáfu. Nú er sagan prentuð eptir kálfskinnsbókinni Nr. 132 í arkarf. (á bls. 131-41) (*A*), eins og áður Kaupmannahafnar útgáfan, og eru þó eigi óviða þar afbökuð eða rángt lesin orð, úr því, sem í skinnbókinni stendur, er slíkt nú allt lagfært. Skinnbók þessi er mikil, og ágæt að letri og rèttritun, og lítt fábreytilig að því, ber þó stundum til, að stafavillur verða fyrir í henni; hefir það og orðið, þar sem örkum skipti í skinnbókinni, að gleymzt hefir niðurlag vísunnar við lok 23da kap., og í öðrum stað nokkur orð úr byrjun seinustu vísunnar í 26ta kap.; svo virðist, sem hún sè skrifuð snemma á 14du öld, og eru enn margar Islendinga sögur þar á, auk þessarar. Pappírshandritið Nr. 508 í 4blf., með settletursbendi Ásgeirs Jónssonar, er orðrètt skrifað eptir skinnbókinni, og þurfti því eigi að samanberast; sama er að segja um pappírsbækurnar Nr. 144, 153 og 164 B í arkarf., því þó lítill sè orðamunur þeirra og *A*, mun hann einúngis sprottinn af gáleysi þeirra, er afskrifuðu. Við *A* er sagan í Hóla-útgáfunni (*B*) samanborin, ber þeim eigi til muna á milli, nema það, er *B* ein bætir úr stöku-eyðunni, sem í *A* og hinum handritunum er. Enn er orðamunur tekinn úr pappírsbókinni Nr. 455 í 4blf. með smárri settletursbendi Síra Helga Grímssonar á Húsafelli (*C*), og er hún allregluliga skrifuð; á þeirri bók eru ýmsar aðrar Islendínga sögur; handrit þau, er nú voru talin og hana, skilur það helzt, að hún bætir við í upphafi sögunnar nokkrum ættartölum, sem í þau vanta. Samhljóða *C* eru að mestu pappírsbækurnar í arkarformi Nr. 143 með settletri, Nr. 160 með settletursbendi Síra J. Erlendssonar, Nr. 164 A með snarhendi Síra J. Gizurssonar, allrèttliga rituð, og Nr. 217 B, mjög óregluliga rituð; og þá enn Nr. 509 í 4blf. með fljótaskriftarhendi Síra J. Erlendssonar, Nr. 565 B og Nr. 582⁹· í 4blf., og þó bækur þessar víki stundum í stöku orðatiltæki frá *C*, og hvör frá annari sín ímillum, má þó eigi síður fullyrða, að þær eru allar af sömu skinnbók eða frumriti sprottnar sem hún, og virðtist því óþarft að taka smá-orðamun úr þeim.

Öll handrit þau, sem hèr að framan hafa talin verið við sèrhverja sögu, og eigi var viðgetið hvaðan sèu, eru úr handritasafni Árna Magnússonar á Sívala-turni í Kaupmannahöfn.

Að afskrift frumritanna, samanburði handrita og leiðrèttíngu prófarka við sögurnar í bindi þessu, hafa í sameiníngu

starfað tveir af meðlimum fornritanefndar Fèlagsins, Cand. Þorgeir Guðmundsson og Þorsteinn Helgason, en sá fyrrnefndi hefir samið bæði registurin aptanvið bindið. Þess má hèr og geta, að Ljósvetninga saga er sèrilagi útgefin úr bindi þessu, líka Svarfdæla og Valla-Ljóts saga báðar saman, og þá enn Vemundar saga og Vígaskútu ásamt Vígaglúms sögu, og titilblað o. s. frv. prentað við hvörja þessara þriggja deilda úr bindi þessu.

Kaupmannahöfn, dag 28 Jan. 1830.

# Ljósvetníngasaga[1]

*Viðreign þíngmanna Þorgeirs goða í Reykjadal ok þarumkríng.*

Þorgeir goði bjó at Ljósavatni, höfðíngi mikill. Forni hèt maðr, er bjó í Haga í Reykjadal[2], góðr bóndi. Þá bjó Arnór í Reykjahlíð, faðir Þorfinns, kappi mikill; þeir voru menn[3] Þorgeirs goða. Þat er sagt, at þeir Þorfinnr ok Grettir fundust, ok rèð þar hvorgi á annann, ok má af því marka, hvörr kappi hann var. Í þann tíma bjó Ófeigr Járngerðarson í Skörðum, höfðíngi mikill ok garpr. Ölver hèt maðr, er bjó at Reykjum, góðr bóndi. Þeir bræðr Sölmundr ok Söxólfr[4] bjuggu at Gnúpum, Viðarssynir, garpar miklir ok ójafnaðarmenn; [þeir bjuggu fyrst fyrir austan ána[5] í dalnum, ok voru óeirðarmenn miklir um kvennamál[6] ok vígaferli, ok höfðu[7] svâ mikinn yfirgáng, at fáir treystust á móti þeim at

1) *Þannig A, D;* hèr hefr sögu af Þorgeiri goða, Guðmundi ríka ok Þorkeli hák, *B;* hèr byrjast Ljósvetníngasaga eða Reykdæla, *S.* 2) Reykjardal, *D.* 3) þíngmenn, *B;* þíngmenn ok vinir, *D.* 4) *þannig D;* Eyólfr, *hin.* 5) ok bjuggu fyrir austan, *D.* 6) kvennafar, *D.* 7) því, *b. v. B. D.*

gánga eðr þeirra vilja; ærit voru þeir frægir ok þó at illu. Sölmundr var fyrir þeim; hann venr komur sínar til Ölvis at hitta dóttur hans [ok án[1] vilja frænda hennar, ok fèkst þó engin forstaða af lítilmenni[2]. Þat er at segja, at Ófeigr átti för inní hèrað, ok hitti Ölver hann, ok bað hann koma þar, er hann færi aptr, ok sagði honum ósæmd þeirra bræðra Viðarssona. Ófeigr mælti: illa mun sjatna ójafnaðr þeirra bræðra, en koma mun ek hèr, er ek fer heim. Ölver þakkar Ófeigi góð orð. Ölver hafði 18 þræla. Ófeigr kom þar um kveldit. Nú er at segja frá þeim Viðarssonum, þeir fara heiman til Ölvis; þá tekr Sölmundr til orða ok mælti: þið bræðr skuluð standa í dyrum ok horfa við drengiliga, vænti ek at rír verði þræla ættin fyrir oss. Sölmundr gekk inn, ok sókti eptir konunni ok hafði á brott. Þá mæltu þrælarnir: hvat munum[3] vèr nú 18, [ef þeir koma til 3 Viðarssynir[4]. Siðan spratt Ófeigr upp, tók vopn sín ok gekk út eptir þeim, voru þeir þá komnir at túngarðinum; ok í því, er Sölmundr vill taka við konunni ok hafa[5] hana útaf garðinum, grípr Ófeigr til hennar ok kippir henni innaf garðinum, ok mælti: hvartil ætlar þú, Sölmundr! segir hann, um þína[6] ósæmd, er þú gjörir eptir bóndadætrum, ok máttu svâ tilætla, at menn muni eigi þola þèr þat; í Skörð máttu sækja hana, ef þú vilt, ok reynum við með okkr. Sölmundr mælti: ekki munum við þetta til þrætu[7]

---

1) *þannig B;* í mót, *D;* at ná henni án, *S;* ok ná, *A.* 2) litilmennsku föður hennar, *D.* 3) gjörðu, *D.* 4) er þeir *V.* synir komu at 3, *D.* 5) hefja, *D.* 6) þá, *B.* 7) þrautar, *D.*

leggja, ok skildust at því, at þeir fóru í burt, ok tókust af fiflíngar síðan ok ósæmd af tilkomu Ófeigs; sat Ölver síðan í friði. Litlu síðarr kom (út) Hallvarðr Arnórsson í Húsavík; Sigurðr hèt maðr, er í skipi átti með honum, norrænn; þeir Austmenn vistuðust þar[1], ok var Sigurðr með Forna í Haga; hann seldi varníng sinn um vetrinn[2], ok fór um sveitir ok hèröð; svâ bar til, at hann reið fyrir neðan garð Sölmundar, ok lá hestr hans í keldu; Sölmundr sá þat ok fór til, ok bauð honum til sín, tók við honum vel ok gjörði honum beinleika, ok falaði varnínginn at honum, ok hèt verði fyrir. Austmaðrinn fór heim, ok sagði Forna, at hann hefði seldt Sölmundi varnínginn. Forni lèt illa yfir ok sagði, at hann mundi illa gjalda. Var nú kyrt um vetrinn. En um vorit ferr Austmaðrinn at heimta varníngs verðit. Sölmundr svarar um illa, ok kvað fúinn vera varnínginn, ok vildi ekki gjalda; Austmaðrinn ferr á burt. En bráðla eptir þetta fóru þeir stefnuför til Sölmundar Forni ok Arnór, þeir voru 15 saman; þeir bræðr voru [í virki sínu[3], ok hlýddu til um hríð. Þá mælti Sölmundr: eigi er einsætt at þola þeim slíkan ójöfnuð; þá skaut Söxólfr spjóti til Austmannsins, ok fèkk hann af því bana. Þeir fóru við þetta á burt; Arnór flutti hann uppí Reykjahlíð. Þeir [bjuggust allir[4] til þíngs, ok var leitat um sættir, ok kom þar, at Söxólfr skyldi fara utan, ok eigi út-

[1]) um vetrinn, *b. v. D.* [2]) ok sagði Forni, hvar skuldarstaðir voru beztir, *b. v. D.* [3]) í virki einu, *B;* 3 heima, *D.* [4]) bjuggu málit til þings; þeir fóru nú, *D.*

koma, en Sölmundr skyldi utan vera 3 vetr. Fara þeir nú utan, ok lagðist Sölmundr í víkíng, [ok reyndist hinn hraustasti drengr[1].

*Orðsendíngar Hákonar jarls, ok samtök þeirra Guðmundar ríka ok Þorgeirs goða.*

2. Í þann tíma rèði Hákon jarl fyrir Noregi; fór Sölmundr til hans, þá er honum leiddist í víkíng at vera, mat jarl hann mikils. Sölmundr fýstist um sumarit til Íslands. Jarl kvað þat óráðligt, slíkt sem hann [ætti þar[2] um at vera, ok kvaðst fyrr mundi senda út[3] gripi nokkra, ok hylla[4] svâ fyrir honum; hann sendi girzkan hatt [Guðmundi enum ríka, en Þorgeiri Ljósvetníngagoða taparöxi[5]. Sölmundr var 2 vetr í Noregi; eptir þat fór hann út til Íslands, ok hittir [Guðmund ok segir honum orð jarls, at hann hefir sendt hann þeim til trausts ok halds. Guðmundr tekr við honum, ok fèkk honum 4 menn til fylgdar; hann færði Þorgeiri þá ena góðu gripi, er jarl hafði sendt honum[6]. Þorgeir mælti til Sölmundar: Guðmundi varstu sendr, því hann var jarli handgenginn. Guðmundr mælti: Þorgeiri[7] voru gripirnir sendir, ok sæki hann af því þitt traust, en ef þú vilt eigi við honum taka, þá skulum vèr allir saman veitast at málum þeim. Þorgeir svarar: ek er vandt viðkominn, er synir mínir ok þíngmenn eiga hèr hlut í;

---

1) ok þeir bræðr, *D.* 2) átti hèr, *D.* 3) skip ok, *b. v. D.* 4) hlynna, *D.* 5) ok taparöxi þeim G. ok Þ. goða til trausts, *D.* 6) þá, ok sagði þeim vingan jarls ok orð, en afhendi þeim gjafirnar, ok gripi þá, er jarl hafði sendt; þeir tóku við honum, ok voru honum fengnir 4 menn til fylgdar, *D.* 7) þèr, *D.*

mun ek nú eiga hlut í ok styðja at, segir Þorgeir, en þú vert fyrir málum. Guðmundr svarar: ek kann ekki í móti [lögum at mæla[1]. Sè ek ráð til, segir Þorgeir, at við komum honum á [þínar sveitir[2], á Eyfirðínga leið, ok Reykdæla leið, ok Ljósvetnínga leið, ok höldum [saman leiðum þeim öllum[3], þótt mínir þíngmenn sè meirr norðr þar, ok mun þá maðrinn vera friðhelgaðr, ef svâ gengr. Þorgeir átti fjóra[4] sonu: Tjörfa[5], Höskuld, Finna ok Þorkel[6]. Þorfinnr var þá utan úr Reykjahlíð, en Arnór frændi hans fór þá at hitta Þorgeir goða, ok biðr hann veita sonum sínum. Þorgeir svarar: eigi mun ek vera á móti Guðmundi hinum ríka, vin mínum. Arnór mælti: [Þat væri ráð mitt, at eigi gengir þú[7] í móti sonum þínum[8]. Þorgeir svarar: mèr þikir þeir[9] illt ráð hafa upptekit, at leggja sæmd sína[10] við eins manns mál útlends, ok sá nú þó dauðr, ok mun ek Guðmundi veita. Arnór mælti: kynlig veizla, ok at illu mun verða. Síðan ríðr Arnór á Vagla; þar bjó Höskuldr [Þorgeirsson; hann[11] hittir þá bræðr alla, ok segir, hvert efni hann ætlar í vera um samband þeirra höfðíngjanna, ok kvað þat ráð, at þeir færi at hitta Þórð frænda[12] sinn, vitran mann ok yðr velviljaðan; ok svâ gjöra þeir. Nú líðr á sumarit, ok setja þeir njósnir í lið þeirra höfðíngja, ok verða við þat var-

1) því at mæla, er þú hefir lögin í þínu valdi, *D.* 2) þrjár leiðir, *B;* Þverárleið, *D.* 3) sama leiði, *D.* 4) 3, *B.* 5) norræna, *B;* Torfva, *D, S.* 6) *þannig rèttara B, D, S;* Þorlák, *A.* 7) eigi veit ek hvat í slíku er fólgit, ok gakk þú eigi, *D.* 8) er málinu vilja fylgja, *b. v. D.* 9) þú, *D.* 10) í verðing, *b. v. D.* 11) Þorgeir, *rangt, D.* 12) föðurbróður, *B, D.*

ir, at þeir ætla at koma manninum á 3[1] leiðir, svâ at þeir synir þorgeirs mætti ekki vita. Guðmundr ok þorgeir ætla nú at fjölmenna mjök. þeir safna ok saman liði bræðr; ok er þeir eiga skamt til leiðmóts, þá segir Finni þorgeirsson, at þeir muni ríða í mót liði þeirra höfðíngja, ok svâ gjöra þeir, ok stíga nú af baki hjá sauðahúsinu, ok láta hestana á baki húsinu, en þeir gánga inní húsit; [á húsinu voru 2 vindaugu[2], en svâ lá til, at þeir Guðmundr urðu at ríða fyrir dyrnar; nú berr þá at brátt. Finni þorgeirsson var vel skygn; hann mælti: þat ræð ek, ef yðr er hugr á at banna Sölmundi leiðina, þá missið eigi klyfjahestsins, er í milli þeirra er rekinn höfðíngjanna. Höskuldr mælti: ek skal þat hæfa[3]. Ok er þeir ríða fyrir dyrnar, skýtr Höskuldr spjóti ok fyrir brjóst Sölmundi[4]. þeir bræðr hlaupa út úr húsinu ok til hesta sinna, ok ríða til liðs síns. En þeir Guðmundr ok þorgeir bregða við skjótt, þegar er þeir vissu, hverir ollat höfðu, ok ríða eptir þeim; ok er þeir finnast, slær þegar í bardaga með þeim; þar fèll Arnór úr Hlíð af liði þeirra þorgeirssona, þar fèll ok húskarl Guðmundar, ok einn maðr af þeim bræðrum; ná þeir Guðmundr nú eigi leið sinni. þórðr, [frændi þeirra þorgeirssona[5], gekk þar mest í milli manna, ok kvað þorgeiri þat mjök missýnast, at hann gekk í móti sonum sínum með orrostu. Skilja þeir nú við þetta at sinni.

---

1) Þverár, *D.* 2) svâ var háttat húsinu, at 2 voru vindaugu á hlöðunni, *D.* 3) annast, *D*, *S.* 4) þar sem þeir fóru með hann, *b. v. D.* 5) bróðir Þorgeirs, *D.*

*Samræður ok liðsafnaðr hvorutveggju at málum.*

3. Eptir fundinn var Þorgeiri sagt, at Höskuldr son hans væri sárr mjök[1]. Þorgeir svarar ok mælti til Guðmundar, at íllt hlyti af málum þessum, ok mun ek skiljast við þik[2]. Guðmundr svarar: þat er nú ráð, at við söfnum okkr liði. Ekki mun nú at því verða, segir Þorgeir; ok ferr hann heim. En frá Höskuldi er þat at segja, at hann var ekki sárr; var þetta því til bragðs tekit, at menn vildu at Þorgeir skildist við Guðmund, sem var. Þeir bræðr voru nú allir saman ok óhelguðu Sölmund, þeir lögðu nú ok fjandskap á Guðmund, sem lengi hèlzt síðan. Þeir bræðr sátu nú einir yfir sæmdum, ok áttu fund um vorit, ok bundu þat saman, at skiljast eigi við málit; þeir búa til vígsmálit eptir Arnór ok fjörráð við sik. Guðmundr átti annann fund við menn sína. Þeir bræðr hittu Ófeig, ok báðu hann [koma til liðveizlu við sik[3], ok sögðust enn[4] atfylgja, þótt þeir höfðu þann óhelgaðan, er fyrst fór með vèlræði, en síðan með því hann kom fyrr út enn hann átti. Ófeigr hafði áðr setit hjá málum þessum, ok latti hann, ok kvað ófallit at deila við föður sinn: en mèr þikir enn allóráðit, hvort hann skilst við málit, ok vilda ek at þú[5] sættist á málit með jafnaði, ok er sá beztr, ok mun ek ríða til með þèr. Höskuldr kvaðst til lítils erendis hafa farit á hans fund: ok ertu kallaðr skör-

[1]) ok báðu menn hann skiljast við mál þessi, ok vera eigi á mót sonum sínum, *b. v. D.* [2]) ok svâ gjörir hann, *b. v. D.* [3]) koma á leið t. l. v. s., *B, S;* fara til leiðar, *D.* [4]) rèttu, *D.* [5]) þið, *B.*

úngr[1], en ek má ekki af því hæla. Ófeigr mælti: mikit tekr þú af þessu, en leita mætti ek um sættir fyrst, en skiljast ekki við þik í þraut; en þat ræð ek þèr, at þú farir vægiliga með yðru máli, en tak eigi sættum fyrr, enn vær komum. En hálfum mánaði fyrir þíng[2], reið Tjörfi í Guðdali[3], fyrir því at hann var þar mægðr, ok þaðan reið hann til þíngs. Guðmundr hittir þorgeir, ok spyrr um afla þeirra sona hans. þorgeir kvaðst ætla, at þeir mundi hafa fjölmenni. Mun þat satt, segir Guðmundr, at til sè búit vígsmálit, ok óhelgaðr Sölmundr? þorgeir mælti: [víst er þat[4], en hafa munum við mannfjölða í móti þeim; ok fara nú allir til þíngs, hvörr með sínu liði.

*Málalyktir á Fjósatúngupíngi í Fnjóskadal.*

4. Arnsteinn hèt maðr, er bjó í Öxarfirði at Ærlæk[5]; hann átti þriðjúng í goðorði með þorgeiri, en synir hans þriðjúng. Ófeigr var þá kominn til þíngs með 50 manna. þeir Tjörfi fóru austan nær[6] 100 manna, ok voru á þíngi nótt eina. þá gengu þeir á fund Arnsteins Tjörfi ok Höskuldr, ok kölluðu hann til máls við sik; hann bað þá inni viðtalast; þeir báðu hann útgánga, ok svâ gjörði hann. þá mælti Höskuldr: hèr horfist til málaferla, ok horfir mjök í móti oss frændum, en þèr vandi á báðar hendr, ok kalla þeir oss ómæta[7] í kviðinum; en nú egum vèr þriðjúng í goðorði, en faðir vor annann, en þar[8] ræðr, hvar þú snýst at, ok þeir hafa meira

---

1) drengr góðr ok garpr mikill, *D.* 2) *þannig*, *D;* þetta, *A. og hin.* 3) Goðdali, *D.* 4) þat er vegr, *D.* 5) Arlæk, *B.* 6) með, *D.* 7) ómaga, *D.* 8) þat, *B*, *S;* þú, *D.*

hlut, er[1] þú snýst at með. Arnsteinn svarar: þat er vandi mikill, mèr er vel við þorgeir, ok er þat ráð mitt, at þið leggið á hans vald. Höskuldr svarar: ekki fara málaefni svâ til. Höskuldr stóð utan fyrir búðardyrum, en Tjörfi í búðinni, en Arnsteinn í milli þeirra. Tjörfi mælti: engin sæmd er boðin fyrir Arnór vin vorn. Höskuldr mælti: þat hæfir, at þú gjörir þat, sem vèr viljum, en þó er nú ekki at draga fyrir þèr lengr[2], gjör sem vèr biðjum, eðr reyn ella, hvort öxin bítr! Tjörfi mælti: með óhöppum hefir hafizt, ok svâ mun slitna. Tak af enn vildra kost, (segja þeir), ok er svâ þetta upphafit, at eigi mun niðrfalla. Hann tekr þat ráðs, sem þeir vildu, ok skildust at því, ok skyldi hann fara á fund þeirra um morguninn eptir; þeir taka við mönnum hans ok tjalda búð hans, ok ætla til dóma at gánga. Guðmundr mælti til þorgeirs: synir þínir gánga nú fast fram, en þú eldist, eða hvort er raunar, at þú vilt eigi í móti þeim gánga, ok þeir hafa allt málit undir sèr ok dómendr? þorgeir mælti: allt mun koma fyrir eitt, bjargat mun málinu verða at lögum. Guðmundr mælti: þat er nú sem tekst til við þá, sem um er at eiga, ef þeir koma til alþíngis; þar munu þeir framkoma, þó eigi komi þeir hèr fram, eðr hafi eigi til fjölmenni. Síðan mælti Höskuldr: hví setì þèr eigi dómendr niðr? þat má vera, sagði Tjörfi, at þeir [afla minnr[3], enn þeir ætluðu. Höskuldr mælti: íllt er þat, ef föður minn þrýtr drengskapinn, ok gaungum nú

[1]) *þannig D;* ef, *hin.* [2]) *hèr endar fyrsti partr brotsins D.*
[3]) sè afla minni, *B, S.*

at þeim Guðmundi. Ófeigr mælti: eigi hæfir þat, leitum heldr um sættir; en ef þetta kemr til alþíngis, munu eigur yðvarar uppgánga hèr til, megi þèr þá eigi haldast í öðrum [kostum enn[1] sættast, ok gjöri þorgeir um mál þessi. Höskuldr mælti: eigi mun þat, ef nokkrr er annar til. Ófeigr svarar: sættast munum vèr þorgeir, þóat Guðmundr vili ekki sættast, þvíat þeir eru enn aflamenn miklir. þeir kváðust fúsastir bræðr, at þeir reyndu með sèr, en Höskuldr kvaðst mundi bera kviðinn í móti þeim at öðrum kosti, ok mun þá framgánga. Ófeigr mælti: lítit ráð, ok er íllt at gjöra þíngs afglöpun[2]. þorgeir setr eigi niðr dómendr sína, ok má stefna honum af goðorði sínu, [segir Höskuldr[3]. Ófeigr mælti: hvörr mun þat gjöra? þar sè ek eigi mann til. Höskuldr mælti: ek skal stefna honum af goðorðinu. Ófeigr mælti: þá mun atgángr takast. Höskuldr mælti: vèr skulum rjóða oss í goða blóði at fornum sið, ok hjó hrút einn, ok kallaði sèr goðorð Arnsteins[4], ok rauð hendrnar í blóði hrútsins. Arnsteinn nefndi sèr votta, en vildi eigi nefna sèr[5] dóma, fyrir því hann vildi eigi berr verða í málum þessum. Síðan gekk Höskuldr í þíngbrekku, ok stefndi þorgeiri af goðorðinu, ok nefndi votta þar at ok síðan dóma. þeir áttu þá þíng í Fjósatúngu uppfrá Illugastöðum, þvíat þeir kvomu eigi fram á vorþíngi, ok riðu ofan á þíngit at finna þorgeir, ok lètu standa dóminn á meðan, ok horfðist þá til

[1]) *þannig B;* köstum ok, *A.* [2]) er, *er ofaukið hèr í A, S.* [3]) *v. í A; tekið úr B.* [4]) Hallsteins, *B.* [5]) *v. í B.*

atgaungu. Ok þá gekk at með fjölmenni Snorri Hlíðarmannagoði, ok mælti: óvænt efni horfist hèr til; nú eru tveir kostir fyrir hendi: at láta þá Höskuld dæma mál sín, ok kann vera, at þeir komi því fram með sínum afla, at þorgeir missi goðorðsins; hinn er annar, at sættast, ok erum vèr þess fúsari, þvíat með kappi voru málin upptekin, ok kann vera þeim aukist vandræðin. Er þat nú einráðit at sættast, ok var þat nú ráð tekit, ok gjörðu þeir þat mest fyrir bænastað vina ok frænda, ok voru handsölut mâl í dóm, ok menn til gjörðar nefndir; höfðu þeir Höskuldr virðíngarhlut af málum þessum. Sölmundr fèll óheilagr; mikil voru fègjöld eptir Arnór, ok þá ekki ákveðin. Arnsteinn fèkk eigi aptr goðorð sitt.

*Sörli Broddhelgason biðr þórdísar, dóttur Guðmundar ríka.*

5. þat er sagt, at Guðmundr hinn ríki var mjök fyrir öðrum mönnum um rausn sína, at hann hafði 100 hjóna ok 100 kúa; þat var ok siðr hans, at láta laungum vera með sèr göfugra manna sonu, ok setti þá svâ ágætliga, at þeir skyldu aungan hlut eiga at iðja, en vera ávalt í samsæti með honum; en þat er[1] þó sá[2] siðr þeirra, er þeir voru heima, at þeir unnu, þó þeir væri af göfgum ættum. þá bjó Einar á þverá. þat var eitt sumar sagt, at af þíngi riði með Guðmundi Sörli, sonr Broddhelga, enn siðmannligasti maðr, ok var með honum í góðu yfirlæti. þá var heima þar með Guðmundi þórdís dóttir hans, er

[1]) var, *B.* [2]) þá, *B, S.*

þá þótti vera hinn bezti kostr, ok þat var mál manna, at tal þeirra Sörla bæri saman opt; kom þat fyrir Guðmund, ok kvaðst hann ætla, at eigi þyrfti orð á því at gjöra; en þá er hann fann, at eigi varð viðsèt, lagði hann þó aldrei eitt orð í við Sörla, en lèt fylgja ofan til þverár þórdísi til Einars. þat varð enn svâ, at þángat bar komur Sörla. Ok einn dag, er þórdís gekk út til lèrepta sinna, var sólskin ok sunnanvindr ok veðr gott; þá getr hún at líta, at maðr reið í garðinn mikill; hún mælti, er hún kendi manninn: nú er mikit um sólskin ok sunnanvind, ok ríðr Sörli í garð; þetta bar saman. Ok líða nú fram stundir, ok fór svâ fram til þíngs um sumarit, ok ætlaði Sörli aptr til frænda sinna; ok á þínginu gekk hann einn dag til Einars þveræríngs, ok heimti hann á tal við sik, ok segir svâ: ek vildi hafa liðsinni þitt, til at vekja bónorð við Guðmund bróður þinn til þórdísar, dóttur hans. Ek skal þat gjöra, segir Einar, en opt virðir Guðmundr annarra manna orð ekki minna enn mín; síðan gekk hann til búðar Guðmundar, ok hittust þeir bræðr, ok settust á tal. þá mælti Einar: hversu virðist þèr Sörli? Guðmundr mælti: vel, því slíkir menn eru vel mannaðir fyrir hvervetna sakir. Einar mælti: hversu er þá? eigi skortir hann ættina góða ok mannvirðíng ok auð fjár. Satt er þat, segir Guðmundr. Einar mælti: koma mun ek orðum þeim, er Sörli lagði fyrir mik, sem er, at biðja þórdísar dóttur þinnar. Hann svarar: ek ætla þat fyrir margs sakir vel fallit, en þó fyrir orðs sakir annarra manna,

[ok orðróm[1], er á hefir leikit, mun ekki af því verða. Síðan hitti Einar Sörla, ok segir honum, at fast var fyrir, ok þat með, hvat til var fundit, er viðbar. Hann svarar: heldr þiki mèr þúngliga horfa svâ búit. Þá mælti Einar: nú mun ek leggja ráð fyrir þik; maðr heitir Þórarinn tóki Nefjólfsson, vitr maðr, hann er vinr mikill Guðmundar; far þú á fund hans, ok bið hann at leggja ráð á með þèr, ok svâ gjörði Sörli; kom norðr á fund Þórarins, heimti hann á tal við sik, ok mælti: sá hlutr er um at væla, er mèr þikir miklu máli skipta[2], at þú vildir tilráða at fara með orðum mínum til Guðmundar Eyólfssonar, at biðja Þórdísar dóttur hans mèr til handa. Hann svarar: hví leitar þú þessa við mik? Hann segir honum þá hvar komit er, at menn hafa til orðit at tala um, en eigi lágu svörin laus fyrir. Þórarinn mælti: þat ræð ek þèr, at þú farir heim, en ek mun forvitnast, ok senda þèr orð, ef nokkut vinst, þvíat ek sè at þèr þikir þetta miklu varða. Hann lèt sèr þat vel líka; síðan skildu þeir. Fór Þórarinn á fund Guðmundar, ok fèkk hann þar góðar viðtökur; síðan gengu þeir á tal; þá mælti Þórarinn: hvort er svâ, sem komit er fyrir mik, at Sörli Broddhelgason hafi beðit Þórdísar dóttur þinnar? Satt er þat, segir Guðmundr. Þórarinn mælti[3]: vel mannaðr, sem þú veizt[4]. Guðmundr mælti: ekki skortir hann þá hluti, ok gengr þat meirr til, at

1) *tekið úr B.* 2) *hèr byrjar fyrsta brot af C.* 3) hvat lèztu svara til verða; eigi sýndist mèr þat, kvað hann; hefir hann eigi ættina til eða er hann eigi, *b. v. C.* 4) vilt, *B, C.*

ek vil ekki gefa þeim[1] þórdísi, er orð hefir âðr áleikit um hag þeirra. þórarinn mælti: einskis er þat vert; annat berr til, at þú annt honum ekki ráðsins, ok veit ek þat, þótt þú látir á þessu brjóta. Guðmundr mælti: eigi er þat satt. þórarinn mælti: ekki muntu mega leynast fyrir mèr, ok veit ek, hvat í býr skapinu. Guðmundr mælti: ekki kann ek nú hlut í at eiga, ef þú veizt þetta gjörr, enn ek. þórarinn mælti: far þú svâ með[2]! Guðmundr mælti: forvitni er mèr á, hvat þú ætlar mèr í skapi búa. þórarinn mælti: eigi mundir þú mik tilspara at kveða þat upp, er þèr þikir. Guðmundr mælti: þar er nú komit, at ek ætla at ek vili þat. þórarinn mælti: svâ skal ok vera; því viltu eigi at ráðahagrinn takist, at þú sèr fyrir landsbygðinni[3], at eigi verði sá maðrinn fæddr, at hann sè dótturson þinn, er maðrinn ert ríkastr, ok ætlar þú, at landsbygðin megi eigi bera ríki þess manns hèr á landi, er svâ göfugra manna er. Guðmundr mælti ok brosti at: því munum vèr nú ekki gjöra þetta þá at álitamálum? Síðan voru Sörla orð send, ok kom hann heim til mála þeirra, ok gekk hann at eiga þórdísi; þau áttu 2 sonu, Einar ok Brodda, ok voru báðir âgætir menn. Nú er því frá þessu sagt, at Guðmundi þótti gott lofit, en hinn sýndi eptirleitni vitrliga, ok gat nærri skapi mannsins. Dætr 3 [átti Kolbeinn ok Guðríðr[4]; eina dóttur Guðrúnu átti Sæmundr hinn fróði, ok 2 dætr hans áttu þeir[5] bræðr Sæmundar. Kolbeinn Flosa-

---

[1]) honum, *B.* [2]) sem þú vilt, *b. v. B;* þá, *b. v. C.* [3]) *þann-ig B, C, S;* landsbrygðinni, *A.* [4]) áttu þau, *B.* [5]) tveir, *C.*

son var grafinn í Fljótshverfi, en hún færði hann til Rauðalækjar.

*Frá hreppaskilum í Reykjadal ok tiltækjum Ófeigs í Skörðum.*

6. Í þann tíma, er Guðmundr hinn ríki bjó á Möðruvöllum í Eyjafirði, þá bjó á þverá Einar bróðir hans. Guðmundr [var bæði ríkr ok fjölmennr; hann[1] var því vanr, at fara norðr um hèröð á vorin ok hitta þíngmenn sína, ok ráða[2] um hèraðsstjórn ok skipa málum með mönnum, ok stóð þeim af því hallæri mikit, en höfðu lítt áðr skipat til búa sinna; hann reið opt með 30 manna ok sat víða 6 nætr, ok hafði jafnmarga hesta. þorbjörn hèt maðr, er bjó á Reykjum í Reykjahverfi; hann var mikill maðr ok sterkr, vinsæll ok auðigr. þá bjó Ófeigr Járngerðarson í Skörðum; Önundr hèt faðir hans, Hrólfssonar[3], Helgasonar hins magra. Ófeigr rèð mestu áðr norðr þar; hann var vin þeirra bræðra, Guðmundar ok Einars. Eitt haust er fundr fjölmennr í Skörðum at tala um hreppaskil ok ómegðir manna, ok var því skipt at lögum, en hallæri var mikit norðr þar. þá mælti þorbjörn: þik kveð ek at þessu, Ófeigr! ok mæli ek fyrir margra hönd, þvíat mikil er óöld á mönnum norðr híngat, en þú veizt siðvenju Guðmundar ens ríka höfðíngja[4], at hann ferr norðr híngat á vorin, ok sitr í sumum stöðum lengi; nú kynnum vèr[5] vel, ef hann færi við 10da mann, en

[1]) *v. í B.* [2]) ræða, *B, C.* [3]) *þannig öll.* [4]) vors, *b. v. B, C.* [5]) því, *b. v. C.*

þetta er oss ofrefli. Ófeigr svarar: þar sè ek gott rãð til: Guðmundr hinn ríki skal sitja hjá mèr hálfan mãnuð með öllu liði sínu, ok skulu þèr færa honum þángat gjafir þær, er þèr gefið honum, ok leysa hann þaðan á burt. þorbjörn svarar: reyndr ertu at stórmennsku ok stórlyndi, en þó viljum vèr þenna kost eigi. Ófeigr svarar: þã mun vandast taka, svâ eigi mun öllum vel líka; nú skulu þèr setja inn hesta yðar einum fátt í 30, ok alla feita, þeir skulu allir vera graðir[1], en sækið hey til mín, ef þèr þurfið. þeir kváðust þetta vilja, ok skilja at svâ mæltu. Líðr nú svâ, at kemr efsta vika lángaföstu; þá kemr svâ, at Ófeigr lætr senda eptir þeim, sem hestana hafa, ok komu þeir í Skörð; [Ófeigr tók[2] þeim vel. Fimtadaginn bað Ófeigr þá leggja söðla á hesta sína, ok svâ gjörðu þeir; en er þeir voru albúnir, var útleiddr hestr Ófeigs ok lagðr á söðull, var hann bæði mikill ok feitr ok graðr; Ófeigr stígr á bak honum, ok var maðr hinn skörugligasti. Ok er þeir ríða úr garði, mælti Ófeigr: þèr munuð þikkjast fara mjök at óvissu ráði, en nú mun ek sjá ráð fyrir oss; þeir játuðu því allir. þeir ríða upp eptir hèraði til Reykjadals, ok svâ til Ljósavatns, ok svâ til Hnjóskadals[3], ok svâ til Vöðlaheiðar, ok komu til þverár um kvöldit til Einars; hann tók við þeim vel, ok bauð þeim þar at vera fram yfir páska. Ófeigr þakkar honum boðit, en kvaðst ríða mundi upp at Möðruvöllum á laugardaginn. þat vil ek,

[1]) gráir, *B.* [2]) með hestana, ok tekr Ófeigr við, *C, S.*
[3]) Fnjóskadals, *S alstaðar; sèzt ekki í C.*

sagði Einar, at þú komir hèr, er þú kemr aptr, ok segir mèr tal ykkar Guðmundar bróður míns. Ófeigr kveðst svâ gjöra skyldu. Ríða þeir nú uppá Möðruvöllu á laugardaginn; ok er þeir nálgast bæinn, gekk út húskarl einn ok inn aptr, ok sagði Guðmundi, at menn riðu at bænum eigi allfáir. Guðmundr kvað (þat) öngva nýlundu þar í Eyjafirði, þótt menn riði þar um hèrað; nú er eitt til marks, hvort þetta eru hèraðsmenn vorir, þessir munu ríða þar í hlið, sem þeir koma at, en ef lengra eru atkomnir, þá munu þeir ríða í þjóðhlið, ef nokkrir eru merkismenn í förinni. Húskarlinn kom inn í annat sinn, ok sagði svâ: ekki er til efs, at þeir menn ríða at grindhliði, ok ríðr maðr þar einn fyrir í blárri kápu. Ok er þeir komu út, mælti Guðmundr: vera kann at þeir eigi híngat nokkurt erendi Reykdælarnir, eðr nýtt um at vera norðr þar, er kappinn þeirra er hèr kominn Ófeigr.

*Viðskipti Ófeigs ok Guðmundar hins ríka.*

7. Guðmundr hinn ríki fagnar vel Ófeigi ok fèlögum hans, ok býðr þeim þar at vera, svâ lengi sem þeir vildu. Ófeigr kvað þá þat þiggja mundu: en vandæfi mun þèr þikkja á vera, at láta geyma hesta vora, þvíat þeir eru allir graðir, ok má enginn við annann eiga, en vèr erum at þeim vandir mjök, þvíat þetta eru stóðhestar vorir töðualdir. Guðmundr kvaðst ætla, at húskörlum mundi eigi vel hlýða at geyma eigi[1] svâ hesta, at eyrði[2] allvel, ok sagði endast mundi

[1]) *v. í A, B; tekið úr C.* [2]) dugði, *C.*

hús at Möðruvöllum, þvíat heldr skal leysa út nautin úr fjósinu, ok búa þar um hestana. þeir Ófeigr sátu þar fram um páska. Enn fjórða dag páska, er Ófeigr var upprisinn, kom at honum einn förunautr hans ok mælti: hvorsu lengi ætlar þú, at vèr skulum hèr sitja? Ófeigr svarar: fram um páska viku. Sá svarar: þat kemr lítt við, því nú var farit at kaupa bæði hey ok mat. Ófeigr mælti: sitjum nú sem fastast, ok vilda ek gjarnan, at þú segðir satt. Á mánudaginn eptir paskaviku bjuggust þeir í burt. Guðmundr bað þá enn sitja lengr ok skemta sèr, ok er enn margt vantalat. Ófeigr kveðst mundu ríða. Guðmundr lèt taka hest sinn, ok ríðr í veg með þeim. þeir komu at stakkgarði einum; Guðmundr mælti: hèr munum vèr af baki stíga ok ægja, eigi vil ek at Einar bróðir minn eigi at hlægja at því í kvöld, at hestar yðrir sèu svángir; ok svâ gjöra þeir. Guðmundr mælti: þú hefir verit með oss, Ófeigr! um hríð, ok vitum vèr ekki erendi þitt, nú vildum vèr vita, hvört þat væri. Ófeigr svarar: þat er vel, at þú hefir atspurt, Guðmundr! ok beið ek þess at; en þat var erendi mitt, at færa þèr heim sanninn, þvíat þeim norðr þikir þú hafa oflítinn áðr; nú veiztu þat er vandi þinn, at fara á hendr þíngmönnum þínum norðr um sveitir á vorin með 30 manna, ok setjast at eins bónda 6[1] nætr; nú er þat lítil vægð við þá, sem lítil fè eigu, ok hafa ekki betr enn skipat til búa sinna á haustit, ok verðr þeim slíkt mikil yfirskipun; nú höfum vèr ekki svâ lengi

1) 7, *hin.*

hèr verit, ok þótti mèr sem þú þyrftir at kaupa bæði hey ok mat, ok áttir allt nóg, ok ert höfðíngi yfir mönnum; ek hygg, at þú værir aldrí minni höfðíngi, þó þú farir til vina við 10da mann, mundu því allir vel kunna[1]. Guðmundr mælti: þetta er harðla vel talat, sem von er at þèr, er þat ok mest von, at ek hafi þetta[2], en athuga er verðt, at þú munir vera í móti mèr, er mín sæmd liggr við, ok er þat víst. Ófeigr mælti: ekki varði mik slíkra orða af þèr, ok ekki hefir mèr þat í huga verit hèrtil; varð Ófeigr fárr við þetta, ok varð ekki margt um kveðjur með þeim Ófeigi ok Guðmundi at skilnaði, ok þótti Guðmundi hvorgi betr sannrinn, enn Ófeigi þótti um grununa[3] Guðmundar. Skildu þeir við þetta, ok reið Ófeigr til þverár um kvöldit; tók Einar við þeim ágæta vel, ok sagði Ófeigr honum allt tal þeirra Guðmundar. þá mælti Einar: mannlig er orðin ferð þín, en eigi veit ek, hvorsu yðr ferr Reykdælum, en eptirgánga oss Eyfirðíngum spár Guðmundar bróður míns. Um morguninn eptir ríðr Ófeigr norðr ok heim. En um vorit fór Guðmundr heiman norðr með 10da mann, ok sat þar nú 2 nætr, er fyrri sat hann 6[4] nætr; hann gisti at Ófeigs í Skörðum, ok var þar tekit við honum forkunnar vel, sat hann þar viku; en at skilnaði gaf Ófeigr honum 2 uxa rauða, 6[5] vetra gamla, ok voru þat hinir beztu gripir. Guðmundr mælti: þetta er vel gefit, en ek á aðra 2 uxa alsvarta, er at öngvu

[1]) *hèr endar fyrsta brot af C.* [2]) gjört, *b. v. S.* [3]) grununina, *B;* grunana, *S.* [4]) 7, *B, S.* [5]) 7, *B, S.*

eru verri, ok vil ek gefa þèr hvorutveggju til þess, at þú leggir ekki í móti mèr, þá er mín sæmd liggr við. Ófeigr mælti: þiggja máttu gjöfina af því, at eigi fylgir undirhyggja við þik. Guðmundr kveðst eigi vita, hvat bætast mundi í því, þó hann þægi eigi; síðan fór hann, ok þótti Ófeigr mjök hafa vaxit af þessum viðskiptum þeirra Guðmundar.

*Vöðubrandr þorkelsson frá Laxamýri ferr utan.*

8. þorkell hèt maðr, er bjó á Mýri, hann var góðr bóndi; Brandr hèt son hans, hann var mikill maðr ok sterkr, ok var kallaðr Vöðubrandr; hann var maðr ódæll ok illr viðreignar, ok heldr óvæginn, svâ at trautt mátti faðir hans halda vinnuhjónum fyrir hónum. Eitt sumar kom skip af hafi norðr við Tjörnes, þat áttu þrænzkir menn, hèt annar þórðr, en annar Sigurðr[1]; þat var þá siðr, at hásetar vistuðust fyrr, enn stýrimenn. Einn dag reið Vöðubrandr til skips, ok fann stýrimenn; þeir spurðu, hvat manna hann væri; hann kvaðst vera bóndason. þeir spurðu, ef faðir hans mundi vilja taka til vistar menn; en hann kvað þar ekki útlendra manna vist: er þar fámennt ok daufligt, en þó er annar meiri annmarki á; þeir spyrja hvörr sá væri; hann svarar: sá, at enginn má við mik skapi koma; þeir kváðust á þat mundu hætta. Brandr svarar: þá mun ek þetta mál tala við föður minn. Hann ríðr heim, ok segir föður sínum, at hann hefir tekit við stýrimönnum. þorkell kvað þat vera hætturáð: en vel þætti mèr, ef þèr yrði sæmd

[1]) Sigmundr, *B.*

at; en hann kvað einn[1] föður sinn ráða skyldu: en betra þikir mèr, at við höfum eigi svikit þá. Þorkell bað hann fyrir ráða: en þó kemr mest til þín. Síðan fór hann til móts við Austmennina, ok sagði þeim væri kostr vistarinnar; þeir kváðust þat þiggja mundu, ok fara þeir heim með honum. Þat töluðu margir menn, at þeim hefði kynliga umsèzt. Síðan var [heim borinn[2] varníngr þeirra stýrimanna, ok reið[3] hann [með honum[4] norðr til Hnjóskadals, ok seldi hann þar. Þat töluðu þar margir menn, at Brandr mundi enn hafa vana þann, at hann mundi enn illa við þá lúka, sem við alla aðra, en stýrimenn gáfu at því öngvan gaum, hvat sem hvörr talaði. Brandr fór allt til Eyjafjarðar með varnínginn, áðr enn hann gat seldt allan; ekki gat hann um fyrir stýrimönnum, hvar hann hafði seldt varníng þeirra, þá er hann kom heim. En um vorit fór hann at heimta saman fè Austmanna, ok sýndist öngvum at halda fyrir honum rèttri skuld, ok heimti hann hvörja alin, þá sem hann átti at heimta; en er hann kom heim, sýndi hann stýrimönnum, ok virðtist þeim vel, ok báðu hann sjálfan kjósa sèr laun fyrir; en hann kvaðst vildu fara utan með þeim; þeir sögðu þat til reiðu skyldu, ok báðu hann vera skapvaran: eða hvat er til fararefna? hann kvað þat mjök undir föður sínum vera. Þeir tóku nú tal við Þorkel; hann kvaðst hyggja þeir mundi vera góðir drengir: ok mun ek láta til við þik 15 hundruð, ok er mèr þó grunr å, at ykkr kosti

---

1) enn, *B.* 2) *þannig S;* borinn, *A, B.* 3) Brandr með, *b. v. S.* 4) *v. í B, S.*

meira, ef þið vilið honum nokkra ásjá veita. þeir kváðust á þat hætta mundu. Fóru þeir nú utan um sumarit, ok líkar þeim vel við Brand, þvíat hann var bæði knár ok liðvaskr; þeir voru úti lengi, ok komu at norðr við þrándheim; buðu þeir bræðr Brandi til sín, ok þat þiggr hann; þar áttu menn gleði saman, ok var þar fjölmenni mikit. þeir bræðr buðu Brandi með sèr at vera, en sögðu vandt at vera í stórum samdrykkjum; hann kvaðst ekki mundu leita á aðra fyrri: en eigi veit ek hvorsu mèr bregðr við, ef aðrir leita á mik. þeir komu til þess manns, er Hárekr hèt, hann var ættstórr ok mjök áleitinn, ok hafði sveit manna um sik við sitt skaplyndi; en er hann sá Íslendíng, spottaði hann hann á marga vega. Nú fór svâ um hríð, at þeir ortust á vísur, ok varð Brandr hlutdrjúgari, ok fèkk Hárekr úr verra. Hárekr kvað Brand ekki hafa beðit[1] bygðarleyfis; en fylkismenn sögðu, at þeir bræðr ættu heimila sveitarvist þeim sem þeir vildu. Hárekr var hinn mesti vígamaðr, ok bætti öngvan mann fè. Einn dag gekk Hárekr fyrir Brand með horn mikit, ok bað hann drekka til hálfs við sik; en Brandr kvaðst ekki drekka til móts við hann: hefir ek vit ekki ofmikit, þótt ek drekki þat ekki frá mèr, sem ek hefi áðr, muntu ok þurfa vit þitt allt, at því er mèr lízt á þik. Hárekr drekkr af til hálfs, ok bauð Brandi at drekka hálft, en hann vildi ekki viðtaka; Hárekr kvað hann skyldi verða at þjóna honum, ok lýsti horninu í höfuð honum; en drykkrinn slæst niðr á

[1]) sik, *b. v. B, S.*

Brand. Síðan gekk Hárekr til rúms síns, ok slær nú til spotts við Brand; en Brandr gjörði sik ekki óðan, ok sló í gaman. [Hárekr kvað honum svâ við þetta verða, sem hann hefði opt barðr verit[1]. En um morguninn, er menn voru kómnir í sæti sín, gekk Brandr fyrir Hárek, ok keirði öxi í höfuð honum, ok vo hann; nú spretta upp hvârirtveggju, ok varð þraung mikil. Þeir bræðr gátu Brandi í burt skotit, ok buðu boð fyrir hann frændum Háreks; en með því, at hann var óvinsæll, þá tóku þeir fèbætr; gekk þá upp fè þat allt, er Brandr hafði haft af Íslandi, ok meira annat. Síðan spurðu þeir bræðr, hvat Brandr vildi ráða sinna; hann kvaðst vilja fara til Íslands, þótt nú væri eigi sýn fararefni. Sigurðr kvaðst eigi við fleiri mönnum tekit hafa af Íslandi enn svâ, at hann skyldi hafa penínga slika, sem hann hafði til hans haft: ok eru hèr nú 15 hundruð þín, ok varit í norrænan eyrir. Síðan fylgdu þeir bræðr honum til skips, ok skildu við hann eigi fyrr, enn þeir lètu í haf; þakkaði Brandr þeim sína liðveizlu, ok skildust vinir. Skipi því byrjaði lítt, ok tóku þeir Reyðarfjörð at áliðnu sumri; snemma tók at hausta, ok gjörði færðir þúngar sökum snjófa.

*Tiltektir Vöðubrands hjá Þorkeli Geitissyni í Krossavík.*

9. Þorkell Geitisson bjó[2] í Krossavík í Vopnafirði; þá var á vist með honum sá maðr, er Einar hèt, hann var Reykdælskr; en er hann frètti at Vöðubrandr var útkominn, þá bjó hann

[1]) *v. í B.* [2]) þá, *b. v. B, S.*

sik. þorkell spurði, hvört hann ætlaði? Hann kvaðst á burt ætla, þvíat ek hefi spurt, at Vöðubrandr er útkominn, en ek veit rýsnu þína, at þú munt taka við honum, en til hans má enginn maðr sæma. þorkell svarar: snemt er þèr at kvíða við honum; en ef hann kemr hèr niðr, þá skal ek sjá râð fyrir þèr, ef þèr er eigi viðvært; en ef þat er, at Brandr er hèr, ok leitar hann ekki á þik, þá er þèr marglæti at bregða vist þinni. Hann lèt nú setjast. Fám nóttum síðarr kom Vöðubrandr í Krossavík, ok var þar vel við honum tekit; en er hann hafði þar verit 3 nætr, þá talar hann við þorkel bónda, ok bað hann taka við sèr um vetrinn. þorkell svarar: gjöra mun ek þèr kost á því; þú ert ódæll ok úeyrinn, nú vil ek taka við [lögheimilu þinni[1], því mèr þikir þat óvandast, en þú skalt fá varníng þinn í mitt vald, hvat sem at borði kann bresta. þenna kost vil ek, kvað Brandr, þvíat mèr er leiðt at rekast í ófærðum, en íllt til heyja. Hinn fyrsta hálfan mánuð, er Brandr var í Krossavík, var hann svâ fylgisamr þorkeli, at hann gekk út ok inn með honum, hvört sem hann fór; en annann hálfan mánuð brá nokkut hætti hans, þá var hann eptir í stofu á kveldin, er þorkell gekk at sofa, ok hefir frammi margskonar ertíngar, ok þat hafa menn sagt, at hann hafi fyrst fundit uppá Syrpuþíngs lög; menn komu víða af bæum, ok gjörðist þar af þys mikill. þorkell sat at drykkju við annann mann. Nú er getit um fyrir þorkeli, at konum þikja ríkt bornir

[1]) lögheimili þinu, *B*, *S*.

kviðirnir, er þær komu eigi fram búsýslu, ok eigi rèðu þær sjálfar ferðum sínum. Þorkell heimtar nú Brand á tal við sik, ok mælti: ekki hefi ek hlutsamr verit um hagi þína ok háttu hèrtil, en þat kemr fyrir mik, at konur ráði varla ferðum sínum fyrir þèr ok sveitúngum þínum, en þèr hæfir[1] varla; er hèr því líkast, sem nýr höfðíngi sè kominn í sveit, ok gángi menn af hendi þeim, sem áðr er fyrir; ek geng fram við annann mann, en þú ert eptir við alla sveitina, ok nú vil ek at láta gjöra. Brandr kvað bætr mundu áráðast. Ok um kvöldit fór Brandr til rekkju, en píngmenn komu at vana sínum, ok mátti þá eigi píngit heya, er formaðrinn var enginn; var þá farit eptir honum, ok fór hann ekki at heldr; þá komu píngmenn annann aptan, ok fór enn sem fyrr; tók þá af komur manna, en Brandi kom aldrí orð frá munni á hálfum mánaði. Þá mælti Þorkell til Brands: örskiptamaðr ertu mikill! nú taktu gleði þína hæfiliga. Hann kvaðst eigi kunna, ok eigi vita, hvorsu hann skyldi með fara, er engan veg líkaði: ok er engum manni hjá þèr vært, ok skal ek á burt fara. Þorkell mælti: þú ert minn heimamaðr, ok þat þikir mèr þú gjöra mèr til svívirðíngar, er þú hleypr burt úr vist þinni. Brandr reið nú á burt eigi at siðr vestr til föður síns; þar tókust upp leikar. Þorbjörn var þar knástr maðr frá Reykjum; þeir lèkust við Brandr; báðu menn þá at Þorbjörn skyldi leika af öllu afli, ok sýna þat at hann var sterkr; hann kvað

[1]) þat, *b. v. B, S.*

þat vel mundu mega. Ok einn dag, er leikr var, keirði þorbjörn niðr Brand fall mikit, ok leikr nú eptir megni, ok hafði Brandr ekki við, líkaði honum nú illa; ok at skilnaði veitti Brandr honum mikinn áverka; þar var þraung mikil; þar var kominn Ófeigr úr Skörðum. Brandr fór nú heim til föður síns, ok segir, hvar komit var. þorkell svarar: þú hefir stýrt oss í mikit vandræði, ok var mjök at ófyrirsynju, er þú fórst í burt frá þorkeli; nú er þat mitt ráð, at þú farir aptr á hans fund. Brandr kvaðst þess ófúss vera, ok þó fór hann austr, ok segir þorkeli þessi tíðendi; en hann kvað betra, at hann hefði kyrr verit: en þó mun ek við þèr taka, þvíat ek man eigi, at ek hafi heimamann minn [fyrir róða[1] látit.

*Málatilbúníngr þorkels úr Krossavík í móti Guðmundi ríka.*

10. Siðan fór þorkell á fund Guðmundar, ok bauð fè fyrir manninn: ok vil ek at þú gjörir sjálfr. Guðmundr kvaðst eigi vilja taka fè fyrir sekan óeyrðarmann, er hlaupa vill í höfuð saklausum mönnum, ok er landhreinsun at slíkir menn sèu afráðnir at lögum. Fèkk þorkell ekki af; en Guðmundr fór norðr í Reykjahverfi, ok tók mál af þorbirni, ok bjó til vorþings. En þorkell fór austr í Álptafjörð nokkru síðarr, á fund þorsteins Síðuhallssonar vinar síns, ok tók hann vel við honum. þorkell mælti: svâ[2] er betr[3], at Brandr er mikill ónytjúngr, hann hefir unnit á

[1]) *þannig B;* fyrr ráða, *A;* fyrir voða, *S.* [2]) sá, *B, S.*
[3]) (svâ er í vetr), *b. v. S.*

einum bónda, en hann er nú heimamaðr minn, ok hefir Guðmundr hinn ríki búit mál til Vöðluþíngs, en þat kann vera, at hann hafi eigi þat hugat, at hann er eigi þar í fjórðúngi, ok hefir ek handsalat honum lög ok grið, ok [kemr mèr þat í hug, at oss muni veita mál[1] til laga; nú vilda ek þitt liðsinni þiggja, ok[2] sækja til þíngs, ok verja málit með kappi fyrir Guðmundi, ef hann skal þó eigi fèbótum fyrirkoma, en [reyna skal[3], hvort ek sè annarar handar maðr hans, sem hann svaraði Bjarna Broddhelgasyni, frænda sinum, um sumarit á alþíngi. Þorsteinn kvaðst sjá at vörn var í málinu: en þó mun þá þikja með kappi atgengit, ok fara mun ek með þèr. Um sumarit búast þeir austan með 60 manna hvorir, ok ríða til Jökulsár, en þá voru góð vöð víða. Þá mælti Þorkell: nú munu vèr skipta liði voru, skal Þorsteinn, ok vèr 5 saman, fara á[4] almannaleið vestr til þíngs, en flokkrinn allr annar skal ríða fyrir ofan Mývatn til Krossdals ok Bleikmýrardals, ok fyrir neðan heiði; var þar víða skógi vaxit; ok ríða þeir ofan eptir Fnjóskadal[5], er[6] þeir Þorkell fóru á Akreyri, þvíat[7] þeir höfðu tjöld samlit við skóga; þeir finnast þar, sem ákveðit var, varð enginn maðr varr við ferð þeirra. Þeir Þorkell ok Þorsteinn riðu á þíng á drottinsdaginn, ok þeir 5 saman. Þorkell bað menn sína skynja, ef hann þyrfti liðs við, kvaðst hann þá mundi gánga á hól þann, er var á milli þíngs ok þeirra, ok hafa í hendi handöxi sína

---

[1]) muntu veita oss til laga, *B.* [2]) at, *B.* [3]) *b. v. B, S; v. í A.* [4]) *v. í B, S.* [5]) Hnjóskadal, *B.* [6]) en, *B.* [7]) *v. í B.*

hina reknu, ok veifa henni yfir höfuð sèr. Síðan ríða þeir á þíngit til búðar Ófeigs Járngerðarsonar 5 saman; hann bauð þeim þar búðarvist. Maðr kom inní búð Guðmundar ríka; furðu fámennir ríða þeir þorkell á þíngit, segir sá; hvorsu þá? segir Guðmundr; þeir voru með 5ta mann, segir hann. Guðmundr kvað marga menn ríða mundu með meira flokki á völlinn, ef þeir ætluðu at eyða málum fyrir honum: en kemr mèr í hug, at vanhugat mun í máli voru; þeir þorkell munu kalla hann sinn heimamann, en þó er ólíkligt, at þorkell eyði málum fyrir oss við 5ta mann, en vera má hann búi um brögð nokkr við oss, ok hafi þeir fleiri saman verit; sendir hann þá menn þegar at spyrja at gistíngarstöðum þeirra, ok kann enginn þat at segja, þar sem þeir hafa gist, at þeir hafi fleiri verit saman enn 5. þá mælti Guðmundr: vera kann at þá megi hlýða, ef þeir hafa eigi fleiri austan riðit, ok munu vèr þá eigi senda eptir fleira liði at þeim, ok gánga mál þessi sem auðnar.

*Guðmundr ríki ok þorkell Geitisson stefna hvorr öðrum til alþíngis.*

11. Guðmundr hinn ríki sækir nú málit í Norðlendíngadóm, ok setr dóminn, ok býðr til varnar. þá mælti þorkell Geitisson: þat vilda ek, Guðmundr! at þú takir sættir ok sjálfdæmi sakalaust. Guðmundr svarar: þat munda ek þiggja, ef þú ættir eptir dugandi mann at bjóða, en nú nenni ek eigi um vanmennu þá, er ek hefi þó starfa fyrir haft. [Eptir þetta nefndi þorkell[1]

[1]) *þannig B;* þetta mælti Þorkell ok nefndi, *A, S.*

sèr votta, ok setti þeim[1] lýritti, ok fyrirbauð þeim at dæma. En Guðmundr kvað hann nú með kappi atgánga at verja, ok segir hann skuli þar öngvum sínum málum framkoma. Þá mælti Þorkell: enn munum vèr þetta handsala fyrir manninn, ef þú vilt sjálfdæmi taka. Guðmundr kvaðst eigi sækja manninn í þeirra sveit, ef þeir vildu eyða þar[2] málum fyrir honum: ok skal at vísu maðrinn sekr verða. Þá gekk Þorkell uppá hólinn, ok brá upp öxi sinni; dynja þeir þá þegar fram á þíngit, ok hleypa upp dóminum, ok kom þetta á alla óvara. Guðmundr nefndi sèr votta, ok stefndi Þorkeli um þíngsafglapan; en Þorkell stefndi Guðmundi um rángan málatilbúnað, ok stefndu báðir til alþíngis um sumarit, ok fjölmenntu mjök. Var þar Bjarni Broddhelgason, ok hafði hann mikinn flokk, ok vissu menn eigi, hvort hann mundi atsnúa um liðveizlu. Þorkell ok Þorsteinn voru fjölmennir, en þó var Guðmundr miklu fjölmennari. Þorkell átti búð upp við Fángabrekku; var nú leitat um sættir, ok var fast fyrir. Einn dag snemma gekk Þorsteinn Síðuhallsson til búðar Ófeigs Járngerðarsonar, ok talar við hann. Þorsteinn spyrr: hvorsu segir þèr hugr um sættir manna? Ófeigr segir sèr þúngt um segja, ok þúngliga áhorfa. Þorsteinn mælti: ek vil þèr kunnugt gjöra, [at þar sem eruð um hvorirtveggju[3], at hèr muni áðr vandræði afgjörast, ef eigi er sæzt á málit; þeir ætla at bjóða Guðmundi einvígi, ok vill hann heldr hafa bana, enn

[1]) v. í B, S. [2]) v. í B. [3]) v. í B.

svívirðíng [ofmikla, ok hætta á við Einar bróður hans[1]; nú væri þat ráðligra, at menn leiti um sættir, ok eigi þar í Einar hlut þann, sem vèr egum allir; hefir þorkell þat mjök við orð, at biðja Jórunnar, dóttur Einars á þverá; nú vil ek at við hittum Einar. Ófeigr svarar: vel þikir mèr þeirra mála leitandi við Einar, en hin málaleitan sýnist mèr óvitrlig. Síðan hitta þeir Einar, ok gánga nú [ok tala[2] allir saman. Ófeigr mælti: svâ er, sem þú veizt, Einar bróðir[3]! at hèr horfir til stórra vandræða með mönnum, ok eiga þeir menn í hlut, er vitmenni[4] eru báðir, ok þó kappsfullir, en vèr erum beggja vinir, ok skyldir til at gánga vel á milli; þá vill þorkell Geitisson hafa þat mál uppi við þik, at biðja til handa sèr Jórunnar, dóttur[5] þinnar. Einar kvað þessa vel leitat: en þó mun Guðmundr hèr mestu um ráða, þá et við finnum hann. þeir kváðust ætla, at hann mundi[6] vera rèttr lögráðandi fyrir dóttur sinni, þó at eigi væri Guðmundr at fundinn: muntu á líta, at Guðmundr heldr þèr[7] lengst um lítt[8] til metnaðar eða virðíngar. Einar mælti: er þorkell ekki fèlítill? en dóttur minni hæfir mikit fè. Ófeigr svarar: hvörr er stórlyndari enn þorkell, þvíat hann geldr fè fyrir menn á þíngum, eða hvers þeirra bú stendr með meira blóma? hvat er þá undir um peninginn, er hvorki verðr honum gjald af[9] nè öðrum? ok sitr hann yfir virðíngu allra Austfirðínga. Allvel er nú flutt[10]

---

1) *v. í B.* 2) á tal, *B.* 3) bóndi, *S; v. í B.* 4) *þannig B, S;* vitminni, *A.* 5) *Hèr byrjar annað brot af C.* 6) hèr mestu umráða ok, *b. v. B.* 7) sèr, *B.* 8) *b. v. C.* 9) at, *B, C, S.* 10) Ófeigr, *b. v. B, C;* Ófeigr, segir Einar, *b. v. S.*

enda hefir Guðmundr góðs spáð Jórunni dóttur minni, ok gánga jafnan eptir spár hans, [ok má nú ok vel tala um þeirra mál, ef sýnist, ok vili þorkell híngat gánga. þorsteinn kvað þat eigi mundu atbila[1].

*Festar ok brúðkaup þorkels Geitissonar ok málalok þeirra Guðmundar ríka.*

12. þorsteinn gekk þegar til búðar þorkels, en hann heilsar honum vel, ok spurði, hvat hann árnar. þorsteinn svarar: eigi veit ek nú at hvörju verða vill, en konu hefi ek beðit í morgun til handa þèr. þorkell mælti: mikit er um liðveizlu þína, er þú gjörir þat ekki síðr [enn ek býð þèr um[2], en hvör er sú kona? þorsteinn svarar: sú mær heitir Jórunn, ok er dóttir Einars frá þverá. þorkell mælti: þá mey vilda ek ok helzt eiga á Íslandi. þorsteinn mælti: þá er nú ráð at gánga til festarmálanna. Síðan finnast þeir Einar, ok tala um málit, ok urðu á allt sáttir, ok ákveðin brúðkaups stefna; síðan fóru festar fram, skyldi brúðkaup vera at þverá hálfum mánaði eptir þíng. Síðan gekk þorsteinn þar nær, sem Guðmundr hinn ríki var, ok þótti honum vel, at tal þeirra bæri saman, ok svâ varð. Guðmundr mælti: gaungult verðr þèr, þorsteinn! um þíngit, ok munu þèr mikit afreka. þorsteinn svarar: ekki síðr mun þèr þat þikja[3], ef þú veizt gjörla. Guðmundr spyrr: hvat er nú nýrra tíðenda? þorsteinn svarar: smá eru tíðendi, sem ek

[1]) *v. í B.* [2]) er ek bið þik eigi, *B.* [3]) *þannig B, S; v. í hin.*

hefi at segja, en þó þat helzt, at þorkell Geitisson festi sèr konu. Guðmundr mælti: sú kona er vel gefin, er honum er, þvíat hann er hinn mesti hreystimaðr, þótt nú sè með okkr fátt, eða hvör er sú kona? þorsteinn svarar: Jórunn, bróðurdóttir þín. Guðmundr mælti: eigi var Einari þat í hug åðan, er við skildum. þorsteinn mælti: nú rètt gekk ek frá festarmálunum, ok var ek vottrinn ok Ófeigr Járngerðarson. Guðmundr svarar: satt muntu segja, ok þar mun hugrinn minn mest hafa fyrirborizt, en þessu mun mest hafa ráðit Ófeigr Járngerðarson. Síðan var um sættir leitat, ok gekk nú mest at Einar ok Ófeigr Járngerðarson. þá mælti Guðmundr: nú er þat framkomit, Ófeigr! er ek spåða þèr um vorit, at mín virðíng mundi hallast af þínu tilstilli. Ófeigr svarar: eigi hefi ek hallat virðíngu þinni at heldr, þóat ek hafi fengit þèr mága betri ok fleiri enn áðr. þorkell mælti: enn vil ek, Guðmundr! bjóða þèr þau hin sömu boð, at þú gjörir sjålfr um fyrir áverkann, en ek gjöri fyrir måla tilbúnað, er ek hefi haft við þik. Guðmundr sá nú, at sèr gjörði eigi annat, ok tók þetta boð, ok gjörði svâ báðum hugnaði vel, en þó eldi hèr lengi af með þeim bræðrum, en þorkell sat yfir allri sæmdinni. Ok einn dag å þínginu fundust þeir Guðmundr hinn ríki ok Bjarni Broddhelgason; þá mælti Bjarni: svâ sýnist mèr, Guðmundr! sem þú hafir þurft báðar hendr við þorkel frænda minn, ok hafi þó ekki af veitt um, ok man ek enn þat, Guðmundr! er ek bað þik, at þú skyldir sætta okkr þorkel, ok [svar-

aðir ódrengiliga, er þú sagðir[1] hann ekki vera mundi meira, enn annarar handar mann gilds manns, ok kvað hann hafa hálfþinu[2] eina í hendi, en mik höggspjót gildt á háfu skapti; en ek em nú minni höfðingi enn þú, ok sýnist mèr sem hann muni ekki þar lengi gengit hafa skaptamuninn[3]. Síðan fóru menn af þíngi, ok var brúðkaup at þverá, ok gaf þorkell upp Guðmundi mál þat, er hann hafði rángt tilbúit, er hann sókti í Norðlendíngafjórðúng þat, er hann átti í Austfirðínga dóm at sækja; síðan fór þorkell heim með konu sína, ok þótti hann mjök vaxit hafa af þessari ferð. Jórunn var hinn mesti kvennskörúngr í ætt hennar; hún kom ok því til leiðar, sem enginn hefir[4] áðr komit, at þeir sættust frændrnir Geittissynir[5] ok Bjarni Broddhelgason, ok hèldu þá sætt vel ok drengiliga síðan. þorkell bjó í Krossavík til elli, ok þótti ávalt hinn mesti garpr, þar sem hann kemr við sögur. Vöðubrandr fór austan, ok bjó á föðurleifð sinni, ok samdist mikit ok þótti góðr bóndi, ok þóttist aldrí full-launat geta þorkeli Geitissyni sína liðveizlu ok góðvilja, [ok lýkr þar þessum þætti af Vöðubrandi[6].

*Kvonfáng þorsteins verkstjóra Guðmundar ríka.*

13. Guðmundr hinn ríki átti þorlaugu, dóttur Atla hins ramma; Herdís hèt móðir þorlaugar, dóttir þórðar frá Höfða. þar óx sá maðr upp

1) svaraðir þú, *B;* svaraði engi drengiligar, enn þú, ok sagðir, *B.* 2) hálmdýnu, *B;* hálfþynnu, *C.* 3) *þannig C;* skiptamuninn, *hin.* 4) hafði, *C, S.* 5) Þorkell Geitisson, *B.* 6) *v. í B.*

með Guðmundi, er þorsteinn hèt, ok gjörðist verkstjóri; ekki var hann stórrar ættar, en mannaðr vel. þá bjó þórir Helgason, Valþjófssonar, Helgasonar hins magra, at Laugalandi[1] í Hörgárdal, hann var goðorðsmaðr ok garpr mikill; Geirlaug hèt kona hans, hún var skörúngr mikill ok vel mennt. Einar bjó þá at þverá, spekíngr mikill, ok vinr þóris[2] Helgasonar; þeir veittust at öllum málum. Fátt var með þeim bræðrum, Einari ok Guðmundi, þvíat Guðmundr sat mjök yfir metorðum manna norðr þar. þorkell hákr, son þorgeirs lögsögumanns, bjó þá at Öxará í Ljósavatnsskarði; hann var einlyndr ok hetja mikil, hann hafði fátt hjóna, ok átti þá[3] sökótt. Bruni hèt maðr, er bjó í Gnúpufelli; Eylífr[4] hèt bróðir hans, ok var kallaðr skyti, mikill ok vaskr maðr; þeir höfðu goðorð, ok voru komnir frá Helga hinum magra. þat er frásagt, at þorsteinn kom at máli við Guðmund ok mælti: svâ er mál með vexti, at ek hefi hèr uppsezt at þèr, ok tekit hèr þrifnað, nú vilda ek leita mèr kvonfángs, ok hafa þartil yðart liðsinni. Guðmundr mælti: þú munt þetta áðr hugsat hafa, hvar niðr skal koma, en heimil munu þartil vor orð. Hann svarar: rètt getr þú, hugfest hefi ek þetta; kona heitir Guðrún, ok er frændkona bóndans á Bæsá[5], ok er þar matselja fyrir búi, hennar vilda ek at þú beiddir mèr til handa; þín orð munu þar meira metin fá, enn mín mörg. Guðmundr svarar: ek kalla þat jafnligt ok vel leitat,

---

1) Laugarlandi, *B.* 2) Þórðar, *C hèr.* 3) þó, *B, C.* 4) Eyólfr, *B.* 5) Bæisá, *B alstaðar;* Bægisá, *C alstaðar.*

en lítit er mèr um at fara í sveit Þóris Helgasonar, ok at hann eigi meiri afla enn ek; en er hestaþíng er á Oddeyri í Hörgárdal, þá mun ek vekja til, en gjöra ekki at því ferðir mínar einvirðuliga. Síðan var hestaþíngit, ok kom þar margt manna; þar kom ok Guðmundr, ok brá bónda á eintal þegar frá Bæsá, ok mælti: Þorsteinn heitir maðr, er upp hefir fæðst með oss, ok höfum vèr hann at góðu reynt; hann vil mæla til ráðahags við Guðrúnu frændkonu þína, viljum vèr flytja mál mannsins. Bóndi svarar: allvel er maðrinn tilfenginn at flytja hans mál, ok munum vèr mikils meta þín orð; síðan hitti hann konuna, ok spurði hversu henni væri umgefit, en hún bað hann gjöra sem hann vildi. Síðan er ákveðit um brúðlaups stefnu, ok skal vera at Bæsá. Þorsteinn mælti: nú er ætlat, at ek muni fara til brúðlaups míns, en ek vil biðja þik, Guðmundr! til ferðar með mèr, þvíat mèr er mestr sómi at þèr. Hann svarar: þetta em ek ófúss at veita þèr, ok fær þú ærna menn til þessa. Þorsteinn segir: meiri sæmd er at þèr einum, enn at mörgum öðrum, ok mun dælt við mik þikja, ef þú ert eigi í för. Guðmundr mælti: ek mun ok fara, en fyrir því þikir mèr. [Nú var farit til brúðlaupsins[1]. Guðmundr sat í öndvegi, en Þórir Helgason gagnvart honum, en konur sátu á palli, ljós brunnu björt, ok voru borð framsett; brúðr sat á miðjan pall, ok Þorlaug á aðra hönd, en Geirlaug á aðra; kona fór með vatn fyrir pallinn, ok hafði dúk á öxl, ok fór fyrir

[1]) *tekið úr B; v. í hin.*

Geirlaugu, þvíat hún hafði verit með henni fyrri vetrinn. Geirlaug tók til orða: þú ferr með góðum vilja, en eigi með nógum álitum: færðu þorlaugu fyrr vatnit, svâ á at vera; hún gjörði svâ. þorlaug drap við hendi öfugri, ok mælti: ofgjörð er beinan, Geirlaug! þvíat sú kona gjörir rètt, eigi býr þat í mínu skapi, at mèr leiki á þessu öfund; er sýnt at[1] önnr sè konan göfugri í hèraðinu, enn þú? sagði hún. Geirlaug mælti: ofgjörðr[2] er beininn, þorlaug! enn hefir þú metnað til at vera mest metin, hefir ek[3] engan hlut til jafns við þik, nema gjaforð. þorlaug svarar: víst held ek þik vel gefna, [nú er þat komit fyrir því, at ek veit eigi[4] aðra framarr gipta enn mik. Geirlaug svarar: þá værir þú vel gefin, ef þat væri einmælt um, at bóndi þinn væri vel hugaðr eða snjallr. þorlaug svarar: þetta er illa mælt, ok muntu fyrst mæla. Hún svarar: [satt er þat, fyrir því at[5] fleiri mæla, en þorkell hákr hefir haft þat[6] fyrst ok þórir bóndi minn, ok hvörr maðr mælir þat sá, er túngu hrærir. þorlaug mælti: ber híngat vatnit, kona! ok hættum tali þessu; síðan hneig hún upp at þilinu ok mataðist ekki. Ok er menn voru at boðinu[7] í fyrstu, þá hvíldu sèr hvorir konur ok karlar; ok um morguninn risu menn upp ok fóru til kyrkju; ok er at messum kom, sá Guðmundr at þorlaug var ekki í kvennaliðinu; hann spurði konu eina, hvörju þat sætti; hún kvað hana hafa tekit sótt. Guðmundr mælti: sitì þèr hèr eptir, en einhvörr gángi með

1) eigi, *b. v. B.* 2) þannig *B;* ógjördr, *A; sèzt ekki í C.*
3) *hèr endar annað brot af C.* 4) en eigi veit ek, *B.* 5) *v. í B.*
6) þannig *B, S;* þik, *A.* 7) boðum, *B.*

mèr; hann gekk at rúminu; ertu sjúk, þorlaug? sagði hann; hún kvað, at ósýnt væri um heilsuna, en þó vilda ek í burt í dag ok leggjast eigi hèr. Guðmundr mælti: þetta er mèr mikill skaði, en fúsari væri ek at kyrt væri á meðan boð þetta stæði. Hún svarar: engi hlutr má mèr í hald koma, ef ek em hèr, ok hafi ek nokkut vel til þín gjört, þá lát þú þetta eptir mèr. Guðmundr mælti: mikils krefr þú nú, hvat sem þèr í brjósti býr, ok gekk í burt. Ok er tíðum var lokit ok dagverði, þá mælti Guðmundr: nú skal taka hesta vora, nú vil ek heim fara, þvíat þorlaug er sjúk. Húskarlinn[1] þorsteinn mælti: gjörðu þat eigi, Guðmundr! at þú farir heim þegar. Hann segir: beiðtu nú eigi framarr, enn ek vil veita þèr, því þat mun eigi stoða. Síðan ríða þau á burt; ok er þau komu í skógana frá Laugalandi, þá veik Guðmundr hestinum aptr, ok mælti við þann mann, er fylgdi hesti þorlaugar: ríttu nú fyrr, en ek mun fylgja þorlaugu; ok svâ var. Síðan mælti Guðmundr: við þik vil ek tala, ek sè þú ert ekki sjúk, seg mèr hvörju þat gegnir. Hún segir: ek mun svâ gjöra, en sjaldan hefi ek þat mælt fyrir þèr, er þèr megi þat verr líka enn áðr, en nú eru þau efni í, er eigi má ek leyna þik; síðan sagði hún honum, hvat þær höfðu talat, ok fjandmæli manna við hann. Guðmundr mælti: nú þætti mèr ek betr ráðit hafa, at við hefðum hvorgi farit, ok væri þá óhættara við orðum manna, en af verðr at ráða nokkut úr hvörju vandræði, ok

[1]) Brúðguminn, *B.*

heim munu við fara, ok skaltu nú fyrst liggja viku, ok láta þèr þá enn batna hægt, at jöfnu skal ek við þik tala, en eigi þiki mèr þat ráðit, hvort oss verðr þetta at öngvu. Þaðan riðu þau ok komu heim, ok fór sem Guðmundr gjörði ráð fyrir. Síðan ríðr Guðmundr norðr í Reykjadal á fund Einars Konálfssonar, fóstra síns ok ens bezta vinar; Einar var spekíngr mikill. Síðan mælti Guðmundr: svâ er mál með vexti, Einar! at ek vil segja þèr fjandmæli þau, er menn hafa frammi við mik, Þorkell hákr ok [Þórir Helgason[1], vissa ek ok óvingan þeirra til mín. Einar mælti: illa er slíkt gjört við göfga menn, en ek vil biðja þik, at þú hafir þrótt við, ok verði því meiri hefndin, sem lengr er. Guðmundr svarar: ekki er þess at leita, hefna skal, hvort sem þat verðr fyrr eða síðarr[2]. Einar mælti: þá vil ek tilhlutast með þèr; ek vil svâ ráð setja, at þú tak sök hvörja, er þú fær, á hönd þíngmönnum Þóris Helgasonar, ok mun þat fè brátt safnast. Guðmundr þakkar honum þessi ráð ok fleiri önnr, ok ferr síðan á burt. Liða nú eigi lángar stundir, áðr Guðmundr hendir sakir á þíngmönnum Þóris. Þórir[3] hèt maðr, ok var kallaðr Akrakarl[4], ok var þíngmaðr Þóris Helgasonar, auðigr ok eigi vinsæll, ok slægr í kaupum við menn. Skip kom í Eyjafjörð, ok átti sá maðr, er Helgi[5] hèt, ok var Arnsteinsson, farmaðr mikill, ok var

---

[1]) *þannig B;* þeir Helgasynir, *rángt lesið úr bandi í A.* [2]) *Í viðræðu þessari byrjar aptr D, en segir hèr frá öllu með öðrum orðum og frábrugðnum.* [3]) Þorgils, *D alst.ðar.* [4]) Akraþórir, *B víðarst.* [5]) Ingjaldr, *D alstaðar, án þess at geta, hvers sun hann sè.*

ávalt með Guðmundi, er hann var út hèr, mikils virðr. Guðmundr reið til skips ok mælti: þat er mitt erendi, Helgi! at bjóða þèr heim hvört sinn, er þú ert hèr á Íslandi. Hann svarar: þat mun ek þiggja, Guðmundr! ok kunna þèr þökk fyrir; hann var með Guðmundi um vetrinn, ok fór með þeim vingjarnliga. þeir Akraskeggi komu til skips ok hitta Helga, ok kváðust vilja kaupa at honum. Helgi lèt þat vel mega, ok tók upp varníng, ok voru þar mæltir fyrir vararfeldir, ok skilit, hvorsu þykkröggvaðir vera skyldu. Helgi bjó skip sitt[1]; en er hann var albúinn, þá ríðr hann á Möðruvöllu at hitta Guðmund; síðan mælti Helgi við Guðmund: nú er, [herra! at líta á[2] vistarlaunin, þó minni sè, enn þú værir verðr; þat var skikkja, ok pelldregin yfir skinnin ok [gullband á týglinum[3], ok var hin mesta gersemi. Guðmundr mælti: haf þökk fyrir! ok hefir ek eigi betra grip þegit, ok skildust þeir góðir vinir. Síðan fór Helgi til skips, ok hèldu þeir mjök til flýtis, ok var mjök borit á skip. þórir hafði eigi ofan komit. Ok einn dag sjá þeir at maðr gekk af landi ofan til skips, þat var þórir Akraskeggi; hann hitti Helga, ok bað hann taka við gjaldinu, en Helgi kastaði inní tjaldit, því honum var annt, ok leysti eigi til, ok kvað hann síð komit hafa. þórir kvaðst fleira eiga at sýsla, enn sjá uppá kaupmenn, ok fór í burt. þeir drógu upp segl, ok fóru út til Hríseyjar, þá tók af vindinn; þeir

[1]) um vorit, *b. v. B.* [2]) hèr á at lita, *B.* [3]) gullböndá týglum, *E.*

lögðu[1] þá seglit; þá leysti Helgi baggana ok fann þar í feld, ok voru margar raufar á feldinum; þá mælti Helgi: þetta eru mikil svik, ok skal honum at illu verða. Hann rèri þaðan til lands, ok fèkk sèr hest ok reið á Möðruvöllu, ok kom þar snemma; hann heimti Guðmund á tal við sik; hann fagnaði honum vel: eðr hvat er tíðenda? Hann lèzt engin tíðendi hafa, en orðit hefir í prettr nokkr við oss. Guðmundr mælti: hvat er í því? Helgi segir, hvorsu farit hafði með þeim þóri Akraskegg[2]: en ek vil at þú takir við málinu, þvíat ek vil sigla. Guðmundr mælti: opt hefir þú mèr hallkvæmr verit, en eigi mun nú smærstu ráða, ok má mèr þetta koma at miklu haldi. Heimti Guðmundr til sín 2 menn, ok tók sök á hönd Akraþóri, en Guðmundr gaf Helga góðar gjafir ok skildust at því, ok fór Helgi utan ok byrjaði vel.

*Guðmundr sættist við Einar bróður sinn, ok stefnir Akraþóri.*

14. En litlu síðarr lèt Guðmundr taka hest sinn, ok reið ofan til þverár, en menn voru ekki upprisnir, nema sauðamaðr; hann kvaddi Guðmund, ok spurði, hví hann riði einnsaman; hann lèt ýmsa vega at gegna: eða hvort er Einar bróðir minn heima? Sauðamaðr svarar, at hann sè heima; hann gekk inn ok mælti: maðr er úti ok vill hitta þik. [Einar mælti: hvörr er hann? Hinn mælti: Guðmundr bróðir þinn[3]. Einar mælti: hvat er með honum? Hann er einnsaman, segir hann. Einar mælti: þat er honum eigi opt

1) lægðu, *B.* 2) Akrakalli, *B.* 3) *tekið úr B; v. í A.*

tíðt, at ríða sveinalausum, ok skil ek eigi þetta. Hann gekk út ok heilsaði Guðmundi. Hann tók því vel, ok mælti: setjumst við niðr, bróðir! ok tölumst við; en svâ er mál með vexti, at fátt hefir verit með okkr um frændsemi, ok vilda ek því leita meira minnar sæmdar, enn at gæta frændsemi minnar við þik; hefir þú trautt afla við mèr, en þú ert maðr vitrari, en ef við værum báðir at einu ok samhuga, þá ætla ek at fátt skyldi viðhaldast; nú vilda ek at betr væri enn fyrr, þvíat þú hefir þat gnægara, er mest þarf við, skal ek í millum leggja vingunar þinnar; síðan tók hann upp skikkju góða ok gaf honum. Einar svarar: þetta er góðr gripr, ok ferr þetta nú annann veg, enn líkligt væri, ok kalla ek mínu kaupi vel keypt, ok allgóðr er meðalaukinn. Tókust þeir nú í hendr at guðs vitni, at veitast at öllum málum, [því þat er makligast, ok svâ gjörðu þeir[1]. Síðan reið Guðmundr í burt, en Einar skipaði sauðamanni sínum at hann skyldi snemma upprísa hvern dag, ok fylgja sólu, meðan hærst væri sumars, ok þegar er úthallaði á kveldum, skyldi hann halda til stjörnu, ok vera úti með solsetrum: ok skynja alla hluti þá, er þèr bera fyrir augu ok eyru, ok segja sèr öll nýnæmi[2] stór ok smá. Einar var árvakr ok ósvefnugr, gekk hann út opt um nætr, ok sá himintúngl ok hugði at vandliga, ok kunni [þará gott[3] skyn. Þat var einn morgun, at sauðamaðr hafði útgengit; hann litaðist um, þá sá hann reið 20 manns ofan með Eyjafjarðará hvatliga; hann gekk inn til rúms Ein-

[1]) *v. í B.* [2]) nýmæli, *B.* [3]) *þannig B;* þá alls góðs, *A.*

ars, ok sagði honum, hvat hann hafði sèt; hann stóð upp þegar ok gekk út, hugði at reið manna ok starði á um hríð. Einar var skygn ok heyrðr vel, ok glöggþekkinn; en er sólin rann upp ok skein um hèraðit, þá mælti Einar: með skjöldu ríða þessir menn, mun þat annathvort, at þeir eru utanhèraðs menn, er virðíng er at, ok munu þeir hafa farit at sækja heim Guðmund bróður minn, þó vèr höfum þat eigi spurt, eðr Guðmundr mun þar ríða sjálfr, ok þikir mèr þat miklu líkara, en eigi mun örvænt hvört hann stefnir, eða hvört erendit mun vera, en skamt mun til, at vèr munum þess vísir verða. Einar bað at húskarlar skyldu gefa geymdir at, er hann riði aptr, ok látið hesta vora vera nærri túni. Einar gekk inn aptr til rekkju sinnar, ok lagðist niðr. En um daginn um nónskeið riðu þeir Guðmundr aptr. Einar reið á móti bróður sínum, ok kvöddust þeir vel; þá mælti Einar: hvört hafi þèr farit, eða hvat er at erendum? Guðmundr svarar: ek reið nú til Hörgárdals, ok stefnda ek mann-níðíngnum Akraþóri fyrir burttöku fjár Helga Arnsteinssonar, ok hefir hann[1] á hverjum manni[2] vèlar lengi haft, hefir hann samandregit of fjár; ok segir honum inniliga frá kaupinu, ok hvar þá var komit, er Helgi fór burt: vil ek nú, bróðir! hafa liðsinni þitt til þeirra mála, svâ sem við höfum áðr mælt. Einar svarar fá, ok reið Einar aptr at annari stundu, ok voru[3] kveðjur með þeim at skilnaði. Þegar eptir stefnu þessa, reið Akraþórir á fund Þóris Helgasonar,

[1]) sök, *b. v. B, S.* [2]) ok, *b. v. B, S.* [3]) góðar, *b. v. B, S.*

ok sagði honum, hvat tíðt var, ok bað hann liðs, þvíat ek er í þíngreið með þèr. þórir svarar: leiðt er at fást í með þèr, en veita mun ek þèr, ok setti þá átölur við hann um þæfni sína ok ránglæti. þórir mælti: ek mun gefa þèr vingjafir, ef at þú leggr hlut þinn við þetta. Litlu síðarr reið þórir Helgason til þverár á fund Einars, ok mælti: nú er ek hèr kominn at sækja lið þitt, Einar! sem við höfum mælt. Hann svarar: svâ má vera, stiltir erum við nokkut, en hitta má ek Guðmund ok leita um sættir, ok mun ek fara til þíngs, áðr enn alls er fótum undan mèr skotit, en grunr er mèr á, at hann vili ekki annat, enn framfari sektir. Síðan reið hann á fund Guðmundar, ok kvöddust þeir vel; síðan mælti Einar: þórir Helgason býðr gjörð sína á þessu máli, ok veit ek, bróðir! at þar mun þikja margt til þess fundit, fyrst fastmæli okkar ok frændsemi. Guðmundr svarar: eigi ann ek þess þóri, at fara sektalausum af þessu máli, ok ann ek ekki öðrum manni hèr um at mæla[1], enn mèr. Einar svarar: þá mun ok[2] velta til vandans, at þú munt öngvan meta, nema þik einn, í þessu máli, ok kann vera at skamt taki frá borði. Guðmundr mælti: engin vorkunn þiki mèr þat þèr, at þú leggir hlut þinn við mál okkar þóris, er hann ok ekki bundinn í vináttu við þik, en hann flestum mönnum óþekkr, ok engin hèraðsbót at honum. þá skildust þeir at svâ búnu. En er menn komu á Vöðluþíng, var Guðmundr allfjölmennr; þórir Helgason var ok fjölmennr, en Einar var

[1]) dæma, *B.* [2]) enn, *B, S.*

eigi til þíngs kominn, ok var leitat um sættir; en Guðmundr kvað eigi þat þurfa at leita um sættir, ok vil ek eigi annat, enn Þórir sè gjörr sekr. Þórir Akraskeggr svarar: viltu at þið Þórir Helgason gjörið um málit? Guðmundr svarar: ekki ætla ek at við verðum samdóma um málin, en mèr virðist þú makligr at láta þitt fyrir þúng svik við oss. AkraÞórir hitti nafna sinn, ok spurði, hvort þar mundi staðar nema, at hann mundi eigi á líta með sèr: er hèr til lítils at slægjast [ok sjá, er þú ert; ávalt fær einn veg, at þú lætr[1] þinn hlut fyrir Guðmundi. Þórir svarar: mikill ríkismunr er með okkr Guðmundi, þó[2] má hann mèr margt íllt þola[3]. Akraskeggr kvað þá mjök undir fótum troðna: ok væri betra, at menn tali þat við Guðmund varliga, enn láta sæmd sína. Ok er at dómum kom, vildi Þórir Helgason eigi afláta at verja málit, ok kom málit í dóm; þá gekk at Þórir Akraskeggr, ok bauð sættir at nýu, ok kvað sæzt á slík mál. Guðmundr kvaðst engin gjöld vilja: [en eigi muntu mjök aptr halda ójafnaðinum, Þórir! sagði hann[4], má enn eigi svâ vera, at þú þættir[5] hlutlauss hjá. Þórir Akraskeggr varð sekr, ok þótti mönnum fast fylgt málinu; grunuðu margir at annat mundi meir búa undir fjandskapnum, enn þá var bert gjört. Þeir sjá nú hvar komit var, ok fóru norðr í Húsavík um þíngit með mikit lausafè, en lönd stóðu eptir, ok óhóf kvikfjár á skuldastöðum[6].

---

1) er þú lætr ávalt, *B.* 2) ok, *B.* 3) *b. v. S; v. í hin.* 4) ok hefir þú, Þórir! eigi mjök til þessa aptr haldit ójafnaðinum, *B.* 5) sèrt, *B.* 6) leigustöðum, *B.*

Þórir fór utan, ok er hann úr sögunni[1]. Guðmundr frètti þat, ok vissi at æfarfè mikit var eptir. Fèránsdóm átti Þórir Helgason at nefna eptir þíngmann sinn, en Guðmundr átti at sækja, ok svâ gjörði hann, ok var þeim tilboðit, er heimta áttu at Akraþóri, ok var þángat boðit öllu fè, sem fèránsdómr átti at vera. Guðmundr var fjölmennr, ok var enginn mannafli á mót. Guðmundr háði fèránsdóm eptir Akraþóri, en síðan lèt hann safna kvikfè Þóris öllu, ok fèkk til menn at reka í burt; en er fèt var rekit með túngarðinum, þá hlupu geldíngarnir innfyrir garðinn í tún. Sauðamaðr Guðmundar setti eptir ok elti sauðina eptir túninu, ok út at garðinum; þar stóð sauðahús; sauðamaðr hljóp fyrir dyrnar; þá sá hann, at nær 30 hafra voru þar inni í húsinu. Þá mælti sauðamaðr: mörgu ræðr þú nú fènu, Guðmundr! Hann svarar: fèríngir[2] verða þeir nú þíngmenn Þóris. Sauðamaðr svarar: svâ væri, ef þú hefðir gjörsamliga allt fèt. Guðmundr mælti: hvat skortir? Eigi mikit, en sèt hefir verit eptir minna, ok segir honum til hafranna. Guðmundr mælti: verða má þèr þetta at gæfu, ok munda ek svâ helzt kjósa, at Þórir gjörði skóggángs sök á hönð sèr. Guðmundr reið á fund Þóris, [ok kveðst eigi vilja stelast at honum. Guðmundr leit til[3] ok mælti: hús stendr þar útvið garðinn, [ok mun maðrinn satt sagt hafa[4], ok rýkr þaraf upp, ok mun þar fè inni; ok nú hlupu þar út 30 hafrar, ok

[1]) bannsettr stelarinn, *b. v. A, S, með rúnastöfum.* [2]) þannig *B;* fèdrjúgir, *A.* [3]) *v. í B.* [4]) *v. í B.*

voru allir nýmarkaðir, ok fært til marks þóris Helgasonar. [Síðan reið Guðmundr aptr til fóðr þóris, ok spyrr[1], hvörju gegndi, er þar var fè inni markat. þórir svarar: Akraþórir gaf mèr hafra þessa á vori til liðs sèr, þegar þú hafðir stefnt honum, en nú var með markit fyrir fèránsdóma, ok á ek hafrana. Guðmundr svarar: mundi sú gjöf nokkut löglig, meðan sakir voru hafðar á hendr honum? þú vissir at fèt var allt dæmt. Síðan nefndi Guðmundr sèr votta, ok stefndi þóri Helgasyni um fè þat, er hann hafði markat ok villt á heimildir, er Akraþórir hafði átt, síðan er sök var hafin á hendr honum, ok telr hann eiga verða sekan fjörbaugsmann[2], ok stefndi til alþíngis. þórir svarar: eigi kantu nú hófi þínu um ágánginn! Guðmundr kvað þetta upphafit mega heita: ok er seint mann at reyna, [ek þeinkti þú mundir hlutvandr maðr vera[3]! þórir svarar: geistr ferr þú nú! Fè þetta var stórliga mikit, er Guðmundr fèkk, ok tók Einar Konálfsson við.

*Samtal Einars ok Guðmundar Eyólfssonar.*

15. Guðmundr [var nú heima[4]; ok er þetta spyrr Einar Eyólfsson, þá mælti hann: svâ mæli ek um, at tröll hafi þá skikkju, hefir hann[5] komit á vitsmuni við mik, ok hefir þat ekki fyrr orðit. Síðan reið þórir Helgason til þverár, ok sagði Einari, hvar þá var komit málum þeirra Guðmundar, ok bað hann ásjár, ok taldi til fornrar vináttu. Einar svarar: þat ætla ek, at Guðmundr

[1]) Guðmundr spyrr þóri, *B.* [2]) fjórðúngsmann, *S.* [3]) *v. i B.* [4]) ferr nú heim, *B.* [5]) Guðmundr, *B.*

hyggi at reka þat fjandskapar við þik, er honum er sagt frá orðum þínum, meira enn honum gángi siðvandi[1] til við hèraðsbygð, þó Akra-þórir næði eigi at sitja hjá mönnum í bygð fyrir honum, hefir þú margt satt í þínu máli; vera kann Guðmundi þiki ek ekki torsóktligr[2] eptir, ef hann kvistar af mèr slíka vinina, sem þú ert, eða aðra þvílíka; ætla ek þat sannast, at ek skal aldrí bregða okkar vináttu, meðan þú vilt halda. Síðan reið þórir heim; en Einar fór á fund Guðmundar, ok hafði skikkjuna með sèr, ok mælti: ek vil bjóðast til þess, frændi! at sætta ykkr þóri, ok mik til ummæla í milli ykkar, ok munu menn þat mæla, at þínu máli sè framarr komit, þóat á þetta sè sæzt[3]. Guðmundr svarar: ek mun nú ok hafa liðveizlu[4] til mála okkra þóris, svâ sem þú hefir áðr heitit mèr at guðs vitni; væri þat þó hin mesta óhæfa, at verða mèr ekki at liði ok fulltíngi, þótt frændsemi ein væri til at telja, en nú er þat ógjöranda, með því þú hefir því áðr til guðs skotit, ok þegit af mèr dýrgripi. Einar svarar: ærnir eru skyldugleikar í milli okkar, eigi varðveitir þú þá betr enn svâ; þikist þú nú hafa komist[5] á spektar mun við mik, en ek kalla þat vèlar, ok læt ek at brugðit sè öllu ummælli okkru, þvíat þú hefir mik at viðsjármanni um mál þessi, en til einskis trúnaðar, skilr ok ekki svâ mikit vizku okkar, at eigi sjái ek þau ráð, er þú gjörir; tak nú við

1) *þannig B;* siðvani, *A, S.* 2) torsóktr, *B.* 3) *hèr vantar aptr í D* 1 *blaðs., og er á hana yfirskrifað ágrip innihaldsins með nýrri hendi, að byrjun* þess 18 *kap.* 4) þina, *b. v. B, S.* 5) komit, *B.*

skikkju þinni, er þèr hafa lengi áðr augu tilstaðit! ok kastaði Einar skikkjunni til hans. Guðmundr mælti: eigi mun ek við henni taka, selt hefi ek hana ok fullu verði, haf þú nú alltsaman, skikkjuna ok andvirðit! ok get ek at svâ búist þú um, at þèr verði at bæði heimska ok klækisskapr; nú mun ek eigi kaupa at þèr vandraun nè frelsi[1], ok ertu makligr at sitja í nokkru vandkvæði. Einar mælti: er nú jafnmjúkliga mælt, ok þá, er þú komst á fund minn með skikkjuna? ok væri þat víst góðr gripr, ef eigi hefði vèlar undir búit. Guðmundr mælti: kasta þú niðr skikkjunni, ef þú vilt! fyrr skal hún fúna, enn neinn taki hana upp. Einar reið heim með skikkjuna, ok skildu þeir bræðr at því.

*Frá þeim bræðrum, ok því, er Þórir býðr Guðmundi til hólmgaungu.*

16. Þat er sagt frá þeim bræðrum, þá er þeir voru úngir, at Guðmundr átti sèr fóstra sköllóttan, ok unni hann honum mikit; ok einn dag svaf hann úti í sólskini, ok settist mý margt á skalla honum, en Guðmundr rakaði á burt með hendi sinni, ok þótti honum sem fóstra sínum mundi mein at verða. Einar mælti: högg þú til öxi þinni, vinr! í skalla karlsins. Hann gjörði svâ; skallinn blæddi, en mýit hófst upp, en karlinn vaknaði, ok mælti: erviðt er nú, Guðmundr! er þú vinnr á mèr. Hann svarar: nú finn ek í fyrsta sinn, at ráðin Einars eru eigi af heilu við mik; má vera at því komi opt, at heldr eldist[2] hèr lángr óþokki af. Einar [fann

[1]) ófrelsi, *B.* [2]) þeim, *ofaukið í A.*

nú þóri, ok segir honum frá viðskiptum þeirra Guðmundar[1], kveðst nú vandt viðkominn fyrir frændsemis sakir ok svâ fyrir gjörða sakir. Síðan riðu menn til þíngs allfjölmennir; var nú um sættir leitat. þórir kvaðst ætla, at hann mundi seint betr framleggja fyrir þetta mál; en Guðmundr [lèt sèr ok ekki betr falla; en sakir hans var Guðmundr miklu fjölmennari[2]. Ok eitt sinn spurði Einar þóri á þínginu, hvörja meðferð hann ætlaði at hafa: eða því ætlar þú at Guðmundr þíngi svâ fast um þetta? ok kann vera, at honum þiki þèr framarliga talat hafa[3]. þórir mælti: eigi hefi ek varorðr verit við Guðmund, sem margir aðrir, en auðsætt er nú, at hann ætlar at vèr munum engin faung í móti hafa. Einar mælti: hvat berstu fyrir? þórir mælti: þat er ætlun mín, þá er vèr komum til lögbergis, at bjóða honum hólmgaungu, ok mætti þá mýkjast ofsi hans. Einar svarar: þat er erendi gott, en eigi lítilmannligt. þat var venja þeirra bræðra Guðmundar ok Einars, er þeir voru á alþíngi, at þeir gengu til tíða báðir saman, ok sátu sunnan undir kyrkju, en flokkr Einars stóð vestr frá þeim, en Guðmundar flokkr austr, var svâ, hvort eð var í millum þeirra margt eðr fátt. þórir Helgason sat nærst Einari, en nærst Guðmundi sat Vigfús Vígaglúmsson, ok voru nokkrir fèlagar hans á þíngi. Margir menn leituðu um sættir með þeim Guðmunði ok þóri, ok gjörði þat ekki, því Guðmundr vildi ekki annat, enn

[1]) *b. v. B.* [2]) lezt eigi mundi heldr tilhalla, *B.* [3]) áðr, *b. v. B.*

sjálfdæmi sitt, en þórir vildi ekki fè bjóða. Einn dag at lögbergi, þá er menn höfðu lokit þar lögskilum at mæla, þá spurði þórir Helgason, hvort Guðmundr væri at lögbergi. Hann kvaðst þar vera. þá mælti þórir: vinir vorir margir ok göfugir menn hafa lagt ámæli við mik um málaferli okkar, ok veita mèr ámæli fyrir þat, at ek vil eigi fè bjóða fyrir sakir þær, er þú hefr á hendr mèr, skal nú eigi svâ lengr framfara; skal nú bjóða þèr þess betr, sem ek hefi lengr frestat, ok vil ek bjóða þèr handsöl mín, ok gjörð Einars bróður þíns. Guðmundr svarar: öngvum manni ann ek at gjöra um þessi mál, nema sjálfum mèr, ætla ek nú at þú skulir vita, at þèr Hörgdælir hafið lengi haft tvímæli á, hvorr okkar væri ríkari. þórir mælti hátt: eigi mun ek enn láta þrjóta boðin við þik, Guðmundr! þvíat ek veit at þèr þikir annat miklu stórmannligra við mik, enn um haframerkíngina þóris Akrakarls, þvíat ek veit at þú kennir mèr þat, er margir mæla, ok [eru eigi minna afvaldir, at ek hafi mælt rángliga við þik[1]; vil ek þat nú reyna [at þat eru eigi sannmæli[2], því ek vil skora á þik til hólmgaungu, at þú komir á 3 nátta fresti í hólm þenna, er liggr í Öxará, ok menn hafa áðr vanir verit á hólm at gánga, ok berjumst þar, svâ sem forn lög liggja til; ætla ek, áðr enn þeim fundi ljúki, at færast skal af tvímælit, hvort sannara er, at þú sèrt maðr snjallr ok vel hugaðr, eðr sè hinn veg, sem vèr höfum

[1]) er ek eigi minna afvaldr, enn aðrír, *B.* [2]) hvort þetta eru sannmæli eða eigi, *B.*

áðr orðum tilkomit, ok allmargir hafa sagt fyrir oss, at þú sèrt eigi snjallr. Þá er mikit óp gjört at orðum hans; en menn skildu óhappalaust þar um sinn at lögbergi.

*Ráð Vigfúsar Vígaglúmssonar, ok vitrleiki Einars Eyólfssonar.*

17. Þeir bræðr Guðmundr ok Einar gengu þat kvöld til aptansaungs, sem þeir voru vanir, ok var Guðmundr allkátr; en eptir um nóttina, þá er heldr tók at morgna, vaknar Vigfús Vígaglúmsson, ok mælti til Guðmundar: lítt sefr þú í nótt, hyggr þú eigi gott til hólmgaungunnar við Þóri? eðr hvern veg ætlar þú at fara með málum þínum? Guðmundr svarar: smátt bregðr slíkt svefni minum, en ráðit hefi ek skjótan úrskurð um þetta mál okkar Þóris, því at hann bauð mèr þat, er ek átta honum at bjóða; ætla ek at hamíngja ok málaefni muni skipta með okkr hólmgaungunni; ætla ek mál vera, at færa af hendi illmælit. Vigfús mælti: nú mun ek því viðbregða, at ek hefi eigi fyrr náð við þik at tala, Guðmundr! at ek mun vera maðr miklu vitrari enn þú, fyrir því at ek sè at þú ert verr enn dáðlauss, en ek kann þèr gott ráð hèr til, þat er virðíng þín má vaxa við, en þú munt verða í öngri mannhættu, muntu eigi þurfa minna til at kosta, en af málum hafa þat er þú vilt. Guðmundr leit við honum ok mælti: nú er enn komin gautun þín, eðr hvat þikist þú kunna at sjá þat í þessu máli, er ek sè eigi? Vigfús svarar: ek mun gánga til lögbergis í dag; siðan

mun ek skora til hólmgaungu[1] Einar bróður þinn, at hann berìst nú við mik í dag, skal ek veita formæli þar at miklu frekligara, enn við þik var mælt, ef Einar vill eigi berjast við mik; skortir þar eigi nógar sakir til minnar handar við hann, er þess er óhefnt, at Einar rak oss föður minn af þverár landi af allri mannvirðíngu, ok horfir Einari öngvum mun betr hólmgángan við mik, enn þèr við þóri; nú látum hann fyrst hafa hnikunar[2] rúmit, ef svâ er, at hann þorir eigi[3] á hólm at gánga, en ef hann berst við mik, þá mun ek drepa hann, en höfðíngjarnir munu leita annars ráðs, enn þið bræðr sèuð höggnir niðr á þíngi báðir. Guðmundr mælti: slíka menn getr varla til vitrleiks, sem þú ert, þótt menn eigi góða marga kosti. Vigfús mælti: láttu nú eigi finna á þèr feginleikinn, þvíat ef Einar finnr af vizku sinni, at skiptir skapi þínu, þá mun hann hitta bragð til af viti sínu, at þetta ráð komi eigi upp. Ok um daginn, þá er þeir gengu til tíða, sátu þeir þá enn í rúmum sínum. Guðmundr var hljóðr, ok mælti ekki orð, ok hafði höfuðit í feldi sínum. En þar varð lítill atburðr: barn eitt hvarflaði þar á hellunum fyrir Guðmundi ok fretaði, en sumir menn hlóu at. En er Einar ok þórir komu til búðar, þá mælti Einar við þóri: hvörn veg leizt þèr nú á Guðmund bróður minn við kyrkjuna? Hann mælti: svâ sem ek vilda, ok þótti mèr hann eigi hefja höfuðit sitt, ok mun hann vera því hryggri, er meirr dregr at óvirðíng hans, þeirri er hann

[1]) við, *b. v. B.* [2]) hvikunar, *B.* [3]) *v. i B.*

á fyrir höndum. Einar mælti: eigi sýndist mèr þat svâ í gær at aptansaung, þá þótti mèr hann allglaðligr[1]: sástu eigi at feldarröggvarnar hrærðust, er hann hló? nú munu þeir hitt hafa ráð nokkut, er oss mun illu gegna, ef fram kemr, ok skal eigi þess bíða; ok skal nú þegar gánga á fund Guðmundar, ok lúka málum þar, sem framast má koma. Síðan gengu þeir Einar til búðar Guðmundar, ok mælti Einar: þat er erendi mitt híngat, at makligt er, at ek vil sætta ykkr þóri, ok hefi ek komit honum til þess, at hann vill bjóða þèr sjálfdæmi, svâ sem þú hefir áðr beiðt um mál ykkar öll. þá laut Vigfús at Guðmundi ok mælti: þú hefir eigi gætt at bera af þèr feginleikinn, ok hefir Einar nú fundit af spekt sinni gleði þína, en þó er nú einsætt at þiggja þenna kost, er svâ er vel boðit. Margir tóku undir, ok fluttu þetta með Einari. Síðan lèt Guðmundr koma til sín höfðíngja ok vini sína þá, er honum höfðu áðr liði heitit, ok varð til þess fundar allfjölmennt. Síðan handsalaði þórir Guðmundi sjálfdæmi. þá mælti Guðmundr: ek gjöri á hönd þóri hundrað silfrs, ok veit ek at þat eru stinn manngjöld, ok kveð ek þess vert; þú skalt ok sekr, ok vera utan 3 vetr svâ sem fjörbaugsmaðr, en fyrir hvörn vetr, ef þú ert hèr â landi, skaltu gjalda hundrað silfrs. Svâ kom þar orðrómr, at Guðmundr hefir haft mestan sæmdarhlut af málum þessum.

---

[1]) láta allglaðliga, en var þó hryggr raunar, en nú sýndist hann hljóðr, en, *B.*

*Frá utanferð þóris Helgasonar, ok frá þorbirni Rindli.*

18. þat sumar fór þórir Helgason utan [í Skagafirði[1], en bú hans stóð eptir á Laugalandi; hann var vetr þann í Orkneyjum; en eptir um vorit kom hann út aptr til Íslands [í Eyjafirði[2], er 3 vikr voru af sumri, ok reið þá heim til Laugalands, ok tók sèr hjú, ok reið eptir um sumarit til alþíngis, ok svâ var hann á Vöðluþíngi, ok hèldu þeir Einar flokkum sínum saman; hann var heima um sumarit at búsýslu sinni, ok fór utan um haustit, ok þá til Noregs litlu fyrir vetrnætr, ok var þó í Orkneyjum þann vetr; en eptir um sumarit fór hann til Íslands, ok fór hann alla sömu leið, sem hit fyrra sumar. þórir fór utan um haustit, ok var í Noregi þann vetr, ok fèkk sèr húsaviðu, ok stýrði skipi sínu aptr til Íslands ok kom í Eyjafjörð, fór þá heim til bús síns á Laugaland, ok bjó þar til elli, ok þótti skörúngr mikill. Ok á þessum hinum sama tíma, sem nú var frásagt, höfðu margir höfðíngjar liði heitit Guðmundi; ok þegar at þínglausnum dró, gekk hann í búðir, ok þakkar mönnum lið; hann gekk í búð Svínfellínga; ok er Guðmundr snýr utar at dyrunum, þá sá hann at maðr gekk í búðina, ok bar inn bagga ok söðulreiði; Guðmundr leit við honum, ok snýr við Vigfúsi ok mælti: hefir þú nokkut þann sèt, at síðr sè nokkrs verðr, enn þessi maðr? Vigfús svarar: eigi veit ek þat þegar. Guðmundr mælti: eigi hefi ek sèt þann mann, at betr er fallinn

[1]) *v. í B.* [2]) *v. í B.*

til flugumanns; hann veik at honum, ok mælti: hvat heitir þú? Ek heiti Þorbjörn[1], segir hann, ok kallaðr Rindill, austfirðskr[2] at ætt. Guðmundr mælti: viltu kaupa við mik nokkru? Hann svarar: hvörr ertu? Ek heiti Guðmundr, ok er Eyólfsson. Vel veit ek nú, kvað hann; ek heyri sagt, at flestir fráfælist [af þèr[3], en fátt hefi ek til kaupa, ek em fèlítill. Guðmundr svarar: meirr kemr mèr fleira enn fè; máttu nú koma [á leið vora[4], ok leita þá til margra vista, en ráð þik hvörgi, en ek mun þá tilkoma[5]. Þetta var nú ráðit, ok riðu menn af þínginu, ok komu þeir á Eyfirðinga leið; þar kom Rindill, ok varð allhjaldrjúgr við marga menn. Þá mælti Guðmundr: hvörr er sá maðr, er nef hefir í eyra hvörjum manni, ok falar til missra[6] vistar, en ræðr enga? Hann svarar: ek heiti Þorbjörn, eðr viltu taka við mèr, Guðmundr? Hann kvaðst þat gjöra, ef hann vildi: þvíat við þurfum marga vega manna; síðan fór hann þángat, ok var þar um hríð. Ok einn dag mælti Guðmundr: mun nú eigi ráð, at þú takir til sýslu? Hann lèt þat vel fallit; ok var honum fenginn ljár, ok sló hann. Guðmundr mælti: ekki muntu þessu verki vanr vera, eða þiki þèr nokkut hægra, at ríða með til laugar um daga? Hann kvað þat enn hægra. Svâ fór enn fram, at eitt sinn mælti Guðmundr: nú er á þá leið, at nokkut er á höndum; ek vilda hafa nokkut fyrir mitt, ok er eigi örvænna, at ek gjöri þik tignum mönnum kunn-

[1]) Þorsteinn, *D alstaðar.* [2]) sunnlenzkr, *D.* [3]) þik eigi, *B.* [4]) *þannig B;* þángat í sumar, *A, S.* [5]) *þannig B;* koma *A;* koma, segir hann, *S.* [6]) ýmsra, *B.*

ugan, ok mun þat annathvort, at þèr mun verða af því gæfa eða gæfu þrot. Þorbjörn mælti: þessu muntu [fyrir trúnaði þínum[1] atráða, en hugat mun mèr at gæta lífs míns, ok treysta vil ek því, at ek mun þèr trúr; en ef hætta er í sendiförum, ok vilìr þú þat fyrir mik leggja, þá mun ek um njósna, en áræði er ek ekki trúr, þó má vera at oss komi [í hald. Guðmundr svarar[2]: ek mun nú leggja fyrir þik stórræði, er ek berumst fyrir; maðr er nefndr Þorkell ok er kallaðr hákr, ok býr norðr í Ljósavatnsskarði; hann vil ek hafa at dauðamanni; þángat vil ek þik senda, at njósna fyrir mèr, því at ek mun brátt eptir sækja. Þorbjörn svarar: því mun ek heita þèr, at ek mun þèr trúr at njósna slíkt, er þú vilt, en eigi rètti ek hendr mínar at vinna á Þorkeli. Guðmundr mælti[3]: ek mun setja til ráðit: þú skalt hverfa hèðan á burt, en ek mun fá þèr í hendr hesta 2 magra ok baksára, ok þarmeð [klyfjar á ok ostar í[4] veskjum[5]; þú skalt fara Hellugnúpsskarð ok ofan Bárðardal; er nú á hallæri, en hvalreiðar ár er mikit norðr um Tjörnnes, en þú ert öngvum mönnum jafnlíkr, sem þeim, er komit hafa austan úr Hálfdánartúngu, ok skaltu látast þaðan vera; stiltu svâ til, at þú komir til Þorkels í vondu veðri, ok lát vesalliga, ok gakk eigi á burt; taktu steina úr læk, ok lát vera jafnmarga, sem menn eru fyrir, ok [hafi þèr[6]

---

[1]) *v. í B.* [2]) at haldi, segir Guðmundr, *B*, *S.* [3]) svâ skal vera, njósna skaltu einasta, en, *b. v. B.* [4]) kláfa, *B.* [5]) ok vorskinn, *S; v. í B.* [6]) hefi ek þat, *B.*

til marks; ek ætla mèr þángat. Síðan fór Rindill, ok kom til Öxarár í drápveðri miklu. Þorkell var úti, ok mælti: hvörr er sá herramaðrinn, eðr því komstu hèr, eðr hvört skaltu fara, eðr hvar áttu heima? Hann svarar: ek heiti Þórhalli, ok bý ek vestr í Hâlfdánartúngu, ok fer ek til hvalkaupa, en því kom ek hèr, at mèr þótti mál at hvílast, ok mun ek deyja undir húsum þínum úti, ef ek má eigi inn gánga, ok mun þat þikja íllt at vita, svâ mikill garpr sem þú ert. Þorkell svarar: lítit er oss um ókunna menn, þvíat vèr egum lítt vingat við stóra höfðíngja, en vitum ógjörla, hvört erendi hvörs í verðr. Hann svarar: þiki þèr ek grunsamligr vera? enda mun ek hèr niðr leggjast, ef þú lætr mik eigi inn. Þorkell svarar: ek á sel skamt hèðan, vertu þar í nótt! Hann svarar: eigi geng ek feti framarr; hann skalf mjök. Þorkell mælti: mjök vesalliga lætr þú, ok lát sjá hestana; hann gjörði svâ, ok tók ofan kláfana; voru hestarnir baksárir ok fóthrumir. Þorkell mælti: satt muntu segja, lángan veg ertu tilkominn, ok muntu vera kotbóndi nokkr, þvíat þessligr er varníngr þinn, ok ber inn reiðíngiun, fretkarl! Hann kvaðst þat gjarnan vilja. Þorkell var kvongaðr maðr; Þorgerðr hèt kona hans; hún tók til orða: hvörn leiðir þú eptir þèr þar, herjans soninn? Hann svarar: eigi sýnist mèr sá maðr svâ bráðhættligr, en eigi nenni ek at hann deyi undir görðum mínum, ok sè mèr þat í bríxli fært. Hún svarar: gjörla skil ek nú at þú ert feigr; nú lát hann

orna sèr, ok fari síðan til sels vors. Rindill svarar: ekki mun ek fara at geipun þinni. Hún svarar: hlýta mun ek ok því, er þorkell bauð. Síðan var hún allæf í orðum við hann, en Rindill svarar henni illa; tók nú at nátta. þâ mælti þorkell: sit hèr hjâ mèr, Rindill! sè ek at konur hafa þúngan hug til þín. En eptir mat fór gestr at sofa, ok svâ þorkell, ok lâ hann í lokrekkju, en gestrinn utarfrá; konur fóru ekki í rekkju. þorkell spurði: hví ferr þú ekki í rekkju, húsfreyja? Hún svarar: ek trúi verr gestinum, enn þú. þorkell svarar: þúngt er þèr til hans; síðan sofnaði hann, ok hvíldi Guðrún dóttir hans hjá honum; hún var 4 vetra. Ok er myrkt var orðit, reis Rindill upp ok skaut frâ lokum; síðan gekk húsfreyja[1] eptir gólfi, ok utar í öndina, [ok mælti[2]: varð svâ þó, ok lèt fyrir lokurnar. þorkell vaknaði, ok mælti: hvat er nú, húsfreyja? Slíkt sem mik grunaði, segir hún, at gestrinn vill svíkja þik, ok hefir skotit frá[3] lokum. Rindill mælti: mikinn fjandskap sýnir þú við mik, hvenær sem at gjöldum kemr. þorkell mælti: eigi mun gáð hafa verit at setja fyrir lokurnar; síðan sofnaði hann. Ok er stund leið, skreiddist Rindill úr rúmi sínu, ok skaut frá lokunum, ok mælti: enn mun þorkell dyljast við, ok gekk í eldhúsit, ok svaf þorkell þá; ok þegar jafnskjótt sprettr Rindill upp, [ok skaut frá lokum[4], ok heyrði þá hundgá, ok at menn riðu at bænum; hann hljóp þegar, ok hafði föt sín

[1]) *þannig B, S;* hann, *A.* [2]) *tekið úr B, S; v. í A.* [3]) *þannig B;* fyrir, *A.* [4]) *v. í B.*

í fángi sèr, en sjálfr var hann naktr, ok fór nú í klæðnað.

*Drepinn Þorkell hákr, ok sæzt á málit.*

19. Síðan[1] drifu menn at bænum[2], var þar kominn Guðmundr ok þeir 20 saman; ok við gnýinn vaknaði Þorkell, ok varð ekki ráðrúm til at fara í brynjuna; hann tók höggspjót í hönd sèr, ok setti hjálm á höfuð sèr; mjólkrketill stóð í húsinu í horninu, ok var þraungt. Þá mælti Guðmundr: Þat er nú ráð, Þorkell! at sýna sik, ok skríða ekki í hreisi. Nú skal víst sýna, Guðmundr! kvað Þorkell, ok eigi komstu fyrr, enn ek ætlaði, eða hvörja leið fórstu híngat? Hann svarar: ek fór Brynjubrekku[3] ok Hellugnúpsskarð. Þorkell mælti: Þú hafðir bratta leið ok erfiða, ok trautt kann ek at ætla, hversu rassinn mundi sveitast ok erfiði hafa í þessari ferð. Síðan hljóp Þorkell fram með brugðit sverðit, ok hjó þegar til Guðmundar, en hann hopaði undan; hann lèt sem hann sæi öngvan mann í atsókn, nema Guðmund; þá hlupu menn at ok hjuggu til hans, en hann varðist hraustliga, ok fengu margir menn sár af honum. Þorsteinn hèt maðr, ok var kallaðr hinn rammi, hann gekk mest í móti Þorkeli, ok varð hann mjök sárr, þvíat margir voru um einn, ok var hann eigi at óákafari, þóat iðrinn lægi úti á honum. En þá er Guðmundr hopaði, hrapaði[4] hann í mjólkrketilinn; þat sá Þorkell, ok hló at ok mælti: nú kveð ek, at rassinn þinn hafi

[1]) *Hèðan frá gjörist D að mestu samhljóða hinum.* [2]) ok inn, *b. v. B, D.* [3]) Grimubrekku, *D.* [4]) hrataði, *D.*

áðr leitat flestra lækjanna[1] annarra, en mjólkina hygg ek hann ekki fyrr hafa drukkit, enda ráðstu nú híngat ok finnumst við, þvíat nú liggja úti iðrin mín, [þat hefir þèr jafngjarnt verit, er þik lysti þessa[2]. Síðan drápu þeir hann. Þá mælti Guðmundr: vill húsfreyja ekki tilbeina [með oss[3], at Þorkell sè jarðaðr? Hún svarar: þat vil ek víst eigi, ok verið á burt sem fyrst, ok betra þiki mèr at vera hjá honum dauðum, enn yðr lifandi. Síðan riðu þeir á burt, ok hittu Einar Konálfson; hann fagnaði Guðmundi vel, ok spurði tíðenda. Guðmundr mælti: dauðan segi ek þèr Þorkel hák. Einar svarar: eigi þarf at sökum at spyrja, ætla ek nú at þú munir taka við fè þínu, ok bjóða bætr Ljósvetníngum. Síðan var fundr áttr, ok kom þar Guðmundr ok Einar Konálfson ok þeir synir Þorgeirs, Tjörfi ok Höskuldr. Einar mælti: spurt munu þèr hafa líflát Þorkels, ok munu þat eigi margir kalla sakleysi, en Guðmundr vill yðr bætr bjóða ok stinn manngjöld, en ekki er þess at vænta, at Guðmundr flýi land sitt, mun hann ok um kyrt sitja. Höskuldr svarar: þat er nú framkomit, er þèr hafið lengi umsetit, ok ótrúligri munu sættir vorar verða, þótt Guðmundr hafi nú ríki mikit. Tjörfi svarar: eigi mun þat mitt ráð, at neita fèboðinu. Síðan greiddi Guðmundr fè upp, ok voru sáttir at kalla.

*Eylífr í Gnúpufelli drepr Rindil, ok frá því, er Hlenni í Saurbæ kemr honum undan.*

20. Rindill fór heim með Guðmundi, ok lèt

1) klækjanna, *D.* 2) *v. í B, D.* 3) vorn, *D.*

hann vel yfir honum, ekki var hann þó þokkaðr af alþýðu. Þeir bræðr í Gnúpufelli voru ok bundnir í tengdum við Þorkel hák. Eylífr[1] átti Þórdísi skjaldkonu[2]; hann var maðr mikill ok knárr, hann var bogmaðr, laungetinn var hann. Bruni átti Álfdísi Koðránsdóttur, ok voru[3] bræðrúngar, ok Þorlaug Atladóttir, kona Guðmundar; en móðir Þorkels háks var Guðríðr, er Þorgeir goði átti, [en eigi Hjalti Eiríksson[4], en hennar móðir var dóttir Hrólfs Íngjaldssonar í Gnúpufelli[5]. Hlenni hèt maðr, hann bjó í Saurbæ, hann var kallaðr Hlenni hinn spaki[6]; þeir voru bræðrasynir ok Þorgeir goði; Hlenni var þá blindr ok gamall. Þar kom um sumarit, at menn riðu til leiðar. Guðmundr var vanr at ríða fjölmennr, [ok fór út[7] frá garði, en þeir, er ofan riðu, fóru [hratt neðra[8] með ánni, ok hittust at ákveðnum stað[9]. Menn voru þá mettir, ok voru rekin heim hross, ok kom eigi hestr Rindils; Guðmundr bað leita hestsins. Rindill svarar: þat hæfir eigi, at aðrir menn leiti míns hests, er ek veit hvar hann er, ok ríðið[10] fyrst. Guðmundr [hafði virðíng mikla á honum, ok hèldt hann vel, ok mælti: far þú, sem ek mæli! en enginn vildi sinn hest láta fyrir Rindli[11]. Þeir Guðmundr riðu fyrir; en Rindill ok maðr einn var eptir hjá honum, ok tóku til dagverðar [á meðan[12] hestrinn var fundinn. Rindill hafði skyr, ok mataðist skjótt, þvíat

---

1) *þannig A, D;* Íleifr, *B, S alstaðar.* 2) skáldkonu, *B, D.* 3) þeir, *b. v. hin.* 4) *v. í D.* 5) ok var frændsemi með þeim Þorkeli ok bræðrum í Gnúpufelli, *b. v. hin.* 6) skakki, *D.* 7) at, *D.* 8) it efra, *D.* 9) *fra fyrra [ v. í B.* 10) *þannig hin;* riðr, *A.* 11) *v. í B.* 12) þegar, *D.*

skyrit var þunt, ok riðu út frá garði í skóginn; síðan riðu menn á móti þeim, ok var þar Eylífr[1] ok maðr með honum; þar varð ekki af kveðju. Eylífr setti þegar kesjuna á Rindil miðjan, en skyrit sprændi úr honum, ok ofan yfir hann Eylíf; en förunautr Rindils sagði Guðmundi; hann varð óðr við, ok snýr þegar ferðinni eptir þeim, en fèkk mann til at helga leið. [þeir Bruni[2] urðu varir við, ok snèru aptr, en[3] þeir Eylífr snèru í Saurbæ; Hlenni var úti, ok bjó ferð húskarls síns, ok skyldi fara í Seljadal[4] með kálfa; þeir sögðu honum, hvat þeir hefðu gjört, ok biðja hann á sjá, þvíat Guðmundr vill hafa fjör vort, ok ríða eptir oss. Hlenni svarar: hvat er til? Eylífr svarar: ek hefi skotit Rindil, ok hefir Guðmundr því reiðst. Hlenni svarar: lítill mannskaði, en ek má lítit traust veita, en þó gángi þið inn, ok verìst úr bænum! ok svâ gjörðu þeir. Síðan komu þeir Guðmundr í túnit, ok kvöddust þeir Guðmundr ok Hlenni. Guðmundr mælti: eru þeir hèr ódáðamenninnir hjá þèr, Hlenni! Eylífr ok förunautr hans? Hlenni mælti: hèr eru þeir, Guðmundr! ok er eigi sem harmsaga[5] sè, þótt Rindill sè drepinn. Guðmundr mælti: gjör annathvort, sel þá fram, eða við munum brenna upp bæinn; öngvum skal hlýða at drepa heimamenn mína. Hlenni svarar: vera má þat, at nú megir þú gjöra slíkt, er þú vilt, en verit mundi hafa fyrr

---

1) *þannig D; rètt hèr og framvegis í A, eptir því, sem fyrst stóð.* 2) *þannig D;* Björn, *A, S, líkliga rángt.* 3) *frá [ v. í B.* 4) sel, *B.* 5) *þannig D,* hrein saga, *hin.*

meir, at fjölrædt mundi í hèraðinu, ef þú gjörir mèr óvirðíng; en þann veg er mèr um gefit, at betra þiki mèr, at þeir sèu eigi fyrir mèr drepnir, svâ ek sjái þat, vil ek nú senda þá í Eyrarskóg. Guðmundr mælti: viltu því heita, at þeir komi þar? ok vil ek þann kost taka, því jafnt þikja mèr þín heit, sem handsöl annarra manna. Síðan gekk Hlenni inn, ok mælti: nú er Guðmundr hèr kominn, ok vill hafa líf þitt, en ek hefi öngva viðstöðu í móti hönum. Eylífr svarar: slíks er at von, ok skal ek útgánga. þá mælti Hlenni: þú skalt eigi svâ skjótt hvata þessu, en lítit mun verða undanbragðit, ok skulu þið fara yfir í Eyrarskóg með þeim hætti, at í sínu hripi skal vera hvorr ykkar, ok bera á ykkr gras, en kálfr skal liggja á hvorjum ykkra, en þó má vera, at Guðmundr sjái eigi þetta undanbragðit fyrir reiði sakir, en ef þik berr skjótt framhjá, þá skífðu[1] þegar hnappinn úr hripsgrindinni, enda mun auðna ráða. Svâ var um þá búit, sem Hlenni mælti; ok er hann[2] kom yfir ána í skóginn, þá drifu þeir Guðmundr at þeim, ok mælti: því eru þeir Eylífr svâ seinir? Hann svarar: ek ætla at þeim þiki eigi til öls boðit, en þó voru þeir búnir, er ek fór áðr; en hann reið framhjá þeim; þá hljóp hann þegar aptr hjá hestinum, ok hleypti þeim niðr úr hripunum, ok þegar hlupu þeir í skóginn ok til Gnúpufells. þá mælti Guðmundr: nú erum vèr villtir, þeir hafa verit í hripunum, ok nú sè ek eptir, hvorsu fast at hestrinn stè at

[1]) Kiptu þegar, *D.* [2]) húskarl, *B.*

grjótinu, er hófarnir lögðust fyrir; nú mun Hlenni eigi þikjast at mèr logit hafa, ok er hann vitr maðr, ok snúum nú eptir þeim. Síðan komu þeir í Gnúpufell, ok gengu at dyrum, en hurðir voru aptr, ok stóð Eylífr fyrir innan hurð með skeyti sín. Guðmundr mælti: seldu [upp hurðina, Eylífr[1]! eða munum vèr leggja eld at bænum. Hann svarar: eigi mun ek hirða út at gánga, ok endimligt er þat, ef þèr sýnist þat, at hafa stórvirki á vorum frændum, ok mæla eptir um slíka, er einskis eru verðir. Guðmundr mælti, at taka skyldi eldinn; þá var farit eptir. Þá gekk kona til hurðarinnar, ok mælti: má Guðmundr heyra mál mitt? Hann kvaðst heyra: eða er Þorlaug þar, ok er einsætt at gánga út? Hún svarar: eigi mun ek skilja við Álfdísi frændkonu mína, en hún skilr eigi við bónda. Guðmundr mælti: ef þú vilt kjósa heldr at deyja með skömm hèr, enn lifa með mèr með sæmd ok virðíngu, þá skal þó eigi verkit fyrirfarast. Þá gekk maðr í dyrnar úngr, ok mælti: hvort má Guðmundr heyra mál mitt? Hann kvaðst heyra: eða hvort er Haldór þar, sonr minn? Hann kvað svâ vera. Guðmundr mælti: gakk þú út, frændi! Hann svarar: eigi þarftu þess svâ mjök at eggja, þvíat þèr skal enginn verri enn ek, ef móðir mín brennr inni. Síðan áttu menn hlut at við Guðmund, at hann gjörði eigi svâ mikla óhæfu, ok svâ var. Síðan fór Guðmundr burt, ok var aldrei síðan vel með þeim. Guðmundr sat yfir metorðum mestum í hèraðinu.

[1]) fram, Bruni! Eylif ódáðamanninn, *D*.

*Frá draum Guðmundar ok viðræðum; fráfall hans.*

21. Þat bar til eitt sinn, at Guðmund dreymdi draum mikinn; síðan fór hann á fund Drauma-Finna norðr í Köldukinn undir Fell, ok mælti: draum vil ek segja þèr, er fyrir mik bar. Hann svarar: óþökk er mèr á öllum draumum[1] þínum sakir harma vorra. Guðmundr mælti: engin kemr grimd til þessa, ok þigg af mèr fíngrgull þetta! Hann tók við, ok mælti: hvat dreymdi þik? Hann svarar: ek þóttumst ríða norðr um Ljósavatnsskarð, ok er ek kom gegnt bænum at Öxará, þá sýndist mèr vera höfuð Þorkels háks á þá hlið, er at bænum vissi; ok er ek reið norðan, sat höfuðit á annari öxl mèr[2], ok stendr mèr ótti af þessu. Finni mælti: sjá þikjumst ek þenna fyrirburð; þat get ek í hvört sinn, er þú ríðr norðr ok norðan, komi þèr í hug víg Þorkels háks, ok frændr hans sitja hèr í hvörju húsi, ok mun þèr ótti af þeim standa; en því skiptist þat á öxlum þèr, at svâ berr [bæum til[3], ok eigi kemr mèr þat at óvart, at nær stýrt verði nokkrum þínum frændum. Síðan reið Guðmundr á burt, ok norðr í sveitir til þíngmanna sinna, ok gisti á Tjörnnesi, ok var honum skipat í öndvegi, en innarr frá honum sat Ófeigr Járngerðarson; ok er borð komu fram, þá setti Ófeigr hnefann á borðit, ok mælti: hvorsu mikill þiki þèr hnefi sá, Guðmundr? Hann svarar: víst mikill.

[1]) kvomum, *D.* [2]) þeirri, er þá horfði við bænum, *b. v. D.*
[3]) bænum til, *B;* bænum við, *D.*

Ófeigr mælti: þat muntu[1] ætla, at afl muni í vera? Guðmundr mælti: ek ætla þat víst. Ófeigr mælti: mikit muntu ætla at [höggit verði[2]. Stórmikit, segir Guðmundr. Ófeigr mælti: [hvat mikit[3] muntu ætla at saka muni? Guðmundr svarar: beinbrot eðr bana[4]. Ófeigr mælti: hvorsu mun þèr þikja sá dauðdagi? Guðmundr mælti: stórillr, ok eigi munda ek vilja. Ófeigr mælti: sittu þá ekki í rúmi mínu. Guðmundr mælti: svâ skal vera, ok settist öðrumegin. Þat fannst á, at Ófeigr vildi þar mest metinn vera, en hann svífðist einskis þess, er honum bjó í skapi. Kona hèt Þórhildr[5], ok var kölluð Vaðlaekkja, ok bjó at Naustum, hún var forn í skapi, ok vinr Guðmundar mikill. Guðmundr fór á fund hennar, ok mælti: forvitni er mèr á því mikil, Þórhildr! hvort nokkr mannhefnd muni framkoma fyrir Þorkel hák. Hún svarar: kom í öðru sinni, ok hitt mik einnsamann. Síðan liðu stundir; ok einn morgun reið Guðmundr heiman einnsaman, ok kom til Vaðla, ok var Þórhildr úti, ok girð í brækr, ok hafði hjálm á höfði ok öxi í hendi; hún mælti: far þú með mèr, Guðmundr! Hún fór ofan til fjarðarins, ok gjörðist heldr þrístilig; hún óð útá vaðlana, ok hjó fram öxinni á sjóinn, ok þótti Guðmundi[6] öngva skipun taka. Síðan kom hún aptr, ok mælti: ekki ætla ek at maðr verði til, at sjái[7] mannhefndir við þik, ok muntu sitja mega í sæmd þinni. Þá mælti Guðmundr: nú

1) munda ek, *D.* 2) högg verði af, *D*, *S.* 3) þannig *B;* þetta, *A.* 4) þannig *B;* bani, *A.* 5 Þórhalla *S alstaðar.* 6) þat, *b. v. hin.* 7 slá i, *D.*

vilda ek at þú vissir hvort synir mínir mundu undan stýra. Hún svarar: nú gjörir þú mèr mikit fyrir. Síðan óð hún út á Vaðlana, ok enn hjó hún á sjóinn, ok varð af brestr mikill ok blóðugr allr sjórinn; síðan mælti hún: þat ætla ek, Guðmundr! at nær stýrt verði einhvörjum syni þínum, ok mun ek nú ekki optarr þraut til gjöra, því öngvan veg kostar mig þat lítit, ok mun hvorki tjá við ógnir nè blíðmæli. Guðmundr mælti: ekki mun ek þessa þraut optarr fyrir þik leggja hèr eptir. Guðmundr sitr í virðíngu sinni; ok er âleið æfi hans, þá er þess getit, at maðr hèt Þórhalli[1], ok bjó â bæ nokkrum í Eyjafirði; hann dreymdi draum, ok fór hann norðr á fund Finna; ok er hann kom í dyr, mælti Þórhalli: draum vilda ek at þú rèðir, er mik hefir dreymt. Finni mælti: far þú í burt, ok vil ek eigi heyra drauminn, ok rak aptr dyrnar, ok mælti: far þú í burt sem skjótast, ok seg Guðmundi á Möðruvöllum, eða þú munt með vopnum burt keirðr þegar. Síðan fór hann í burt ok á Möðruvöllu; en Guðmundr reið[2] um daginn út eptir hèraði, ok var heim von um kvöldit. Einar bróðir hans lagðist niðr, ok sofnaði; hann dreymdi þat, at uxi gekk upp eptir hèraðinu sköruligr[3] mjök ok hyrndr fast, ok kom upp á Möðruvöllu, gekk til[4] hvörs húss, er var á bænum, ok síðarst til öndvegis, ok fèll þar niðr dauðr. Síðan mælti Einar: slíkt mun fyrir miklum tíðendum, ok er þetta mannafylgjur[5]. Þá

[1]) Þórhallr, *D alstaðar.* [2]) var riðinn, *D.* [3]) skrautligr, *D.* [4]) *hèr endar D.* [5]) mannsfylgja, *B.*

kom Guðmundr heim, ok var þat siðr hans, at koma til hvörs húss, sem á bænum var; ok er hann gekk til öndvegis, þá lagðist hann upp, ok talaði við Þórhall, ok sagði hann honum draum sinn, ok eptir þat rèttist hann upp, ok var þá fram kominn matr; mjólk var heit, ok voru á steinar. Þá mælti Guðmundr: ekki er heitt. Þorlaug mælti: kynliga er þá, ok heitti steinana. Síðan drakk Guðmundr, ok mælti: ekki er heitt. Þorlaug mælti: eigi veit ek nú, Guðmundr! [hvar kemr til[1] heitfengi þitt. Ok enn drakk hann, ok mælti: ekki er heitt; þá hneig hann á bak aptr, ok var þá andaðr. Þá mælti Þorlaug: mikil tíðendi, ok munu víða spyrjast, en engi maðr skal taka á honum, en grunat hefir Einar [opt minni tíðendi[2]. Síðan kom Einar ok veitti honum umbúnað. Einar mælti: eigi hefir draumr þinn, Þórhalli! lítinn krapt, ok þat hefir Finni sèt á þèr, at sá væri feigr, er þú segðir drauminn, en þat unni hann Guðmundi; kaldr hefir hann nú verit innan, er hann kendi sín eigi[3].

---

1) hvaðan kemr, *B.* 2) *v. í B.*

3) *Í B lýkr hèr sögunni þannig:* 22. Synir Guðmundar Eyólfr ok Koðrán tóku fè eptir hann; vildi Eyólfr eigi unna bróður sínum jafnaðar, ok eigi vildi hann at hann byggi hjá sèr á Möðruvöllum; samdist þá svâ, at Koðrán bjó í Möðrufelli, hann var maðr efniligr ok vinsæll. Eyólfr var ríkastr maðr fyrir norðan land. Þorvarðr Höskuldsson, Þorgeirssonar goða, bjó þá á Fornastöðum, vitr maðr ok stiltr; Höskuldr hèt son hans, uppvöðslumaðr mikill. Þorkell hèt maðr Hallgilsson, hann bjó á Veisu; móðir hans hèt Solveg Þórðardóttir; Þórðr var bróðir Þorgeirs goða. Rafn Þorkelsson háks bjó þá at Lundabrekku; þessir voru Ljósvetningar kallaðir. Deilur hófust með þeim Eyólfi ok Ljósvetningum, ok þar kom um síðir, at þeir rèðu til bardaga við Eyólf eitt sinn, er hann reið norðr þannig. Höskuldr Þorvarðsson ok Rafn Þorkelsson voru mjök fýsandi fundarins, en Þorvarðr var eigi við í fyrstu, því vináttu-

## *Af sonum Guðmundar ríka ok afkomendum Þorgeirs goða.*

22. Síðan tóku synir hans fè Eyólfr ok Koðrán. Koðrán var manna vænstr, efniligr ok vinsæll; hann óx upp með Hlenni. Haldór Guðmundsson var þá utan farinn, hann fèll í Brjáms orrostu. Eyólfr vildi einn hafa föðurleifð sína, ok unni eigi jafnaðar bróður sínum; Eyólfr var vænn maðr ok miklll. En er Koðrán var fullkominn til aldrs, þá beiddist hann fjárskiptis við Eyólf. Hann svarar: eigi vil ek hafa tvíbýli á Möðruvöllum, ok eigi rísa upp fyrir þèr. Síðan

---

mál höfðu farit áðr í milli Eyólfs ok hans; þó fór svâ, at Þorvarðr kom til fundarins, ok veitti Ljósvetníngum; honum fylgdi Hallr Ótryggsson, dótturson Þorkels háks; fundr þeirra var við hól þann, er nefnist Kakalahóll. Koðrán Guðmundsson kom til liðs við Eyólf bróður sinn, ok var þá hvíld orðin á bardaganum, svâ eigi börðust aðrir, enn þeir, sem sakir áttust við; Koðrân gekk í milli, ok skildi menn; þá hljóp at Hallr Ótryggsson, ok hjó í höfuð honum, ok var þat banasár; Ótryggr faðir hans var þá veginn. Sæzt var á víg Koðráns á Hegraness þíngi, fyrir meðalgaungu Skeggbrodda ok Gellis; voru gjörð 8 hundruð silfrs fyrir víg Koðráns, ok skyldi Hallr utan fara, ok eiga eigi aptrkvæmt; Þorvarðr, Þorkell ok Höskuldr skyldu utan vera 3 vetr. Þorvarðr gekk suðr; ok á meðan hann var utan, drap Eyólfr Þórarinn Höskuldsson á Brettíngsstöðum, bróður Þorvarðs, því hann undi illa við, at eigi skyldu mannhefndir koma eptir Koðrán. Þorvarðr frètti víg bróður síns, þá hann kom sunnan frá Róm, í Saxlandi; hann mælti þá: lángt er nú öxa vorra í milli, ok þat vilja þeir Möðruvellíngar, at þær tæki enn saman, ef ek kem til Íslands, ok verði nú, sem Pètr postuli vill! Skömmu þareptir andaðist Þorvarðr. Eyólfr bætti víg Þórarins stinnum manngjöldum. Hallr Ótryggsson var með Haraldi konúngi Sigurðarsyni, er hann barðist við Hákon jarl Ivarsson; ok er Hallr hjó ísinn, hljóp at honum Þormóðr Ásgeirsson, frændi Möðruvellinga, ok veitti honum bana, sem segir í sögu Haralds konúngs. Deilur Eyólfs ok Ljósvetnínga hófust af því, at Brandr Gunnsteinsson á Ljósalandi barnaði Friðgerði, dóttur Friðgeirs bónda, þíngmanns Eyólfs, ok vildi síðan eigi undirgánga; Brandr var fóstbróðir Höskuldar Þorvarðssonar, ok fèll á Englandi með Haraldi Sigurðarsyni; ok lýkst hèr svâ þessi saga.

hitti Koðrán Hlenni fóstra sinn, ok segir honum svâ búit, at eigi mundi sannlig vörnin, ef ek skal rænast arfinum. Hlenni svarar: ekki kemr mèr á úvart ofsinn Eyólfs, en eigi ræð ek at þú dæmir þik sjálfr af arfinum, heldr gjörir þú hús útfrá garði á Möðruvöllum, ok þat var ráð haft; en þat ráð samdist svâ síðan, at Koðrán bjó í Möðrufelli. Einar Arnórsson bjó þá at Hrafnagili, vitr maðr, göfugr ok ættstórr. Eyólfr var ríkastr maðr fyrir norðan land. Þorvarðr Höskuldsson, Þorgeirssonar, bjó þá at Fornastöðum í Hnjóskadal, hann var fyrir þeim Ljósvetníngum; hann var vitr maðr ok stiltr vel, ok nokkut aldraðr; Eyólfr sendi menn á fund hans, ok bauð honum heim til sín, ok þann kost tók hann. Eyólfr tók vel við honum, ok mælti: undir þínum þokka þikir mèr mest af þínum frændum, ok þótt fátt hafi verit um með oss af hinum fyrri atburðum, þá vil ek nú vingast við þik, ok skaltu þiggja at mèr stóðhest, þessi er hèr beztr í hèraðinu. Þorvarðr svarar: þiggja mun ek hestinn, ok haf þökk fyrir! ok hlýða mun okkr, ef eigi spilla aðrir menn um; hann fór heim síðan. Höskuldr hèt son Þorvarðs, hann var mikill maðr ok sterkr, ok uppvöðslumaðr mikill. Þorkell hèt maðr, hann bjó at Veisu, hann var Hallgilsson; móðir hans hèt Solveig Þórðardóttir; Þórðr var bróðir Þorgeirs at Ljósavatni; með honum var at uppfæðslu Höskuldr Þorvarðsson. Gunnsteinn hèt maðr, er bjó at Ljósavatni, Þórðarson; Brandr hèt son hans; hann var jafnaldri

Höskuldar, ok voru báðir með þorkatli, ok áttu mikit lag við þveræringa. þorvarðr Höskuldsson var maðr óafskiptinn með málaferli; hann bauð nær jafnaði, enda gekk eigi af því. þeir fóstbræðr voru skaplikir, ok urðu hýbýlin skörugsöm, en fátt var um með þeim frændum þorvarði ok Höskuldi, því þeir voru óskaplikir í sínum háttum. Maðr hèt Ísólfr, ok bjó norðr á Tjörnum, hann var þíngmaðr Eyólfs Guðmundssonar; Friðgerðr hèt dóttir hans, hún var væn ok ættgóð ok sköruglig, sýslumaðr mikill. Grímseyíngr einn úngr ok fráligr gjörðist til, ok slóst á tal við hana; en föður hennar gatst ekki at því, ok hitti hana, ok mælti: ekki er mèr um vistir þínar hèr lengr, at í því aukist vor ósæmd; nú sendi ek þik til Eyólfs vinar míns, ok mun hann vel við þik gjöra. Hún svarar: þat er vænligt ráð. Síðan fór hún, ok maðr með henni; ok er þau komu á Fornastaði til þorvarðs, gjörði veðráttu illa. þá mælti þorvarðr: aldrí þiki mèr óvænna at snúa norðr aptr. Hún svarar: þann veg er mèr um farit at, síðan ek fór norðan, at eigi komi ek þar svâ búit; þorsteinn hèt maðr, ok var kallaðr drafli, hann bjó á Draflastöðum: hann er nú norðr, ok mun ek vera þar, meðan óveðráttan batnar ekki. þorvarðr svarar: ek hefi nú ok umrædt slíkt, er mèr sýnist, en ekki kemr mèr óvart, at þessu sè misráðit. Síðan fór hún ofaní dalinn ok á Draflastaði, ok var vel við henni tekit. þetta frèttist brátt; Veisusynir spurðu ok þetta, ok settu[1] þángat

[1]) sóktu, *S.*

leika, ok bar saman tal þeirra fóstbræðra ok Friðgerðar, ok fór hún þángat, ok var þar. þess er getit, at skip kom út í þetta mund norðr, ok ætlaði þat at fara tvívegis; þeir fóstbræðr fóru til skips, ok könnuðust við kaupmenn. þá mælti Höskuldr: þat höfum við ætlat[1], at fá yðr tveim mönnum fleira, enn áðr. Stýrimaðr svarar: er eigi þat þá, Höskuldr! Hann svarar: þat er í ætlan, ef kostr er. Stýrimaðr svarar: þess skal víst kostr; ok tók (Höskuldr) sèr ferju, ok fór síðan heim. Ok er þeir voru mjök búnir, þá heimtu þeir þorkel á tal; þá mælti Höskuldr: við fóstbræðr ætlum utan at fara, en við viljum fá þèr í hendr sókn ok vörn mála þeirra, er okkr snerta, ok höfum votta við. þorkell svarar: fátt hefi ek á móti ykkr látit, en varla sýnist mèr þetta vandalaust, ok kann margt til þess at bera, en þið skuluð ráða; ok þetta gekk fram, at þeir fóru utan, ok voru vel virðir. En Friðgerðr var eptir, ok þótti vera kona sæmilig, ok allmikill gleðimaðr, ok samdi sik mjök hátt[2] með úngum mönnum; hún var verkmaðr mikill ok umsýslumaðr. Hún kom at máli við þorkel: svâ er, sem þú veizt, segir hún, at ek hefi haft umönnun ok verknað hèr, en nú fellr mèr þat allt þýngra, þvíat vöxtr minn er í þrotnan, ok þýngist heldr gángan, en ek hefi eigi þurft annarra hèrtil, en nú þiki mèr þat ráð þurfa, at eigi beri svâ til, ek em nú kona eigi heil. þorkell svarar: hvörr veldr því? Hún kvað Brand valda því. þorkell svarar: þó hefir hann þetta óvinliga gjört

[1]) fèlagar! *b. v. S.* [2]) hætt, *S.*

ok sagt mèr ekki til, er mèr þetta vandsèt mál; hefir hèr verit gleðivist mikil, en þú kona ekki fálynd, ok veit ek ekki, hvort hann veldr þessu, eða aðrir hleypimenn, þóat eigi sè jafnrífligir sem Brandr, ok þiki mèr þeim ólið veitt fóstbræðrum, ef þá skal sanna gjöra at þessu. Hún fèkk af þessu mikla ógleði, ok fór til föður síns; honum eyddist skjótt fèt, ok kvað hún sína ferð óþekkiliga orðit hafa, sem von var at. Hann svarar: eigi hefir vel orðit, enda var ekki góðu ráði til at bregða. Hann gjörði ferð sína á fund þorkels, ok vissi hann gjörla, at hann var kominn þar til hreytíngar, en ekki til bótar; hann brá þorkeli þegar á tal, ok mælti: þat er undir för minni, at ek vilda at þú greiddir málit Friðgerðar, ok sómir yðr þat vel, at eigi standi hèr íllt af, sem von er at hermíngar muni vera; mæli ek til þess, at hún sè með þèr, ok mun ek leggja fè fyrir hana, en sættast hægliga á málit ok vera hægr í biðum, ok mun ek eigi mæla til framaða[1], en vèr sèum eigi ræntir sannendum. þorkell svarar: saklauss er ek um þetta mál, er dóttir þín kona eigi fálynd, ok eigi einn líkligri enn fleiri til þokka með henni. Síðan fór Ísólfr á burt, ok reið leið sína, ok fór á fund Eyólfs Guðmundssonar á Möðruvöllu, ok var þar vel við honum tekit; hann brá honum á tal ok mælti: ekki mun þèr til virðíngar mitt erendi, en þó ætlum vèr til þinnar ásjá, þíngmenn þínir; virðum vèr at gild svívirðíng sè í þeirra tiltæki Hnjóskdæla, hafa sumir hlaupizt á burt af landi,

[1]) framarla, *S.*

er vèr ætlum hlut í hafa þessu máli, en þeir svara öngvu til, er nú eru fyrir mál settir; stóðst þat svâ í fyrstu, at ek ætlaða at senda dóttur mína á fund yðvarn, ok firra hana ámæli vondra manna, en þeir heptu ferð hennar, Brandr ok Höskuldr, ok dvöldu hana til svívirðíngar. Eyólfr svarar: þetta er illa viðkomit, ek vildi undan eyra við Ljósvetnínga, en þó ertu illa viðkominn, ætla ek ráð at hún spari við mik, eða til mín, ek má ekki aka[1] undan öllum fæti, en svâ mun þikja, ef þetta er kyrt. Ísólfr svarar: þann veg mun virðt vera, at eigi haldi þèr sæmdum, nema tilhlutist yðr tignari menn. Ek mun við máli taka (segir Eyólfr), þótt eigi sè vandalaust, ok fylgja honum[2] til mín, ok mun ek þó lítilþægr at yfirbót; vænti ek at þorvarði bezt, ef hans ráð eru höfð, en litlrar sæmdar vænta at öðrum þeim, er hèr eiga hlut í; ok tókust þeir í hendr, ok seldi Ísólfr honum málit.

*Eyólfr Guðmundsson fylgir máli Ísólfs, ok frá skírslu Friðgerðar.*

23. Síðan fór Ísólfr heim ok leið vetrinn. Ok einmánað öndverðan var samkoma at Hálsi í Hnjóskadal, en nú er í Kaupángi. Eyólfr kom seint, ok var þar lokit öllum samkomu málum; var þorvarðr í burt ok bændr. Eyólfr spurði: hvat er títt um ferðir þorvarðs? Honum var sagt, at hann var heim farinn. Eyólfr segir: þat er oss engin gæfa, eða hvort er hèr þorkell Hallgilsson? Hèr er ek, kvað hann. Eyólfr mælti: við höfum vel hitst at málum, eðr hvorsu viltu

[1]) þannig S; taka, A. [2]) henni, S.

svara málum þeirra Friðgerðar ok Ísólfs, en[1] menn kalla yðr endataka-fèlaga; mèr er sagt þú egir sókn ok vörn mála þeirra, er við eru kendir Brandr ok Höskuldr, nú mun ek ekki mikilþægr at um yfirbætr, ef vel er svarat. þorkell svarar: þetta berr breytiliga til, er þú hefir at gánga eptir kvittun óvísra manna; nú mun ek veita fyrst bræðrum mínum eigi ólið, eða sanna þá at því máli, er allir eru jafnlíkligir til samlags við Friðgerði; nú mun ek eigi svara betr, en vita hvör sannendi til eru af þeim, er þèr kennið málit. Eyólfr svarar: þá erum vèr tregari, enn vèr mundum vilja, en ek mun hógliga til mæla: viltu handsala í lögrèttu, ok skíri hún sik, ok handsala faðerni, ef hún verðr skír. þorkell svarar: þúngr verðr hlutrinn vor, ef ek handsala faðerni, en annar verði sannr at, en skírslunnar mun ek ekki varna, sumir kveða þó lángstaðit, ok vil ek handsala rètt presti þeim, er skírslu gjörir. Hann svarar: þat mun ílýsast, at ek vil sættast, ok kýs ek þetta af. Síðan gjörði þorkell svâ, at hann handsalaði presti rètt, ef hún yrði skír, ok eindaga á fènu; skírsla skyldi vera í Laufási, en sá prestr hèt Ketill, er gjörði skírsluna, er kallaðr var Möðruvellíngaprestr; þá var í Skálholti Ísleifr biskup. Síðan fastaði hún; en Eyólfr bauðst nú til at sjá skírsluna, ok kvað auðveldt, at þeir vildi enn tefja málit, ok skal því meiri hug áleggja eptir at sjá. þorkell kom, ok var nú leyst til handarinnar; prestr veitti eigi skjót atkvæði. þá mælti þorkell: því [er nú[2]

1) er, *S.* 2) ertu, *S.*

svâ mikill verrfeðrúngr, at segja eigi, at hún er brunnin? ok nefndi sèr votta at því. Prestr mælti: nú ferr úliðliga, er þið dæmið, ok takið málit fyrir hendr mèr fram, er ek á atkvæðit at veita, ok skal vera enn tilraun önnr skírari. Eyólfr svarar: eigi má skírari vera, en fyrir fjandskap þinn ok mútur, er þú hefir til tekit, þá skal ek heimta sem föðurarf minn. þorkell svarar: vitum vèr þat Ljósvetníngar, at ósparir hafi þèr lengi verit við oss um fjandskapinn. Eyólfr svarar: þèr hófuð fyrri fjandskapinn, en komuð niðr hart eptir verðleikum. þorkell svarar: fyrir þessa sök skal ek láta annathvort allt fè mitt, eðr ekki. Eyólfr svarar: eigi mundi þorvarðr svâ svara, frændi þinn. Síðan skildu þeir at því. þá kom skip at Gásum, ok voru þeir á fóstbræðr, Brandr ok Höskuldr. þorkell hitti þá brátt, ok mælti: heimil mun vist með mèr sem fyrr, þó vandt[1] sè. þeir þágu þat, ok fóru til Veisu. þá mælti þorkell: svâ er nú málavöxtr, at Eyólfr vill bera þik sökum, Brandr! með þeim hætti, at þú hafir legit dóttur Ísólfs, ok mælt svâ ferliga, at hann mundi svâ heimta rètt hennar, sem arfinn eptir Guðmund föður sinn; en ek ætla hún gjöri litt þat eptir sannri raun, þvíat skírslur hygg ek at honum[2] gángi æ[3] til smánar, ok sá ek fyrir[4] hönd hennar ófegri enn áðr, ok sýndist í því fjöllyndi hennar; en Eyólfr vill enn vekja forna óhæfu við oss frændr. Brandr svarar: öngvan greiða mun ek á því gjöra, at ek sè þar í meiri venzlum, enn aðrir menn. þorkell mælti: hvörja

[1]) vondt, *S.* [2]) henni, *S.* [3]) þannig *S;* eigi, *A.* [4]) *v. í S.*

meðferð vilì þèr hafa? því at frændr vorir allir vilja með Eyólfi vera, nema Hrafn þorkelsson frá Ljósavatni, hann bjó þá at Lundabrekku í Bárðardal, hann vænti ek oss sinni eigi síðr, hann skortir eigi vit; kona Hrafns var ættuð úr Guðdölum[1]; nú vænti ek at hann fái til nokkut ráð, at vèr fáum hærra hlut, ok yrði svâ vel, at Eyólfr rèðist norðr híngat, at hann hefir skamtaðar erendi. Höskuldr mælti: auðsýnt er, at vèr stöndum við. Siðan hittu þeir Hrafn, ok bar Höskuldr málit upp, ok mælti: spurt muntu hafa óþykktar svip Ísólfs ok Eyólfs til vor enn at nýu; nú viljum vèr í móti rísa með þínu ráði. Hann svarar: þú segir satt, Eyólfr vill nú gánga yfir alla þjóð, en þeim þikir ekki til vor koma, nema til þorvarðar eins, ok er mèr til nokkrs; en farið nú til Oðslu, ok hittið Ótrygg, ok bindið hann í liði með yðr, ok til vina vorra í Hnjóskadal, því at ek kenni ofsa Eyólfs, at hann mun norðr híngat leita, verum þá viðbúnir ok leynum þorvarð. þat er sagt þat sumar, at Eyólfr átti samkomu í hèraði, ok mælti: þat er yðr kunnugt, at ek em kallaðr höfðíngi yðvarr; nú þiki mèr sem þat muni sannligt kaup með oss, at hvorir veiti öðrum at rèttum málum, ok at þèr styrkið oss til ímóts við mína ágángsmenn, en ek sè yðarr liðsinnismaðr í yðrum nauðsynjum. Mönnum þótti þetta vel sagt. Síðan reið Eyólfr til Hrafnagils til Einars Arnórssonar, hann var virðíngamaðr ok vinr Eyólfs, ok mælti: svâ er því máli háttat, er ek vil ræða við þik: mèr

[1]) Goðdölum, *S.*

er nú at sækja eindagann, en ef ek fer fjölmennr, þá mun ek viðleita at þrengja at þeim með fjandskap, en þorvarðr einn er vægðar verðr. Hann svarar: gamall maðr er hann nú víst, ok góðr drengr er hann, þvíat hann barðist við Girði, þá er hann var með þórólfi, er honum vel varit, hann er varúðigr ok mikill fyrir sèr, ok þvíat eins dugir þeim frændum, ef hann sezt fyrir málit; er þat mitt ráð, at þú farir með 18da mann, ok seg, at þú farir eptir fángi til Flateyjardals. Siðan bjóst Eyólfr, ok með honum þorsteinn rami af Arnarstöðum, ok þórir, son Finnboga hins rama, heimamaðr hans; veðr var hvast, er þeir riðu á Vaðlaheiði. þeir komu á Draflastaði til Atla bónda, hann var maðr auðigr ok þíngmaðr Eyólfs; þeir komu síð, ok var vel við þeim tekit. Bóndi spurði um ferðir Eyólfs. Hann kvaðst ætla út til Flateyjardals: en þú skalt vita hvat undir býr; ek vil at þú gjörir mann yfir til Veisu, ok vita hvat þar er heima manna. Bóndi var fámálugr. Eyólfr mælti: því ertu svâ fálátr? Atli svarar: ek væri glaðari, ef þú værir með 100 manns. Eyólfr svarar: vel er þat mælt, eðr veiztu nokkut til tíðenda frá Veisu? Hann svarar: ekki nema kyrt, en ekki er þeim um þik. Eyólfr bað hann senda húskarl sinn til Veisu, ok vita hvat til tíðenda væri. Hann gjörði svâ. Húskarlinn kom til Veisu. Höskuldr stóð úti í dyrum, ok mælti: snemma ertu á fótum, fèlagi! ok brá honum til glímu, ok kvað hann hafa vanda til at glepja konur[1], ok tók

[1]) vorar, *b. v. S.*

hann at reika á fótunum; hann ætlar þá at gánga at öðrum dyrum, ok var Brandr þar fyrir ok mælti: eigi muntu hèr inn gánga, sofa vill hún; en þeir reiddu hann aptr ok fram eptir vellinum, ok rifu af honum klæðin, ok varð hann því feginn, at hann komst á burt. Síðan fór hann heim, ok spurði Eyólfr at um ferðina. Hann lèt hana orðna illa: voru þeir fóstbræðr úti, ok ætla ek þeir hafi grunat mik, ok gjörðu mèr atfarir margar, ok rifu af mèr klæðin, ok voru hurðir aptr fyrst, er ek kom, ok fèkk ek þó sèt frá hurðinni, hvat tíðt var inni, ok gruna ek at fjölmenni muni fyrir, ok þeir hafi njósn af um ferðir þínar. Eyólfr svarar: eigi er þat ólikligt. þat var síðan vanr at mæla þorvarðr þorgeirsson, þá er hark var haft: höfum nú Veisubragð. Atli mælti: slíks grunaði mik. Eyólfr svarar: eigi er förin góð svâ búit. Atli svarar: ek býð þèr 10 menn vel búna, ok far aptr, ok legg eigi menn þína í hættu.

*Frá fundum þeirra Eyólfs ok Ljósvetnínga.*

24. Síðan riðu þeir Eyólfr at ánni; þá sjá þeir at menn riðu frá húsunum, ok eigi færri enn 70, ok lètu þeir þegar drífa at þeim grjót, ok voru þeir menn Eyólfs dumpaðir illa um herðarnar, ok snèru þeir aptr. Atli kvað farit hafa, sem hann grunaði. Eyólfr mælti: nú skal senda eptir Odda Grímssyni í Höfða, vin vorum, ok svâ var gjört; menn voru ok sendir til fjarðarins eptir mönnum. Ok er þeir Koðrán ok þóroddr heyrðu þetta, mælti Hlenni: lángsærr hefir Eyólfr verit

nú, ok snèrust menn vel við, ok voru menn meir vanir at harðfengi, enn fjölda. Oddi brást þegar við, ok fór með 10da mann, ok reið Eyólfr þegar í mót honum. Þá mælti Oddi: hvort gjöra Ljósvetníngar þèr eigi greiðfært um vöðin, eðr hvör er ætlan þín um ferð þína, er svâ er stofnuð? Eyólfr svarar: ek ætla at ríða at þeim aptr [á annat[1] land ok þar eigast[2] við. Oddi svarar: mikilmannligt er þat, ok eigi ráðligt, mun þeim eigi þikja þúngt falla at svâ búnu. Eyólfr mælti: hvat leggr þú til? Oddi mælti: ríðum hart fram at ánni, en þá skulum vèr snúa upp til Hestavaðs, þar er mikit djúp at landi; þetta var allt fyrir, áðr þeir Koðrán komu, ok ríða þeir nú til vaðsins. Þetta sjá Veisumenn, ok rèðust í móti, ok þraungdust at vaðinu, en þeir snèru þá hestunum uppmeð ánni. Þá mælti Hrafn: bragð hitta þeir nú í. Höskuldr svarar: látum þat fyrir lítit koma, ok rennum upp á móti; ok svâ gjörðu þeir, ok snúa Ljósvetníngar at, ok ríða útá ána, en hinir ríða undan; skauzt hestr Eyólfs í kaf, en þeir Þorsteinn ok Þórir tók sínu megin í brjóstgjörðina hvorr[3]. Þá mælti Oddi: eigi gengr nú fram, Eyólfr! ok snúum aptr. Eyólfr svarar: aldrí skulum vèr nú undan fara. Höskuldr snèri at Odda örðigum, er þeir snèru hestunum, ok nam axarhyrnan í milli herða honum; þeir komu aptr til sama lands. Þá mælti Oddi: eigi sækist skjótt reiðin, Eyólfr[4]! eigi munum vèr enn skildir. Þá var enn mönnum hleypt

[1]) *tekið úr S; v. í A.* [2]) *þannig S;* eignast, *A.* [3]) ok höfu svâ upp hestinn undir Eyólfi, ok snèru aptr, *b. v. S.* [4]) mælti, *b. v. S.*

til fèránsdóma á hvörn bæ. Síðan báru Ljósvetníngar ráð saman; þá mælti Höskuldr til Hrafns: hvat liggr nú til, frændi! eða þiki þèr ekki ráð, at vèr förum í móti þeim til þriðjúngavaðs, þvíat þángat munu þeir leita? Hrafn svarar: til er slíkt, en þess get ek, at nú leiti þeir þángat til, er þeir hafa meira traust enn nú; þat er nú ráð mitt, at gjöra njósnarmenn til þriðjúngavaðs ok á þíngmanna leið, at sjá ferðir manna. Höskuldr svarar: þat munum við Brandr gjöra fóstbræðr, en þá var víða skógi vaxit. þeir sjá at menn fóru at Beljarskarði, ok snèru aptr síðan, ok sögðu mönnum sínum. þá mælti Hrafn: nú erum vèr farnir, nema þorvarðr ráðist í. Höskuldr mælti: þat mun yðr ráð þikja, at ek fari á Fornastaði, ok biði þorvarð liðs; hann gjörir nú svå, ok kom á Fornastaði; hann gekk inní stofu, hún var skipuð öll af mönnum, þat voru frændr ok vinir þorvarðs. Höskuldr mælti: skjótt er mitt erendi: liðs er þörf, vèr munum skjótt ofrliði bornir af Eyólfi, nema vèr njótum þín at, ok sagði honum hvorsu farit hefði. þorvarðr svarar: síð hefi ek at þessum málum kvaddr verit, mundi vera hógligar at farit, ef ek rèða; nú fýsi ek ekki mína menn at fara í heimsku þessa. Höskuldr mælti: eigi skal lengi lítils biðja þik, ok muntu lítit veita ok óhallkvæmt, en aldrí skal ek við þá skiljast. þá tók kona þorvarðs til orða: hitt er at líta, at til þín muni koma þikja, ef Höskuldr er drepinn, ok er eigi betra eptir at mæla. þorvarðr svarar: veit ek ákafa

kvenna, en gott man at hepta vandræði þetta. Hún svarar: þú munt illa mæla eptir hann dauðan, er þú þorir eigi at veita honum lifanda, en eigi skal ek þá annann ala son, ef þú selr þenna undir vopn. þorvarðr svarar: er eigi þat ólíkligt, at opt standist ráð yðar kvenna, ok látið búinn náttvörð nokkrum mönnum í kveld, ok spratt upp. Hún svarar: ek skal þat annast. En þorvarðr sendi mann á fund Gunnsteins, ok svâ til Ótryggs, er átti Guðrúnu, dóttur þorkels háks. Hallr Ótryggsson var á þverá í Hnjóskadal með konu þeirri, er þorgerðr hèt, ok gekk at sauðum þann morgin, ok hafði skipt verkum við þann, er fjár geymdi, því hann var opt á Grítubakka í Höfðahverfi, ok hafði þar sláttu; hann fór uppí dalinn. Ótryggr faðir hans var þá gamall, ok þó hinn vaskasti; honum komu orð þorvarðs at nýu, ok þá er sendimaðr kom, var hann at höfuðþvætti, ok kvað eigi búinn. þá mælti Guðrún: satt var þat, at þorkell hákr var mèr skyldr, en ekki skyldr þèr, enda skal ek fara. Ótryggr svarar: mèr sómir förin, enda skal ek fara; fór hann þá síðan til þorvarðs. Gunnsteinn fór til fundar við þorvarð; þá kom at þræll hans, ok bað hann at fara. Gunnsteinn mælti: þú skalt heima vera, ok halda hýbýlum upp. þrælinn svarar: hvat sèr þú þat á mèr, at ek skal heima vera? nú mun ek þó fara, ok hirða ekki um fè þitt; svâ skal vera, sagði Gunnsteinn. þeir þorvarðr fóru nú með 70 manna, ok fóru tveimmegin árinnar. Nú var ekki varit Eyfirðíngum vaðit; þeir Koðrán komu ok þór-

oddr, Hjálmr ok Einar Arnórssynir, ok höfðu mikit lið; þeir komu til hóls þess, er kallaðr er Kakalahóll, þar var mýri blaut ok lækjarfall, ok stöðvaði þar fyrst áhlaup manna. Á aðra hönd Eyólfi stóð Oddi Grímsson, hann var sköllóttr ok gamall; Koðrán hafði einn sèr lið. Þeir Þorsteinn hinn rami fylgdu Eyólfi allra fastast, er Eyólfr veik undan â mýrina, ok lá hestr hans í feni, ok hljóp af baki, ok snýr at Þorvarði, ok tóku til at berjast í sólar upprás; Ótryggr snèri þegar at fram. Þorvarðr virðti, sem Eyólfr vildi þar at eins til snúa, sem honum þætti næst standa hefndinni. Eyólfr íhugaði at Þorvarðr hefði vitat óþokkann þeirra á milli. Þá mælti Ótryggr: Hjálmr inn úngi! hvörr skal hèr í dag víg vekja? Hvörr nema þú, Háks mâgr! Síðan tókust áhlaup mikil. Ótryggr lèt sem hann sæi öngvan mann, nema Eyólf. Þorvarðr var ekki í fyrstu bráðorðr. Ótryggr lagði spjóti til Eyólfs, en Eyólfr var í skarlatskirtli rauðum, ok hafði drepit upp skautunum, en Ótryggr lagði felina, en Þorsteinn hinn rami laust ofaná axarhamrinum svâ hart, at fal eggina spjótsins. Ótryggr laut eptir; en er Eyólfr sá þat, þá lagði hann Ótrygg í gegnum með spjóti; hann snaraðist við, ok fèll í lækinn, ok dó þar; þá frýðu menn ei Þorvarð fram. Stari hèt maðr, er var með Þorvarði; hann átti Herdísi, dóttur Haldórs Guðmundssonar, bróður Eyólfs; hann var son Þorgerðar Tjörfadóttur, ok var hann beggja vinr. Þorvarðr gekk hart fram, ok bar hann yfir Ótrygg; þá rann Stari á hann, ok hèldt hon-

um; ok í því hjó Eyólfr á þumalfíngrinn á honum, ok loddi köggullinn í sinunum. þá mælti þorvarðr til Odda frá Mývatni, hann var sonr þorgeirs öxarstafs Grenjaðarsonar, ok kominn frá Fjall-Oddi; hann átti Vigdísi, systur þorvarðs. Síðan hljóp Oddi at Stara, ok gaf honum axarhamars högg, svâ at fætrnir horfðu upp. þorvarði hrumdi sárit, ok vildi snara af sèr fíngrinn. þá mælti Oddi: lát lafa, muna þeir mein, er þiggja, er þú kemr heim jafnan, ok svâ gjörði hann. Höskuldr þorvarðsson gekk í móti Odda, ok áttust þeir við. þá mælti Gunnsteinn: fremstr vill Höskuldr frændi vorr vera, ok er ráð at fylgja honum vel, er þó er margr um einn. þá mælti þorsteinn, heimamaðr Gunnsteins[1]: ekki er í hættiligra lagi hjá þèr í dag, bóndi! er þú berst við hann þveræríng, Einar Járnskeggjason; nú mun ek ráðast fyrst í burt; síðan snýr hann at með húskarla 4, ok setr í höfuð Odda, ok var þat svöðusár í enninu, ok blæddi mikit; þá spratt hann upp, ok mælti: búinn em ek at berjast. þá mælti þorsteinn skuldarmaðr: nú mun ek í burt, Höskuldr! ver nú hendr þínar þórálfr! hèðan frá. Brandr gekk vel fram Gunnsteinsson. Nú er at segja frá Halli Ótryggssyni; hann kom til Ness, ok var jökulbarinn; hann spurði, hvort at sauðamaðr væri heima. Konur svöruðu: hvat mun þèr undir því um sauðamann, viltu eigi tilráðast, er frændr þínir berjast[2]? Hallr mælti hratt: fáið mèr heldr vopn nokkut! Síðan tóku þær viðaröxi eina ok fengu honum; ok er

[1]) *þannig rèttara S;* Eyólfs, *A.* [2]) ef þorir, *b. v. S.*

hann kom aptr at, stóð hann, ok mælti: hvat er hèr tíðenda? Maðr svarar: sèr þú eigi, at faðir þinn er veginn, ok liggr hèr fyrir fótum þèr? ok Eyólfr Guðmundsson vó hann. Síðan gekk Hallr fram. Koðrán gekk í kvíuna, ok skildi menn, ok var þá svâ komit, at þeir einir menn börðust, er sakir áttust við, ok stóðu velflestir, ok þurfti enginn meir at skilja þá; en Koðrán tók sinni hendi hvörn þeirra, ok skaut þeim svâ tveggja vega frá sèr; í því hjó Hallr í höfuð honum; þá kallaði maðr: þar fór nú einn bezti maðr úr Eyjafirði. Hallr mælti: var Guðmundsson, þóat góðr væri. Koðrán var þá borinn í burt á skildi, ok bundin sár hans, þvíat Ljósvetníngar voru við skóg nokkrn. Eyólfr eggjaði nú fast, at hvörr dygði, sem mætti. Þá svarar Þóroddr ok Hjálmr: þat hugsar þú nú, Eyólfr! hvat gjört er, en miðr hyggr þú at vægja bróður þínum, er nú ok veginn húskarl Einars á Þverá. Eyólfr svarar: tjaldið um Koðrán, ekki nenni ek at leita honum hèr lækníngar, ok skal færa hann til Svalbarðs til Þorvarðar læknis. Þá sögðu ok menn, at Hrafn gætti ekki miðr skógarins, enn fundarins. Þá mælti Hrafn: þat er ráð, at fela sik í skóginum, ok þat annat, at segja Þorvarð sáran til ólífis. Þá svarar Höskuldr: þat er örrugt ráð ok fjærri skapi föður míns, en ræða má ek þetta við hann, ok svâ gjörði hann. Þorvarðr svarar: seg þú honum þau mín orð, at hann segi svâ vesalan sem hann vill, en ljúgi ekki á mik, ok þar liggr á mín reiði. Nú var framorðit dagsins; Eyólfr eggjaði atgaungu. Hrafn hafði verit um nóttina

á Hálsi, ok kom utan úr Flateyjardal, ok var þat meirr af atburð, enn honum þætti þar allgott. Hrafn fann Eyólf, ok mælti: sá fundr hefir harðr verit, Koðrán sárr mjök, en Þorvarðr óvígr, ok er einsætt at hætta. Þá mælti Koðrán: já skilið nú! ekki mun mik saka. Síðan skildu þeir. Eyólfr vissi eigi, hvorsu mjök Koðrán var sár. Ok er Þorvarðr spyrr þetta, mælti hann: heyrðu á endimi, at ljúga til sára manna! verði fundr sá, sem auðnar, erum vèr seinir til óhæfu, en skilja eigi nú fyrr, enn öðrum þikir mál. Ekki urðu menn til þess, at segja Eyólfi þessi orð. En þeir Eyólfr fóru til Svalbarðs, ok fundu Þorvarð[1] lækni, ok leysti hann til sársins; Eyólfr spyrr, hvorsu honum segði hugr um. Hann svarar: ef Koðrán hefði kyrr verit, þá væri von í, en nú er engi. Eyólfr svarar, at honum mætti á[2] einum fíngri dreira vekja. Síðan var eldr gjörr, ok afklæddust þeir þar við; Eyólfr mátti eigi komast úr kirtli þeim, er hann var í, svâ var hann þrútinn; en Koðrán andadist um nóttina, ok hörmuðu menn þat mjök; hann var færðr inn til Eyjafjarðar, ok búit vel um hans líkama.

*Liðsafnaðr til eptirmála.*

25. Síðan er sagt frá Ljósvetníngum, at Þorkell Hallgilsson[3] mælti: bjóða vil ek öllum mönnum til mín, sem hèr hafa verit viðstaddir, nema Halli Ótryggssyni. Gunnsteinn mælti: slíkum orðum vil ek mæla. Þá mælti Þorvarðr: ek vil bjóða öllum til mín í kveld, ok fyrst Halli Ótryggssyni, er skömm hefir af oss fengit ok höggit, ok skal

[1]) Þorbjörn, S. [2]) *hèr byrjar 3ðja brotið af C.* [3]) *b. v. S.*

eitt yfir oss gánga. Síðan fór þorvarðr heim með allan flokkinn á Fornastaði, ok mælti: hitt er nú, húsfreyja! at leysa beinann af hendi. Hún svarar: eigi mun skorta beinann í kveld. Höskuldr þorvarðsson var kátr, ok veitti mönnum beina, ok mælti: faðir! hvort skal skipta mönnum at mannvirðíngu, eðr eptir framgaungu? Hann svarar: Hrafn skal mèr næstr sitja. Hallr hvarf í eldhúsdyrum, ok vissu menn eigi um nóttina hvat af honum mundi orðit, en hann var þá í eldhússkoti at baki þorvarði. Síðan sendi hann orð þíngmönnum, ok mælti, er þeir komu: nú höfum vèr hitt í stór vandræði, ok munum vèr nú ráða viðþurfa, skal ek nú senda menn fyrst til Eyjafjarðar með boðum til Eyólfs; hann gjörði svâ. þeir sögðu Eyólfi, at hann vill gjalda tvö hundruð silfrs fyrir Koðrán, ok utanferð Halls, ok kæmi hann aldrí út. Eyólfr mælti: ekki ætla ek at hafa þenna dóminn þorvarðs í bróðurbætr, ok neita ek þessu. Sendimenn fóru aptr. Eyólfr sendi menn til allra höfðíngja at biðja þá liðveizlu, ok svâ vestr til Gellis vinar síns, at hann fjölmennti til Hegraness þíngs. Gellir var góðr drengr, ok bauð hann Eyólfi eyri silfrs fyrir nef hvört, ok hvörjum höfðíngja, er til þíngs riði, hálfa mörk; hann sendi menn til sona Eyðs í Ási í Borgarfjörð, ok bauð þeim fè til liðveizlu, ok svâ Guðdælum; þá var umræða á, at Hrafn mundi þar fyrir sökum hafðr, þvíat honum þótti ekki mannhættligr verit hafa fundrinn; vel flestir höfðíngjar hètu honum[1]

[1]) Eyófi, C.

liði. Hárekr hèt maðr, er bjó at Ási í Kelduhverfi, hann âtti þorgerði, dóttur þorvarðs, hann var þíngmaðr Skeggbrodda; þorvarðr sendi hann austr til Skeggbrodda at biðja hann liðs: ok vil ek gefa honum gullhríng. Skeggbroddi átti Guðrúnu, þórarinsdóttur sælings ok Haldóru, dóttur Einars at þverá. Eyólfr sendi menn þángat, ok gistu at Hrafns at Lundarbrekku, ok mælti til vináttu við hann, ok kunni hann eigi um sakir skyldast við, ok[1] vera í öngri ráðagjörð með þorvarði, ok sendi[2] Hrafni hálfan eyri gulls; ok er sendimenn komu, tók hann þenna kost; ok síðan hittu þeir Skeggbrodda, ok báru fyrir hann málit. Hann svarar: ekki veit ek um liðveizlu þá, lítinn sóma hafa þeir gjört frændkonu sinnar Möðruvellíngar, enda munu þeir eigi þurfa lið úr Austfirðínga fjórðúngi, en koma mun ek til þíngs, en liðinu heiti ek öngvu. þeir fóru aptr, er sendir voru.

*Draumr Eyólfs, ok för þeirra þorvarðar til Vallnalaugar þíngs.*

26. Síðan kom Hârekr austr til Skeggbrodda, ok bar honum kveðju þorvarðs, ok sýndi honum hrínginn. Hann svarar: spurt hefi ek málaferli þeirra, en þat hefir ek mælt, at ek mun þeim veita, sem færri eru, en hríngrinn mun dveljast eptir. Síðan komu þau í rekkju hjón; þá mælti hann: gesti egum við, Guðrún! Hún svarar: hvört er erendi þeirra? Hann svarar: þorvarðr sendir þèr hríng þenna, at þú værir ekki í móti honum. Hún svarar: ekki virði ek hrínginn svâ

[1]) menn, ok báðu hann, *S.* [2]) Eyólfr, *b. v. S.*

mikils, at ek virði þik ekki meirr, ok veit ek at þèr er sendr hríngrinn til liðveizlu. Hann svarar: koma mun ek ok til þíngs. Nú fóru sendimenn á burt. Eyólfr átti sèr fóstra; Eyólfr var hljóðr mjök um vetrinn ok íhyggjusamr; ok einn morgun kom hann í stofu, ok mælti: dreymt hefir mik í nótt: ek þóttist ríða norðr Háls, ok sá ek nautaflokk koma í móti mèr, þar var í oxi einn mikill rauðr, hann vildi illa við mik gjöra, þar var ok graðúngr mannýgðr, ok margt smáneyti; þá kom yfir mik þoka mikil, ok sá ek eigi nautin. Fóstri hans svarar: þat eru mannafylgjur óvina þinna, ok oxi fylgir þorvarði, en graðúngr Halli, en þat, er myrkr kom yfir, sè ek eigi fyrir annann enda um mál yðar. Eyólfr bjó mál til, ok bannaði þat enginn maðr; þá riðu þeir, ok var ill færð um fjöll, ok var fèfellir mikill. þorvarðr hitti vini sína, ok mælti: man ekki þat ráð, at snerpast[1] við um þíngförina? ef þèr villið mèr lið veita, þá sè ek ekki til vænna, enn menn fari, ok hafi tvennir saman hest, því ek veit at Eyólfr mun fjölmennr. Menn urðu vel við, ok fèkk hann vígliga 100 manna; þeir fóru degi fyrr, enn Eyólfr, ok fóru Öxnadalsheiði, ok ofan Norðrárdal, ok áðu í Svínanesi. Eyólfr hafði nærri 300[2] manna, þar voru í för þóroddr ok Hjálmr[3], ok Einar þveræríngr; ok er hinir ríðu úr Svínanesi, riðu þeir Eyólfr í nesit. þá varð þeim þorvarði farartálmi, at klyfbera bandit brast í sundr, ok fóru

1) *þannig C, S;* sneipast, *A.* 2) *þannig líkl. rèttara C;* 30, *A, S.* 3) *þannig C, S;* Hjálfr, *A hèr.*

ofan klyfjar. þorvarðr mælti: hvat er nú til ráða, Hrafn frændi? Hann svarar: ekki sè ek annat til, enn hafa sik undan. [þorvarðr svarar[1]: [eigi er þat[2] drengiliga skilist við menn sína, ok er nú verra, enn fyrr, at hitta Eyólf? ok þótt þá væri hlýdt ráðum þínum, þá mun ek nú eigi hlýða þeim, ok voru hinir þá ekki búnir. Einar sâ þá, ok þótti búit til mikils voða, ok leitaði sèr fángaráðs, ok reið fram hjá Eyólfi, ok mælti: sjái þèr flokkinn þeirra þorvarðs? Hann kvaðst sjá, ok sýnist mèr sem skamt muni verða til fundar vors. Einar svarar: hvar kemr fè þat, er þú hefir heitit höfðíngjum til liðs þèr? Eyólfr svarar: ekki mun nú illa fallit, at vèr reynum með oss, ok vill fram ríða. þá brá Einar öxi â söðulgjörðina, ok gekk Eyólfr af baki, ok varð þá dvöl á eptirreiðinni, en þeir þorvarðr riðu undan. þeir Eyólfr riðu á Silfrastaði, en þeir þorvarðr riðu ofan eptir hèraðinu á Miklabæ; þá reið maðr í móti honum. þorvarðr mælti: þú stefnir til vor. Sá mælti: hvar er þorvarðr? sagði hann, þorgerðr húsfreyja bauð þèr heim. Hann svarar: hafa munum vèr þar náttverð, ok ríða síðan til Vallalaugar, svâ at vèr komum til þíngstaðar fyrri. þorgerðr var ekkja, ok hafði hana átt Haldór, bróðir þorvarðs. þá mælti húsfreyja: nú hafi þèr vel gjört, sèt hýbýli mín; nú vil ek fá yðr tjöld ok viðu, ok 30 manna vist. Hann svarar: sýnir þú stórmennsku þína, en ekki eru gistíngarlaunin; [en eigi[3] skulu þeir fara, ok leggja þá[4] í hættu, en annann beina munum vèr þiggja;

[1]) *b. v. C, S.* [2]) er þá, *C.* [3]) *þannig C;* ok, *A, S.* [4]) þat, *C.*

svâ var gjört; þeir tjölduðu ágæt herbergi við þínghelgi til vægðar við Eyólf.

*Málalokin á Vallalaugar þíngi.*

27. Eyólfr kom á þíng með miklu fjölmenni, ok átti öllum mönnum búðarrúm at fá, ok var þat mikill mannfjöldi. Gellir kom at vestan með 200[1] manna; ok er þeir riðu á þíngit, þá skipuðu þeir svâ liðinu, at hvörr rann eptir öðrum, ok þótti mönnum þat frágerða lið til at sjá, ok störðu menn á, en einn var sá maðr, er þeim fannst einna mest um, er á baki var; þat þótti mönnum lýtit á, at þeim sýndist hann ríða folaldi. Ok er þeir stigu af baki ok hestar voru lausir látnir, þá þótti sá hestr miklu mestr, er sá maðr hafði riðit, er þar var kominn, en þat var Skeggi hinn rami, bróðir Álfs úr Dölum. Ok er menn höfðu eina nótt á þíngi verit, þá sáu þeir ferju á firðinum, ok 12 menn á, ok einn í [vararskinns úlpu[2], ok um utan í blárri kápu, ok hafði verit hvast veðr; þeir voru afburðarmenn á at líta, ok bar þó höfðínginn af öllum. Þeir Eyólfr gengu upp í móti þeim í lendíngu, en þeir Þorvarðr gengu þar í móti þeim, er verra var upp at gánga, ok er þeir höfðu hlaðit seglum; síðan rèð Skeggbroddi á liðit, ok mælti: híngat munum við fara í lið þessara. Þorvarðr mælti: kom þú nú heill! ok kunnum vèr allir þökk, at þú farir til búðar með oss; þeir gjöra nú svâ, ok var þar rædt um við Skeggja, hvorsu fúss at hann mundi gánga í móti Skeggbrodda, ef saman lysti liðinu. Þat

[1]) *þannig likl. rèttara í C;* 20, *A, S.* [2]) varskinns-ólpu, *C.*

ætla ek eigi (segir hann), at mèr endist[1] afl við Skeggbrodda, er þó hugr, en hamíngju[2] uggir mik at ek hafi eigi við honum. Síðan var rædt við Skeggbrodda þetta sama mál. Hann svarar: mikil von er mèr á, at Skeggja skorti ekki afl, en þat ætla ek þó, ef svâ væri tilskipat í voru liði, sem hèr er, at Þorvarðr yrði eigi aflvani. Morguninn eptir gekk Skeggbroddi til búðar Eyólfs, ok var engin blíða við hann af Eyólfi. Skeggbroddi mælti: er þat vænst at sættast? Eyólfr mælti: má sem vill. Skeggbroddi svarar: fast er nú fyrir, ok gengr til ok hittir Gelli vin sinn. Þá mælti Skeggbroddi: fastliga horfir ræða Eyólfs. Gellir mælti, góðan málahluta Eyólfs. Skegbroddi svarar: Þat sómir vel, enda væri þá nokkrsstaðar: eru með okkr þeir[3] menn, er eiga hèr í hlut, at aukast munu vandræði, ef þeir verða sekir, ok mun þá meiri vandræði um at tala, enn fyrr um; sækjum nú báðir eitt ráð, ok fríum menn óhöppum. Gellir svarar: ek veit vilja Eyólfs, at hann vill sjálfr ákveða ok fjársektum ráða, vill hann eigi sættast við Þorvarð, ok Brandr ok Höskuldr, Þorkell ok Hallr fari utan skógarmenn ferjandi. Skeggbroddi svarar: ek veit ok vilja Eyólfs, at hann vill at hann gjöri einn um fjársekt milli þeirra, ok eigi þeir eigi útkvæmt, nema Hallr, ok vilda ek sá burtgjöri væri lagðr fyrir okkr, at ákveða mannsektir. Gellir mælti: mundu fyrst, hvat fyrir komi! Síðan hittu þeir Eyólf, ok mælti Skeggbroddi: óráðligt

[1]) meir, *b. v. C.* [2]) hamíngjan ræðr, *S.* [3]) *hèr endar 3ja brotið af C.*

er enn at vilja eigi sættast, þvíat eigi munu allir á móti þorvarði gánga, láttu mæla um Gellir við sannvini hans. Eyólfr svarar: ekki sè ek þat, at ek muni skyldr til vera, at virða þinn vilja. Skeggbroddi svarar: svâ er lítit mitt traust, nú hefi ek ekki vígsgengi at veita mínum mönnum, en þó skulu nokkrir tannsárir verða, áðr enn þorvarðr er drepinn. þá svarar Gellir: þá ferr illa málahlutrinn vorr, ef vandræðin aukast, ok þó Skeggbroddi hafi nú fá menn, þá sómir eigi at fyrirlíta[1] hann. Höskuldr[2] svarar: eigi horfir þorvarði vænliga dómrinn. þá var um rædt, at dómar mundu útfara, ok treysti Eyólfr fjölmenni sínu, ok bað fylkja við dóminn, meðan þeir hefði fram mál sín: en ætlum þeim í kvíarnar at gánga, ef þeir vilja. Ok er þorvarðr spurði þetta, mælti hann: hvat liggr nú til? mun þat eigi betra ráð, at við berjumst, ef vèr erum áðr sektaðir? tökum til vopna, en sumir færi heim hesta, þvíat fundr sá mun verða, at í burt munu komast nokkrir; svâ gjörðu þeir, ok snèru at hart. Dagr hèt maðr, er var með þorvarði, ok átti Sigríði, dóttur þorgeirs goða; hann gekk fyrstr, en þá 5 saman, ok þá 10, ok skipuðu liði sínu öllu, þvíat fáum var þekkt í þeirra liði at fara seint. þá mælti Skeggbroddi til Gellis: hèr kemr illa í hald, at góðir menn margir eru hèr viðstaddir; þú ert fjölmennr mjök, Gellir! ok vel vingaðr við Guðdæli, snú svâ til fjölmenni þínu, at þú verðir betri drengr af, ok fyllum báðir einn flokk, ok gaungum í milli þeirra, snú-

[1]) fyrirláta, *S.* [2]) þannig *S;* v. í *A.*

umst at með þeim, er okkar orð vilja virða. Gellir svarar: nú er skipt með okkr, þú hefir drengskapinn, en ek fèt. Síðan gengu þeir með dómum með liði sínu, áðr enn málaferli færi fram, en þá var svâ komit, at hvorutveggju var búinn at berjast. Þá mælti Skeggbroddi: má Eyólfr heyra mál mitt? Heyri ek, segir hann. Skeggbroddi mælti: hèr horfir óvænt, at menn skuli hèr berjast fyrir þitt tilstilli, kalla ek þat heldr bezt ráð, at hvorr sætti sína menn. Gellir segir: öllum er þat auðsætt at sjá, at verstr hlutr er, at berjast, ok mun ek bjóðast til, at gjöra um málin. Eyólfr svarar[1]: mun eigi[2] þeim draga[3], er drengrinn er beztr, ok gef ek þèr eigi fè til afrkosta. Gellir mælti: þá at þessu[4] mjök ráð vanda[5], er þú verst nú fyrir, ok snýst í móti Þorvarði. Þorvarðr mælti: hvat vill þèr nú gjöra, Gellir? ferr þú nú mjök, en friðarmenn skulum vèr. Gellir mælti þá: meir hyggr þú nú at ofrkappi, enn forsjá, er þú gengr at, slíkt ofrefli sem fyrir er; gángið eigi at dómum svâ, at þreyngt verði at yðr. Þorvarðr svarar: þat er eigi örvænt, at þeir unni oss jafnaðar um höggit, en verra er þó, at vèr sèum fyrr sakteknir, en drepnir síðan. Skeggbroddi svarar: mun eigi annat rèligra[6], enn færa menn í slík vandræði? ok sættast heldr. Þorvarðr svarar: óvanr em ek, at láta draga alla sæmd úr hendi mèr. Skeggbroddi mælti: hyggr þú nokkut at þessu, hvat at er? Þótt ek veiti þèr lið, þá eru þó

---

1) *þ. v. S.* 2) ek, *S.* 3) duga, *S.* 4) er, *þ. v. S.* 5) vandanda, *S.* 6) ráðligra, *S.*

margir á móti, sýnist mèr svå betr, at þú munir játa vorum ummælum. Hann svarar: ek skal játa. Síðan stöðvaðist liðit, ok var þá framgengit, tóku þeir þar tal við. þá mælti Eyólfr: hví mun nú eigi ráð, at snúa til loka máli voru? Skeggbroddi svarar: þat er einsætt, en láta Gelli fyrirsjá um sinn, en þèr mun ekki gjöra at meira mein. Eyólfr svarar: hví mun hann meirr kunna, enn allir aðrir? Er þetta mál um síðir lagt undir Gelli, ok skyldi hann kveða á mannsektir, en þeir sögðu þat upp, at allir menn skyldu eiga aptrkvæmt, nema Hallr.; þat líkaði Eyólfi illa. Gellir gjörði 8 hundruð silfrs [fyrir Koðrán[1], en þat stóðst á, víg Ótryggs ok atfarir þeirra Höskuldar í fyrstu við Eyólf; áverkar þorvarðs ok Odda voru líkir kallaðir; víg húskarls Einars Guðmundarbróður var bætt fè; þorvarðr skyldi vera utan 3 vetr, þorkell, Brandr ok Höskuldr, en Hallr eiga ekki utan von. Síðan var mælt fyrir trygðum, ok fè uppgoldit. Eyólfi þótti sinn hluti til lágr, ok stóð þat meira af kappi, ok drap ókæti fyrir honum mest.

*Frá Eyólfi, þorvarði, ok Halli Ótryggssyni.*

28. Skip stóð uppi í Svarfaðardals ósi, er átti Kálfr enn kristni. þorvarðr ætlaði sèr ekki heim, ok fór til skips, en þeir frændr skildu ekki, sem fyrr voru nefndir, ok höfðu tjald á landi. þorvarðr skoraði á Kálf um skipkaup. Hann mælti: eigi mun skipkaup fyrr ráðit, enn þú skipar at helmíngi, þvíat þèr mun þat bezt líka.

[1]) *þ. v. s.*

þorvarðr kvað svâ vera skyldi. Hrafn þorði eigi eptir at vera, ok vildi hann fara með þorvarði. Eyólfr spurði þetta, ok íhugaði hvat látit var, ok reið í Hlíð til þorkels vinar síns, ok sagði honum, at hann ætlaði at þorvarði, ok drepa hann. Hann lèt illa yfir því, at gánga á sættir, ok latti mjök, ok sagði, at þeir hefði tjald á skipi. Eyólfr kvaðst fara mundu, ok kvaðst eigi nenna at engi kæmi mannhefnd fyrir. En er menn komu í rekkju, þá var barit á hurð, ok gekk bóndi út, ok kom inn aptr. Eyólfr spurði hvörr kominn væri. Bóndi segir, at sá var utan úr Dalnum. Eyólfr mælti: hvat mun tíðt um Austmennina? Bóndi segir þá hafa utan látit. Eyólfr kvað þá eigi orðit hafa, sem hann vildi, ok reið heim; ok tveim nóttum síðarr spurði hann, at þeir höfðu eigi út látit, ok sagði reiði á bónda, ok kvað hann rángt hafa við sik gjört; ok er þorvarðr spurði þetta, sendi hann honum 20 skjólna ketil ok stóðhross af Fornastöðum. Síðan lögðu þeir þorvarðr skipinu út undir Hrísey; byrr var enginn, en bátrinn lauss, ok[1] fór þá innan frá landi, þar var rekkjumaðr[2] í skut; þá stóð maðr upp, ok mælti: hvort er sá maðr á skipi, er Márr heitir, ok hafi sèr far tekit? Hann kvaðst þar vera. þá mælti maðrinn: tak þú við þorvaldi hinum líkþráa, frænda þínum, eða vèr munum banna þèr far. Síðan tók hann við honum: ek á fè á landi inn hjá mönnum, (segir hann), ok skal ek þángat fara með hann; síðan kom hann aptr, ok kvaðst sèt hafa ráðstafa fyrir

[1]) bátr, *S.* [2]) *skrifast* reykjumaðr *í A.*

honum. Síðan haustaði, ok gaf þeim eigi byri. Austmenn báru ráð sín saman, ok kváðust mundu eyða skip, eðr láta Hall af skipi. Þorvarðr svarar: tökum annat ráð: föstum 3 daga, ok vitum hvört guð sýnir hvat veldr, ok fari hlutir í sveitir, ok dæmum þann af skipi, er hlýtr, hvort sem er yðarr maðr eða vorr. Hlutir voru vígðir, ok komu upp hlutir þeirra Kálfs, en Márr var þar í sveit, ok kom hans hlutr upp. Síðan stefndu þeir honum á land, ok kváðu honum illa mundi farit hafa við frænda sinn. Honum fannst fátt um, ok voru þar efni til, hafði hann myrðtan hann; síðan vildu þeir drepa hann, en þat var þó ráðs tekit, at hann yðraðist, ok gaf hálfan hluta eigu sinnar fátækum mönnum, en annann helmíng frændum mannsins. Síðan hèldu þeir undan Hrísey, ok kom þá skip af hafi; þat átti Eldjárn Arnórsson kellíngarnefs ok Þorlaugar Vígaglúmsdóttur. Þá mælti Eldjárn til Þorvarðs: hafið eigi Hall í gaungum[1], fullboðit er oss þó. Þorvarðr svarar: hvat annat sæmiligra, enn hann fari með oss frændum sínum? Síðan gjörði útnyrðíng ok kaldt veðr, ok heimtu þeir Þorvarðr upp ankeri sín, ok brast hnakkböndin; Þorvarðr bað nokkurn sýna atgjörfi sína, ok fari til. Austmenn þeir urðu eigi tilbúnir. Hallr svarar: ek em eigi sparandi til, ok fá mèr snærit! Síðan fór hann úr stakki sínum ok kafaði niðr, ok kom snærinu í ankeris hrínginn, ok náði upp ankerinu, ok fèkk hann af þessu gott orð.

[1]) gegnum haf, *S.*

*Utanför Þorvarðs, ok frá þeim félögum.*

29. Síðan flutu þeir út hjá þeim Eldjárni, ok var færit á strenginum, ok hafði maðr vöttu á höndum, ok mælti: Hallr fèlagi! segir hann, óhræddr mun ek fyrir þèr gánga, er þú vattar streng. Síðan lögðu þeir margir gott til Halls, er áðr höfðu óþokkast við hann; síðan lètu þeir í haf. Hallr var knárr maðr ok liðgóðr. Þá bar norðr at Noregi, ok sigldu suðr síðan, ok höfðu byr hvassan, ok sáu við sker nokkr bát einn, ok voru á sveinar 2, ok hèldt annar skipinu, en annar jós. Þá mælti Þorvarðr: hjálpum mönnum þessum, er at dauða eru komnir, ok er skip þeirra fullt. Kálfr svarar: þú leggr oss í hættu ok vort fè. Hann svarar: ek skal skip ábyrgjast, ekki áttu betra til at láta fè, enn ek. Kálfr svarar: góð þikja mèr þín ráð. Síðan skutu þeir báti Þorvarðr ok Hallr, ok hlupu þar á, ok var þá skip sveinanna fullt, en hundar 2 voru bundnir í skipinu, ok fjötraðir við innviðu. Þorvarðr greip þann svein, er við árarnar sat, en Hallr annann, ok hèldt á hundinum, ok brá þeim á knörinn, ok beitti at eyjunni. Þorvarðr spurði, hvörir þeir væri. Þeir sögðu, annar hèti Óspakr, en annar Ósvífr: en við erum hundasveinar Úlfs stallara, ok höfum við þetta af hundunum hlotit, ok tjáði okkr ekki at bíða, en þá við komum voru þeir þá í burtu, ok erum við systursynir hans, ok ætluðum heim eptir þeim. Þorvarðr mælti: hvat er íslenzkra manna með konúngi í mestum virðingum? Þeir svara: Úlfr er þar mest virðr; enn er þó annar

maðr, ok heitir Járnskeggi; síðan gaf þorvarðr þeim feldi ok vopn; síðan skildu þeir, ok hèldu þeir eptir konúngi, ok spurðu þeir hvar hann drakk, ok komu þar. Úlfr fagnar þeim vel; ok spurði um ferðir þeirra. þeir kváðust hafa komit skipi sínu á voginn, ok eru (hèr) aðrir[1] góðir drengir, ok lífgjafar vorir. Úlfr mælti: hvörir eru þeir? þorvarðr heiti ek, ok er Ljósvetníngr, Höskuldsson, ok annar Hallr ok er Ótryggsson, afreyndr maðr. þá mæltu menn: ykkr mundi ekki nær fallit, er Íslendíngar dugðu[2]. Úlfr mælti: gjörið ekki mikit um þetta. Skeggi heyrði þetta, ok hitti konúng ok mælti: ek vilda at þú veittir mèr lið at drepa menn þessa, er sakaðir eru við oss, ok sagði honum allan málavöxt. Konúngr mælti: þat er eigi til, at láta drepa mína þegna, en þótt þú gjörist til, þá mun ykkr á því umbun verða. Hann hitti marga menn konúngs, ok gaf þeim fè til. þá mælti sveinninn Ósvífr: því lætr þú svâ, Járnskeggi? [Úlfr segir[3]: hann ásakar menn þá, er ykkr hafa lið veitt. Sveinninn svarar: skaltu ekki athafast? þverr nú drengskaprinn þinn. Hann svarar: eigi mun ek þeirra mun gjöra. Sveinninn svarar: íllt egum vèr, at þjóna yðr, mundum vèr nú dauðir, ef þeir hefðu eigi hjálpat oss. Úlfr svarar: þetta fær ykkr mikils. Sveinninn svarar: lítit megum við, en með þorvarði skulum við vera, ok hlupu til strandar, ok sögðu þorvarði hvat tíðt var. þorvarðr mælti: enn er vandræði um at vera, Kálfr! nú vil ek kaupa at þèr skipit, en þèr gángið af, ok

[1]) á, *S.* [2]) *þannig S;* deyðu, *A.* [3]) *b. v. S.*

gjaldi vor eigi aðrir menn, en vèr munum flytja út grjót. Kálfr svarar: eigi skal svâ vera, eigi munum vèr við þik skilja; allir þeir vildu honum fylgja. Skeggi hafði fengit til skip, ok hitti konúng. Hann mælti: nú er liðit fengit, herra! Konúngr mælti: hefir þú fundit Úlf, eðr hefir þú haft fulltíngi við? þá eru við sáttir. Síðan hitti Skeggi Úlf, ok segir honum nauðsyn sína. Úlfr svarar: vel hefir oss við þik líkat, ok munum vèr þarfyrir veita þèr, er þú biðr. Síðan kemr Skeggi fyrir konúng, ok segir honum þessi orð Úlfs. Konúngr mælti: þá hefir hann vel við orðit, en undir væri þèr, hvorjumegin hann snèri at. Nú er þar frá at segja, at Þorvarðr[1] mælti til sveinanna: farið til Úlfs! endast skal oss. Nú skilr þat drengskap vorn (segja þeir), ok munum vèr eigi við þik skiljast. Nú fara skip á voginn, ok er þar Úlfr. Hvört mun hans erendi? segir Þorvarðr. Ósvífr mælti: hart mun hann at róa, ef hann vill illa. Síðan komu þeir at kaupskipinu, ok rèru kyrt, ok lögðu skip sín á sitt borð hvort. Þorvarðr spurði, hvörr fyrir skipum ætti at ráða. Úlfr mælti: friðmenn,. ok hafi þèr til þess unnit. Síðan gekk konúngr út, ok sá hvat tíðt var, ok mælti: Skeggi fèlagi! lát kyrt vera, ok leyfi ek öngvum manni at berjast við Úlf, en mínir menn leggi á höndr, hefir þú hugat þá menn sektalausa, ok er svâ fyrir mik komit; ok er nú eptir vitnum leitat, ok gengr Þorvarði vel. Skeggi kvað þá ekki við sik sátta. Konúngr mælti: ek hefi athugat málit, ok sýnist mèr sem eigi hæfi

[1]) *þannig S;* hann, *A.*

ágángr við þá, sem goldit hafa ofr fjár, ok flúit land sitt, ok lætr konúngr þá í friði fara. Síðan hèldu þeir til Danmerkr, ok fóru austr til Víkr; þar hitti þorvarðr góðan dreng, er Bárðr hèt, ok vingaðist við hann, ok fèkk honum í hendr Hall Ótryggsson; en þorvarðr bjóst til Róms. En Bárðr hèldt skipi sínu í Austrveg, ok komu at þeim víkíngar, ok buðu þeim kost, hvort þeir vildu uppgefa, ok halda lífinu, ef þeir veittu fèt. En Bárðr kvað þat mundi sitt kjör at berjast eigi, ok því tóku flestir skipverjar. Hallr svarar: eigi mun ek þrautarlaust uppgefast. Bárðr mælti: hættum við eigi á vald víkínga. Hallr svarar: versnar nú skulduneyti mitt við stórvirkjum, ok bið þú eigi þess, ok mun ek gjöra þat, er ek em fúsari til, ok tók beitiás einn, ok varði öðrumegin borðit, ok barði á tvær hendr ok örkumslaði menn; ok er þat sáu skipverjar hans, tóku þeir til ok vörðu öðrumegin borðit, ok höfðu þeir sigr. Kaupmenn ok Brandr fóru til Róms með þorvarði frænda sínum.

*Eyólfr drepr þórarinn, bróður þorvarðs, ok frá eptirmálum.*

30. Nú er at segja frá Eyólfi Guðmundssyni, at hann undi svâ illa við víg Koðráns, at eigi komu mannhefndir. Hann gjörði heiman för sína, ok voru saman 40 manna, ok fór norðr í Flateyjardal á Brettíngsstaði; þar bjó þórarinn Höskuldsson, bróðir þorvarðar; þar var Eylífr eptir með honum ok Einar Járnskeggjason. Forni hèt maðr, er farinn var til rètta, en sá maðr var fyrir búi hans, er þorgeir hèt, er bjó

at þverá í Hnjóskadal; enn hèt Ketill sá maðr, er farinn var til rètta, ok gistu þeir hjá Eyólfi, ok höfðu þar góðan beina. þá mælti bóndi: hvört er ætluð förin? Eyólfr svarar: frek gjörast nú boðin vor Eyfirðinga, ok þarf tilfánga at ætla, ok til Flateyjar eptir fángi. Bóndi svarar: þó skal nú mjök skipa virðingamönnum í för þessa. Eyólfr svarar: viðrkvæmiligt er, at við förum allir frændr. Öngvan höfðu menn grun á um ferð hans, frá því allir voru sáttir. Eyólfr fór nú, ok komu þeir til þórarins, ok gengu þar inní hús, ok báru þegar vopn á hann ok vóu hann, ok 2 menn aðra. Ok er þeir komu ofan yfir Vöðlaheiði frá víginu, þá ræddu þeir um atburðinn; þá hrapaði hestr undir Eyólfi, ok fèll hann af baki; ok er hann vildi uppstanda, þá varð honum stirðr fótrinn, ok gekk hann haltr; ok er menn riðu til alþíngis, þá bauð hann öngvar sættir, en svâ var honum fótrinn stirðr, at hann mátti eigi gánga, ok reið hann í milli búða. þeir fundust Finni ok Eyólfr. Finni spurði, hvorsu hann hefði fengit meinit. Hann segir honum þat. Finni mælti: þess munda ek geta, at þar mundir þú eigi hafa staðizt fylgjur þeirra þorvarðs ok frænda hans, er fjandskap leggja á þik. Eyólfr mælti: ætlar þú at þeirra fylgjur sèu meiri fyrir sèr, enn mínar ok minna frænda? (Finni mælti): eigi kveð ek at því, þó er þat reynt, ef vèr spyrjum um för þorvarðs. Hrólfr hèt sonr þorkels Tjörfasonar, þorgeirssonar frá Ljósavatni; hann fór með Ljósvetnínga goðorð á þíngiņu, ok var leitat um sættir. Eyólfr kvaðst óráð-

inn til at bæta fè; en þeir höfðu búit mál til á hendr Eyólfi hálfan 5ta tug manna. Hrólfr bað sèr liðs; ok er hann fann þorkel Geitisson, mælti hann slíkum málum við Hrólf: hann svarar: þú mælir sannara, en eigi nenni ek at gánga í móti Eyólfi. Síðan hitti Hrólfr Skeggbrodda, ok mælti: flestum mönnum mun nú kunnugt mál mitt, ok ríðr þegar út um þíngvöllinn: ok virða menn meirr afla Eyólfs, enn sannsæi. Hann svarar: ek ætla þik atgánga at liðsbón, en hafa lítit at sök; öngvan tek ek af um liðveizlu við þik, en halda mun ek rèttyrði þeim, er menn virðast hèr at; en ef Eyólfr vill öngvu bæta, enda fáir þú öngvum málum framkomit, þá (er) laust. Hrólfr svarar: eigi mun ek þik lengi þæfa um liðsbeina, en segja mun ek þèr ætlun mína, ef ek má eigi mál fram hafa fyrir fjölmenni: Eyólfi mun ek bjóða hólmgaungu, hvort hann vill við 4ða mann, eðr við eigumst við 2; vilda ek þá tilkjósa Einarana tvo, þórð ok Hjálm, er mèr eru falastir til þúngs hlutar, en ek ætla í móti starfsmenn ok ræníngja. Skeggbroddi mælti: þú ert hetja mikil! ok ertu eigi ráðlauss, ok haltu þessu fram, en ek skal til með þèr, ok munu menn ráðast í móti þeim nöfnum, ef þarf, ok má þat verða, at þú skilir eigi með óvirðíngu. Síðan hitti Skeggbroddi Gelli vin sinn, ok segir honum þetta. Hann svarar: illa læt ek yfir því, er hólmgaungur takast upp, ok er þat heiðinna manna. Skeggbroddi mælti: hvörs var at von, ef maðr býr allilla til sitt mál, enn menn muni þat illu gjalda, ok drepr saklausa menn á gjörvar

sættir? þetta var sagt Eyólfi. Hann svarar: fjandmaðr vorr gjörist Skeggbroddi, hefir hann nú tveim sinnum brugðizt mèr. Skeggbroddi svarar: ek firrta[1] þik ok næst á Hegranessþíngi vandræðum, sem von var at verða mundi, ef þú sæktir þorvarð ok frændr hans; drapstu bróður hans, ok viltu þat nú öngvu bæta, eða hvar ætlar þú til? eru nú tveir kostir fyrir höndum, láta okkr Gelli ráða ok dæma, eðr hólmgaungur munu framfara. Eyólfr kvaðst ætla, at betra muni at bæta. þâ áttu margir hlut í, ok kom þar, at manngjöld skyldi lúka, ok galdst þat fè allt. Ok er þorvarðr kom sunnan frá Róm, ok í Saxland, þá hittu þeir Norðmenn, ok sögðu þeir víg þórarins, er orðit hafði um haustit. þorvarðr mælti: lángt er til öxanna vorra í milli ok þeirra Möðruvellínga, ok þat vilja þeir enn, at þær takist til, ef ek kem til Íslands, ok verði nú, sem Pètr postuli vill! ok ætla ek at betr væri, at ek kæmi eigi út aptr; ok þat segja menn, at fáar mílur gekk hann þaðanfrá, ok misti auga síns af verk, en andaðist síðan. Brandr fór síðan til Haralds konúngs Sigurðarsonar, ok var með honum, ok svâ Hallr Ótryggsson, hann var með honum austr í Gautlandi, er Haraldr konúngr barðist við Hákon Ívarsson. Ok er Haraldr vildi á burt, þá fraus skip hans inni; þá hjuggu þeir ísinn í milli skipanna; þá mælti Haraldr konúngr: engi höggr sterkligra ísinn, enn Koðránsbani. Maðr er nefndr þormóðr, ok var Ásgeirsson, frændi Möðruvellínga; hann var á skipi Magnúsar konúngssonar, ok

1) friðaði, *S.*

kom þá af Íslandi, ok sat um hann; ok í því konúngr nefndi Koðránsbana, þá hljóp þormóðr at honum, ok hjó hann banahögg, ok hljóp síðan á skip konúngssonar. Haraldr konúngr var reiðr mjök, ok bað leggja at þeim; ok er þeir þreyngdust at honum, þá brast ísinn, ok druknuðu margir, en Magnús konúngr komst í burt; en þormóði kom hann af landi, ok lètti hann eigi fyrr, enn hann kom út til Miklagarðs, ok gekk þar á mála; en þeir konúngr ok son hans sættust síðan.

*Dauði Brands, ok frá þeim fleirum fèlögum.*

31. Brandr fór vestr með Haraldi konúngi til Englands; ok er þeir gengu upp í seinasta sinni, þá hafði Brandr einn brynstakk, en allt annat lið konúngs höfðu eptirlátit brynjur at skipum. Konúngr átti brynju þá, sem Emma hèt, ok tók á miðt bein, ok var svâ sterk, at aldrí festi vopn á. Brandr bauð konúngi brynstakk sinn. Konúngr svarar: víst ertu góðr drengr, en hafðu sjálfr brynstakkinn. þar fèll Brandr með konúngi. Menn Höskuldar komu út á Eyrum ok Hrærekr, ok fóru þaðan norðr á fjall um Kjöl, en flokkr Eyólfs Guðmundssonar var fyrir á leiðinni, ok sat Eyólfr þar. Höskuldr mælti: nú er færi at drepa fjandann, ok snýr á rás. Hrærekr hleypr eptir honum, ok grípr í fáng sèr, ok mælti: still þik, vinr! þetta er ekki færi. Menn Eyólfs mæltu: verið hefir þú stundum snerti bráðari, ok ríðum nú eptir þeim! Eyólfr[1] mælti: eigi skal nú launa svâ guði [ok góðum mönnum, er hafa[2] á sæzt vandræði vor; ok skildu þeir við þat. Oddi

[1]) Einar, *S.* [2]) er hefir, *S,*

Grímsson gekk utan, ok fór suðr, ok kom sunnan fèlauss á fund Knúts konúngs ens ríka, ok gekk fyrir hann, ok kvaddi hann, ok mælti: fèþurfi eru við, herra! Konúngr mælti: gef þeim 3 merkr silfrs! Oddi mælti: eigi höfum við fyrri svâ ríkan mann heimsókt, ok hæfir oss ekki at sjá eigi í mót þessari gjöf, ek vil gefa þèr fè. Konúngr mælti: þiki þèr lítit fèt? Oddi svarar: herra! einum þætti mèr vel gefit, en vèr erum 12. Svâ mun satt vera, sagði konúngr, ok gefið 3 merkr hvörjum þeirra. þá mælti konúngr: hvort barðist þessi Oddinn við frændr sína á Íslandi? Oddi svarar: þar voru þeir menn, er mèr voru skyldir, en ek væri í móti. Hann fór út síðan, ok þótti ræsimaðr; hann var faðir Guðmundar, er augat stakk úr Katli biskupi; en svâ barst at því, at óvinir Guðmundar[1] báru þat í eyru Katli, þá er hann bjó á Möðruvöllum, at hann fiflaði konu hans, dóttur Gissurar biskups, ok fundust á förnum vegi, ok veitir Ketill honum tilræði, ok varð þó sá munr, at Guðmundr varð efri, ok stakk úr honum augat; ok síðan vildi Ketill framfæra mál á hendr honum, en síðan urðu nokkrir til at lemja þat niðr, ok jókst af því óvirðíng. En síðan Guðmundr varð fèlauss, ok þurfti annarra, þâ bauð Ketill honum til sín, ok veitti honum, meðan hann lifði, ok snèrist Katli síðan hvörr hlutr til sóma, en at lyktum var hann til biskups kjörinn, ok gafst honum svâ sitt góðræði. En er þorsteinn skuldarmaðr Gunnsteinsson, sem fyrr gátum vèr í sögunni, varð fèlauss, fór hann til Odda Grímssonar. Oddi mælti: mikit

[1]) Gvendar og Gvendr, S.

er þat um góðan dreng, at engi forlög verða, ok þótt þú værir nokkut mótsnúinn mèr, ok litaðir á mèr skallann, þá mun ek leggja til með þèr; síðan fèkk hann honum bústað, ok þat með, er hann þurfti, ok sýndist þat í þessu, hvörr drengr hann var. En þat er at segja frá Hræreki, at hann fór at finna Skeggbrodda, ok mælti: forvitni er mèr á um, hvorsu sterkr þú ert, mikit er af sagt, en em ek kallaðr aflamaðr, en þó mun ek eigi við þèr hafa, en vit þú fyrst, hvort þú kemr höndum úr höfði mèr. Skeggbroddi svarar: óskyldt ætla ek þat, ok tók þó til, ok sviptir þegar í burt höndum hans; en er hann gekk at Skeggbrodda, þá stóð hann fyrir, ok hafði hendr í höfði sèr; þá kom hann at, ok kom hvorgi i burt, ok mátti sjá hvorr þeirra var meiri. Þá mælti Skeggbroddi: ekki þiki mèr þú sterkr, en drengr ertu góðr.

*Frá Þórarni ofsa, er drap Þorgeir Hávarðsson.*

32. Þórárinn hèt maðr, er kallaðr var ofsi, hann bjó at Stokkahlöðum í Eyjafirði, ofláti mikill ok afbragðsmaðr; hann var son Þóris[1], er mjök verðr getit við Esphælínga sögu, en Hildr var móðir hans, dóttir Gauta Armóðssonar; Þórarinn var farmaðr mikill. Þat var eitt sinn, at Þórarinn kom skipi sínu í Hrútafjörð, ok hafði sókt sèr húsavið; þar lá fyrir skip Þorgeirs Hávarðssonar, ok hafði hann sekr orðit um sumarit um víg Þorgils[2], fèlaga Grettis Ásmundarsonar, ok um launvígsmál Þóris[3]. Þórarinn kallaði

[1]) *Þannig leiðrètt útá síðunni í A;* Þórðar, *A, S.* [2]) *Þannig rèttara S;* Þorsteins, *A.* [3]) sonar, *ofaukið hèr í A, eða föðurnafnið vantar fyrir framan;* Þóris á Hrossá, *S.*

sáman menn sína, ok mælti: svâ er viðlátit, at hèr liggja þeir menn, sem fyrir mörgum eru kunnugir at óspekt, ok hafa þeir drepit frændr vora, ok er nú mál eptirsjá at veita, ok er hann hinn versti maðr; síðan bjuggust þeir til at vinna knörinn; Ívar hèt maðr, en annar Þórir, er voru með honum. En er Þorgeir vissi þetta, þá bað hann sína menn sýna Þórarni[1] drengskap ok verja sik. Síðan gjörðist orrosta mikil, ok sóktu at 40 manna, ok var allmikill liðsmunr. Þorgeir varði stafninn alldrengiliga; en er þyntist skipunin með borðunum, þá er[2] atsóknin um stafninn, ok í þeirri svipan feldi Þorgeir þá Ívar ok Þóri, ok tvo menn aðra, ok fèll þar sjálfr; þá hafði hann alls vegit 14 menn. Þórarinn feldi þar 7 menn, ok hjó af þeim höfuð, ok hafði með sèr til Eyjafjarðar, ok lagði í salt, er hann kom heim. Þessi tíðendi spurðust víða; þetta verk lofuðu menn mjök, ok þótti þat mesta snarræði í vera; en Eyólfr kvað hinn veginn optarst farit hafa, ok at húskarlar Ólafs konúngs hafi fáir óbættir drepnir verit: en þó er enn eigi víst, hvorsu lengi þeir eigu allir sigri at hrósa; hefir mèr ok svâ tilspurzt, sem Þorgeir hafi átt við liðsmun, þótt hann væri óvinsæll, þá var hann þó kærr konúngi. Eyólfr var hirðmaðr Ólafs konúngs, sem Guðmundr faðir hans. En er menn búast til alþíngis, þá lèt Þórarinn taka höfuðin, ok kvað þá hafa skyldu þau með sèr, ok sýna hvat þau höfðu unnit[3]. En er Þórarinn kom til lögbergis, var þar sem mest fjölmenni; tók hann þá

1) *þannig leiðrètt fyrir* Þóri *í A; v. í S.* 2) óx, *S.* 3) *b. v. S.*

til orða: kunnugt mun hèr öllum mönnum vera um atburð þann, er gjörðist í fyrra haust í lífláti þorgeirs; en þeir menn er fè hafa gefit til höfuðs honum, ok harms sakir áttu at reka, þá ætla ek at mèr muni berast vitni um, at ek veld því verki; þikjumst ek þess fjár egandi orðinn, at menn sögðu til, at þetta verk væri unnit; ef nokkr grunar sögu mína, þá má her nú líta höfuð af þeim, ok lèt þá upphalda. þá mælti Eyólfr Guðmundsson: þat ætla ek at þorgeir muni mjök harmdauða vera, ef ek sèst vel um í alla staði, því vèr vitum at Ólafr konúngr var vin hans, ok hirðmaðr var þorgeir hans; en þú ferr at þessu með ofrkappi miklu, en mikil er alvalds raun, ok mörg konúngs ráð. Síðan skilja þeir, ok hafði þórarinn norðr með sèr höfuð þeirra. þá mælti þórarinn: þá mun flestum mönnum í hug koma dráp þorgeirs, ef vèr leggjum í haug höfuð þeirra hjá Vaðilshorni; ok svâ var gjört. En er skip gengu á milli landa, þá komu þeir á milli, sem þessa sögu báru fyrir Ólaf konúng um líflát þorgeirs ok förunauta hans. Konúngr spurði, hvörr því olli; en þeir segja þórarinn hafi gjört, ok hvorsu ferliga hann hafi með farit, saltat höfuðin um vetrinn, en flutt til alþíngis um sumarit; ok varð konúngr ákafliga reiðr, ok mælti: opt hafa menn drepnir verit, en þess veit ek eigi dæmi, at svâ hafi menn með farit, en víst vil ek, at hann hafi feigum höndum gjört[1]. Í þann tíma var þormóðr Kolbrúnarskáld farinn at drepa þorgrím trölla

[1]) *Hèr hefir S kapít. yfirskrift þannig:* Greifi þræll drepr þórarinn ofsa.

til Grænlands, en hefna þorgeirs Hávarðssonar; hann orti ok erfidrápu, ok mun sanna þann atburð. Konúngr heimti á tal við sig þann mann, er Sigurðr hèt, hann var þá búinn til Íslands. Konúngr mælti: þá er þú kemr til Íslands, far þú á fund Eyólfs Guðmundssonar, vinar míns ok hirðmanns, ok fá honum þetta fè, þat eru 8 merkr vegnar, vil ek gefa honum fèt, ok þarmeð vingan mína, en ek vil þat í móti hafa, at hann ráði af þórarinn ofsa. Sigurðr tók við fènu, ok fór leiðar sinnar, ok kom til Eyjafjarðar skipi sínu, ok tekst brátt kaupstefna með mönnum. Eyólfr reið til skips, ok hitti stýrimann; þeir töluðust við um vistir ok kaup, ok bauð Eyólfr honum til sin, en hásetar vistuðust um Eyjafjörð. Sigurðr kom heim á Möðruvöllu; hann segir Eyólfi orðsendíng konúngs, ok bar fram fè: en hèr í mót vill hann at þú drepir þórarinn ofsa fyrir víg þorgeirs. Eyólfr þakkaði konúngi fyrir gjafir sínar ok vinmæli: en þat álag, er hann vill ek gjöri, þá mun ek til stýra með konúngs hamíngju. En um haustit, er menn riðu til leiðar, reið Eyólfr með flokk sinn. þorarinn ofsi reið ok með mikla sveit, ok þræll hans, er Greifi het, mikill ok sterkr. Menn riðu hart um daginn, ok hleypti þrællinn hjá þórarni svâ klæði hans vörguðust[1]. þórarinn mælti: vertu allra þræla armastr gjörandi mèr slíkt! ok lýstr hann á hrygginn með sverðshjöltum; en þrællinn snýst við, ok spyrr, ef hann vill nokkut leggja til bóta * * *[2].

[1]) förguðust, *S.* [2]) *Framhaldið hèðanfrá vantar í öll handrit.*

# Svarfdælasaga.

Þat er upphaf at þessi sögu: Haraldr konúngr hinn hárfagri rèð fyri Noregi. Í þann tíma hafði sá maðr forræði fyri Naumudölum, er Þorgnýrr[1] hèt; hann átti tvo sonu, ok hèt Þórólfr hinn ellri, en Þorsteinn hinn ýngri; þeir uxu upp með föður sínum, þartil er þeir voru frumvaxta; þeir voru ólíkir í skaplyndi. Þórólfr var mjök við alþýðuskap, vitr maðr ok forsjáll, vinsæll, ok gjörðist kaupmaðr ok fór landa í milli, ok þótti hinn bezti drengr; [hann var ekki mikill maðr, en[2] vel á sikkominn, vænn at áliti[3]. Þorsteinn var eigi[4] við alþýðu, mikill vexti; hann bygði eldahús, ok fèkk mikit ástleysi af föður ok móður, ok öllum frændum sínum; en Þórólfr fèkk því meiri virðíng, sem hann flutti meira heim; Þorsteinn var því leiðari [föður sínum[5], sem hann fágaði þá iðn lengr, ok eigi vildi Þorgnýrr láta hann sinn son

1) Þorgeir, *E allstaðar.* 2) þannig *S;* ok, *A, B, C, E.* 3) *frá* [ *vantar í D.* 4) þannig *D;* nær, *hin.* 5) *v. í B, D, S.*

kalla. Fór nú svâ, þartil sem þeir voru rosknir menn; þá var þorsteinn svâ mikill, at hann[1] lá milli setstokka sem hann var lángr til; öskuhaugr var á aðra hönd hönum, en eldr á aðra hönd, ok fèllu menn um fætr honum.

*þorsteinn rís úr fletinu.*

2. þessu næst er þat sagt, at þórólfr kom heim í land til föður síns með mikinn fjárhlut ok margar gersimar, ok gerði faðir hans veizlu ímóti honum með svâ marga menn, sem honum þótti sinn sómi[2] meirri enn áðr. Nú fór þórólfr heim með föður sínum, þat var síð um kvöld; gekk hann inn einnsaman, því honum voru gaung kunnig, en leið hans lá um eldhúsit, þar þorsteinn, bróðir hans, lá í. Í þann tíma dags var þorsteinn vanr at leggjast til svefns. þórólfr gengr nú um eldahús; þorsteinn lá ímilli setstokkanna; þórólfr gekk at, ok ætlaði trèdrumb vera, en þar barst svâ at, at hann lá fallinn um þorstein, ok hraut á öskuhauginn öðrummegin, en þorsteinn skeldi upp, ok hló; ok þá mælti þórólfr: til ílls höfum vèr þik uppdregit, er þú hlær at óförum vorum. Djarfr ertu, sagði þorsteinn, at þú krytr[3] um, þóat þú hafir fallit um fót mèr, þar sem (ek) get eigi, þótt þú farir með eigu okkra alla, ok hafir sem þú egir; [skaltu þat vita, at (mèr) þikkir þú einn eyða því, sem við egum báðir[4], ok kaupir þèr með því orðlof ok vinsæld. þórólfr segir: vittu þat fyri víst, at ek vilda gefa minn eyri til, ok risir þú upp or fletinu, ok færir á brutt úr þessu

[1]) náði ok, *b. v. C.* [2]) sonr, *C.* [3]) kritar, *C.* [4]) *v. í D.*

húsi. þorsteinn sagði: seint ætla ek mik fyriláta[1] húsit, fyri því, at ekki fær ek mèr æðri athöfn, enn liggja hèr í fletinu. þórólfr segir: þat vilda ek, at þú gerðir fyri mín orð, ok skal ek þèr því meirri[2] vera, sem ek á meira kosti enn aðrir frændr þínir, ef þú lætr at orðum mínum. þorsteinn segir: engi þökk get ek at föður þínum sè á fleipri þessu, en mèr lítil, því mèr er meiri von, at hann gjaldi þèr fjandskap fyri, þvíat hann vill mik eigi sinn frænda láta kalla fyrir ástleysis sakir við mik. þórólfr segir: engu þikki mèr varða, hvort honum þikkir vel eðr illa, fyri því, at mèr þikkir ekki undir, hvort ek er hèr lengr eða skemr; hinu mun ek heita, sem ek skal efna, at við þik mun ek aldrei skilja, meðan við lifum báðir. þorsteinn segir: von þikki mèr, bróðir! at þú munir þat efna, er þú heitir, fyri því, at þú ert reyndr at drengskap, en þó vil ek fyriskilja um þat mál, ef við kaupum saman. Hvat er þat? segir þórólfr: ek mun til vinna flest, þat er þú beiðir, ef þú gjörir nú minn vilja. þorsteinn sagði: kynligt mun þèr þikkja, hvörs ek beiði: vil ek einn ráða, ef okkr skilr á, jafnan. þórólfr segir: kynligs hlutar beiðist þú, frændi! ok þikki mèr þat meirri vandi enn virðíng, en þó vil ek þat gjarna til vinna, at þú mættir sæmdarmaðr verða. Svâ er þó, segir þorsteinn, at ek hygg mik þat mæla meirr í þína þörf, enn mína, ok munu við nú þessu kaupa, ef þú vill þessu játa, en grunr er mèr á, at þú munir þetta eigi efna þá mèr þikkir

[1]) fyrilita, *D.* [2]) vin, *b. v. S.*

mestu máli skipta. þórólfr segir: eigi ætla ek at vanvirða svâ orð mín, því þat hefir ek aldrí gjört áðr. Hvörsu sem þat ferr, segir þorsteinn, þá munu við nú þessu kaupa; hann tekr þá upp hnakk sinn, ok gengr út með, ok brýtr í sundr, segir, at eigi skal konum gagn at verða. þórólfr gekk til móður sinnar, ok bað hana kerlaug gera. Hún spurði, hvat skyldi. þórólfr segir: þorsteinn son þinn rís nú upp úr fletinu, ok vill hafa kerlaugina. Góðu heilli! segir hún; ok nú færir hún þorstein af klæðum, vararvoðar stakki ok hökulbrókum þeim, er hann var vanr at vera í; var honum nú þvegit ok kembt hár hans ok skorit; kom þórólfr nú með klæði, ok bað hann í fara; klæddist þorsteinn nú skjótt. Eptir þat tók þórólfr af sèr seilamöttul, þat var skarlats möttull, ok undir gráskinn, ok lagði yfir þorstein; en er hann stóð upp, tók hann honum eigi meirr enn á bróklinda; tók hann þá af sèr skikkjuna, ok bað hann sjálfan með fara, en bað hann fá sèr aðra yfirhöfn, þó hún væri eigi jafngóð. þórólfr fèkk þá eina loðkápu, ok bað hann í fara; hann steypir yfir sik kápunni, ok var hún hvorki síð, nè ofstutt. þá tók þórólfr af sèr sverð, ok gaf honum, þat var góðr gripr ok vel búit; þorsteinn tók við sverðinu ok brá þegar, tók blóðrefilinn ok dró saman milli handa sèr, svâ uppi lá blóðrefillinn við hjöltin, þá lèt hann aptr hlaupa, ok var þá úr allr staðrinn; seldi hann þá þórólfi aptr sverðit, ok bað hann fá sèr annat vopn sterkara: ok skal mèr ekki sneis þessi. þórólfr tók við sverð-

inu, ok þótti spillt; bað hann þá gánga til vopnakistu sinnar um morguninn, ok kjósa þar af þat vopn, er honum þætti vænligast. Eptir þat gengu þeir til borðs, ok settist Þórólfr nærst föður sínum, en Þorsteinn á aðra hönd honum. Þorgnýrr sèr þá bræðr, ok lætr síga brún á nef, ok kvaddi Þorstein engu; en Þórólfr orti orða á hvern mann, ok var hinn kátasti. En um morguninn gengu þeir bræðr til vopnakistu Þórólfs, ok fann Þorsteinn þar bolöxi þá, er honum þótti við sitt skap vera, ok færir hana á breiðöxar skapt, gekk síðan til lækjar, ok hvatti hana; þessa öxi bar hann síðan at vopni.

*Þeir bræðr fara í víkingu.*

3. Nú eptir þetta sátu þeir með föður sínum um vetrinn; en um vorit spurði Þórólfr Þorstein, hvat hann vildi ráða sinna; en hann bað Þórólf ráða: þikki mèr vel, at þú sjáir (fyrir) hit fyrsta sinn, er við förum báðir saman. Bjó Þórólfr þá skip sitt, ok rèð til háseta. Síðan hèldu þeir skipi sínu til kaupstaða, er þat eigi sagt, í hvörja þeir hèldu, en hitt er greint, at þeir kvomu heim at hausti; tók Þorgnýrr við Þórólfi eptir vana virkta vel, en hann lèt sem hann sæi eigi Þorstein, ok ekki höfðu þeir viðmæli á hinum fyrrum misserum, síðan hann reis úr fletinu; þar voru þeir þann vetr, ok var samt með þeim feðgum, Þorgný ok Þorsteini, svâ fátt, at aldrei mæltust þeir við. Nú lagðist engi mannvirðíng á Þorstein, meðan svâ búit var. Þá spurði Þórólfr Þorstein bróður sinn, hvat hann vildi athafast um sumarit: mèr virðist

svâ, sem þèr þikki lítit gaman at kaupferðum. Rètt getr þú, segir þorsteinn, þikkja mèr kaupferðir vera manni meirr til prýði ok ágætis, enn til hreysti. þá sagði þórólfr: hvat skulu við þá fyrir okkr leggja. þorsteinn sagði: hugsat hefir ek nokkut til þess: ek vilda at þú keyptir okkr lángskip 2, en þú hèldir knerri okkrum í kaupstaði[1], sem þú ert vanr. Annat ætla ek fyrri, segir þórólfr, því þat skal ek enda, sem ek hefir heitit, at við þik mun ek aldrei skilja, meðan við lifum báðir. þorsteinn sagði: þetta gjörir þú illa, því faðir þinn mun svâ virða, ef þú kemr eigi aptr, sem ek hafi setit um líf þitt, ok er þat mikill skaði, ef þèr verðr nokkut, en alls enginn um mik, en þetta er mikil háskaferð. Eigi at síðr keypti þórólfr 2 lángskip, ok seldi knörrinn, hèldu þeir þeim í hernað, ok varð gott til fjár um sumarit, hèldu heim um haustit, ok höfðu 5 skip; ekki er getit hvar þeir herjuðu. Svâ fór fram 3 vetr, ok höfðu þeir þá 12 skip ok auð fjár.

*þorsteinn leitar Ljóts.*

4. Svâ er sagt, at hit þriðja haust gekk þorgnýrr ímóti þorsteini, ok heilsaði honum fyrri; hann tók vel föður sínum, ok voru þeir þar um vetrinn bræðr, en hásetar vistuðust annarstaðar. þorgnýrr bauð þeim bræðrum, at þeir tæki við búi ok fjár forráðum; en þeir bræðr sögðu báðir sem einum munni, ok kvóðust ekki vilja fylgja nema hans ráðum, meðan hann væri til: enda höfum við enn ekki reynt okkr,

[1]) kaupferðir, C.

segir þorsteinn, í einvígum eða víkíngu, ok munum enn freista lengr; vilda ek, faðir! þú vísaðir okkr til víkíngs nokkrs þess, er mèr væri nokkr frægð í, ok biða ek annathvort bót eða bana, ok væri mín síðan getit at nokkru. þat er líkast ok, segir þorgnýrr, at þat fáir þú, þegar þú beiðist, ef þèr þikkir allmikit undir at deyja skjótt; nú mun ek vísa þèr til þess manns, at uppi mun vera, meðan heimrinn stendr, ef þú sigrar hann. Lúk heill munni í sundr! segir þorsteinn, ok vísa mèr til hans sem skjótast. Svâ skal vera, segir þorgnýrr: Ljótr hinn bleiki heitir maðr, hann er austr í Svíaskerjum við Gautland, ok hefir 15 skip, ok dreka þann, er járni er varðr allr ofan, hann siglir í gegnum hvört skip, kallar hann drekann Járnbarða; Ljótr er mikill maðr vexti, vænn at áliti; enn segja sumir menn, at hann bíti eigi vopn. Nú hefir þú vel sagt, sagði þorsteinn, ok skal ek annathvort bíða hel, eðr hafa feldan Ljót at hausti. Bjó þorsteinn þegar skip sitt or landi, en keypti knör einn, svâ þórólfr vissi eigi. At sumri bjuggust þeir til ferðar; ok er þeir kvomu til skips, sagði þorsteinn þórólfi fyrirætlan sína: knör þenna, er ek hefi keypt, ætla ek at þú skulir halda í kaupferðir í sumar, en ek mun fara í hernað. þórólfr segir: hví viltu, bróðir! at við skiljum, þarsem ek hefir því heitit, at við skyldum aldrei skilja? þorsteinn segir: nú er þar komit, frændi! at ek vil ráða, eptir því sem ek hefi skilit fyri, þvíat mörgum mun þikkja mikill skaði um þik, ef þèr verðr nokkut til meins, en alls enginn um

mik, þó ek komi eigi aptr. þórólfr segir: ekki þarftu at mælast undan þessu; mèr þikkir verra líf enn hel, ef ek skil við þik. þorsteinn segir: fór sem mik varði, at þú mundir eigi efna þat, er þú hèzt, en þó mun ek eigi láta letjast ferðarinnar, ok segir mèr svâ hugr, at við munum eigi báðir aptr koma, ok eigi örvænt, at hvorgi komi. þórólfr segir: engi má komast yfir[1] sitt skapadægr, þikki mèr meiri sæmd at deyja með þèr, enn lifa við skömm ok hneisu eptir. þú munt nú ráða, sagði þorsteinn; ok hèldu síðan skipunum til Gautelfar, ok gáfu nú engan gaum at víkingum. þeir sigldu at skerjunum, ok sá þar kastala einn; þorsteinn bað þá þar at leggja; þetta var síð um kveld, er þeir lögðu undir skerin, þar sem kastalinn var uppi á; þorsteinn bað þá hljóða vera, ok tjalda yfir sèr. þorsteinn bað menn sína nokkra fara um þvert skerit, ok vita, ef þeir sæi tíðendi nokkr. En er þeir kvomu uppá skerit, sá þeir hvar drekahöfuð kom upp, var sem á gull eitt sæi; þar töldu þeir 15[2] skip hjá drekanum, ok var tjaldat yfir svörtu, ljós var undir tjöldum, þar sátu menn við drykkju; síðan fóru þeir aptr, ok lètu ekki verða vart við sik, sögðu þeir þorsteini slíkt, er þeir höfðu sèt. þá skulu vèr (kvað hann) í starfi í nótt, ok færa varnað allan af skipi, ok grafa niðr nokkut, en flytja út grjót í staðinn, fyri því, at ek ann þeim einskis eyris at njóta, ok þegar skulum vèr leggja at þeim, er vígljóst er.

[1]) fyri, *C, D.* [2]) 12, *B, E, S;* 14, *D.*

*Fall Ljóts víkíngs ok þórólfs þorgnýssonar.*

5. þá er ljóst var um morgininn lagði þorsteinn farm sinn, ok lèt greiða atróðr, ok sagðist vilja tala við víkínga; en er þeir kvomu at þeim, stóð upp maðr á drekanum, ok gekk útá borðit, sá var í rauðum skarlatskirtli ok heklu blá yfir sèr, hlaðbúna húfu á höfði; sá kallaði [af drekanum[1], ok spurði, hverr þar gjörði svâ gyldan atróðr. þorsteinn sagði til sín: eðr hverr spyrr at? Sjá heitir Ljótr, sagði hann. þat er vel, segir þorsteinn, at við höfum hèr fundizt, þvíat þín hefir ek lengi leitat. Ljótr mælti: hvat hefir þú mèr nú hugat? hefir ek þik eigi sèt fyrri, en heyrt hefir ek þín getit. þorsteinn segir: skjót eru eyrendi við þik: ek vil gera við þik fèlag. Ljótr spurði: hvorsu er fèlagsgjörð sú? Skjótr er kostr, sagði þorsteinn, þú skalt gánga á land upp, ok hafa vopn þín ok klæði, en menn þínir í skirtu ok línbrókum. Ljótr segir: újafnligr kostr lízt mèr þessi, eðr hverr er annar? Sá er annar, segir þorsteinn, at við skulum berjast. Ljótr sagði: hvar[2] er liðskostr sá, [er þú hefir til þess, at þú megir mèr slíka afrkosti gera? Hèr er liðskostr sá[3], er ek hefi, sagði þorsteinn, þessi 10 skip. þá brosti Ljótr, ok mælti: allúlikligt þikki mèr þetta, ok vil ek miklu heldr eiga bardaga við þik, enn láta fè mitt svâ skammsamliga. þá leggi fram skip öll, segir þorsteinn, móti mínum skipum! Ljótr sagði: eigi uni ek við þann kost, at

1) *þannig S;* á drekann, *A og hin.* 2) hvörr, *hin.* 3) *v. í B, C, D, E, S.*

láta fleiri skip til enn þú, því þat hefir ek aldrei fyrr gert, heldr hefir ek jafnan haft færri skip, ok hefik þó sigr haft. Þorsteinn sagði: eigi þarftu at spara mik til þess. Ljótr segir: eigi mun ek þó fleiri framleggja, enn jafnmörg, en ef þú vill berjast við liðsmun, þá mun ek láta annat til, þá annat er hroðit, meðan til eru. Svâ skal vera, segir Þorsteinn. Brugðu þeir nú tjöldum, ok leggja saman skipum sínum, 10 hvorir; tóku þeir til bardaga; gekk fyrst grjóthríð mikil af skipum Þorsteins, en hvörr steinn, er Þorsteinn sendi, gekk annathvort ígegnum skipin eðr hafði mann; börðust þeir nú þann dag allan. En frá lyktum er þat at segja, at þá hafði Þorsteinn hroðit 14 skip af Ljóti, en 5 (voru hroðin) af Þorsteini, ok margir mjök sárir, en sumir drepnir; voru þá sett grið ímillum þeirra til morgins. Ljótr bað Þorstein burtu færa öll þau skip, sem hann hafði fengit um daginn af honum: ok ertu svâ frækinn maðr, at enginn hefir mèr svâ á bug ekit, sem þú, ok mun engi þèr þetta til ámælis leggja. Þorsteinn sagði: eptir munu þó enn gripir góðir nokkrir á drekanum, ok ætla ek annathvort, at eignast allt, eða liggja hèr eptir. Ljótr mælti: dulinn ertu at þèr, at þú hyggr at vinna drekann með 5 skipum, þar sem mèr þætti mitt vænna, þóat þú legðir at með 10 skip, ok fýsi ek þik frá at leggja. Þorsteinn sagði: sè ek, at þú þorir eigi at berjast við mik, ok far þú leið þína, ok ber níðingsorð hvar sem þú ferr! Ljótr sagði: verra beiðist þú, enn þú átt kosti, enda skaltu

þat hafa, at þú liggir hèr eptir, áðr annat kvöld komi, ef ek má ráða. Fór þorsteinn nú til lands með skip sín ok tjalda yfir sèr, ok bundu sár sín, gengu síðan til borðs eptir þat. þá mælti þorsteinn: eigi megum vèr í kyrðum sitja í nátt, ef vèr skulum geta unnit drekann á morgun; skulu vèr leggja at eyju þeirri, sem hèr er nær oss, hún er skógi vaxin; vèr skulum höggva stór trè ok fella á annat borð drekanum, get ek at hann hallist við, ok má vera at vèr komumst þá uppá drekann. Ok nú gera þeir svâ, ok leggja at drekanum ok veita harða atsókn; en er þeir höfðu fellt viðuna á drekann, þá hallaðist hann eptir, en þeir á drekanum skutu skjaldborg. Nú fór sem at þorsteinn gat, at þeir gengu á annat borð drekans, þeim megin, sem sóknarinnar var at von, lèt þá skipit eptir, var nú eigi ofhátt at vega. þat er sagt, at þorsteinn komst fyrst uppá drekann ok þórólfr bróðir hans; tókst nú harðr bardagi af hvorumtveggjum. þá kastaði þorsteinn öxi sinni, ok þótti hún of seinfeng til vopns, en liðsmunr mikill, greip hann þá ásstubba einn ok barðist með. þórólfr bróðir hans gekk fram á aðra hönd honum, ok hlífði þeim báðum, því þorsteinn sá fyrir engu öðru, enn drepa allt, sem fyri verðr; þeir börðust allt til kvölds; var þorsteinn nú kominn aptr at lyptíngu. Ljótr sèr nú hvar komit var, ok fleygir frá sèr sverðinu til þeirra bræðra, en ætlar at steypa sèr útbyrðis, ok sèr þá eigi undanbragð annat; en þorsteinn lýstr hann niðr við skipborðinu með ásstubbanum svâ hart, at höfuð ok

herðar fèll útbyrðis, en fótahlutrinn inní skipit; þá var svâ myrkt af nótt, at hvorki mátti ryðja skipit blóði nè búkum. Þá svipaðist Þorsteinn um, ok sá eigi fleiri menn upp standa af liði sínu enn 12; ok eptir þat rèru þeir til lands, ok ætluðu til herbúða sinna. En er þeir voru skamt frá ströndu komnir, þá tók Þórólfr til orða: nú mun ek gjöra lykkju á leiðinni, ok nenni ek eigi at gánga lengra. Þorsteinn segir: ertu sárr, bróðir! Ekki dyl ek þess, sagði Þórólfr, þvíat þá er Ljótr kastaði sverðinu, stefndi hann á þik meirr, ok brá ek við skildinum ok var ek þá berr fyrir, ok bar sverðit at kviðnum fyri neðan bríngspölu, ok hljóp á hol, svâ út fèllu iðrin; sveipaði ek þá at mèr klæðunum, ok svâ hefir ek gengit síðan, mun nú ok lokit minni gaungu. Þá segir Þorsteinn: þá hefir farit sem ek gat, at annarhvorr okkarr mundi eigi aptr koma, ok vilda ek hafa gefit til mikit, at við hefðum för þessa aldrei farit. Þórólfr segir: ekki má nú sakast um þat, fyri því, at engi getr komizt yfir sitt skapadægr, ok þikki mèr betra at deyja við góðan orðstýr, enn lifa við þá skömm, at hafa eigi fylgt þèr, sagði hann, en þó vil ek biðja þik bænar, ef þú vildir veita, ok kennir þat metnaðar. Hvat er þat? frændi! segir Þorsteinn. Þórólfr segir: þat mun ek segja þèr: mèr þikkir nafn mitt eigi til lengi hafa uppi verit, ok mun þat falla niðr sem sina, ok mun mín at engu getit, þegar þú ert liðinn, en ek sè, at þú munt auka ætt vora ok lifa lángan aldr, muntu verða hinn mesti heillamaðr, vilda ek, ef

þèr yrði sonar auðit, at þú lètir þórólf heita, en allar þær heillir, sem ek hefir haft, vil ek honum gefa, fyri því þá væntik, at mitt nafn muni uppi, meðan heimr er bygðr. þorsteinn segir: þetta vil ek veita þèr gjarna, því ek væntir at þat sè vor sæmd, ok góð heill mun fylgja nafni þínu, meðan í vorri ætt er. þórólfr mælti: nú þikkjumst ek hafa beidt þess, sem mèr þikkir á liggja.

*þorsteinn fór á fund Herrauðs jarls.*

6. Eptir þetta andast þórólfr. Binda þeir nú sár sín, ok sofa af náttina; en um [daginn eptir[1] fóru þeir til drekans, ok ruddu hann búkum ok blóði, en fluttu fjárhlut í kastalann; þar voru þeir viku, ok græddu sár sín. þeir gerðu kistu at líki þórólfs, kvað þorsteinn hann þar eigi jarða skulu. þá er þeir þóttust færir, tóku þeir eina róðrarskútu, ok höfðu af fè þat, er honum þótti bezt, hèldu síðan til Svíþjóðar, ok höfðu lík þórólfs með sèr, en allr þorri fjárins var eptir í kastalanum. þeir komu þar við land í Svíþjóð, er jarl einn rèð fyri, sá Herrauðr er nefndr, hann var skamt á land upp. þorsteinn gekk á land upp, ok til hallar jarls með ellefta mann, ok kom þar at dagverðardrykkju. Dyrverðir sögðu þat engan vana, at úkunnir menn gángi þar inn með vopnum í drykkjustofu jarls. þorsteinn kvaðst ekki þat hirða: ok högg ek þar hvörn sem kominn er, ef þið farið eigi frá. þeir fóru skjótt frá dyrunum, því þeim sýndist maðrinn ógrligr, ok

[1]) morguninn, *S.*

þorðu eigi fyrir at standa. Síðan gekk þorsteinn inn með alvæpni fyri jarl, ok þeir 11 saman. þorsteinn kvaddi jarl; hann tók vel kveðju hans, ok spurði, hverr hann væri; hann kvaðst þorsteinn heita, ok vera þorgnýsson, norðan or Naumudölum. Jarl sagði: heyrt hefir ek þín getit, at þú sèrt ágætr maðr, ok mun tíðendum gegna um þínar ferðir, ok gakk til sætis, ok drekkum báðir saman í dag, ok seg mèr tíðendi, ok sit gegnt mèr í öndvegi! þorsteinn gjörir nú svâ, ok drekka um hríð. Jarl spurði, hvar þorsteinn hafði herjat um sumarit. þorsteinn segir: ekki hefir ek víða herjat í sumar, en við Ljót hinn bleika hefik nú barizt fyri skemstu, ok látit fyrir honum alla mína menn, utan þessa 11, ok þarmeð þórólf, bróður minn, er ek mun aldrei bætr bíða. Slíks var vân, segir jarl, ok er þat mikil gæfa, at þú komst undan heill, því engan veit ek þann verit hafa annann, enn þik. þorsteinn segir: ek bið, at þèr ljáið mèr höll yðar ok mínum mönnum, vil ek drekka erfi eptir bróður minn, ok heygja hann hèr með yðru lofi, skal ek kosta fè til, svâ yðr skaði ekki í því. Jarl kvaðst þat gjarnan vilja: af því at ek hyggr mína höll eigi betr skipaða, enn þó þú skipir eða þínir menn.

*Frá Molda berserk.*

7. þorsteinn tekr nú til haugsgerðar ok hans menn; gekk þat skjótt; var þórólfr í haug lagðr ok nokkrt fè honum til sæmdar. Síðan bjó þorsteinn veizlu, ok bauð til jarli ok mörgum

öðrum dýrum mönnum; sátu menn at henni 3 nætr, sem siðr var til, leysti þorsteinn menn á burt með góðum gjöfum, ok aflaði sèr svâ vinsælda. Jarl spurði nú þorstein, hvat hann vildi ráða sinna: því nú er mjök sumar liðit, en þú átt farveg lángan. þorstein sagði[1]: ek veit eigi hvörs ek á kost. Jarl segir: til reiðu er yðr hèr veturvist, ef þèr vilið, ok kann ek yðr þökk fyri. þorsteinn sagði: þetta er vel boðit, herra! ok skal gjarnan þiggja; er þorsteinn þar um vetrinn, ok hans menn, í góðu yfirlæti; virðir jarlinn hann fram yfir hvörn mann, ok svâ gerðu aðrir eptir. Nú leið at jólum, ok gjörðist skipan á lund manna; þar hafði verit glaumr ok gleði mikil, en nú tókst þat af, ok gerist hljóðlæti mikit í höllinni, var þat af því, at jarl gerði svâ fyri. þat var einn dag, at þorsteinn spurði hirðmann einn, hvat til bæri um ógleði manna. Hirðmaðrinn segir: vorkunn mun þèr á þikkja, ef þú veizt, en þó þikki mèr þú hèraðsdaufr maðr, er veizt eigi hvat til berr. Ekki hefik at því hugat, segir þorsteinn, en stórtíðendum þætti mèr ega at gegna, er tignir menn lata sèr svâ mikils fá. Hirðmaðr sagði: gesta egu vèr von at jólum, þeirra sem oss er mikil óþurft í. Hverir eru þeir? sagði þorsteinn. Hirðmaðrinn segir: maðr heitir Moldi, hann er víkingr eðr hálf-berserkr, ef svâ vill kalla, þeir eru 12 saman, ok hafa komit hèr tvisvar áðr; Molda bíta eigi járn; þeir vaða eld

[1]) svâ vera ok, *b. v. B, C, D, E, S.*

ok bíta í skjaldarrendr. Þorsteinn segir: hvörja kosti gera þeir jarli? Hirðmaðr segir: Moldi vill mæla til mægða við jarl, en til samfara við dóttur hans Íngibjörgu, elligar býðr hann honum á hólm þrim náttum eptir jól, en ráðast skal hvat jarl vill; mundi hann skjótt kjósa, ef hann væri úngr maðr, en nú er hann or bardögum fyrir aldrs sakir. Þorsteinn segir: engi vorkun þikki mèr á, at honum fái slíkt svâ mikils. Þessu var svâ snúit, at Þórsteinn hefði boðizt til at gánga á hólm fyri jarl. Ok litlu síðarr fundust þeir jarl ok Þorsteinn, ok spyrr jarl, hvort þat gengdi nokkru, at hann hafði boðizt til at leysa hann undan, ok gánga á hólm við Molda. Þorsteinn sagði: við því geng ek eigi, en þat sagða ek, at mèr þætti líkligt, at maðr mundi til verða at leysa þik undan hólmgaungu, ef þú leggr nokkr gæði til við hann. Þat hefik talat, segir jarl, at þeim manni munda ek gipta dóttur mína, er þenna mann gæti afráðit. Þorsteinn segir: ekki spurða ek þessa af því, at ek ætli mèr þetta, heldr fyri þat ek veit fleiri munu til verða, svâ sem fleiri vita. Hætta þeir nú þessu tali, ok líðr at jólum; gladdist jarl nú heldr við orð Þorsteins; lèt jarl búast við veizlu fjölmennri, ok bauð þángat frændum sínum ok vinum, ok öllum hinum beztu mönnum í hans ríki. Atfángadag jóla drífa flokkarnir at bænum. Jarl lèt auðt 12 manna rúm utar frá öndvegi; gleði var mikil í höllinni. En þá eldarnir voru sem bjartastir, var jarli sagt, at Moldi riði at höllinni ok menn hans; en er þeir kvomu,

stigu þeir af baki, gengu síðan inní höllina 12 saman, ok vóðu þegar eldana, ok bitu í skjaldarrendr. Moldi gekk fyri jarl, ok kvaddi hann vel ok virðugliga. Jarl tók vel kveðju hans, ok bað hann gánga til sætis. Hann kvaðst ekki mundu þiggja veizlu at honum: ok er mèr jafnt í hug við þik, sem fyrr. Jarl sagði: ek mun nú ok segja þèr: ek vil, at þú drekkir með mèr um jólin, en ek leita við menn mína, hvort nokkr vill mik undan leysa þessu vannkvæði. Moldi segir: vil ek þá at þú leyfir mèr at gánga um höllina fyrir hvern mann, ok spyrja, hvort nokkr þikkist mèr jafnsnjallr, ok er þat mikil gleði, at skemta sèr með því, en eigi mun ek þat til þín tala, jarl! því ek vil ekki þat mæla, er þèr þikkir metnaðarskarð í vera. Jarl kvaðst eigi mundu banna honum þat, at mæla slíkt, er hann vildi ok honum þætti gaman at. Síðan gengr hann utar frá öndvegi fyrir hvern mann, ok spurði, hvort nokkr teldist honum jafnsnjallr, þartil er hann kom fyrir öndvegis mann, sá lèt draga fætr af stokki, ok hafði breiddan feld yfir höfuð sèr. Moldi segir: hvörr sá herkinn (væri), er þar lægi, en sæti eigi upp, sem aðrir menn í öndvegi. þorsteinn kvað hann engu skipta. Moldi segir: þú ert drjúglátr, eða telst þú jafnsnjallr mèr? þorsteinn sagði: eigi nennik því, at kallast jamsnjallr þèr, því ek kalla þik þess kvikendis læti hafa, sem gengr á fjórum fótum, ok vèr köllum meri. Moldi segir: þá skora ek á þik til hólmgaungu 3 nóttum eptir jól. þor-

steinn segir: at heldr eptir jól, at mèr þikkir því betr, sem við berjumst fyrr, ok þó þú vilir þegar í stað. Moldi segir: ekki vil ek spilla goðahelginni, ok er mèr ekki óðt um þetta; síðan gekk hann í brott, ok þeir allir úr höllinni, ok stigu á hesta sína, ok riðu í braut.

*Viðbúníngr þorsteins til hólmgaungu.*

8. Nú þakka menn þorsteini fyrir, er hann tókst þessa hólmgaungu á hendr, ok urðu menn fegnir, drukku nú glaðir ok kátir um jólin. Eptir jólin fjölmennti jarl mjök til hólmstefnunnar, ok kvomu þeir þorsteinn fyrr til hólms, ok settust niðr á völlinn. þá spyrr jarl þorstein, hvar sverð þat væri, er þorsteinn ætlaði at berjast með. þá brá þorsteinn undan skikkju sinni einu sverði, ok sýndi jarli, ok mælti: hèr er sverð þat, er ek mun hafa. Jarl brá sverðinu ok leit á, ok mælti: hvörsu komstu at sverði Ljóts hins bleika? þorsteinn segir: hann gaf mèr þat á deyjanda degi með öðru gózi sínu. Jarl segir: segir þú mèr hann dauðan? þorsteinn segir: dó hann um sinn. Jarl mælti: þessa varði mik eigi, ok seg mèr: hvörsu fóru ykkr skiptin? þorsteinn sagði: sem farit hafði. Jarl mælti: frægðarmaðr ertu mikill, þorsteinn! en sverð þetta dugir þèr eigi við Molda, mun ek sýna þèr hvat þat dugir; tók í blóðrefilinn ok dró (saman), svâ oddrinn lá í hjöltunum, lèt síðan hlaupa aptr, var þá or staðrinn. Jarl mælti þá: hèr er sverð, þorsteinn! er ek vil gefa þèr, þetta skaltu bera ímóti Molda, ok taka eigi fyrr upp, enn þú ert búinn at högga, en haf hitt til sýnis, er þú

berr, áðr. þorsteinn tók við, ok brá sverðinu, ok sýndist riðfrakki einn verra. Jarl bað hann fá sèr; hann gerði svâ; jarl laust niðr hjöltunum â stein, ok fèll af rið allt, var þá bjart sverðit sem silfr. þetta sverð mun bita Molda, sagði jarl, en hann deyfir hvört vopn, er hann sèr, fyri því skaltu gæta, at eigi verði hann varr við, fyrr enn þú höggr til hans.

*þorsteinn fellir Molda á hólmi.*

9. þorsteinn tekr nú við sverðinu, ok reið Moldi þá at með flokk sinn, ok mælti: eigi hefir svâ tekizt fyrr, at ek hafi orðit seinni á þetta leikmót, enn aðrir, heldr hefir hitt verit, at ek hefir vorðit nokkrum mun[1] skjótari. þorsteinn segir: því seinna skaltu í burtu komast, sem þú komst síðarr, ok sprettr upp eptir þat. Jarl bauð at halda skyldi fyri þorstein; en hann sagði, at enginn manna skyldi sik í hættu hafa fyrir hann: mun ek sjálfr bera skjöld minn. Síðan gengu þeir þartil, sem þeir skyldu berjast, ok kveðst Moldi mundi segja upp hólmgaungulög: því ek hefir á þik skorat: sínum feldi skal hvorr okkarr kasta undir fætr sèr, skal hvorr standa á sínum feldi, ok hopa eigi um þveran fíngr, en sá sem hopar, beri níðíngs nafn, en sá sem framgengr skal heita vaskr maðr, hvar sem hann ferr; 3 mörkum silfrs skal sik af hólmi leysa, sá er sárr verðr eðr úvígr. þorsteinn segir: þó þar liggi 6 merkr (við), heldr enn 3, þá þikki mèr því betr, sem ek tekr meira. Ekki er þèr því heitit, sagði Moldi, fyri því, at ek hefir þat opt-

[1]) *þannig B, D, E, S;* mönnum, *A, C;* munum, *F.*

arr átt at taka, enn gjalda. Þorsteinn segir: eigi mun nú svâ þó. Nú kasta þeir feldum undir fætr sèr, ok gánga þar á. Þat er vandi vorr, segir Moldi, at 3 skjöldu skal taka hvorr, ok hlífa sèr með, ef höggnir verða; eðr hvörsu er sverð þat, er þú ætlar at vega með? Þorsteinn seldi honum sverðit; en hann tók við ok brá því; hann mælti: hvörsu komstu at sverði Ljóts hins bleika, bróður míns? Þorsteinn segir: Ljótr sendi þèr kveðju á deyjanda degi, ok þat með, at honum þótti þú líkastr til at hefna hans. Moldi segir: segir þú mèr líflát Ljóts bróður míns, ok at þú hafir verit hans skaðamaðr? Ekki má þess dylja, sagði Þorsteinn, ok muntu nú vilja hefna hans, ok fresta eigi lengr. Moldi segir: mèr þikkir mikill skaði, at drepa svâ vaskan mann. Þorsteinn segir: þat er þó satt at segja[1], at eigi má geta til; þat var sagt, at þú kynnir ekki at hræðast, hver ógn sem þèr væri boðin; nú skil ek, at þú villt bera bleiðiorð fyri mèr, hvar sem þú ferr. Eigi skaltu þess bíða[1], segir Moldi, ok högg nú þegar, því mèr er annt at drepa þik, síðan þú villt ekki annat, enn deyja. Þorsteinn hjó til hans með [sverðinu jarlsnaut[2], ok klauf skjöld hans allan niðr í munðriða; Moldi hjó ímóti til Þorsteins, ok klauf skjöld hans, * * *[3].

*Þorsteinn fær Ingibjargar jarls dóttur.*

10. Þat var einn tíma, er þeir voru tveir

[1]) segja, *D.* [2]) *þannig S;* sverði, *A og hin.* [3]) *Hèr vantar í öll handritin, ok er þar eyða í fleirstum, sem samsvarar prentaðri blaðsíðu.*

á tali, jarl ok þorsteinn, ok spurði jarl, hver laun þorsteinn vildi hafa fyri þat mikla þrekvirki, er hann hafði[1]: ok er oss orðin mikil sæmd at því öllu. þorsteinn sagði: þat vilju vèr at yðr þiggja, sem þèr vilið frammi láta, en varla er von, at vèr fáum þat, sem hugrinn stendr til fyri mannvirðíngar sakir, sagði hann. Jarl mælti: raun mun mjök undir þèr vera, hvers þú beiðist, því þat skal til reiðu af mèr, sem þú beiðir. þorsteinn segir: auðkveðin eru þá launin, ef ek skal ráða: þat er Íngibjörg dóttir yðar, með þvílíkri heimanfylgju, sem [henni sómir[2] ok yðr úti at láta. Jarl sagði: fyrir laungu vissa ek þat, ok hefir lengr frestast enn ek hugða, skal ek allt efna við þik, þat ek hefi heitit, en þó vil ek mæla nokkut mínu máli þar um ok þínu: mun ek auka þína sæmd í því, at [þú takir jarlsnafn ok[3] þú ráðir ríki þessu eptir minn dag, ok komir aldrei til Noregs. þorsteinn sagði: því vil ek heita, at vera hèr 3 vetr, en eptir þat vil ek kjósa hvort ek vil hafa jarldóm, fyri því þá mun ek sjá, hvort ek þá þikkjumst mega halda ríkit eðr eigi. Vitrliga er kjörit, segir jarl, ok mun ek því samþykkr verða, ef Íngibjörg vill sem ek; þorsteinn kvaðst eigi mundu bekkjast til þess, ef henni væri eigi ljúft. þeir gengu nú til tals við hana, ok sögðu henni sína fyrirætlan, ok spurðu, hvörsu henni væri um gefit; en hún sagði, at faðir hennar skyldi

[1]) unnit, *b. v. C, D, E;* gjört, *b. v. S.* [2]) *þannig D;* þeim s., *A, B, C, E;* henni s. viðtaka, *F;* þeim s. at meðtaka, *S.*
[3]) *b. v. S.*

fyri ráða, kvað sèr þat vel mundu gegna; var þetta nú at ráði gert, ok var búin til sæmilig veizla, ok mörgum mönnum til boðit; sátu menn at veizlu, til þess at lokit var; leiddi þorsteinn menn í burt með góðum gjöfum, ok varð hann af því vinsæll ok víðfrægr. Nú sitr þorsteinn þar um vetrinn, ok gátu þau sèr barn, þegar þat mátti verða; ok er at þeirri stundu kom, sem hún skyldi lèttari verða, ól hún sveinbarn, ok var hann vatni ausinn, ok kallaðr þórólfr; hann vóx þar upp, ok var allbráðgjörr, ok líkr hinum fyrra þórólfi. En er þorsteinn hafði þar verit 3 vetr, sagði hann jarli: nú hefir ek hèr verit alla þá stund, sem ek hefir heitit ok mèr er hugr á. Jarl sagði: ekki megu vèr halda á þèr, ef þú villt burtu fara, ok far þú, hvört er þú villt. þá lèt jarl búa skip með þeim farmi[1], sem þorsteinn hafa vildi til Noregs, ok leiddi (dóttur) sína út með sæmdum miklum. þorsteinn mælti: þess beiðir ek yðr, herra! ef svâ berr við, at yðar missi við, at mínir erfingjar, af dóttur yðvarri tilkomnir, taki lönd ok lausa aura eptir yðr, ef ek sendir þá til. Jarl segir, þat skulu svâ vera, sem hann vildi at væri, * * *[2] ok höfðu menn engi vopn, nema lurka, ok börðust þeir[3]; þar voru sumir drepnir, en sumir lamdir, þar fèllu 17 menn; þar heitir Stafsholt síðan, en dalrinn Deildardalr. Uni hèldt til lið-

---

[1]) förum, B, D, E, S. [2]) *Hèr er eyða í öllum handritunum; í A, D eru rúmar 2 arkir auðar; í B, E, S stendr ritað:* í því, sem þetta var eptirskrifat, stóð: hèr vantar ark í söguna; *í C, F, er* $1\frac{1}{2}$ *bls. auð.* [3]) með þeim, B, D, E, S; þeir svâ ok, F.

veizlu þar sem Ljótólfr var, en þeir bræðr þar sem þeir Karl ok þorteinn eru, því Uni er[1] jafnskildr Ljótólfi, sem þeir bræðr þorsteini, ok er þess síðarr getit í sögunni. Nú er at segja, hverìr til liðs snèrust með þorsteini: Ólafr or Ólafsfirði, [Hèðinn or Hèðinsfirði, þeir voru bræðr[2], ok Svarthöfði * * *[3], er[4] druknaði, ok heita þar Svarthöfða steinar, er hann druknaði, því Siglunes, at þar rak seglit, því Siglufjörðr at þar rak siglutrèt; Hèðinn átti son, er Svarthöfði hèt; Ólafr átti 2 sonu, þórð[5] ok Vemund[6]; þessir hnigu allir til liðs við Karl hinn rauða ok margir aðrir göfugir menn. Sá maðr bjó í dalnum, er Höskuldr hèt, hann var lögmaðr; þar voru jafnan þíng, ok má enn sjá þar merki; hann átti þann son, er Ögmundr hèt; þessir hníga enn til[7] með þorsteini ok Karli, ok slíkir bægja þeim Ljótólfi, ok leggja undir sik allan dalinn öðru megin, því þá var dauðr Bárðr[8] digri, afi Ljótólfs. þorsteinn svörfr[9] fór nú millum fjalls ok fjöru, ok lagði undir sik allan dalinn öðru megin, er[10] hann ferr til fjalls, ok gerir þar kennimark, sem hann kom framarst, ok braut þar í sundr kamb sinn, ok kastaði niðr kambs brotunum, ok lætr eptir silfr í þremr stöðum, hálfa mörk í hvörjum stað, ok er sá rimi kallaðr at Kambi; ok nefnir þorsteinn sèr vátta, ok fellir[11] hann með því dalinn sèr til

[1]) var, *D, F.* [2]) *v. i S.* [3]) *hèr er eyða fyrir einu eða tveim orðum i A, C, F.* [4]) siðan, *h. v. S.* [5]) *er með nýari hendi skrifat i A, B; en bil fyrir orði i C, E, F, S.* [6]) Vermund, *E, S.* [7]) liðs, *b. v. S.* [8]) *þannig S; i hinum stendr einasta* B. [9]) *á-gizkuð;* garpr, *líkl. rángt lesið, öll.* [10]) en, *hin.* [11]) *þannig B, E, S;* fyllir, *hin.*

vistar, ok gaf af sèr nafn, ok kallaði Svarfaðardal. En þó fátt hefði verit með þeim þorsteini ok Ljótólfi, þá var nú í dátt efni komit, svâ at þeir leggja fèlag með sèr[1], þorsteinn, Ljótólfr Nefglitason, Bárðr greipr frá Hrauni[2] ok þorkell Skeggjason af Skeggjastöðum, ok Ögmundr Höskuldsson; þat var fèlagsgerð þeirra, at þeir gera skip, ok hafa í ánni, ok veiða fyrir hvörs manns landi fiska. þetta var kært fyrir Höskuldi lögmanni, hvörsu þeir ætluðu at fara. Hann sagði: at land skal taka fjórðúng veiðar, þar sem þeir veiddu; [en þeir[3] sögðu[4] engum til, ok tóku þat hrafnar, en menn höfðu þá eigi, heldr enn áðr, ok þóttust þeir þá gjalda mundi álits[5], sem Höskuldr hafði dæmt[6]. þá tóku þeir upp leika í dalnum, ok vildu reyna hnáleik[7] sinn, ok var Karl hnástr[8]; óx nú sundrlindi í dalnum af nýu.

*Gríss færir þorsteini börnin.*

11.[9] Í þenna tíma kom sá maðr í dalinn, er Gríss hèt, ok fyrr var getit; hann var nýkominn út, ok ferr hann til vistar með Ljótólfi, frænda sínum, ok var þar um vetrinn; um vorit fór hann til Steindyra, ok setti þar bú saman, ok hafði mjök skapast um bygðir síðan, meðan hann hafði burtu verit; urðu flestir at leita til vináttu þar sem voru aðrirhvorir, þorsteinn eða Ljótólfr. Nú leitar Gríss þar til, sem þor-

1) einn, *b. v. A*; allir, *b. v. F*; enn, *b. v. B, E, S*. 2) Hruni, *B, D*. 3) *þannig S*; ok, *A, B, C, E*; þeir gjörðu nú svâ, skiptu, ok skildu eptir landhlut, ok, *D*; *v. í F*. 4) þeir þá, *b. v. F*. 5) þess, *b. v. F, S*. 6) *hèr stendr útá síðunni í S*: vantar litit; *í hinum er hèr engin eyða*. 7) knáleik, *D*. 8) knástr, *D*. 9) *hèr sleppr kapitula tölunni í öllum handritunum, svo eigi má vita, hve marga kapitula hèr að framan vantar.*

steinn er; en hann tekr honum ekki fljótt, en sagði þó, ef Gríss kynni hóf sitt, at hann mundi ekki amast[1] við [bygð hans[2]: en þó er mèr lítit um bygð [frænda Ljótólfs[3] þessu megin ár. * * *[4] Gríss var vel til Ásgeirs rauðfelds. Ásgeirr hafði selför þat sumar * * *[5] hafði kona hans þar umsýslu búss ok smalaferðar. Sá atburðr varð, at hún varð lèttari í smalaferðinni, ok fæddi sveina 2 í Vatnsdals hólmum þeim, er Víðihólmar hètu[6]; heim kom hún með sveinana um kvöldit, ok tók Íngöldr[7] dóttir hennar við þeim, ok vann sveinunum beina[8], ok fann at öðrum blæddi, ok hafði þar komit við króklykill, er hún hafði haft á sèr; þat varð henni á munni, er hún sá þetta: sjá ben markar spjóti spor. þessir sveinar vaxa þar upp, ok hèt sá þorleifr, er benina hafði fengit, en hinn Olafr. Eptir þetta ferr Gríss af landi burt, ok var um vetrinn í þrándheimi; en eptir um vorit bjó hann skip sitt til Íslands, ok gekk honum eigi lengra, enn út til Niðaróss, ok lá þar um stund. Kona kom til fundar við Grís, ok hafði 2 börn meðferðar, ok beiddi Grís, at hann mundi flytja börnin til Íslands. Hann segir: hvat ega börnin þar, segir hann. Hún kvað móðurbróður barnanna í því hèraði, sem hann átti bú: ok heitir þorsteinn svörfr. Gríss mælti: hvat heitir þú? Ek heiti þórarna. Eigi mun ek þat gera

---

1) aukast, *S.* 2) honum, *C;* hann, *B, D, E.* 3) Ljótólfs frænda, *C.* 4) *hèr er eyða fyri tveim línum í A, B, C, F; en heil blaðsíða auð í D;* vantar lítit, *stendr á spáziunni í S.* 5) *hèr er bil fyri tveim orðum í A, C, F.* 6) heita, *D.* 7) þannig *A, F;* Ingvöldr, *B, E;* Ingveldr, *hin.* 8) *b. v. D; v. í hin.*

vitnalaust, segir Gríss. Hún vatt þá undan yfirhöfn[1] sinni kefli, ok seldi honum, voru þar á mörg þau orð[2], er kend voru þorsteini svörf. Frekr mun þèr ek þikkja til fjár, segir Gríss. Mæl ok slíkt, er þú villt, sagði hún. Fjögr hundruð silfrs, segir hann, af allgóðu silfri, ok skaltu þó sjálf fylgja börnunum. þess er ekki at leita, at ek fylgi þeim (segir hún), en greiða mun ek fè þat, sem þú beiddir; ok þá sagði hún honum nafn barnanna, ok hèt sveinninn Klaufi, en mærin Sigríðr. Gríss mælti: því ertu svâ dálig orðin af svâ góðum ættum? Hún segir: ek var hertekin af Snækolli Ljótssyni, ok hann á börn þessi við mèr, síðan rak hann mik frá sèr nauðga. þegar gaf Grís byr, er hann hafði börn þessi í skip tekit, ok sigldi til Íslands, í sama ós, sem hann var vanr; ok þegar hann var landfastr, færði hann af hendi bæði börnin, svâ engvir vissu fyrir hans komu. Á því kvöldi kom hann á Grund til þorsteins, ok tók hann forkunnar vel við honum, ok kom þat mest til, at Karl son hans hafði utan farit á því móti[3], er Gríss hafði utan verit, ok vildi hann spyrja at ferðum hans. Gríss var fárr heldr. þorsteinn spurði, hvort hann hefði þýngd nokkra. Gríss segir, at honum kvaðst eigi þikkja örvænt, at honum þætti nokkut at um tiltekjur hans, því ek hefir flutt híngat systurbörn þín 2. Hvörsu má þat vera, sagði þorsteinn, ok geng ek ekki við frændsemi þeirra vitnalaust. þá sýnir Gríss

---

[1]) kápu, *C.* [2]) *b. v. D;* verk, *b. v. S; v. í A og hin.*
[3]) misseri, *B, D, E, S.*

honum keflit, ok kennir þorsteinn þar orð sín, þó lángt hafi verit síðan; hann sagði þá: lítit mun ek at þessu gera kvöldlángt, en við mun ek gánga frænðsemi barna þessara. Um morgunin, er þeir sátu undir borðum, bað þorsteinn færa sèr börnin, ok gerði hann meyjunni þann þykk, at hún grèt þegar, en sveininn lèk hann miklu harðara, ok þagði hann. Gríss mælti: nú þikki mèr, sem þú hafir viðgengit frændsemi barnanna. þorsteinn mælti: þèr ætla ek börn[1] at annast ok fulla fúlgu með; ek mun láta fylgja meyjunni 20 hundruð, en með sveininum 4 tígi hundraða. Gríss segir: því gjörir þú svâ mikinn mun barnanna? þorsteinn segir: kjós við þik, ok annast hvort þú villt. þá steypti þorsteinn silfri or sjóði, en Gríss taldi sèr 40 hundruð. þorsteinn lýsir kaupi með þeim undir votta, ok bað Grís ábyrgjast fyri Klaufa orð ok verk. Gríss kvaðst vildu þrælka Klaufa. þorsteinn kvað þat vel vera, ef hann kæmi því við. Ferr Klaufi heim með Grís; var hann þá tvævetr, en Sigríðr fjögra.[2]

*Frá glímu þeirra Klaufa ok þórðar.*

12. Nú verðr þess at geta, hvörsu Ljótólfr lèt laust skipit fyrir Karli, þat sem þeir áttu báðir saman; en skip þat hafði gjört verit uppi í túngunni, ok var þar högginn viðrinn, því þar var skógr[3] þykkr; en til kjalarins var höfð eyk sú, er stóð niðri í Eykibrekku fyrir ofan Blaðsgerði[4], ok færðu eykina í síki þat, sem suðr er

[1]) börnin, *D.* [2]) *hèr er því nær ein blaðsíða auð í D;* hèr vantar kanske nokkuð, *stendr í B;* vantar litið, *st. í S.* [3]) mikill ok, *b. v. B, C, D, E, S.* [4]) Blóðsgèrði, *S.*

ok ofan frá Grund, ok lá hún þar þá[1] vetr, ok er þat kallat Eykisík síðan, en skip þat var kallat Íslendíngr. En er skipit var algjört, var þat alfært[2] ofan eptir ísum um vetrinn gegnt Hofi, ok lètu þar standa skipit ok skorðuðu, heitir þar Skorðumýr síðan, ok á því skipi hefir Karl utan farit. Sá maðr var á vist með Ljótólfi, er Þórðr fángari hèt. Ekki hefir gjörst til tíðenda í dalnum síðan Klaufi kom, ok til þess nú er komit sögunni, ok er Klaufi nú á ellefta vetr. Þat varð til nýlundu, at Þórðr fángari bauð Klaufa til glímu með ragmæli, ok var sá maðr sendr til Klaufa með rúnakefli, er Heklu-skeggi hèt, en Skeggi var vinr Klaufa; hann tók við keflinu ok varðveitti. En um morguninn kallar Klaufi til öxar við Grís, ok fèkk eigi, fyrr enn hann ógnaði honum til; þá ferr hann á Grund, ok rèðst um við Þorstein frænda sinn, hvort hann skyldi glíma við Þórð. Þorsteinn segir: þat vil ek, at þú ráðir sjálfr, er þèr kunnugra afl þitt enn mèr. Klaufi segir: þó ek sè úngr aldri, þá er mèr þó leiðt at liggja undir ragmæli þræls þess, ok vil ek, at þú farir með mèr, ok prófum hvörsu gengr. Þorsteinn sagðist þat mundu veita honum. Ok eptir þat stefna þeir fjölmennan fund at Hofi, því Þórðr vill hvergi glíma nema þar, ok fylgja þeir Klaufa Gríss ok Þorsteinn. Þeir takast fángbrögðum ok glíma lengi, þartil ambátt ein kom í stofudyrnar, ok kallar þetta ambáttafáng, er hvorgi fèll, ok bað þá kyssast ok hætta síðan. Klaufi reiddist við þetta, ok tekr Þórð uppá

[1]) þann, *C; v. l B.* [2]) þannig, *A, B, C, F, S;* fært, *D;* atfært, *E.*

bríngu sèr, ok keirir niðr fall mikit, svâ allir ætluðu hann meiddan; eptir þat girðir Klaufi hann svâ fast, at hèldt við meiðsl. Kellíng ein sat í stofuhorni, ok lèt allvel yfir þessu verki. Gríss mælti: nafn mun ek gefa þèr, Klaufi! ok kalla þik Baugju, ok skaltu hafa glófa at nafnfesti. þórðr komst til bekkjar með fulltíngi annarra manna. þá drífa menn út. Ok er Klaufi kom út, mælti hann: illa kann sá feginn at verða, er hann lætr eptir handagjörvi sína, þó hann þiggi aðra; gekk hann þá inní stofu, ok sá hvar þórðr sat; hann færði þá öxina í höfuð honum, ok fèkk hann bana. Klaufi gekk út þegar. þorsteinn spurði því öxin væri blóðug. Klaufi mælti: ek bannaði þórði, at bjóða fleirum mönnum fáng. þá urðu menn þegar vísir vígsins, ok leituðust um, hverr svara ætti sökinni, en Grísi bárust bætrnar, ok galdt hann 6 hundruð silfrs. Fóru menn nú heim, ok er kyrt þat sem eptir var vetrarins.

*Klaufi vegr 3 menn.*

13. þessa menn nefnum vèr til sögunnar: þorvald í þorvaldsdal, ok sonu hans, Vigfús ok þorvald. Sá maðr var undir hans vernd, er Hrani hèt, hann bjó í Birnunesi; hann var bróðir Birnu[1], er Birnunes er[2] viðkennt; en þorkatla hin gamla var móðir Hrana, er Kötlufjall[3] er viðkennt, því Helgi hinn magri deyddi hana þar, ok kól hana í hel svâ: hann sat henni þar mat þar til hún dó. Sá hinn sami Hrani bauð ójafnað mikinn bónda þeim, er bjó á Hellu, ok þórarinn hèt; hann beitti upp engjar hans

[1]) Brin, *C.* [2]) Brimnes, *C.* [3]) Kötlufell, *C.*

ok akra; en fyri því, at þórarinn var skildr mjök Klaufa, þá sendi hann honum orð, ok ferr Klaufi þegar inn þángat, ok fundu þeir Hrana á akri þórarins með fèt sitt, ok sat hann á hesti sínum með alvæpni; en er Klaufi fann hann, sækir Klaufi þegar at Hrana með vopnum, svâ hann hefir ekki at gjöra nema hefjast undan, þartil er hann fèkk bana; þar heitir síðan at Hranareki[1], er hann var veginn. Heim fara þeir þórarinn[2] ok Klaufi, því þeir vilja gera fúlguföll Grísi í brautvistinni. En er Klaufi fór heim þá fann hann mann, ok reið sá hrossi Gríss, ok drap Klaufi hann; sá maðr hèt Örn ok var húskarl Höskuldar lögmanns, náfrændi hans. Nú fór hann, ok mætti Gríss honum, ok spurði, því öx hans væri blóðug ok klæði. Mat minn vil ek, sagði Klaufi, en ekki hirði ek um þetta. At liðnu matmáli Klaufa ríða 12 menn at garði;. kendu þeir þar þorstein svörf, ok með honum Hávarð or þorvaldsdal, ok mæla eptir Hrana. Gríss var þá til andsvara, ok galdt hann 12 hundruð fyri vígit hans Hrana. Í þann tíma kom Höskuldr lögmaðr, ok heimti fyri víg frænda síns, ok varð Gríss at gjalda 6[3] hundruð fyri víg Arnar; síðan fóru hvorutveggju heim. En Klaufi var nú miklu verri viðreignar enn áðr, ok hèldt þá Grís hræddum; en eigi at síðr kvaddi Gríss hann til fiskiveiðar í ána ok ferr Heklu-skeggi með honum; þórðr átti hálfa ána, ok veiðina við Grís. En er Klaufi kom

[1]) *þannig B, E, S;* Hranariki *eða* Hranariki, *A, C. D, F.*
[2]) *þannig B, D, E, F, S;* þorsteinn, *A, C.* [3]) 7, *B, D, E, S.*

til ok Björn húskarl þórðar, þá greindi þá þegar á, því Klaufi vildi hafa alla ána til veiðarinnar. Björn hleypr á Klaufa þveran, ok ætlar at fella hann útá ána, því hann var bæði mikill ok sterkr; en Klaufi leitar nú eptir, en Björn undan, ok finnast[1] með því, at Klaufi drepr Björn, ok ferr síðan heim. Ok brátt kom Hrólfr nefglita, ok beiddi bóta fyri Björn, ok varð Gríss enn at gjalda 6 hundruð silfrs.

*þeir Klaufi ok Karl finnast.*

14. Á þessu sumri bjó Gríss skip sitt til utanferðar. Klaufi spurði: hverr skal hèr fyri búi sjá meðan? Gríss mælti: þèr hefik þat ætlat, segir hann. Eigi ætla ek þat þó, segir Klaufi, því ek vil utan með þèr. Gríss ferr nú, ok hittir þorsteinn svörf, ok spyrr hvörsu með slíku skal fara? þorsteinn segir: þat legg ek til, at þú flytìr hann, því hann á alla kynslóð austr þar, þætti mèr af því líkligt, at hann mundi ekki fýsast út[2] híngat. Gríss tók þessu vel, ok varð Klaufi í ferð með honum. þorsteinn bað þá frètta at Karli syni hans: því lángan tíma hefir ekki frèttst til hans. Nú hèldu þeir skipi til hafs, ok kvomu til þrándheims, var Gríss þar um vetrinn; en um sumarit bjó hann skip sitt til Íslands, ok gekk eigi lengra enn til Niðaróss, lögðu síðan út undir Sólskel[3], ok gaf nærst byr af útnorðri, ok mælti Klaufi með allillu skapi, at þeir mundu sigla suðr með landi. Gríss sagði, at afglapi sá skal ekki því ráða, at ek

[1]) skiljast, *S.* [2]) aptr, *b. v. S.* [3]) Sólkel, *B, D, E, S.*

sigli svâ lángt afleiðis. Klaufi svaraði: svâ skal sigla, sem ek vil, eða siglir þú aldrei heðan lífs; ok Klaufi varð at ráða; ok sigla nú suðr með landi, þartil þeir koma at einum hólmi; þar lágu 2 skip, ok voru aungvir menn á; þeir hlupu uppá annat skipit. Klaufi mælti: segðu, Gríss! hverr skipi þessu hefir stýrt, því hèr eru rúnir þær, er segja. Gríss kvaðst eigi vita þat. þú veizt þat, sagði Klaufi, ok skaltu verða at segja. Nú verðr Gríss at segja hvort hann vill eðr eigi; en svâ segja rúnir: Karl rèð þá skipi, at rúnir voru ristnar. Hljóp Klaufi þegar í bát, ok rèri at landi; svâ var hann þá reiðr, at hann rak öxi sína í jörð niðr svâ stóð á hamri; þá reif hann upp mikla kylfu, svâ at aungvum sýndist hún vopnhæf, nema honum einum. þeir heyrðu þá manna mál mikit, ok kvomu þar at, at 12 menn voru bundnir, en fjöldi manns var þar hjá, ok leystu menn or böndum, ok var hverr höggvinn, sem leystr var; þeir menn, sem í böndum voru, var Karl hinn rauði ok hans fèlagar. Einn maðr gekk mest at berbrynjaðr at höggva fólkit, hann reiddi sverð um öxl alleiguligt; þar snèri Klaufi at þeim manni, ok spurði hverr hann væri. Sá maðr svaraði allstórmannliga, ok kvað hann þat engu skipta. Klaufi snèri at honum, ok barði á báðar hendr * * * [1] allvel at hlaupa fyrir Atla[2] nokkra hríð; svâ hèt víkíngr sá, er barizt hafði við Karl; en þá er Klaufi náði til hans, þá hlífði hann honum eigi, heldr enn öðr-

[1]) *Hèr er eyða fyri fám orðum í A, B, C, E, F, S; en í D hálf blaðsíða.* [2]) *þannig D, F;* Atli, *A og hin.*

um, ok gekk af honum dauðum, tók síðan sverðit ok hjó á tvær hendr, allt til þess, er Gríss kallaði hátt, ok mælti: Klaufi! Klaufi! kunn þú hóf þitt; þá gjörðist Klaufi svâ úhnárr, at hann gat eigi valdit klumbu[1] þeirri, er áðr barði hann með. þeir Karl voru nú leystir; varð þar mikill fagnafundr. Um vorit eptir fara þeir Gríss ok Klaufi í hernað, ok eru í víkíngu 3 sumr, ok fengu jafnan sigr; ok þá er þeir leggja af hernaðinn, halda þeir til Noregs, ok sigla í þrándheims mynni, ok eru þar svâ um vetrinn. En um vorit búa þeir Klaufi skip sitt til Íslands, ok fóru á því skipi Karl ok Ögmundr; koma þeir í þær stöðvar, sem þeir Gríss áttu vanda til, ok lögðu skipit undir Melshöfða, ok fóru allir heim á Grund, ok fengu þar góðar viðtökur. þá mælti Gríss til þorsteins: misjafnt verða fórnir til manna. Klaufi mælti: kenn þú þèr þat ekki, skræfan[2]! er þú veldr engu um, en Karl má þar nokkut af segja, með hvörjum atburðum hann er heim kominn. Karl sagði sem farit hafði. þorsteinn þakkaði Klaufa, frænda sínum. Vel samir at segja frá yfirlitum Klaufa: hann var þverrar handar ok 5 álna hárr, armleggi hafði hann bæði lánga ok digra, kinnr miklar ok þrekligar greipr; hann var úteygðr ok ennisbrattr mjök, munnljótr ok neflítill, hálslángr ok hökumikill, skolbrúnn ok skarpleitr, lágu hátt kinnarbeinin; manna var hann svartastr bæði á brýn ok hár; hann var opinnmyntr, ok skögðu

[1]) kumlu, *B, E.* [2]) skræðan, *B, D, E, S.*

2 tennr fram or höfðinu, ok allt var hann at áliti, sem hann væri kreptr ok knýttr. Nú fara þeir heim Gríss ok Klaufi, ok er hann nú 18 vetra. Þenna vetr bar ekki til tíðenda, nema þat, at maðr kom til Hofs eitt kvöld, sá er Skíði var nefndr; hann hafði stokkit undan annars manns ánauð, þess er Þorgrímr hinn grái hèt, hann bjó á Áslandi[1] í Skagafirði. Skíði bað Ljótólf veita sèr traust nokkrt. Ljótólfr kvaðst mundu veita honum fyri sakir Una, frænda síns. Skíði bar þræls nafn; eigi bar hann þat nafn af því, at hann hafði til þess ætt eðr eðli; hann var manna mestr ok fríðastr; Ljótólfr skipaði hann fyri verkstjóra ok manna forræði. Um vorit eptir kom Þorgrímr vestr með 30 manna at vitja þessa manns, ok sömdu þeir Ljótólfr[2] svâ ok Þorgrímr: at Ljótólfr galdt fè fyri þat hann hafði haldit Skíða um vetrinn, ok kölluðust sáttir; ok hafði Þorgrímr með sèr þrælinn at sinni, þvíat Ljótólfr hafði fámennr heima[3] verit. Þá komu 60 manna til móts við Ljótólf, ok snýr hann þá málinu öllu til heimsóknar; þetta voru ráð Hrólfs nefglitu, ok kreptu þeir svâ at Þorgrími, at hann varð at selja Ljótólfi sjálfdæmi, ok lèt laust bæði fèt ok þrælinn, ok fór heim við þat.

*Gríss drekkr brullaup sitt til Sigríðar.*

15. At liðnum vetri, þá er menn voru á vorþíngi á Höskuldsstöðum, varð mönnum víðrædt mjök um kvomu Karls. Þá gekk Gríss til tals við Ljótólf frænda sinn, ok mælti: vel samir

1) Óslandi, *hin.* 2) Ljótr, *hèr rángt í A.* 3) *v. í B, D, E, S.*

nú at tala um launin skipsins við Karl hinn rauða, því nú eru margir góðir menn við. Skíði var þar viðstaddr, ok mælti: hygg at því, Griss! at þú leggir þat eina til með mönnum, at þá sè eigi verr með mönnum eptir enn áðr. Ok eptir þat spyrr Ljótólfr Karl eptir, hvat hann vill leggja at launum fyri skipit, þat þeir lètu gjöra báðir saman. Karl mælti: ek hygg at þú megir þar engvar heimtur fyrir hafa, því þú baðst mik ráða verðinu. Gríss mælti: gott þætti oss hèr at gera [Ljótólf þèr at vin[1], ok leggja[2] fram fè nokkut. Karl mælti: ekki mun framkoma fyri þín orð, ok einskis annars at þessu sinni; ok svâ varð. En þeir frændr Karl ok Klaufi heimtu at Grís fjögurra ára[3] forgift, ok þá greiddi hann fúlgu hans, ok fengu þeir[4] land til ábúðar, ok ekki skildu þeir um ábyrgð verka hans þaðan í frá, ok fór hann bygðum til Mela, ok sat þar um sumarit. Þá voru lögrèttir útí Túngunni[5], ok ráku fèit til rèttarinnar feðgar tveir úr Teigsfjalli, hèt annar Björn, en annar Sigurðr, ok mislíkaði Klaufa fjárrekstrinn, því hann átti á eina með, ok líkaði honum illa, er hún var elt afvega[6]; ok er þeir komu gegnt honum, hljóp Klaufi til allillu skapi, ok drap þar hvörn, sem kominn var, ok fór með þat til rèttanna, ok mætti þar Karli[7] frænda sínum, ok hlupu þeir á rèttargarðinn. Ljótólfr spyrr, hvat hann sæi til þeirra manna, er fèit ráku. Klaufi sagði: sá ek um stund hvar

1) L. þèr at um, *B*, *S*; *v. i D.* 2) legðir, *D.* 3) *h. v. C*, *E*, *S*; fè þat með Klaufa var lagt, *hefir D i staðinn fyri:* fjögurra ára forgift. 4) þat, *B*, *C*, *E*, *S.* 5) Túngunum, *B*, *D*, *E*, *S.* 6) af haga, *C.* 7) Halli, *B*, *D*, *E*, *S.*

þeir ráku fèit; en nú far þú, ok vit hvar hvorr hefir staðar numit; þá varð víst, at Klaufi hafði drepit þá báða. Eptir þetta varð Klaufi laust at láta Mela land, ok fèkk Karl honum nú aptr aðra [ok 20 hoskarga[1], ok reistu þar bæ fyri neðan ána uppí dalnum, þar sem nú heitir á Klaufabrekkum, er þá hèt fyrst í Klaufanesi, því þat stóð fyrst niðr við ána, ok þótti þar kominn illa, því mjök bar á hann stórum, sem síðarr bar raun á. Ok eptir þetta gjörðist fullr fjandskapr með mönnum í dalnum. A þeim vetri vænti hvorutveggi sèr liðs norðan or dalnum[2] af súnum frændum, Kolbeini ok Una[3], þvíat sundrþykki þeirra var þá sem mest, en [því fórst[4] þat þó þau misseri, ok var þá kyrt at kalla í dalnum. En at liðnu sumri bað Gríss konu til handa sèr, Sigríðar Snækollsdóttur[5]; þorsteinn svörf var þar til andsvara, ok veik hann öllu til Klaufa. þá fór Gríss at finna Klaufa, ok bað hann konunnar. Klaufi svaraði skjótt: mun þá eigi hraust kona illum manni gefin? en þó læt ek þat mitt ráð, sem frændr hennar vilja fyrisjá. Gríss mælti: koma muntu til boðs míns, ef þeim sýnist at gipta hana. Koma mun ek víst, segir Klaufi; ok síðan var þessu keypt, ok var Ljótólfr ekki við þessa ráðagjörð. Nú var boðit búit á Grund, ok kom ekki margt manna, en þó[6] var sem mest vinfengi þeirra Ljótólfs ok Asgeirs rauðfelds, þvíat Íngöldr[7] fagrkinn var

1) *þannig A, C, F;* hoskega, *B, E, S; frá* [ *v. í D.* 2) dölunum, *F.* 3) *þannig B, D, E, S;* Uni, *hin.* 4) fyrifórst, *F.* 5) *þannig F;* Klaufadóttur, *rángt, A, B, C;* Kl. systur, *D, E, S.* 6) þá, *B, E, F, S.* 7) Ingveldr, *C, D;* Ingvoldr, *hin.*

frilla Ljótólfs, ok var aungum boðit frá Brekku; varð mönnum skipat í sæti á Grund; sátu allir hinir ellri menn á annann bekk, enn þorsteinn svörfr ok Karl son hans, ok Klaufi frændi þeirra, á annann. Gríss tók þá til orða: vel samir þat í svâ góðu samsæti, at tala mest, þat eptir megi hafa, ok strengja heit, eða taka sèr jafnaðarmenn. þorsteinn sagði þat úvitrliga tillagit: ok mun þaðan jafnan margt koma, sem Gríss er. Eigi at síðr halda þeir á þessu tali, ok hóf Karl hinn rauði þat fyrst, ok tók sèr jafnaðarmann Ljótólf goða, ok strengdi þess heit, at hann skyldi hafa heimilat ragmæli á hendr honum á þriggja vetra fresti. Gríss tók sèr jafnaðarmann, ok nefndi til þess Skíða, ok strengdi þess heit, at hæfa þá höfn, sem hann vildi, hvört sinn[1], er hann sigldi landa í milli. Ögmundr sagðist eigi mundu þá sigla lengra, enn um þverran hroptann[2]. Klaufi tók sèr jafnaðarmann Ólaf Ásgeirsson, ok strengði þess heit, at koma í sömu rekkju Íngvöldi fagrkinn, án vilja Ljótólfs goða. Gríss mælti: ekki vita slík orð lítils, ok ekki mundi þreklausir menn slíkt tala, ok látum þetta nú eigi at engu verða, ok förum þegar útí Brekku eptir Íngvöldi fagrkinn, ok setjum hana á brúðbekk hjá Sigríði. þeir gera svâ; standa upp 18 saman, ok gánga út til Brekku. Gríss settist á tal við Íngvöldi ok þórhildi, móður hennar; en þeir Karl tala við Ásgeir bónda, ok báðu þau öll samt koma suðr síðarr dagsins, ok fóru þeir heim fyrir[3], ok mættu þeim manni fyrir heima, er þórðr

[1]) *þannig B, F, S;* sem, *A og hin.* [2]) hrottan, *C.* [3]) *eða* fyrri, *A.*

gapa hèt. Gríss gekk at honum, ok mælti í eyra hljótt: allíllt er þat, at hann Karl er svâ matsparr, at hann býðr eigi slíkum mönnum, sem þú ert; far nú til Hofs, ok svâ muntu eigi hafa þar verri viðtöku, ef þú segir, hvat hèr er í ráðagjörð. Þórðr hljóp þegar. Karl þekkti þegar, at maðrinn hljóp frá veizlunni, ok bað hlaupa eptir honum, ok elta hann; en hann hljóp á ána undan, ok lètti eigi fyrr, enn hann kom til Hofs, ok sagði, hvat i leikum var. Ljótólfr brá þegar við, ok safnaði at sèr mönnum, ok reið vestr yfir ána til Brekku. Maðr sá var úti á Grund, er hjó eldivið; hann hljóp inn, ok sagði, at 20 menn riðu yfir ána ok til Brekku. Þá standa þeir upp 18 saman, ok fóru út til Brekku, ok urðu við þat varir, at margir menn voru í húsunum, en byrgðar dyr. Þá kom Karl at, beiddi Ljótólf út gánga. Þá heyrðu þeir hlátr mikinn inní bæinn, [er þau hlóu[1] Íngöldr ok Hrólfr nefglita. Íngöldr fagrkinn gekk þá fyri dyrnar; þá gekk Klaufi upp at dyrunum, ok kvað vísu:

Hygg ek at hèti[2]
Hrólfr nefglita.
sá býðr Klaufa
kvon at verja;
munattu[3] böggnir
brúðar njóta,
ve[4] nefglita[5]
væmir[6] lífi.

---

[1]) *þanning hin;* eru þau hóg, *A.* [2]) heiti, *B, D, E, S.* [3]) máttu, *B, D, E, S;* nú máttu, *C.* [4]) *b. v. B, E, S; v. í A og hin.* [5]) víst þó, *b. v. F.* [6]) rænir, *D;* væminn, *E.*

Ok enn kvað hann:

Hlær mest at því
Hrólfr nefglita,
nærgi[1] er greppi
gjöldum þeirra.

Þá gekk Karl hinn rauði at dyrunum, ok kvað vísu:

Veit ek at seggir sátu,
'slíkt er minniligt, inni[2],
ræðir sá er lof leiðir[3],
Ljótólfr, fyrir óskjóta;
brims[4] get ek enn at ýmsir
elskir[5] dauðar[6] verði,
hlátr skal hirði njótum
hegna brögðum fegnar[7].

Karl brá þá sverði, ok setti í dyrustafinn, ok nefndi sèr votta, ok heimilaði ragmæli á Ljótólf goða, er hann vildi eigi út gánga, ok fyldi svo orð sín, er hann hafði talat á Grund; hann bauð Ljótólfi enn útgaungu: ok munu vèr gánga frá dyrunum, segir[8] Karl. Ljótólfr vill eigi út hætta mönnum sínum, ok fór Karl heim, ok sátu þeir at boðinu. Eptir þat fór hverr til sinna heimkynna; var þá kyrt í dalnum þann vetr.

*Þau Klaufi ok Íngveldr gánga í eina rekkju.*

16. En um vorit eptir ætluðu hvorutveggju til liðs við þá Una ok Kolbein, sem þeir höfðu hit[9] fyrra vorit. Ljótólfr varð fyrri búinn, enn Karl, ok fóru synir Ásgeirs með Ljótólfi. Þá

1) nægara, *S.* 2) meirr, *b. v. B, E, S.* 3) leyfir, *B, E, S.* 4) búins, *B, E, S.* 5) elsku, *D, E.* 6) dauðir, *C, E;* dátt, *D.* 7) þegnar, *B, E, S.* 8) sèr, *B, D, E, S.* 9) *þannig:* ht, *A, B, E, F, S;* haft, *C;* heitit, *D.*

spurði Þorsteinn svörfr Karl, son sinn, því hann lèti svâ seint við um ferðina. Karl kvaðst eigi hirða, þó þeir bryti snjó fyrir honum um heiðina. Í þann tíma hafði Ásgeirr farit uppí dalinn at rýja gemlínga. Ok nú ferr Karl til heiðarinnar, ok kemst eigi lengra, enn uppí heiðina. Þá varð þat til tíðenda, at Klaufi fèll af baki; þá drápu þeir hross eitt, er laust hljóp með þeim, ok flóu af skinn, ok þöndu um Klaufa, ok bundu hann um þvert bak á hrossi, ok snúa við þat ofan eptir dalnum, ok fundu Ásgeir fyri neðan Vatnsdalsá. Ásgeirr spurði, því þeir færi svâ hverft. Sjá máttu, sagði Karl, at vèr förum hèr með Klaufa veginn. Eigi er þat illa, sagði Ásgeirr, því hann hefir mörgum manni mikinn ójafnað sýnt, meðan hann lifði. Karl segir: eigi þarftu at hrósa því svâ mjök, þvíat nú skaltu láta líf þitt, eða fastna Íngvöldi, dóttur þína, Klaufa vegnum. Þat kjöri Ásgeirr, at rètta fram höndina; ok nú sprettir Karl til handar Klaufa, ok verðr Ásgeirr þar í at taka, ok fara festar fram; þá kom kveðlíngr úr húðinni:

Mál er í meyjar hvílu,
mjök emk styggiliga höggr,
flýgr í[1] faðm mèr eigi
fögr drós[2] gala mögrum[3];
munat oss um þrá þessa,
þat kvóðu hjú, batna,
rètt þau er reisa áttu
rauð[4] þinn[5] hana inni[6].

[1]) or, *B*, *S*; á, *E*. [2]) rós, *D*. [3]) mögum, *B*, *E*, *S*; mögr, *D*. [4]) rann, *B*; *í* rann, *D*. [5]) þeim, *B*, *C*, *D*, *E*, *S*. [6]) manni, *B*, *D*, *E*, *S*; meiri, *C*.

þá mælti Ásgeirr: segir þú Klaufa dauðan? Karl svaraði: þat segi ek eigi, en þat sagðik, at hann væri veginn. Ásgeirr segir: við því átta ek ekki gjört, at þú færir með prettum eða ráðkrókum, eða lýgi. Eigi laug ek, sagði Karl, þótt ek segða hann veginn, því þat er sagt vegit, sem reidt er. Ok nú fara þeir ofan til Brekku, ok færir Karl þau í eina sæng, Klaufa ok Íngvöldi fagrkinn, en Ásgeirr hafðist við uppí dalnum, á meðan þetta fór fram.

*Bardagi þeirra Klaufa ok Ljótólfs.*

17. Nú halda þeir vestan, eptir þíngit, Ljótólfr ok hans menn, ok hafði þorgrímr hinn grái mjök verit ímót þeim Ljótólfi ok Una. Ok nú koma þeir í dalinn í þann tíma, er þeir Karl ok Klaufi fara neðan[1] með konuna. Ásgeirr var þá kominn í för með Ljótólfi, ok hafði sagt honum þat, sem í hafði gjörzt, ámeðan þeir voru vestr. Nú fara þeir Ljótólfr yfir ána hjá Teigarhöfða, en þeir Karl ok Klaufi neðan eptir eyrunum at Urðarhúsum[2], var Ljótólfr við 30sta mann, en Karl við 15da mann. Karl hrópaði mikit á Ljótólf, ok bað hann heyra til þess, er hann talaði: hèr er Íngöldr frilla þín í för með mèr! Ljótólfr lætr eigi sem hann heyri, ok ferr heim við svâ búit; var Karl með Klaufa, svâ at um þat voru almæli um dalinn, at Karl bæri ægishjálm yfir Ljótólfi, en þó má kalla kyrt um sumarit. Geta verðr þess, hversu fór með þeim Una ok Kolbeini, [at Uni hlaut þat[3], er

---

[1]) undan, *E.* [2]) Viðarhúsum, *B*, *C*, *D*, *E*, S. [3]) *þannig leiðrètt í A;* um hlut, *hin.*

þeir deildu um, því allir voru ímóti Kolbeini; ok svâ varð Kolbeinn reiðr, at hann stökk á skip ok sigldi í haf, ok braut skipit við klett þann, er liggr í útnorðr undan Grímsey, ok tyndist Kolbeinn þar, ok er eyinn við hann kend, ok kölluð Kolbeinsey; en Hjalti sitr þar eptir, ok mínkar ekki virðíng sína. Um haustit eptir tókst deila með þeim Klaufa ok Ljótólfi; þótti Klaufa menn Ljótólfs óskilsamliga reka fè þeirra þorsteins svörfs ok Karls. Klaufi bað Karl fara uppí dalinn til rèttanna; en Karl kvaðst verða at fara útá Strönd til rètta. Klaufi ríðr út eptir dal, en Karl útá Strönd. Ekki er sagt frá ferðum Klaufa, fyrr enn hann kemr upp at Krókamelum gegnt Búrfellshúsum, ok þar er hann fyrir fjallmönnum við vaðit. Nú er fèit rekit at vaðinu, en Klaufi verr vaðit, ok er við 5ta mann, en rèttamenn margir, ok tekst þar bardagi; en lögrèttin var á Hæríngsstöðum, ok bjó þar Hæríngr; hann sèr at fèit dreifist þar við ána, ok hleypr heiman með 10da mann, ok komast þeir eigi yfir ána, þvíat Klaufi rèðst ímóti, ok var þá kominn at honum berserksgángr, ok berjast þeir nú fyrir austan ána. Í þann tíma kom Ljótólfr at með 3ðja mann, ok snýr at með Hæríngi. Klaufi lætr nú, sem ekki sè annat at sækja, enn Ljótólf, ok hopar Klaufi nú undan útá ána, ok berjast þeir nú á miðri ánni. Í þessu bili ríða 9 menn utan eptir eyrunum hvatliga, var þar kominn Karl hinn rauði; hann kallar hátt: Klaufi frændi! kunn þú hóf þitt. Klaufi mælti: illra heilla komstu mèr, þvíat nú hefða ek sigrast ok drepit Ljótólf, ef þú hefðir eigi komit, ok

hefðu við þá einir ráðit dal þessum. Þat skaltu eigi mæla, frændi! sagði Karl, þvíat Ljótólfr á marga frændr göfga um allt Ísland, ok mundu við sitja fyrir afarkostum, ef honum væri nokkut til meins gjört, ok sel honum nú sjálfdæmi fyrir allansaman ójafnað þann, sem þú hefir gjört honum. Klaufi reiddist þá, ok kvaðst þat aldrei skyldu gjöra. Eru þeir nú skildir, ok var Hæríngr fallinn ok 15 menn aðrir, ok skildu við svå búit.

*Dráp Klaufa.*

18. Á þessu sama hausti sóktu þeir litgrös bræðr or[1] Brekku, synir Ásgeirs, uppá Klaufahlíð, er móðir þeirra sendi þá eptir, ok kvomu þeir heim í Klaufanes, er þeir höfðu sókt grösin, ok vildu finna Íngöldi systur sína, ok lögðu niðr úti baggana, meðan þeir dvöldust, var annat verja, en annat hít mikil. Þá kemr Klaufi at, ok saxar í sundr baggana með páli, ok gekk í burt síðan. En er þeir bræðr kvomu út, sáu þeir, at belgirnir voru ekki tiltækir, ok fara þeir heim, ok mæta móður sinni. Hún spurði, því þeir hefði ekki með at fara. Þá varð Þorleifi vísa á munni:

Belg hjó fyri mèr
böggver snöggvan,
en fyrir Ólafi
ál ok verju;
svå skal verða,
ef vær lifum[2],

[1]) til, *B, C, S.* [2]) b. (*líkliga:* bræðr) *ofaukit í öll.*

við böl búinn
böggver[1] höggvinn[2].

þat var eitt sinn, at Ingöldr fagrkinn settist í knè Klaufa, ok var við hann allblíð, ok bað hann lofa sèr at fara ofan til Brekku ákynnis[3] ok kvaðst eigi lengr skyldu í burtu vera, enn hann vildi, [ok bað, at Heklu-Skeggi skyldi fara með henni. Klaufi leyfði þat. Hún fór síðan, ok var eigi lengr í burtu, enn hann leyfði[4]. En er hún kom heim, settist hún í knè honum, ok var blíð við hann, ok mælti: eigi ætla ek, at önnur kona sè betr gefin, enn ek, en þat líkar mèr illa við bræðr mína, er þeir hafa drepit yxni mitt, er mest gersemi var, ok vilda ek gjarna, Klaufi minn! at þú lètir þèr þetta mislíka, ok sæktir yxnit, þar sem þat liggr, tilgjört í húðinni, gegnt dyrum í Brekku niðr. Klaufi svaraði: hvat mun þat varða? eigi mun þik hèr mat skorta. Hún svarar: eigi varði mik þess, at þú mundir vilja vera ræníngi bræðra minna. Klaufi spratt þá upp, ok girði sik sverðinu Atlanaut, ok var hinn reiðasti, ok gekk ofan í Brekku, ok kom ekki á Grund, ok fann þegar húðina liggja í dyrunum, ok tók upp allt saman yxnisfallit, ok kastaði á bak sèr, ok hugðist mundu gánga út með, en þat gekk eigi, þvíat við nam dyrigættinni, ok frá hafði hann þau öll saman, ok gekk með þau suðr at[5] garði, ok hristi þar af sèr dyrigættin öll, ok þar hurðina með, ok gekk síðan heim. En er hann kom heim, var lángt af nótt,

[1]) böggvi, *F.* [2]) höggum, *D.* [3]) *þannig, A;* at kynni, *F, v. í hin.* [4]) *frá* [*v. í B, D, E, S.* [5]) úr, *B, D, E, S.*

var þar borinn mjök snjór at dyrunum; gekk hann þá inní snjóbyrgit; þá kom Íngöldr ímót honum, ok var allblíð við hann, ok svâ rann Klaufa þá reiðin, at hann gat þá þeim bagga eigi valdit, sem hann hafði áðr lengi borit. Hann laut mjök í dyrunum, er hún fagnaði honum, ok rendi sverðit Atlanaut fram með[1] slíðrunum, ok tók hún þat, ok kastaði útí snjóbyrgit ok mælti: neyti sá, sem neyta þorir! Hún dvaldi fyri Klaufa, þartil at hann var laginn ígegnum, svâ hann fèkk þegar bana; þessu verki ollu þeir Ásgeirssynir[2], ok tóku þeir Klaufa, ok dróu undir heygarð at húsbaki. Íngöldr fór þá í rekkju sína, en þeir bjuggust burt. Þegar kom Klaufi til sængr Ínguldar, er þeir voru burtu; hún lèt þá kalla á þá bræðr, ok hjuggu þeir þá af honum höfuð, ok lögðu neðan við iljarnar. Þeir bræðr kvomu heim um kvöldit í Brekku, ok spurði faðir þeirra þá, hvat þeir hefði annazt. Þorleifr kvað þá vísu:

Rauð ek á[3] randa gæði
rítorms sakar víti
meiðr í málma þiðri[4]
mens, tók sverð at grenja[5];
svâ at hættliga í hrínga[6]
hnitsól[7] ara fitjar
felli guðr[8] meðal fjalla
fetils trölli hlóð ek þollr[9].

Ásgeirr segir: finn ek nú, hvat þið hafið gjört,

[1]) úr, *D*, *F*. [2]) Ásgrímssynir, *D*, *E*. [3]) *v. í D*. [4]) þyðr, *C*; fiðri, *D*. [5]) geyma, *C*; glansa, *D*. [6]) huga, *B*, *C*, *D*, *E*, *S*. [7]) hvitsól, *E*. [8]) guðs, *B*, *E*, *S*; gnað, *D*. [9]) þollar, *C*.

en ekki ber ek traust til at halda ykkr hèr, ok fari þið til Ljótólfs. þeir fóru þegar til Hofs, ok gjörðu Ljótólfi kunnigt, hvat þeir höfðu gjört. Ljótólfr tók því verki allvel, ok bað þá fara til Gríss: því vèr vitum allir saman þessi ráð; ok tók Gríss því allvel, en þó treystist hann eigi til at geyma þá, svâ at Sigríðr vissi eigi, kona hans, ok var hún nú vör við gjör, hvat til tíðenda var orðit, ok mælti [hún kaup til, at[1] leyna þeim, ok bað selja sèr sverðit Atlanaut til geymslu, ok kvaðst eigi mundi segja til þeirra, fyrr enn nokkr segði annar, ok þat varð nú kaup þeirra.

*Bardagi ok sátt þeirra Karls ok Ljótólfs.*

19. þat var á öðru kvöldi, at Karl hinn rauði sat við eld ok fylgdarmenn hans 8; þeir heyra at nokkut nauðar á húsinu, ok kom kviðlingr:

Sitk á húsi,
sè ek til þess,
hèðan munu vèr
oss hefnda vænta.

Karl mælti: alllíkt er þetta róm þeim, er Klaufi frændi vorr hafði, þá er vèr heyrðum til hans, ok má vera, at hann þikkist nokkrs mikils viðþurfa; fellr mèr svâ í geð kveðskapr sjá, at víst er þetta fyri tíðendum, hvort sem þau eru framkomin eðr eigi; ok fara þeir út eptir þetta alvopnaðir, ok ætla at snúa yfir[2] til Hofs; þá sá þeir ekki litinn grepp suðr við garðinn, ok var þar Klaufi, ok hafði höfuðit í hendi sèr ok mælti:

[1]) hvör kaup til at leggja eðr, *B, D, E, S.* [2]) suðr, *C.*

Suðr er, ok suðr er,
svâ skulum[1] stefna.

þeir snúa þángat eptir Klaufa, ok fara til þess, er þeir koma til Steindyra; þar nam Klaufi staðar ok laust höfðinu á dyrnar, ok mælti:

Hèr er, ok hèr er,
því[2] skulum lengra?

Karl snýr at dyrunum, ok voru þær opnar, ok voru inni eldar, trapiza[3] stóð á gólfinu, en mikit slátr var fært upp ok soðit. Gríss stóð upp í móti þeim, ok fagnaði Karli vel: ok sezt niðr, mágr! ok tökum snæðíng. Karl svarar: annara er oss at tala um tíðendi þau, sem orðin eru. Gríss sagði: engi koma ný tíðendi at oss, eðr hvat kantu segja? þat er víst, segir Karl, at ek hygg Klaufi sè veginn ok dauðr. Hvat mun til vor koma annat, enn láta illa yfir því, segir Gríss. Karl segir: þik hyggjum vèr vita, hvörir unnit hafa verkit; ok sezt Karl nú niðr, ok semr nú heldr með þeim, ok snæða sumir menninnir. Gluggr var á húsinu sunnan, ok skildu þeir þar við sitja Ásgeirs synir[4], ok sjá, hvat komit væri; þeir eru nú við glugginn; ok þá er þeir Karl eru komnir, þá mælti þorleifr: glöggt þikkjumst ek sjá, hvörsu hèr mun tilætlat: sendt mun eptir Ljótólfi, ok munu þeir ega at veita Karli atgaungu, en ek þoli þat aldrei, at svâ ágætr maðr sè svikinn. þorleifr kvað vísu:

Kveðar[5] sendir mik mundu

---

[1]) skuluð, *D.* [2]) hvat, *D.* [3]) *þannig, C; leiðrètt í E, F;* trapíra, *A og hin.* [4]) Asgrímssynir, *D.* [5]) kveðjur, *D.*

mund hýrr rekast undan[1]
dyggr sá er hyggr[2] mun eggja
[dólgr mín rúm sína[3];
ok blóðreyndan[4] brandi
blóðorm um knè góðan
hræfa[5] gífrs[6] með hreifum
heggr í bur á skeggi.

Ok enn kvað hann:

Hèr svík ok hvetk hvassan
hlymbrand[7] jóru randa,
meðan úvinir orir
oss leiðar matveiðar[8];
egum bernskligt báðir
ból þat, er lítt[9] nýtr[10] sólar,
oss hlægir þat eigi,
útum hellis skúta.

þetta heyrir Karl, ok kennir mál þorleifs, ok kvað hann vísu þessa:

Hèr gelr hvass á húsi
hyrlunds mikils styrjar,
fleinhríðar[11] vekr[12] fæðir[13]
ferð, sá er hræddr skal verða;
því munu ljóð, en leiðar
linnsvegir rendu eigi,
bið þú gunnstara[14] grennir[15]
Grís hætt er ek vætti[16].

Ok nú sprettr Karl upp; en Sigríðr Klaufa systir

1) undir, *B*, *D*, *E*, *S*. 2) hyggin, *B*, *E*, *S*. 3) *v. í D*. 4) blóðreyndum, *D*. 5) hæfa, *E*. 6) geifrs, *E*, *S*. 7) hlinbrand, *D*; hlinibrand, *E*, *S*. 8) *matreiða*, *D*; *matreiðar*, *E*, *S*. 9) litri, *D*; litni, *E*. 10) *v. í D*. 11) fleinhirðar, *B*, *E*, *S*. 12) *eða* vekar *A*; vekra, *B*, *E*, *S*; vekja, *D*. 13) flæði, *D*. 14) gimstara, *C*. 15) geymir, *B*, *E*, *S*; greinar, *D*. 16) mætti, *B*, *E*, *S*.

gekk at honum, ok fèkk honum sverðit Atlanaut; hann tók þegar við sverðinu, en kastaði á[1] öxl sèr umgjörðinni. Gríss var þá úti, ok bar flot á spjótskefti þeirra. Karl hljóp þá at Grísi, ok hjó hann sundr í tvo hluti með sverðinu, ok mælti: svâ brytjum vèr grísina[2] Grundarmenn[3], aldrei meirr, enn í tö[4]. Hann sá, at floti var ryðit á öll spjótsköptin; hann tók spjót sitt, ok rak í skaflinn, ok dró út at fjöðrinni[5], ok þerði þannveg í snjónum, ok svá gjörðu allir, ok snúa síðan út or garði, ok sá fara mikinn grepp gagnvart sèr, ok var þar Klaufi kominn; hann kvað þá vísu:

Gánga hèr fyri garð fram
gunnhlaut[6] enni[7],
eruð vanir vígum,
sem vær fyrri[8];
sèt höfum sólheim,
sjá munum annann,
eruð þèr, sem vèr,
alls um duldir[9],
alls um duldins[10].

Í urð ætla ek nokkrum í kvöld, Karl frændi! sagði Klaufi; ok sjá þeir fara 15 menn frá Bakkavaði. Þeir mætast þar, sem nú heitir Kumlateigr, ok var þar kominn Ljótólfr goði; voru engar kveðjur; hlupust menn þegar at, ok varð

[1]) um, *B, D, E, S.* [2]) grísana, *B, C, D, E, S.* [3]) grimdarmenn, *C.* [4]) *þannig* (tav) *A, C, F;* tvo, *hin.* [5]) *þannig B, C, E, F, S;* fjörinni, *hin.* [6]) gunnhlut, *E.* [7]) ein, *D, E, F, S.* [8]) *fyrra part vísunnar v. í C.* [9]) dulir, *D.* [10]) dulins, *B, C, E, S;* dulir, *D.*

hinn harðasti bardagi; ok er þeir höfðu barizt um hríð, þá mælti Ögmundr Höskuldsson við Karl: gættu þín vel, Karl! eptir standa skór þínir í fönninni, ok mun ek standa fyri þèr, meðan þú kippir á þik. Karl kvað þá vísu:

þoku sè ek upp, við ekka
oss hlífir sjá, drífa
kols[1] at Klaufa hvoli[2],
kornèl gjörit[3] vèlum;
nærgi er þeyrr[4] af þeirri[5],
þat er[6] mannligra, einu[7]
ræð ek þóat rigni blóði
randells[8] í böð[9] standa.

þá kom Klaufi í bardagann, ok barði blóðugu höfði sínu á tvær hendr, bæði hart ok tíðum; þá kom flótti í lið Ljótólfs. því var líkast, þá er Klaufi kom til bardagans, sem þá er vargr kemr í sauðadun[10]. þeir Ljótólfr hèldu nú undan 9, [en 15 hèldu til[11], en hinir voru 6, en 2 fallnir, ok ætlar Ljótólfr at snúa ofan Bleikjudal fyrir utan Bakkagarð, en þess var eigi kostr, þvíat Klaufi var þar fyrir, ok bannaði þeim þar at fara út; snúa þeir undan, ok ætla út Nafarsdal, fyrir utan teginn; eigi var þess kostr, því Klaufi var fyri; þá bar Karl at, ok tókst bardagi í annat sinn. Undan varð Ljótólfr at halda, þá þeir höfðu skamma stund barizt, því Klaufi var í bardaga; þá voru þeir Ljótólfr 8, er þeir

1) karls, *E*, *S*. 2) hveli, *F*. 3) gjört við, *F*; gjört, *hin*. 4) þeir, *C*; þyrr, *D*; þeggi, *E*, *S*. 5) þerri, *S*. 6) rein, *D*. 7) einum, *C*, *E*, *S*; enju, *F*. 8) randelds, *D*, *E*, *S*. 9) baug, *D*. 10) sauðahnapp, *D*; sauðadaun, *F*. 11) *v.* í *D*; af þeim 15, er til hèldu, *F*.

hèldu undan, en hinir 4. Fór Ljótólfr nú allt til þess, er hann kom at garðinum at Hofi; eigi var kostr, at fara í hliðit, því Klaufi var þar fyrir. Þá bar Karl at, ok urðu þeir at berjast hit þriðja sinn, þegar þeim laust saman. Þá kvað Klaufi vísu:

Dynr er um allan
dal Svarfaðar,
eru vinir vorir
vals of fyldir;
knýum, knýum
karls um liðar[1],
látum liggja
Ljótólf goða
í urð, ok í urð.

Þá mælti Ljótólfr, at þeir skyldu æpa upp allir, ok mun Skíði heyra, ok koma til liðs við oss með þá menn, sem hann hefir til. Skíði heyrði ópit, ok hljóp útí garðinn með þriðja mann, ok átti hann þó eigi kost á, at fara til bardagans, því Klaufi var þar fyrir, ok varði honum stíginn. Heim fór Skíði, ok fèkk sèr eldibrand, ok vafði at næfrum, hljóp síðan útí garðinn, ok við þetta stökk Klaufi til bardagans; Skíði hljóp ok þángat við þriðja mann, ok sá á grundunni gölt ok hvítabjörn, ok gengust þeir at. Skíði skildi menn, ok lèt eigi kost, at berjast lengr; þá voru 2 hvorir; Ljótólfr hófst undan, ok hlífði Skíði honum ok þeir 3 förunautar, en horfinn var þá göltrinn ok svâ bessi. Nú fara þeir svâ, þartil er þeir Ljótólfr náði dyrum á

[1]) lýðar, *B*, *E*, *S*; liðu, *D*.

útibúri sínu, því er hann átti þar í túninu; þeir voru með Ljótólfi synir Ásgeirs rauðfelds. Karl bar þá at dyrunum, ok var hann við annann mann, ok átti eigi kost inngaungu, því Skíði var þar fyri. Karl eggjar Ljótólf útgaungu, ok lèt honum eigi annat sinn vænna til afburðar. Ljótólfr kvaðst nú svâ mundu vera láta at sinni; ok ferr Karl heim eptir þetta, ok Ögmunðr með honum. Þorsteinn svörfr fagnaði vel Karli frænda sínum, ok mælti: sezt niðr, frændi! ok seg frá tíðendum, ok þikkjumst ek eigi vita, því erfiði þetta hefir svâ á mik gengit, sem ek hafa verit í bardaganum með yðr, ok eigi má ek hèðan gánga. Karl mælti: vissa ek, faðir minn! at þú varst í bardaganum, ok veittir oss lið. Þá voru bundin sár þeirra Karls ok Ögmundar. Þorsteinn svörfr var borinn til hvílu af vanmætti, ok lá hann þá nótt alla; en um morguninn eptir veitti hann Karli syni sínum mörg heilræði, ok bað hann bregða búi sínu á Grund, ok fara til Upsa: þess vil ek ok biðja þik, son minn! at þú sèrt vinfastr við þá menn, sem þèr eru hollir í sveitinni. Nú mátti kalla kyrt um hríð. Þeir kvomu nú til fylgdar við Karl, Vermundr ok Þórðr ok Svarthöfði Hèðinsson. [Eptir um vorit lèzt Þorsteinn svörfr[1], ok var hann grafinn[2] niðri á melunum, gegnt Blakksgerði[3]. Eptir andlát Þorsteins svörfs[4] gjörði Karl veizlu á Grund, ok bauð til Hávarði ok sonum hans, ok öllum vinum sínum innan dals. Þat tóku menn til ráðs,

1) *þannig D;* Svarfberar, *A, B, E, F.* 2) *frá [ v. í C.*
3) Blaðsgerði, *S.* 4) svarfaðar, *B, C, E, S.*

er þar voru komnir margir góðgjarnir [menn, at leita um sættir með þeim Ljótólfi[1]; Karl varð því samþykkr um síðir, ok fóru menn til Hofs eptir veizluna, ok leituðu um sættir við Ljótólf, ok gekkst þat svâ við, at hvorutveggju fundust á Grund, ok mæltu mál sín, ok var Ljótólfr í öllu útregari at sættast, enda voru mjök öll mál dregin undir Karl; þeir urðu utan at fara synir Ásgeirs. Skíði gekk þá at[2], ok beiddi Karl, at hann legði til við Ásgeir rauðfeld hagjörð nokkra, því sú er fjarlæg, er hann á; Karl gjörði sem Skíði bað, ok gaf Ásgeiri miklar hagmýrar. Sú varð sætt, at Ljótólfr hlaut at gjalda Karli 3 hundruð silfrs. Í Siglufirði stóð skip uppi, ok fóru þeir á því Ásgeirs synir. Svâ gengu sættir saman, sem nú var sagt, ok má nú kalla kyrt í dalnum, ok ferr Karl bygðum til Upsa.

*Hrakníngr Skíða.*

20. Þessu nærst er þat at segja, at Ljótólfi er kona ætluð innan frá Möðruvöllum, Þórðís, dóttir Guðmundar hins gamla. Þat bar til, at skip braut í Fljótum, ok komst ekki mannsbarn af, svâ at alþýða vissi. Einn morgun var þat, at Heklu-Skeggi kom inn at Steindyrum; hann var á vist með Sigríði Klaufa systur; hann sá, at 2 menn höfðu vaðit yfir ána, sá hann því glöggt, at snjóföl var fallit, ok kallar[3] hann á Sigríði, ok kendu þau sporin, at Ásgeirs synir höfðu farit þar, þvíat táin hin mesta var miklu meiri á Ólafi, enn á öðrum mönnum. Hún bað

[1]) *þannig F; v. l A, C;* menn, með þeim Ljótólfi ok Karli sættum á at koma, *B, D, E, S.* [2]) út, *B, D, E, S.* [3]) kalsar, *C.*

hann fara til Upsa, ok segja Karli; hann gjörir svâ. þegar bregðr Karl við, ok ferr til Hofs við hinn 18da mann, en Ljótólfr var ekki heima, ok var hann farinn inn til fjarðar. þau voru fyri búi Ragnhildr ok Skíði, þar var ok Íngöldr fagrkinn. Skíði gat litit för þeirra. Nú voru sveinarnir þá nýkomnir, synir Ásgeirs, ok stóðu hjá Skíða, er hann ók á völl; ekki sá hann annat fángaráð, enn þeir settust í hauginn, ok drap at þeim mykju, er frosit hafði; síðan mokaði hann at blautri myki; síðan fór hann suðr á völlinn, ok bar þá Karl þar at, ok frèttu hann at, hvat manna komit væri til hans. Ekki er þat í mínu viti, sagði Skíði, at neinir menn sèu hèr komnir. Leyndu eigi, Skíði! sagði Karl, því hèr eru komnir synir Ásgeirs. Sagt er allt, þat ek man, sagði Skíði. Förum heim, sagði Ögmundr, ok þæfum ekki Skíða, ok ransökum bæinn, ok svâ gjörðu þeir. Fyri sunnan hús lèzt Ögmundr sjá rauðan kyrtil hánga úti á ási, ok dýglaði niðr úr, ok drap í munn sèr, ok kendi, at salt var; hljóp síðan suðr um húsinn, ok dró eptir sèr kyrtilinn, ok tók þar tík eina, ok hjó af höfuðit, ok færði búkinn í kyrtilinn, ok lèt taka strjúpann or höfuðsmáttinni, ok dró at dyrunum, þar sem þær voru inni Ragnhildr ok Íngöldr; hann mælti: hèr megi þið sjá, hvat vèr höfum fundit; illa hefir sá, er svâ ótrúan vin hefir, sem Skíði er, því hann hefir sagt til þeirra bræðra, ok megi þið hèr sjá annann þeirra; en þær lètu, sem þær heyrðu eigi. þeir hlaupa nú suðr á völlinn, ok var þar Skíði fyri. Karl hljóp at

Skíða, ok tekr hann, ok keirir niðr fall mikit, ok mælti: seg nú, ef þèr er nú betra enn fyrr! vísir eru vèr nú orðnir, at þeir eru hèr Ásgeirs synir. Skíði mælti: þat segi þeir, sem vilja segja, sagt hefir ek þat ek man. þá tók Karl reip, ok rendi rúmsnörum at fótum Skíða, ok hnýtti í tagl hestinum, ok stè á bak, ok reið fyrir ofan um Skorðumýri[1]; Skíði dragnaði eptir, ok var þá eydt skóginum, ok stóðu stofnarnir eptir; þar hlaut at nötra um, til þess er Ögmundr hjó í sundr taglit í hestinum, ok mælti: illa munu vèr þat, er faðir þinn mælti, er vèr kveljum Skíða, því hann var vinr hans. þeir sáu þá, hvar riðu 30 manna utan at Hofi. Skíði var mjök meiddr, því honum blæddi víða; hökubeinit var rifit ok hakan með, or tennr tvær. þeir fara þá[2] yfir ána; allt var jafnskjótt, at Skíði kom í tún ok Ljótólfr, ok spurði, því hann væri svâ illa leikinn. Skíði sagði: enginn veldr því, nema haldinyrði mín. þeir Karl búast nú við á hólminum gegnt Grundar húsum, en hinir ríða þángat at með 30ta mann[3] ok 2 umfram. þeir synir Ásgeirs voru með Ljótólfi. Venda þeir nú yfir ána at Karli, ok tekst þar bardagi, ok lýkr svâ, at fèllu 8 menn af Ljótólfi, en 2 af Karli. Bárðr sterki lypti Ljótólfi í söðul upp, ok bað hann undan ríða, ok svâ gerði hann, ok skildust við svâ búit; fór Karl heim. þat varð Ljótólfi á munni, er hann sá Skíða: kjóstu sjálfr laun fyrir haldinyrði þín. Skíði svarar: þú

[1]) Skriðumýri, *B, S.* [2]) þar, *B, E, S.* [3]) þrjá tigu manna, *B, C, E, F, S.*

skalt gjöra sæmd mína slíka, sem þú villt, en laun eru auðkjörin, ef ek skal kjósa. Hver eru þau? sagði Ljótólfr. Ek vil at þú egir hlut at, segir Skíði, at ek fái Íngöldar fagrkinnar, þikkjumst ek makligastr at njóta hennar fyrir hrakníng þann, er Karl fèkk mèr. Ljótólfr svarar: því beiðir þú þess, sem mik varði eigi, ok ætlak[1] þèr þat ekki at verða. Skíði svaraði: hvörsu sem þat ferr, þá vil ek þetta verðkaupit hafa, en þú ráð sjálfr, hvörja sæmd þú gerir henni. þessa skulu við leita við hana, segir Ljótólfr. þeir gánga þá til Íngöldar, ok vekja þetta mál við hana, hvort hún vill gánga með Skíða; hún mælti til Ljótólfs: lítils þikki mèr þú virða mik, er þú villt gipta mik þræli þínum. Ljótólfr svaraði: ek mun þat bæta þèr, ek gef honum frelsi ok fè svâ mikit, at þið sèuð eigi meiri menn, þó þið hafið meira. Nærr er þá, segir Íngöldr, ok mun ek þá mæla nokkut mínu máli. Ljótólfr spurði, hvat þat væri. Hún sagði: hann skal hafa fyllt skarðit í vör sinni á 5 vetra fresti, svâ mèr þikki vel fullt vera; þessu játar Skíði, ok var þetta at ráði gjört, ok gaf Ljótólfr[2] Skíða dal þann til forræðis, er síðan er kallaðr Skíða-dalr; mörk var svâ þykk upp frá túngunni, at aldrei var rjóðr í. Skíði hefir reistan bæ sinn þar, sem síðan heitir á Möðruvöllum; Ljótólfr fèkk honum búfè, svâ at þau voru vel byrg. þau Skíði ok Íngöldr áttu 3 sonu: þorkell hèt hinn elzti, annar Björn, þriði Grímr. þá er þorkell var

[1]) ætla, *B, E, S.* [2]) þeim, *b. v. B, D, E, S.*

nokkurra vetra gamall, býðr Ljótólfr honum til sín til fóstrs, ok vex hann þar upp.

*Austmaðr leitar um sætt með þeim Karli ok Ljótólfi.*

21. Nú verðr þess at geta, er vèr hvurfum frá, at þá er Karl hafði heima verit eina nótt, þá ríðr hann útá Strönd, en þoka var mikil; Ljótólfr hafði ok riðit utá Sand, at vitja um viðu, ok skyldi draga heim, fóru þeir 5 saman. Karl reið til þess, er hann kom í Holt hit ytra, ok mætti Geirdísi, er hún gekk frá goðahúsi; hún fagnaði vel Karli; hann frètti, hvort Geiri[1], son hennar, væri heima; hún kvað hann genginn at fè uppí Holtsdal. Karl reið úr garði, ok snèri uppí hlíðina[2]; Karl spurði, ef þeir sæi nokkut manna fyri sèr; þeir sögðu, at maðr rak fè út[3] eptir hlíðinni; þann veg munu vèr stefna, sagði Karl. Þeir mæta Geira við gerði þat, er upp er ok suðr frá Böggstöðum; Karl lèt taka Geira ok drepa, ok er þat kallat á Geiravöllum; þá reið Karl heim til Upsa. Eigi lèt Ljótólfr, sem hann vissi, hvat í hafði gjörzt, ok sitja nú hvorutveggju um kyrt þrjá[4] vetr. Ögmundr var einatt með Karli, ok Svarthöfði Hèðinsson, ok tóku mjök at eyðast fèin fyri Karli af kostnaði þeim, er hann hafði, ok gjörðist eigi hægt til bændunum, ok varð hann eigi jafnvinsæll, sem verit hafði. Eitt sumar kom skip af hafi í Svarfaðardalsós, ok hèt Gunnar stýrimaðr fyri skipinu; hann var Víkverskr maðr, ok mikill vin

[1]) Geir, *B, D, E, S, allstaðar.* [2]) brekku, *B, D, E, S;* heiðina, *C.* [3]) utan, *B, E, S.* [4]) þá, *D.*

Karls. Ljótólfr var á þíngi, er skipit kom. Karl reið til skips, ok bauð Gunnari til vistar með sèr við svâ marga menn, sem hann vildi. Gunnar tók því vel: en bíða mun ek Ljótólfs goða: er mèr sagt, at mikit missætti sè með ykkr, ok mun ek ráðast þángat til vistar, þikki mèr þá vænst, at ek komi nokkru á leið um sætt með ykkr. Karl ríðr heim til Upsa, en Gunnar bíðr þar nokkra hríð, ok kemr Ljótólfr eigi heim. Karl elr á málit, at Gunnar mundi til hans fara: ok mun fara at auðnu um sætt með okkr Ljótólfi. Gunnar ræðr nú til Upsa með Karli ok nokkrir menn með honum; litlu siðarr kom Ljótólfr heim; er nú kyrt um vetrinn. Austmaðr fór jafnan upp til Hofs um vetrinn, at leita um sættir með þeim Karli ok Ljótólfi, ok því kom hann á leið, at sættarfundr var lagðr með þeim niðri á brekkunum[1] hjá Grafarhúsum; til þess fundar kom Skíði ok Íngöldr fagrkinn. Ok þá er mjök var ráðin sættarstefna með þeim Karli ok Ljótólfi, þá sagði Íngöldr, at seint mundi verða fyllt skarð í vör Skíða, ef sjá sætt skyldi takast. Skíði mælti: mæl þú allra kvenna örmust ok vesölust! Gunnar svaraði: opt stendr íllt af tali kvenna, ok kann vera, at afhljótist þessu tali, sem þá verst hefir afhlotizt. Nú var lokit öllu um sættina, ok skildust úsáttir[2].

*Fall Karls.*

22. Ólafr kemr nú utan or Ólafsfirði til Upsa, ok beiðir Karl, at synir hans mundu fara heim með honum, því hann mæddist mjök fyrir

[1]) brekku, *B, D, S.* [2]) *þannig B, D, F, S;* ásattir, *rángt í A, C.*

aldrs sakir; fóru þeir nú heim með honum synir (hans), þórðr ok Vemundr, ok voru þeir ekki með Karli síðan. Um vorit eptir bjuggu Austmenn skip sitt, þartil þeir voru búnir, en Gunnar var at Upsum. þat var einn morgun, er þeir voru úti staddir Karl ok Gunnar, ok horfði Karl uppí himininn, ok fór annar litr í hann, en annar or. Gunnar spurði, því hann væri svâ litverpr. Karl svarar: lítit bragð mun á því vera, en fyri bar nokkut. Hvat var þat? segir Gunnar. Ek þóttumst sjá Klaufa, frænda minn, ríða í loptinu yfir mèr, ok sýndist mèr hann á gráum hesti, ok dragnaði þar eptir sleði; þar þóttumst ek sjá ykkr Austmenn mína ok sjálfan mik í sleðanum, ok skögðu útaf höfuðin, ok get ek mik þá litum brugðit hafa, er ek sá þetta. Gunnar segir: ekki ertu svâ mikill fyri þèr, sem ek ætlaða, sá ek slíkt allt, ok hygðu nú at, hvort ek hefi nokkut brugðit lit; ekki sè ek þat, sagði Karl. En þá er þeir ræddu þetta, þá kvað Klaufi í loptinu:

Mikit[1] mun mönnum þikja,
margr[2] sèr þar til bjargar,
svâ greiðik lok líða[3],
lángr[4] heimfjötr þángat;
koma mun[5] sáð um síðir,
sið hygg ek at þat[6] líði,
jafnt læt ek við ský skrimta
skin[7] grams, ok ríð framsi,
ok ríð framsi.

---

[1]) mikil, *B*, *D*, *E*, *S*. [2]) margar, *B*, *D*, *E*, *S*. [3]) lýða, *sum*. [4]) lángar, *B*, *C*, *D*, *E*, *S*. [5]) muni, *B*, *D*, *E*, *S*. [6]) þar, *B*, *D*, *E*, *S*. [7]) skini, *B*, *E*, *S*; skrið, *D*.

Ok enn kvað hann:

Kól aldregi ela[1]
eldrauga ske vèlum
beit á seggja sveitum,
svimm[2] ek nú við ský grimmum,
svimm[2] ek nú við ský grimmum.

Ok þá mælti hann svâ, at þeir heyrðu báðir: heim ætla ek þèr með mèr í kvöld, Karl frændi! þá mælti Gunnar, at þeir mundu til skips um daginn. Karl mælti: ekki er annt um þat, því ekki er birligt; Gunnar lèt ekki letjast. Karl gekk til þorgerðar, konu sinnar, ok sagði henni: nú mun ek flytja Austmenn mína til skips í dag, en ek mun segja þèr, hvörsu hátta skal, ef ek kem eigi heim í kvöld, því eigi veit, hverjum heilli heiman ferr; hann sagði henni fyriburðinn: nú verði svâ, at ek látunst, þá vil ek, at þú færir bygð þína uppá Grund, ok hefir mèr allt þýngra fallit, síðan ek fór þaðan; ek vil láta færa mik yfir á þá, er hèr er útá ströndinni, ef ek látumst á fundi okkrum Ljótólfs, þikki mèr þar gott tilsýni, ef skip sigla út eðr inneptir firðinum; ek vil ok, at þú látir heita eptir mèr, ef þú átt svein, því þú ert eigi heil kona, ok væntik, at nokkr heill fylgi. þorgerðr svaraði: gjarnan vilda ek, at þú færir hvergi, ok er mèr ekki at skapi fyriburðr sjá. Karl svaraði: ekki verðr atgert, svâ verðr at vera, sem vera vill. Ok eptir þat búast þeir heiman Gunnar ok Karl, Svarthöfði ok Ögmundr, 2 voru Austmenn aðrir, en Gunnar ok Karl var við hinn 6ta mann. Ok

[1]) ala, *B*, *E*, *S*. [2]) sveim, *B*, *E*, S.

er þeir komu ofaná hólana[1] [fyri Gervinessá[2], ok til dælar þeirrar, er ofan er, ok suðr er frá ánni, þá spretta þar upp fyri þeim 30 manna, ok var þar Ljótólfr; tekst þar bardagi mikill ok harðr. þá mælti Ljótólfr: grið vilju vèr gefa Austmönnum. Gunnar svaraði: annathvort munu vèr hafa grið allir, eðr engi. Ok er þeir höfðu barizt lengi, þá geta þeir gjört Karl fráskila sínum mönnum, ok sækja 7 menn (at honum); en hann hörfar undan, þartil er hann kom til Hylltínga nausta, þar feldi hann þá alla, er hann sóktu; ok þá kom Skíði at við 12ta mann; Karl hljóp uppá naustit. Skíði mælti: þat er vel, Karl! at við höfum hèr funðizt. Eigi lastik þat, sagði Karl, ok kann ek drengskap þínum at því, at þú munt vilja sækja einn at mèr, ok er þat þá nokkr frami; en ef þú sækir mik með fleiri mönnum, þá þikki mèr þú ekki enda skildagann við Íngöldu þann, er þú hèzt, þá er þú fèkkst hennar, ok þikki mèr því at eins fullt skarðit í-vör þinni, ef þú berr einn af mèr. Skíði mælti: njóta mun ek nú liðsmunar, ok mun nú verða at leggja til slíkt hverr, sem sýnist; kalli sá fullt skarð Skíða, sem þat vill, en sá öðruvíss, er þat vill mæla. Nú veita þeir Karli atsókn, en hann verst vaskliga; er svâ sagt, at hann Karl vegr 3 menn Skíða, en særir flesta þá, sem eptir voru. þeir Skíði lètta nú eigi fyrr, enn þeir drepa Karl. þeir Ljótólfr ok Austmenn berjast í öðrum stað, ok falla þeir fyri Ljótólfi allir, ok svâ Svarthöfði

[1]) hólmana, *D.* [2]) Gummessá, *B*, *E*, S; Brimnessá, *C*; *frá* [ *v. í D.*

ok Ögmundr, fylgdarmenn Karls. þat er sögn manna, at hálfnat hafi lið Ljótólfs; ok eptir þat ferr hann heim. Ok er þetta frèttist til Upsa, þá lætr þorgerðr færa Karl ok Austmennina upp til Karlsár, ok voru þar lagðir í skip, ok fè mikit með þeim, ok því heitir þat at Karlá síðan.

*Viðreign þeirra þorkells ok Karls.*

23. Eptir þessi tíðendi færir þorgerðr bú sitt uppá Grund, ok hefir þó annat bú at Upsum. Nú liðr af sumarit. Frá því er sagt, at þorgerðr kennir sèr sóttar, ok elr hún sveinbarn, er sá sveinn nefndr Karl, eptir föður sínum; hann vex þar upp, ok er snemma mikill vexti; en er hann var nokkurra vetra gamall, þá uxu þó eigi mikit vitsmunir hans; hann mælti ekki orð, ok því var hann kallaðr ómáli, ok ekki maðr mikill. þorkell Skíðason ferr þá heim til föður síns, ok vaxa þeir þar upp allir bræðr, synir Skíða, ok eru efniligir menn allir. Nú líðr svâ fram nokkra vetr, at ekki gjörist til tíðenda. Ljótólfr amast ekki við bygð þorgerðar, ok hefir einn mannvirðíng alla. Karl Karlsson vex upp með móður sinni, unz hann var 12 vetra gamall, ok töluðu þat flestir, at hann væri fífl. þorgerði óhægðist fjárhagrinn mjök, því hún hafði mjök í kostnaði, en voru verk jafnan lítil, en enginn fyrir utan stokk til umsýslu. þat var þvínærst, at hestaþing var nefnt uppi fyri Túngugerði, skyldu þeir etja hestum Ljótólfr ok þorkell Skíðason; mörgum var þar öðrum hestum tilmælt, þó þeir menn sè eigi nefndir, er þá áttu.

Á Grund voru rekin at hross um daginn, þau er menn skyldu ríða; þar var eitt hross þrèvett, ótamit, þat var svâ mikit, sem þau stærst eru, ok fax á mikit. Karl ómáli var úti, er hrossin voru heim komin; hann sá hrossit ótamda, ok hleypr á, ok þrífr taglit; hann les sik fram með ok fær þrifit hálsinn, en þat æðist við, ok hleypr víða um völlinn. Karl fylgir vel ok lèttir eigi fyrr, enn komst á bak, ok krækir fótunum niðr undir kviðinn, en heldr sèr í faxit; hrossit hleypr aptr ok fram, til þess at þeir eru búnir, sem fara ætla; þá reið Karl með þeim uppeptir hólmunum, hljóp þá hrossit ýmist fyri þeim, eðr eptir, ok gjörðu menn óp mikit at honum. Upp koma þeir til mannamótsins, ok hleypr Karl af baki rossi sínu, ok settist niðr einnsaman; þar hafði maðr kastat niðr glófum, ok þar lá hjá öx silfrrekin; Karl tekr upp, ok leggr í knè sèr hvorutveggja, hann strauk einatt öxina; ekki gekk hann til hestavíga; en þorkell Skíðason hafði þar niðrkastat. Ok þá er lokit var hestvígum, þá svipast hann um, hvar hann hafi lagt handagjörfi sína, ok þá sá hann, hvar Karl sat, ok strauk öxi hans; þá gekk þorkell at honum, ok mælti: þikki þèr góð öxin, Karl? Hann þagði, ok leit frá honum við. Sjá þikkjumst ek, at þèr þikkir góð öxin, ok ræð ek, at þú þiggir allt saman, ok glófana með, í föðurbætr. Karl spratt upp, ok kastar frá sèr öxinni, ok kom í stein, ok brotnaði or allr muðrinn, ok sezt niðr annarstaðar. En þorkell gekk til Ljótólfs, ok sýndi honum, hversu sá af-

glapi hefði leikit öxina: ok hefir hann nú sýnt, hverr fóli hann er. Ljótólfr svarar: heimskr sýnist yðr hann vera, en mèr lízt hann hyggnari enn þèr, ok svâ mun reynast. þetta hefir þú aldrei fyrr mælt, sagði þorkell. Ekki hefik lagit til þess, segir Ljótólfr. þetta skal reyna, sagði þorkell, hvorr okkarr vitrari er: ek hefi hèr 3 merkr silfrs, er ek skal bjóða honum í föðurbætr, ok hefir ek þat at marki, at hann er fífl, ef hann þegir við, en ef hann svarar, þá er hann ekki jafnheimskr, sem hann lætr. Freista máttu, ef þú villt, sagði Ljótólfr, en ráðligra þætti mèr, at þèr ættuð ekki við hann, meðan hann talar ekki til yðvar. þorkell segir: freista mun nú verða um sinn; ok gengr þorkell nú þar at, sem Karl sitr, ok hefir sjóðinn í hendi, ok rèttir at honum, ok mælti: villtu fè, Karl? En Karl þagði við. Hann spurði annat sinn hins sama. Karl svaraði: villtu fè, Karl? þorkell mælti: þat vissa ek, at þú mundir mæla kunna; ek vil nú gjalda þèr fè þetta í föðurbætr, 3 merkr silfrs. [Karl tók við sjóðnum, ok[1] setti hann síðan á nasir þorkeli svâ fast, at brotnaði tvær tennr or höfðinu, ok stóðu blóðbogar or andlitinu, ok gekk þorkell burt við svâ búit, en Karl fór til sinna manna; ok er Ljótólfr sèr þetta á honum, spyrr Ljótólfr, því hann er svâ. Hann svaraði: Karl laust mik með sjóðnum. Ljótólfr svarar: þèr var engin þörf á, at eiga við hann, ok munu þið ekki jafnir menn reynast, ef þið skuluð nokkut við egast.

---

[1]) *Frá [ b. v. D, F; v. í A og hin.*

*Karl ferr at hefna föður síns.*

24. Nú hlaupa menn í tvo staði, ok ríða síðan heim af hestaþínginu. Þeir Karl ríða þartil, er þeir kvoma út yfir á; þá nam Karl staðar, ok mælti: hvörir munu þèr vera með þíngmönnum mínum, ef ek þarf nokkrs við? Þeir spurðu, hvörs hann beiddi. Hann sagði: eigi meira, enn eins dags verks, þá ek krefr yðr til, [en . .[1] ekki í skaða[2]. Þeir svöruðu: hvat muntu framleggja at verkalaunum? Hann sagði: hundrað silfrs mun ek fá hvörjum yðrum, ok mun ek kjósa dag til, nær þèr skuluð vinna mèr, mun ek þá gjöra yðr vara við. Varði oss þess, sögðu þeir, at þú mundir góðr drengr vera, en ekki kom oss þat í hug, at þú mundir svâ mikit verðkaup gefa einum degi; vilju vèr þat gjarna. Hvörsu margir vilì þèr vera? segir Karl. Eigi færri enn 18, sögðu þeir. Ek mun yðr afgreiða fèð þá þèr vilìð, en ráðit kalla ek kaupit, segir hann. Þeir játa nú þessu, ok skildu við svâ búit; ok reið Karl á Grund, ok sat þar um vetrinn, þartil voraði; þá sendi hann eptir þeim bræðrum sínum, Þorgrími, Þorsteini ok Þorvaldi. Ok er þeir koma, þá fagnar Karl þeim vel; ok þá lætr hann breiða úti eina öldúngshúð mikla, ok steypir þar niðr á gulli ok silfri því, sem innan veggjar var, því þeir bræðr vildu skipta láta, ok þótti þeim horfa til auðnu, ef eigi væri skipt. Karl stóð hjá, meðan þeir skiptu,

[1]) *hèr er bil fyri tveim orðum í A, C, máske:* yðr mun. [2]) *frá [v. í F.*

ok lagði ekki til; en þá er skipt var, þá rótar Karl saman fènu, ok gekk burt þegjandi; þeir spurðu, því hann gerði svâ; en hann þagði. þeir skiptu þá enn aptr; en Karl rótaði jafnan saman. þeir spyrja, því hann geri svâ: ok vilju við, at þú skiptir, en við kjósum; [en Karl kvað hvârki vilja[1]. Hvat þá? sögðu þeir. þið skuluð gjöra annathvort: hafa fè allt, ok hefna föður vors, eðr ek mun hefna hans, ok hafa allt eptir því, sem þá vill auðna tilfalla, ok skulu þið úr öllum vanda þar um. þeir kjöru heldr, at hafa ekki af fènu, ok fara þeir bræðr heim; ok líða nú stundir frá, ok heimtir Karl at sèr þá menn, sem honum höfðu verkum heitit. þeir brugðu við skjótt, ok ætla at þeir skulu fara til verks nokkrs, gánga at garðlagi eðr húsan, fyri því, at margt hús var komit at falli; en er þeir kvomu, tók Karl vel við þeim, ok eru þeir þar um nóttina. Um morguninn er Karl snemma á fótum, ok biðr menn uppstanda; ok er menn eru klæddir, biðr Karl þá gánga til dagverðar: ok vil ek [umsýsla þat oss varðar[2]; hann var frammi, á meðan þeir mötuðust, ok berr útí tún allskonar herklæði. Ok er þeir koma út, sjá þeir, at Karl var herklæddr; þá skaut þeim skelk í bríngu, ok vildu nú gjarna hafa engu keypt, [en þó varð nú svâ at vera, sem komit var[3].

---

[1]) *frá [ b. v. B, F; í A er bil fyrir álíka mörgum orðum; nokkuð meira í C, E, S.* [2]) *frá [ b. v. B, F; eyða fyri því í A, E, S;* ok svâ gjörðu þeir, *C, D.* [3]) *frá [ b. v. F; v. í A og hin.*

*Karl selr Ljótólfi á hendr forráð fjár síns.*

25. Þeir stíga nú á hesta sína; veðri var svâ varit, at þoka var svâ mikil, at hvergi sá bæa milli. Karl ríðr nú suðr or garði ok uppá hólma, ok allir þeir eptir; hann ríðr, þartil hann kemr í Skíðadal á Möðruvöllu, þat var snemma morguns, ok var Íngöldr eigi upprisin. Karl ríðr at húsbaki, ok segir, at þeir skyldu bíða hans þar. Karl ríðr at dyrum, ok gengr griðkona ein út. Karl spurði, hvort Skíði væri heima. Hún svarar: hann er farinn upp til rètta undir hlíðina, ok þar eru synir hans. Hann spyrr: er Íngöldr heima? segir Karl. Hún er í rekkju sinni, sagði hún. Karl ok þeir förunautar hans ríða nú upp til rèttanna, ok handtaka þeir þâ feðga þegar, ok leiða heim í tún; ok þá gengr Karl inní bæ, ok biðr Íngöldi uppstanda; hún stóð upp, ok vildi klæðast, ok komst eigi í fleira, enn í serk sinn; Karl tók í hönd henni, ok leiddi hana útí tún, ok setti niðr einhvörsstaðar í túninu; hún var faldlaus, ok hafði hárit bæði mikit ok fagrt. Karl brá þá sverði, ok mælti til Íngöldar: hvörsu mikit er nú skarð í vör Skíða? Nei, sagði hún: aldrei er þar nú skarð * * *[1]; en hún svaraði hinu sama. Þá tók hann son þeirra hinn ýngsta Björn, ok höggr höfuð af honum, gengr síðan til Íngöldar, þerrir nú sverðit eptir miðri skirtunni[2], ok spyrr, hvort fullt væri skarð í vör Skíða. Hún sagði, at hann þyrfti ekki jafnan at klifa hins sama: ok

[1]) *hèr er eyða fyrl 5 eða 6 línum í öllum handritunum.* [2]) *b. v. F; eyða fyrir orðinu í A, C, D.*

hefir [þat allvel[1] gróit[2]. Þá gekk Karl at Skíða, ok spurði, hvort hann vildi þiggja líf at sèr. Hann kveðst þat gjarna vilja þiggja: þó ek þægja at miklu verra manni. Þá máttu fara hvert er þú villt, en ek mun taka bú þetta, en ek mun fá þèr fararefni, svâ þú megir fara hvört er þú villt, en ekki vil ek, at þú finnir Ljótólf. Hvat leggr þú þá til? sagði hann. Þú skalt fara utan á einhvörju skipi, ek mun fá þèr fè þat, er ek vil; hann fèkk honum 2 hesta. Karl mælti: Þú skalt fara upp or Skíðadal[3], ok svâ vestr; far, sem ek kennir þèr, ella mun ek gjöra til þín, ok drepa þik. Skíði fór, sem Karl bauð honum, til þess er hann kom suðr á Eyrar, ok fór þar utan, ok er hann or sögunni fyrst. Karl tók upp búit, ok færði á Grund; hann lèt Íngöldi fara með sèr, ok setti hana hit nærsta sèr; jafnan gekk Karl með bert sverðit þat, sem hann hafði vegit sonu hennar með, ok spurði hana jafnan, hvort fullt væri skarð í vör Skíða; hún sagði þat aldrei jafnvel gjört hafa verit, sem nú. Karl sat á Grund þann vetr. Ljótólfr lèt eigi sem hann vissi, hvat fram hafði farit. Ok um vetrinn rèðu þeir vinir Karls honum, at hann mundi færa bygð sína af Grund, ok þótti seta hans þar óvarlig, svâ nærri Ljótólfi, ok báðu hann fara til Upsa; ok svâ gjörði hann. Karl bjó at Upsum einn vetr, ok tók at þverra fjárkostr hans; móðir hans spurði hann, hversu hann ætlaði til um bú sitt; en hann gekk undan þegjandi. Um vorit einn morgun gekk Karl í burt, ok hafði heim hest

[1]) þú þat allnóg, *F.* [2]) *þannig C;* gjört, *A og hin.* [3]) *þannig B, F, S;* dalnum, *C;* dal, *D;* eyða *í A, E.*

sinn, ok ríðr upp til Hofs; Ljótólfr var í hvílu. Karl drap á dyr, ok gekk út verkakona; hún heilsaði Karli, ok spurði, hvört hann skyldi fara. Hann kveðst eigi lengra mundu fara, ok spyrr, hvort Ljótólfr væri heima. Hún sagði hann heima: ok far þú í burtu hvatliga, því hann vill aungvan mann feigari, enn þik. Ek vil finna hann, segir Karl. Hvat er manna með þèr? segir hún. Ek er einnsaman segir Karl, ok bið þú Ljótólf útgánga. Hún gengr inn, ok kallar á Ljótólf, ok sagði, at Karl ómáli vill finna hann. Hvörsu fjölmennr er hann? sagði Ljótólfr. Hann er einnsaman, segir hún. Margir menn stóðu upp, ok vildu gánga út með honum. Eigi þurfi þèr upp at hlaupa, ek vil einn útgánga, ok vita, hvat hann vill. Nú gengr Ljótólfr út, ok heilsar Karli; hann tók því vel. Hvat villtu mèr, Karl? segir Ljótólfr. Ek vil, at þú gángir á götu með mèr, því við þik er erendit. Ljótólfr mælti: eru nokkrir menn með þèr? Ek er einnsaman, sagði Karl. Skamt mun ek fara, sagði Ljótólfr, því ek á lítt vanda til, at leiða menn á götu, allra helzt, ef eigi eru vinir mínir. Karl veik hestinum ofanfyrir hlaðit; Ljótólfr gekk með honum ofantil árinnar, ok útmeð ánni til þíngavaðs; hann kvaðst eigi mundu fara lengra: ok lúk erendum þínum. Ek vil, at þú takir við öllu fè mínu, löndum ok lausum eyri, ok haf á ávöxt, ok far með, sem þú egir, þartil sem ek kem til. Hvat ætlar þú fyri þèr? sagði Ljótólfr. Ek ætla utan, sagði Karl. Ljótólfr sagði: margir eru aðrir menn til at taka við fè þínu, ok er eigi víst, at þú náir, þá er þú

villt. Karl svaraði: því hefir ek þessa leitat, at mèr þikkir mitt hvergi jafnvel komit, sem hjá þèr. Ljótólfr svarar: undarligr maðr þikki mèr þú vera, en þó vil ek játa, at taka við fè þínu, ok mun þat flestra manna mál, at þú verðir heimskr af þessu. þrjá vetr var ráðit umboð Ljótólfi, ef Karl kæmi eigi til fyrr, en laust, þegar hann kæmi til. Hann sagði móður sinni þessa ráðagjörð. Hún svarar: þá[1] verðr þèr íllt til manna at varðveita fè þitt, ok er þat vænna, at þú náir aldrei. Karl svarar: ek sè fyri því, en ekki þú.

*Karl selr Íngöldi.*

26. þá reið Karl vestr til Skagafjarðar, ok keypti skip í Kolbeinsárósi at þeim manni, er Bárðr hèt, ok gerði fèlag við Bárð, ok rèðst til skips, þegar hann var búinn; hann lèt fara með sèr Íngöldi fagrkinn, ok gjörði hann þat til skapraunar við hana, en eigi fyri ræktar sakir. Eptir þat sigla þeir í haf, ok kvomu at þrándheimi. Bárðr spyrr, hvat Karl ætlar fyri sèr. Karl svarar: ek vil afla mèr fjár, því langt er sumars eptir, ætla ek at halda til Danmerkr. Bárðr sagði: þat líkar mèr vel, ok vil ek fara með þèr. þeir halda til Danmerkr, ok koma þar síð um haustit; ok er þeir hafa skamma stund þar verit, koma 2 menn af landi ofan, miklir ok illiligir; ok er þeir koma í kaupstefnu, spurðu þeir, hvort nokkr maðr hefði ambátt at selja þeim. Karl spurði, hvat þeir mundu við gefa. þat sem vill, segja þeir. Karl sagði: á ek ambátt, ok mun ykkr dýr þikkja, ok eigi veit ek, hvort þið getið þjáð hana, því hún er

[1]) þó, *B, D, E, S.*

óvön verknaði. þeir segjast mundu þat ábyrgjast: ok met þú hana, sögðu þeir. Karl segir: hún skal vera fyri 3 hundruð silfrs. þess þyrfti, sögðu þeir, at hún ynni mikit ok vel, svâ dýr sem hún er, ok vilju við sjá hana. Karl gengr á skip út, ok bregðr sverði, ok spyrr Íngöldi, hvort fullt væri skarð í vör Skíða. Hún sagði þat aldrei jafnfagrt verit hafa, sem nú. þá skaltu gánga á land með mèr, sagði hann, ok tók í hönd henni, ok leiðir hana, ok sýnir þeim ámbáttina. þeir kváðust aungva ambátt jafnfagra sèt hafa; þeir töldu honum nú silfrit. Karl mælti: þat vilik skilja í, at kaupa hana þvílíku verði, ef mèr sýnist. þeir segja: ekki muntu í raun koma um þat, ok er þat líkara, at vèr sjáumst aldrei. Síðan gengu þeir á land; en hún sperðist við, ok tók annar í hár henni ok leiddi hana, en annar hafði svipu í hendi ok keirði hana. Karl gengr til skips. Bárðr spyrr, hvat hann vildi at þeir legði fyri sik. Karl segir: hèr munu við í vetr vera. Bárðr spyrr at vori, hvat Karl vildi athafast. Hann svarar: spurt hefir ek til víkings þess, er Björgólfr heitir, hann hefir lángskip ok lið vandat, þar vil ek fara í sveit með honum, ok afla svâ fjár ok frægðar. Bárðr segir: þá munu við skilja fèlagit, því ek er enginn hermaðr. Karl mælti: þú skalt fara með skip okkart, sem þú egir, en er við finnumst, gjörum við sem okkr sýnist. Nú skiljast þeir góðir vinir, ok ferr Karl leiðar sinnar.

*Karl ferr í víkíngu.*

27. Svâ er sagt, at Karl fær sèr eina skútu, ok heldr suðr með landi, þartil at þeir koma

at einni eyju; þar var Björgólfr fyri. Karl rèri þar at skipunum, ok spyrr, hverr rèði fyrir. Einn maðr gekk útá vígit, ok sagði, at sá hèti Björgólfr: eðr hvat heitir þú? Ek heiti Karl. Hvaðan ertu af löndum? segir Björgólfr. Ek er af Íslandi, segir Karl. Hvört ætlar þú at fara? segir Björgólfr. Hann svaraði: ek hefi nú sókt mitt erendi, er ek hefir þik fundit, ok vilda ek ráðast í föruneyti með þèr, ok afla mèr svâ fjár. Björgólfr tók við honum, ok gengr Karl á skip, ok setr Björgólfr hann hit nærsta sèr. Þeir halda síðan í Suðurríki, ok herja víða um landit, ok hafa sigr, hvar sem þeir koma; þeir liggja 2 vetr í víkíngu. Þat var einu sinni, at Karl mælti við Björgólf: nú mun ek lètta hernaði, ok fara norðr í land, til áttjarða minna. Björgólfr svarar: þú munt ráða, en gjarnan vildak, at við skildum eigi, því ek hefir engan slíkan dreng reyndan, sem þik; nú fara þeir báðir saman til Danmerkr, ok sitr Karl þar um vetrinn. En um vorit kaupir Karl knör einn, ok á einn allan farminn; ok er hann var mjök búinn, sèr hann, hvar 2 menn gánga, ok leiddu konu í millum sín; þar kennir hann kaupunauta sína ok Íngöldi, ok hèkk annar trefill fyrir, en annar á bak. Þeir sögðu Karli: hèr föru við með ambátt þá, er þú seldir okkr, ok höfu við engu kaupi verr keypt; við börðum hana aldrei svâ, at hún vili vinna fyrir okkr, ok vilju við nú gjarna selja þèr hana aptr. Karl segir: ek vil ok nú kaupa hana; hann taldi þeim nú jafnmikit silfr, sem þeir fengu honum; hann leiddi hana til skips, ok lèt gera henni laug, ok klæddi

hana góðum klæðum, ok gjörði hana svâ sæla, sem þá hún væri sælust. Eptir þat heldr hann til Íslands, ok kemr skipi sínu í Svarfdalsárós[1], ok færir varnað sinn til Upsa; bú hans hafði þar staðit, meðan hann var utan; urðu menn fegnir mjök hans heimkomu. Þá er hann hafði heima verit um stund, gengr hann til Íngöldar, ok bregðr sverði því, sem hann hafði vegit með sonu hennar, ok mælti: hvort er fagrt skarð í vör Skíða? Hún kvað þat aldrei jafnfagrt verit hafa. Karl reið til Hofs einn dag, ok hittir Ljótólf goða. Ljótólfr fagnar honum vel, ok spyrr, hvört hann ætlar at fara. Hann kveðst eigi lengra fara mundu: vil ek nú taka við fè mínu. Ljótólfr svaraði: hefir þú eigi meðtekit áðr, ok sezt í búit? Karl svaraði, at engu væri eydt at svâ búnu: ok muntu nú skipta af þínum hlut, því ek veit, at þú munt eiga búit at helmíngi, eða meirr. Ljótólfr segir: þat þikki mèr ráð, at í vor sè skipt fènu, ok vil ek, at þú farir með, sem þú egir. Karl segir: þat mun vera verða. Þeir skilja nú við þetta, ok reið (Karl) heim til Upsa, ok sat þar um vetrinn með fjölmenni. At liðnum vetri reið Karl til Hofs, ok hittir Ljótólf; hann spurði, hvat Karl vildi. Ek vil, at við skiptum fènu, sagði Karl, ok er nú óhægra, enn nærst, er ek beidda, því ek hefir eydt miklu fè í kostnaði í vetr. Ljótólfr segir: hvat ætlar þú fyri þèr, ef fènu er skipt? Ek ætla utan, sagði Karl, því mèr er lítt hendt búit. Ljótólfr mælti: hverr skal þá hafa umboð þitt, meðan þú ert burt? Karl svaraði: þèr hefik ætlat, ef þú villt. Ljótólfr

[1]) Sarfardalsárós, *B*, *E*, *S*; Svarfaðardalsárós, *D*, *F*.

segir: þá þætti mèr eigi skipta þurfa, en kynligt þikki mèr, er þú villt jafnan fá mèr í hendr fè þitt, því óvíst er, at ek verða jafn drengr í hvert sinn. Hversu sem þat ferr, segir Karl, þá mun ek þèr mitt umboð fá. Eigi þarf þá at skipta, segir Ljótólfr; ok tekr hann við umboðinu Karls í annann tíma.

*Karl ferr utan.*

28. Nú ríðr Karl heim, ok lætr búa skip sitt; en er hann var búinn, leiddi hann Íngöldi fagrkinn til skips með sèr, ok voru skapsmunir hennar hinir sömu. Karl hèldt í haf, ok gaf vel byri, ok tóku þrándheim, var Karl þar um vetrinn; en um vorit hèldt hann til Svíþjóðar; ok er hann kom í einn kaupstað, kemr maðr af landi ofan, mikill ok illiligr, ok falar ambátt, ef nokkr væri föl. Karl segir: ek hefir at selja, ok mun þèr dýr þikkja, eðr hvat heitir þú? Rauðr heiti ek, sagði hann, ok mettu ambáttina. Karl svarar: fyri 6 hundruð silfrs; ok þessu kaupa þeir; þikki mèr því betr, segir Karl, sem þú gerir hana vesalli; síðan gengr Rauðr á land upp með hana. En Karl ferr í kaupferðir til ýmsra landa, ok var 3 vetr í þessari iðn. Karl var um vetr í Noregi, ok fór um vorit[1] í kaupstefnu þángat, sem Háleyri heitir. Ok einhvörn dag gengr maðr af landi ofan, ok leiðir eptir sèr konu, svâ nakta, at aldrei beið á hana[2] ríðanda[3] ræxn; hún var alblóðug öll. Karl spurði, með hvat hann færi. þetta er ambátt ill ok aum[4], er ek keypta hinn fyrra dag, en

[1]) *b. v. B, E, S; v. í A, og hin.* [2]) henni, *B, E, S.*
[3]) rífanda, *D.* [4]) örm, *B, E, S.*

þessi ambátt ferr mjök at kaupum, ok þikkist sá betr hafa, er lausa lætr, enn hinn, er viðtekr, ok vilda ek gjarnan selja hana. Karl mælti: hvat heitir þú? Ek heiti Brynjúlfr. þú munt gera ambáttina (fala), segir Karl. Brynjúlfr segir: eigi nenni ek at selja hana með afföllum, heldr mun ek kvelja hana til dauða. Karl kaupir nú ambáttina, ok telr Brynjúlfi 6 hundruð silfrs; en Karl leiðir hana til skips, ok var þar Íngöldr fagrkinn; hún lagði þá hendr um háls Karli, ok grèt, en þat hafði Karl aldrei áðr sèt, at henni hefði nokkrs fengit, hvat sem at henni hafði borizt. Karl lætr gera henni laug, ok fá henni góð klæði; þá gekk Karl til tals við hana, ok brá sverði því, hann hafði vegit með sonu hennar, ok spurði, hvort fullt væri skarð í vör Skíða. Hún sagði þat aldrei fullt mundu verða. Karl segir: þá mun ek afleggja hèðan ífrá, ok svâ mundak gjört hafa, ef þú hefðir þetta fyrr mælt: skal ek nú færa þik Skíða, bónda þínum, því ek veit nú, hvar hann er niðr kominn.

*Karl lèttir utanferðum.*

29. þegar byri gaf, siglir Karl til Írlands[1], ok hefir frètt af, hvar Skíði var; hann hafði þá unnit undir sik mikinn hluta af Írlandi. Karl kom þar at landi, sem Skiði var fyrir; hann var þar genginn á land at berjast við Íra, ok ætlaði at þá skyldi til skarar skríða með þeim. þá er Karl kom til orrostu, var Skíði búinn at flýja. Karl gengr þegar í lið með Skíða, ok hans menn, ok berjast þann dag allan, ok gekk Karl jafnan

[1]) Íslands, rángt C.

í gegnum lið Íra; er ok svâ sagt, at hann feldi höfðíngja þann, er fyri því liði var, er Skíði hafði barizt við, ok náliga allt þat lið. Eptir bardagann gengr Skíði at Karli, ok spyrr, hverr honum hefði lið veitt. Þessi maðr hefir verit óvinr þinn mikill, ok heiti ek Karl, son Karls hins rauða; þat var mest erendi mitt híngat, at veita þèr lið, ok bæta þèr svâ sonu þína. Þá fagnaði Skíði honum vel, ok býðr honum allar sæmdir með sèr at þiggja. Skíði segir: eigi vannstu þat framarr, at drepa sonu mína, enn þú áttir, þóat þú hefndir föður þíns. Karl sagði: hèr hefir ek Íngöldi fagrkinn, konu þína. Skíði svaraði: ek vil eigi, at hún komi í augsýn mèr; ek hefir ekki verra verk unnit, enn þat, ek af henni hlaut, er ek drap föður þinn. Karl var þar um vetrinn, en Íngöldi var fengin önnur vist. Um vorit býst Karl burt af Írlandi með miklum sæmdum, er Skíði fèkk honum, ok skildust góðir vinir. Karl hafði Íngöldi með sèr, ok heldr skipi sínu til Noregs, ok er þar vetr annann; síðan hèldt hann til Íslands, ok kom skipi sínu í Svarfaðardalsáros; bú hans stóð at Upsum, ok annat á Grund, ok höfðu kvikfèn mikit framgengit at hvorutveggi búinu. Karl reið upp til Hofs; Ljótólfr fagnar honum vel. Karl mælti: nú er hèr komin Íngöldr fagrkinn, vil ek, at þú takir við henni, máttu nú gipta hana hvörjum, er þú villt, þvíat aungum mun hún nú ofstór þikkjast. Ljótólfr svaraði: þar er sú kona, er ek vilda aldrei sjá, því þat verk hefir ek verst unnit, er af henni leiddi til, þá

ek lèt drepa föður þinn. Karl sagði: nú vil ek, at þú skiptir fè með okkr, vil ek taka við jafnmiklu, sem þú tókst af mèr, en ek ætla þèr ávöxt þann, sem orðit hefir. Ljótólfr svaraði: þat eina stendr saman at Upsum ok á Grund, at ek ætla mèr ekki af. Karl segir: gott þikki mèr, at þiggja sæmdir af þèr, sè ek, at þú gefr mèr allan ávöxtinn. Ljótólfr mælti: ríð nú til Upsa, ok tak þar við búi þínu. Síðan sættust þeir heilum sáttum, ok hèldu vel sína vináttu; reið Karl til Upsa. Ljótólfr tók við Íngöldi fögrukinn, ok kunnu menn þat eigi at segja, hvort hún hefir gipt verit, en sumir segja, at hún hafi tortýnt sèr af óyndi. Ljótólfr bjó at Hofi, þartil er hann lèzt, ok fannst hann í óþokkadæl nokkurri á ofanverðum vellinum, ok stóð ígegnum hann saxit, er gert var úr sverðinu Atlanaut, er Klaufi hafði átt, ok Ljótólfr fèkk eptir bardaga þeirra Karls hins rauða; Ljótólfr var færðr suðr ok ofan á völlinn.

*(Frá afkomendum Karls ok Ljótólfs.)*

30. Yfirgángr Klaufa gerðist svâ mikill, at hann meiddi bæði menn ok fènað. Karli þóttu mikil mein á um Klaufa, frænda sinn, er hann gekk aptr; Karl fór til haugs hans, ok lèt grafa hann upp; var hann þá enn ófúinn; hann lèt gjöra hol mikit á steini þeim, sem er fyrir ofan garð at Klaufabrekku, ok brennir hann til ösku; Karl lèt gjöra blýstokk, ok koma í öskunni, ok rekr á 2 járnhánka; síðan sökkr hann stokknum í hver þann, sem er fyri sunnan garð á Klaufabrekku. Steinn sá, er Klaufi var brendr

á, sprakk sundr í tvo hluti, ok varð aldrei mein at honum Klaufa síðan. Karl sat at Upsum lengi æfi, ok er þat sumra manna sögn, at hann hafi utan farit, ok aukit þar ætt sína; en fleiri segja hann hafi átt Ragnhildi Ljótólfsdóttur, ok mörg börn með henni; Böggverr hèt son hans, er bjó á Böggistöðum[1]; annar Hrafn, er bjó á Hrafnsstöðum; Íngöldr[2] hèt dóttir hans, er bjó á Íngarastöðum[3]. En er eyddist fè fyri Karli, þóttist hann eigi búa mega at Upsum fyri kostnaðar sakir, ok sakir Ljóts Ljótólfssonar. Ljótr tók við manna forræði eptir föður sinn, ok bjó á Völlum; tók þá at greinast með þeim Ljóti ok Karli, ok vildi Karl víkja burt or dalnum, ok segja menn, at hann hafi farit til Ólafsfjarðar, ok verit þar í elli sinni, ok hefir Karl sett þar bæ, sem heitir á Karlsstöðum, ok lèt þar líf sitt, ok þótti hinn bezti drengr. Margir menn egu at telja til Karls únga. En Ljótr hafði manna forræði um allan dalinn. Böðvar hyggju vær búit hafa at Urðum, sonr Eyólfs breiðhöfða, er Urðamenn eru frá komnir; Eyólfr breiðhöfði var sonr þorgils mjök-siglanda. Margar eru sögur af Valla-Ljóti, ok var hann hinn mesti höfðíngi. Ljótr lèt drepa Eyglu-Halla, bróður Karls únga. Nú lýkr hèr Svarfdæla sögu með þvílíku efni.

---

1) *þannig A, C, E, S;* Bauggversstöðum, *B, D;* Baugistöðum, *F.* 2) Ingveldr, *B, D, E, F, S.* 3) Ingvarastöðum, *B, E, S;* Ingvöldarstödum, *D.*

## Uppfyllíng til Svarfdælu,

*9da kap., niðrlags:*

— taka þeir nú aðra skjöldu; höggr þá þorsteinn með sverðinu jarlsnaut; en Moldi ætlaði at slá við flötum skildinum; þorsteinn sèr þat, lætr því hönd síga, svâ sverðit kemr á neðanverðan fótinn, ok tekr af kálfann ok jarkann; hopaði nú Moldi útá feldarskautit, svâ hann hallast við; í því slamrar þorsteinn á háls Molda, svâ at hausinn fauk af; varð þá óp mikit af jarli ok hans mönnum. En þegar fèlagar Molda sjá fall hans, vilja þeir undan halda; en jarl biðr menn, at láta þá ekki ná undanhlaupi; vâru þeir allir drepnir, nema einn, sem þorsteinn kúgaði til sagna, hvar fólgit væri fè Molda; var þat [stórmikit fè[1], því Moldi hafði verit mikill hólmgaungumaðr, ok hinn mesti ræníngi; fèll þetta fè undir þorstein, því jarl vildi ekkert af hafa. þakkaði jarl þorsteini sigr þenna, ok frelsi, sem unnit hefir sèr ok dóttur sinni. Varð nú þorsteinn mjök frægr af þessu öllu; halda síðan heim til hallar; lætr jarl stofna til ágætrar veizlu, ok drekka hana glaðir.

*Til 10da kapítula*[2]:

11. Eptir þat bjóst þorsteinn til brottferðar, ok fylgdi jarl honum til strandar; hann mælti þá við þorstein: svâ kveð ek at orði, at þú hafir hèr mestr maðr komit á Gautland, síðan ek tilvissa, get ek, at við munim eigi optarr sjást, ok

[1]) heilmikill auðr, *sum.* [2]) *þegar þeir eptirfylgjandi kapitular setjast inni söguna, umbreytist kapitula-talann við þann 10da, og verða þá alls í sögunn 34 kapítular.*

er þat mikill harmr, at missa þín af ættjörðu vorri, en allstaðar muntu mesti maðr þikkja, hvar sem þú ferr, ok uppi man namn þitt, meðan heimr er bygðr, ok far þú heill ok vel! Eptir þat skildu þeir, ok hèldt þorsteinn skipi sínu norðr til Norvegs, ok kom at hausti í Naumdal. Ok sem þorgnýrr vissi komu sonar síns, ferr hann ámóti honum, ok varð þar enn mesti fagnaðarfundr; bauð þorgnýrr syni sínum heim með konu hans ok alla fylgdarmenn; var þar gjör en bezta veizla, ok at henni var mest til skemtunar haft, at þorsteinn sagði frá ferðum sínum ok hreystiverkum; mátti þar heyra mörg afreksverk hans. þorgnýrr frètti mjök um þórúlf, son sinn, hvörsu hann hefði varizt mót Ljóti; en þorsteinn sagði allt, sem farit hafði: þótti mèr, sem ek munda verða yfirbugaðr af Ljóti, segir hann, þá hann hafði felda alla menn mína, utan 12, en ek var sárr ok hlífarlauss fyrir honum. þorgnýrr mælti: mjök var þá, sem ek gat til, at þú mundir fá þik fullreyndan fyri Ljóti bleika, ok hefir mjök atsvorfit fyrir ykkr báðum; mun ek nú auka namn þitt, ok kalla þik þorstein svarfað, ok gefa þèr at namnfesti bæ þenna ok bú, ok þarmeð umráð þau, er ek hefi haft yfir Naumdölum; er ek nú mjök at elli kominn, ok eigi fær til umsýslu, en þú virðist mèr vel til þess fallinn fyrir hvervetna sakir. þorsteinn þakkaði föður sínum með mörgum fögrum orðum, ok var með honum um vetrinn; en er voraði, tók hann við búi ok umsýslu, ok gerðist

brátt vinsæll ok góðr forstjóri; hann átti annann son við konu sinni, enn Þórúlf, ok var sá nefndr Karl; ok sem hann eldtist gaf faðir hans honum auknemni, ok kallaði hann Karl enn rauða; dóttur áttu þau, er Goðrún hèt (eða Þórarna); öll voru börn þeirra efnilig.

12.[1] Tveim vetrum síðarr, enn Þorsteinn tók við búi, tók Þorgnýrr sótt ok andaðist. Þorsteinn lèt efla haug, ok lagði þarí föður sinn, ok mikit fè handa honum; síðan drakk hann erfi eptir föður sinn, ok bauð til mörgu stórmenni; ok at henni liðinni, leysti hann alla menn út með gjöfum, því hann var hinn mesti rausnarmaðr, átti hann ok gnótt fjár, síðan er hann feldi Ljót enn bleika ok eignaðist allt hans góts. Þar eptir bjó Þorsteinn nokkra vetr at föðurleyfð sinni, ok óx æ meirr ok meirr virðíng hans; en er hann hafði lengi búit, þá tók Íngibjörg, kvona Þorsteins, þúnga sótt, ok lá eigi lengi, áðr hún andaðist; þótti Þorsteini þat hinn mesti skaði, sem von var at; lèt hann leggja hana í haug hjá föður sínum; harmaði Þorsteinn hana mjök, ok barr þar eigi yndi síðan, ok fýstist brott þaðan fyri þá skuld. Höfðu þá margir tignir menn í Noregi flúit óðul sín undan ofríki Haralds konúngs hárfagra, ok fóru sumir vestr um haf til Hetlands ok Orkneyja, ok bygðu þar, en margir fóru til Íslands, ok tók þat nú at verða mjök fjölbyggt. Ok fyri

[1]) *Í handarritinu kallast þessi kap. enn 13di, og hinir, þar eptir, hefir því kapitulum þar verið öðruvíss skipt, eða einhvörn vantar hèrá undan í.*

því þorsteinn þóttist eigi verða varluta skuldalúkningar ok hlýðni af Haraldi konúngi; þess ok annars, at hann undi eigi eptir dauða konu sinnar; þá bjó hann skip sitt til Íslands-ferðar; börn hans voru þá fullþroskut. Rèðst Karl inn rauði til ferðar með föður sínum, en menn segja, at hann sendi þorúlf, sun sinn, til Gautlands, ok at hann hafi tekit þat ríki litlu eptir dauða Herrauðs, móðurföður síns, ok aukit þar kyn sitt. Ljótr inn bleiki hafði áttan sun þann, er Hafþórr (Snækollr) hèt; hann var víkíngr. Ok er þorsteinn svarfaðr var búinn til Íslands-ferðar, ok at ráðstafa eignum sínum, kom hann til bæar þorsteins, ok hertók þaðan þórörnu, dóttur hans, ok rænti fè miklu. En er þorsteinn kom heim, þá vissi hann eigi hvört Snækollr hafði haldit, ok varð eigi af neinni eptirför; hèldt Snækollr síðan við þórörnu, ok átti við henni 2 börn, verðr frá þeim sagt síðarr í sögunni. þorsteinn lèt í haf eptir þetta, byrjaði honum seint, ok barr norðr fyrir Ísland, ok tóku land vestanverðt við Eyjafjörð, ok rèðu skipi sínu til hlunns.

13. Helgi inn magri, sun Eyvindar austmanns, Bjarnarsunar, Rólfssunar frá Ánu, bjó þá á Kristnesi í Eyjafirði; hann var höfðingi yfir öllu því hèraði, ok mikils verðr; hann hafði komit út híngat vestan um haf; var hann uppalinn í Suðreyjum, ok síðan á Írlandi af móðurföður sínum, Kjarvali, Íra konúngi; en þá hann var í Suðreyjum at fóstri, var hann sveltr, ok

sá egi á honum hold; ok sem faðir hans ok móðir komu þar, kölluðu þau hann Helga hinn magra. Helgi var primsigndr, ok trúði á Krist, ok kendi við hann bæ sinn, en þó hèt hann á þór til allra stórræða; hann átti 2 sunu, Rólf ok Íngjald, ok eina dóttur, er hèt Íngonn; hana átti Hámundr heljarskinn. En er Helgi frá útkomu þorsteins, reið hann til skips með marga menn, ok bauð þorsteini til sín; var þá mjök komit at vetri. þorsteinn tók þessù boði með þökkum, ok fór hann til Helga, ok voru þeir þorsteinn ok Karl með honum um vetrinn í góðu yfirlæti; en hásetar vistuðust þar nærri um fjörðinn.

14. Um vorit bað þorsteinn Helga vísa sèr bústað. Helgi mælti: mjök er nú albyggt um hèrað, ok veit ek eigi annarstaðar únuminn, enn í dal þeim, er liggr uppí land fyrir utan Hrísey, er þat mikit hèrað; en þar hefir tekit sèr bústað Ljótúlfr goði, er út kom austr í Sandvík með Hroðgeir hvíta Hrafnssyni, frænda sínum; en svâ voru þeir skyldir, at Hroðgeirr var bróðir Álreks, föður Ljótúlfs, ok þat ætlak, hann mjök vilja helga sèr dalinn, ok verja fyri búsetu stórmanna. Eigi munu vèr at því fara, segir þorsteinn. Ok eptir þetta fara þeir þorsteinn ok Karl með sínum mönnum útí dalinn, ok tóku menn at efna sèr til bæa; bygði þorsteinn sèr þar bæ, sem hann kallaði at Grund. En Karl inn rauði tók sèr bústað at Karlsá; fór hann síðan landa ámilli hvert sumar, en hèldt þó ávalt bú. þetta var þeim megin ár, er Ljótúlfr átti

eigi bygð, en þat hèt at Hofi, er hann bjó; honum líkaði stórilla atgjörðir þeirra þorsteins ok Karls, ok amaðist við þeim, ok gjörðist hèr af úvinskapr þeirra á millum. þat var einn tíma, er þorsteinn hafði farit at sækja varnað sinn, ok Karl sun hans, ok fylgdarmenn þeirra nokkrir, voru at skógarhöggi í dalverpi einu litlu; voru þá menn gjörvir af hendi Ljótúlfs, at ráða at þeim, hèt sá Björn digri, er at þeim fór með marga menn; en þar vâru eigi hjá þeim utan bolaxir þeirra[1].

---

[1]) *Hèr virðist svâ, sem meira vanti enn við, því bæði er samanhengit annars stýft, og líka verðr manna getið, sem væru þeir áðr nefndir, er þó hefir ekkert verið frásagt, t. d. Gils og fl.*

## Saga af viðskiptum þeirra Svarfdæla ok Guðmundar ens ríka[1].

Sigmundr[2] hèt maðr, hann var son Karls[3] hins rauða, hann átti dóttur Íngjaldar í Gnúpufelli. Hann átti 3 sonu, ok hèt Hrólfr hinn elzti, Halli annar, en Böðvar enn þriði, ok voru þeir heima uppfæddir; þeir voru miklir menn ok sterkligir. Hrólfr var uppvöðslumaðr mikill ok fègefinn. Halli var gleðimaðr mikill ok lögmaðr, hávaðamaðr hinn mesti. Böðvar var hóglyndr[4] ok gjörðist farmaðr. Torfi hèt maðr, er bjó í Torfufelli, auðugr, en ekki stórættaðr. Þá bjó Eyólfr á Möðruvöllum, [ok Guðmundr[5] sonr hans var með honum. Sigmundr tók sótt, ok heimti til sín sonu sína, ok bað þá vera samhuga, ok segist hann sjá mega hvers þeirra skaplyndi, ok [mjök vera athyggjandi: ok virðist eigi til smágjarnir[6], ok gæti hverr sinnar sæmdar; síðan andaðist hann. Þá var Hrólfr 18 vetra, en Halli

[1]) *þannig A, E, F;* Söguþáttr um Vallna-Ljót, *B, C, D;* Hèr byrjast sagan af Vallna-Ljót, *S.* [2]) Sigurðr, *B, C, D, S, hèr og framvegis.* [3]) *þannig B, C, D, S; þannig rètt útá síðunni í A;* Ketils, *E, F.* [4]) góðlyndr, *B, C, D, S.* [5]) *b. v. B, C, D, S; eyða fyri því í A.* [6]) megið nú athyggja, ok verið eigi til sinnu gjarnir, *B, C, D, S.*

14 vetra, Böðvar 12 vetra. Kona Torfa andaðist; honum var vel til sona Sigmundar; hann fór þángat eitt sinn, ok kallaði Torfi þá á tal, ok mælti: nú hafa lengi kunnleikar[1] ímilli vor verit, ok enn vil ek þá auka minna vegna, ok nú leita mægða til móður ykkar bræðra, ok mætti oss hvorutveggjum frami íaukast, en þótt mannamunr sè, [uppá fè eðr umsýslu[2]. Hrólfr biðr hann tala við móður sína um þetta; fóru þeir þá á tal við hana. Húsfreyja svarar: þetta ráð vil ek undir sonum mínum eiga, [ef þeim sýnist þetta mitt jafnræði, ok stend ek ekki ámóti[3], ef þeir samþikkja. Torfi mælti: hvat sýnist þèr, Halli? Hann svarar: þetta mál kemr meirr við Hrólfi, [sem vorr er elztr bræðra[4], ok helzt kann forsjó fyrir at hafa. Torfi vekr við þá um brullaups tíma; en þeir Hrólfr ok Böðvar kváðu eigi óvænt, at hausti mundi verða samfarir þeirra. Þá mælti Halli: bíða vilda ek ykkarra andsvara, ok var slíks at von, ok má ek eigi sjá, hvat þar er ráðligt, ok slíkr maðr er ósýnn til fullræða, (er) mjök hefir litlar mannvirðíngar; mun ek ok ekki samþikki þartil gefa, at gefa móður mína göfga lausíngjanum, svâ[5] göfugt gjaforð; en Hrólfi kvaðst ekki svâ sýnast; en hún[6] kveðst eigi mundi af höndum vísa: ok samþikki ek þessi ráð. En Hrólfr kvaðst ráða eiga[7], kvað ok þat mundi framgánga, sem hann vildi; var brullaup ákveðit at vetrnóttum; líða stundir.

1) barnleikar, *B, C, D;* kærleikar, *S.* 2) þá kann þarfyrir at koma fè ok umsýslan, *B, C, D, S.* 3) en ei við einræði mitt, en standa læt ek svâ, *B, C, D, S.* 4) ok Böðvari, þeir eru elztir bræðr, *B, C, D, S.* 5) eptir, *B, C, D, S.* 6) *v. í E, F.* 7) Halli, *b. v. B, C, D, S.*

2. Þess er getit einn dag, at konur voru í dýngju sinni; Halli var ok þar kominn; móðir hans mælti: ek á at greiða málagjöld í dag griðkonum vorum; nú vil ek senda þik í Torfufell, ok seg, at Torfi sendi mèr grís nokkrn, ok þyrfti þó, at þú værir eigi of-skapbráðr, þvíat grísinn mun vera illr með at fara, ok mun hann frammi láta, ef mín orð koma til. Fara mun ek, því þú átt þèr þar hollan vin; ok er hann kom þar, þá var Torfi at vinnu, ok leit eigi til hans; Halli mælti þá til Torfa: móðir mín sendi mik híngat til þín, at þú sendir henni grís nokkrn at gjöra af snæðíng konum sínum. Hann leit ekki til hans, ok mælti þó: þat má ek gjöra, taktu hann sjálfr, ok starfa at honum. Halli mælti: ekki er formannligt, at gánga í saur at giltu gamalli ókunnum mönnum. Torfi svaraði: hvat mælir ofrhuginn? Svâ mun ek ok ekki hætta til bísnanna (segir Halli), ok send þángat hvern, er þú villt. Torfi mælti: eigi ætla ek þik þikkjast jafnsnjallan giltunni. Halli svarar svâ, betr vera þetta ómælt: ekki jafna ek snilli okkarri giltu saman, ok má þetta frýuorð kallast; hann hljóp at dyrunum, ok snaraði inn, ok þegar hjó hann af henni ranann, tók grísinn, ok gekk út. Torfi mælti: hafðu nú yfir þángat grísinn at færa henni. Halli svaraði aungvu, ok reið í burt, ok heim á leið, en skógr var um hèraðit; hann steig þá af baki hesti sínum, ok sitr hann nú í skóginum, þartil hann sá mann ríða í blárri kápu yfir ána, ok þar kennir hann Torfa; hann sprettr upp, ok hleypr at honum, ok hjó hann

banahögg; hann hafði bæði spjót ok sverð; Halli kastaði honum undir bakka, ok huldi hræ hans, en hafði hestinn með sèr. Hann kom heim, ok hitti móður sína; hún spurði um erendi hans; en hann segir, hvar mál er komit, at Torfi mundi eigi koma í rekkju hennar, eða senda henni grís, er ek skilda við hann: er rennt þeim ráðahag, þóat yðr þikki þat eigi líkligt. Hún svarar: þat hygg ek, at opt rèttir þú þínar hendr til ílls, ok mun þetta upphaf ógiptu þinnar, ok muntu annathvort gjörr sekr, eða drepinn, slíkir menn sem hèr eiga eptirmæli, þar sem Eyólfr er. Halli svaraði: eigi þarftu at ámæla mèr svâ fast fyri þetta verk, þvíat lítill var mannskaði at honum, þó þèr þætti hann góðr. Hún kvað þat nær hófi: en betra væri þèr óunnit verkit. Síðan fór hann í Gnúpufell til Íngjalds, frænda síns, ok sagði honum tíðendin. Hann svarar honum: far þú á fund Svarfdæla, vina þinna ok frænda; eðr hvat gafstu honum at sök? sagði Íngjaldr. Halli svarar: orð hans óviðrkvæmilig til mín, fyri þat ek vilda ekki gipta honum móður mína, ok svívirða svâ ætt vora; veit ek eigi, nema mèr verði nærri stýrt um eptirmælit, ok ek muni fara óvarliga, en ósnjallara kvað hann mik, enn giltuna. Þá svarar Íngjaldr: þat var illa mælt; ver nú með mèr, þartil at lokit er málum þínum. Þá bjó Vígaglúmr at Þverá, ok hittast þeir frændr; þeir fóru á fund Eyólfs, ok bjóða honum sátt fyri þíngmann hans: vèr viljum virða þik til þess, ok bæta hundraði silfrs, en falli niðr gagnsakir við Torfa fyrir áþèttisorð við Halla, er ok

ósýnt, at meira fáist af oss frændum, ok látum oss þetta ekki verða at misþikki. Eyólfr svarar: svâ skal ok vera; oss er Halli skyldr, enda er hann ættstórr. Sættust þeir at því; var Halli þá 17 vetra, er fè þeirra var skipt.

3. Böðvar ræðst í kaupferðir, en Hrólfr gípr var heima á föðurleifð sinni. Böðvar var utan lánga hríð, ok var enn nýtasti fardrengr, vinsæll; hann var utan 12 vetr. Halli setti bú saman, ok átti Signýu Bessadóttur, frændkonu þeirra Möðruvellínga, ok gjörðist þá vel með þeim Eyólfi ok Halla: ok kvað þat vænst til þeirra vinfengis, at tengdir tækist; Eyólfr kvað hann rètt sèt hafa. Halli fór mjök með sakir. Litlu síðarr druknaði Eyólfr í Gnúpufellsá; hann var jarðaðr at Möðruvöllum í túnvellinum heima, ok var primsigndr áðr. Síðan tók Guðmundr enn ríki við virðíngu, son hans, ok gjörðist með þeim vel Halla ok Guðmundi; veitti hann Halla í fjölmenni, en Halli var grjótpáll fyri málum hans, ok var hann kallaðr Hreðu-Halli, ok hefir hann mesta virðíng haft af Guðmundi; þá var hann á fertugs aldri, er hèr var komit sögunni, ok var eigi auðsóktr með afla Guðmundar, en framkvæmd sinni. Bessi heitir son Halla, ok var vænligr maðr. Hrólfr var auðigr maðr ok grályndr. Þess er getit, at Guðmundr hèldt boð fjölmennt eitt sinn á Möðruvöllum, ok var Halli þar, sem at hverju boði áðr[1], því er Guðmundr hèldt; þar var mjök margt talat. Þá mælti Halli; mjök undarliga ferr fram höfðíngjaskapr hèr á Íslandi, ok þverr nú mjök

[1]) öðru, *hin.*

mannvalit norðr híngat, svâ[1] helzt hèrað þetta. Guðmundr svarar: opt finnst þat á, at ek er virðíngargjarn, eða[2] munda ek annarstaðar heldr höfðíngi vera í hèraði, enn hèr? Halli svarar: satt er þat, Guðmundr! enn eru þau hèruð, er[3] þikkir lángt ímilli vera, þóat mannvalit sè hèr mikit meira. Guðmundr spyrr: hvört er þat? Hann svarar: þat er Svarfaðardalr. Guðmundr svarar: fleira muntu mæla sannara ok snotrligra, er þar snæsamt, ok liggr á vetrarnauð mikil. Halli svarar: hinn veg verðr þó lengstum í útdölunum, at fleiri fara þángat at kaupa mat, enn þaðan ok híngat, ok fleiri nærast þaðan[4] at peníngum, enn hèðan. Guðmundr svarar: hvat skal þetta at tala, er landakostir eru svâ lofaðir? ok ekki sýnist mèr svâ. Halli svarar: þat hefir mèr í hug komit, at breyta mínum ráðahag, ok færa þángat bygð mína í ættleifð vora. Guðmundr mælti: hví er þèr þar betra at búa, enn hèr? Halli mælti: þar hafa búit göfgir frændr mínir, enda fýsir mik þángat fara, enn sitja samkynnis[5] við þik, þvíat mèr hagar þat til lítilla vinsælda, segir Halli, ok em ek grjótpáll þinn, ok verða mèr sumir of-jarlar[6] hèr í hèraðinu, ok mun þá þat ráð[7] falla, ef ek fer hèðan, ok skal þó vera okkart vinfengi samt ok áðr; en ek mæli [eigi mjök óvitrliga[8], at ek fèkk óvinsældir af viðskiptum okkrum Einars bróður þíns, ok vil ek nú færa mèr þat af hendi. Guðmundr svarar:

1) þó, *hin.* 2) eigi, *B, C, D, S.* 3) eigi, *b. v. B, C, D, S.* 4) *þannig E, F;* þar, *A og hin.* 5) samkjöra, *B, C, D, S.* 6) afhallnir, *D, S.* 7) niðr, *B, C, D, S.* 8) þat nú opinberliga, *B, C, D, S.*

þetta er sumt satt, en sumt ætla ek þèr þat minna til virðíngar, enn óvinsældar. Halli svarar: hitt er eigi miðr reyndar, at þeir frændr mínir, synir Ingjalds, eru yfirmenn mínir, ok eigi má ek hèr mestr maðr vera vorra frænda, meðan vèr erum hèr allir, en þar má ek mestr maðr heita. Guðmundr mælti: eigi ætla ek, at þú fáir þar meiri virðíng, enn slíka, sem þú hafir hèr haft; ek sè þar þá 4 menn, at engi þeirra vill láta virðíng sína fyri þèr. Halli svarar: hvörir eru þeir 4, er ímóti mèr munu standa? Guðmundr mælti: þat er einn Valla-Ljótr, [sonr Ljótólfs goða[1], er mestr maðr er í dalnum, ok Þorgrímr, bróðir hans; enn þriði er Björn at Hofi; fjórði er Þorvarðr, bróðir hans, þeir eru Þorgríms synir, kynstórir menn, (ok) Ljótr [Ljótólfsson ok Þorgrímr[2]; ætla ek [svâ um Þórir, frænda þinn, at þótt þú færist nær honum, at ofrefli muni ykkr í[3] við þá at eiga. Halli svarar: þat ætla ek þó muni framfara. Síðan fór hann á fund Þóris Vemundarsonar, ok sagði honum sitt erendi, ok vildi land kaupa, ok spyrr, hvar hann veit land falt. Þórir segir: veit ek land falt at Klaufabrekku, ok mun ek fá þèr [engjar til, þvíat þar eru engi lítil, en ek vil kaupa þat land til handa þèr[4], ef þú villt híngat[5] ráðast,

[1]) *þannig S;* Bersason goða, *A;* sonr Álfs goða, *B, C, D;* goði Bersason, *E, F.* [2]) *þannig S;* Bersason ok Þorgerðar, *A, E, F;* Álfsson ok Þorgerðar, *B, C;* Álfsson ok Þorgrimr, *D; sbr. bls.* 214. [3]) *þannig E, F;* um Þorvarð (Þórir, *B, C;*) frænda þinn, at þú munir færast at honum, þikki (mèr þèr ofrefli, *A, B, C;* ætla ekki um Þórir fr. þ., at þú m. f. at h., þ. mèr þ. ofrefli, *D, S.* [4]) *frá* [*v. í B, C, D, S.* [5]) þángat, *D, S.*

en þó þikki mèr þat ráðligast, at þú sèrt kyrr; hèr mun at reyna fastnæma[1] menn ok stórýðga. Halli kvað sik þat ekki mundu í burt reka: ok kauptu landit; síðan rèðst hann þángat; ekki var bygðaleyfis beðit. þeir láta sèr ekki umfinnast Svarfdælir, þvíat Ljótr var höfðíngi yfir þeim frændum, ok undu þeir vel við þat, enda rèð hann einn öllu þeirra ímilli; hann var óhlutdeilinn umsýslumaðr, enginn stúrumaðr, mikill maðr; ok þat var til marks, hvörsu honum líkaði: hann átti tvennan búnað, blán kyrtil stuttan, ok öxi snaghyrnda, ok var vafit járni skaptit; þá var hann svâ búinn, er víghugr var á honum; en þá honum líkaði vel, hafði hann þá brúnan kyrtil, ok bryntröll rekit í hendi.

4. Hrólfr hèt bóndi, er bjó uppfrá Klaufabrekku; hans synir voru þeir þórðr ok þorvaldr; hann var göfugr maðr; hann tók sótt ok andaðist. þeir bræðr tóku erfð eptir föður sinn, ok vildu, at Ljótr skipti fè með þeim, bæði löndum ok lausum aurum, þeim er þeir áttu. För Ljóts frestaðist nokkra stund, en[2] kristnat var fyri litlu landit, ok voru lögleiddir drottins-dagar; þá var Mikkaelismessa, er fundrinn var lagðr; voru þeir þar komnir þórir ok Halli, ok höfðu þeir sèt mannaförina. Ljótr skipti löndum þeirra bræðra; snjór var fallinn á landamerki; hann skipti löndum, ok tekr sjónhendíng í stein nokkurn, en úr steininum í ána, ok ferr rètt svâ fram, ok nam stað við ána, ok skar þar upp torfu eða jarðkross, ok mælti: svâ kann ek at marka

[1]) *þannig B, C, D*; fastvæma, *A, E, F;* stóra, *S.* [2]) er, *A.*

landaskipti; þeim bræðrum líkaði vel, ok öllum, nema Halla. Þá mælti Ljótr: við höfum ekki við átst hèr, Halli! en þú ert maðr hygginn, eðr hvörsu lízt þèr þetta skipti? Halli svarar: vel at jafnaði ætla ek þik löndum skipt hafa, en er þú innir til þessa, þá ætla ek, at lögin mundu sveigð hafa verit, má ek svâ heldr nokkut umræða landaskiptit, eðr hvörsu lögkænn maðr ertu, Ljótr? Hann mælti: eigi kann ek lögin vel. Halli segir: þat ætla ek við lög varða, at vinna á Mikkaelsmessu, þótt hún væri eigi á drottins-degi, ok mun ek stefna þèr um helgibrygði. Ljótr svarar: úng er ný[1] trúan. Halli mælti: svâ er atkveðit, at kristnispèll sè í orðit, ok er eigi vel sèt fyrir hinum smærrum mönnum, er þèr gjörið svâ fyrir höfðíngjarnir. Ljótr svarar ok segir: þetta er eigi vel gjört, ok mun eigi svâ verða í annat sinn. Halli mælti: skjót eru ummæli mín við þik, Ljótr! gjör annathvort, gjald mèr hálft[2] hundrað silfrs, eðr ek mun stefna þèr. Ljótr svarar: þat mun ráðligra, at eigi sè orðalaust við mik: ekki[3] bæta ek fyri vanhyggju mína, en þikkja bezt, at kyrt sè, en ek mun styðja þitt mál. Halli svarar: ekki sómir, at láta mennina fyrikoma hvorugum okkrum. Ljótr svarar: þú skalt eiga heimila hegníng, ef optarr verðr, en legg nú samþikki við mik, ok náir þú þá þökk minni. Halli svarar: þat skal sannat[4] vera, ok gjör þú annathvort, gjaldt upp

1) nú, *B*, *C*; enn, *D*, *S*. 2) annat, *b. v.* *C*. 3) ok, *B*, *C*, *D*, *S*. 4) annat, *B*, *C*; annathvort, *D*, *S*.

fèt, eðr ek mun stefna þèr. Ljótr svarar: eigi vil ek, at þú stefnir mèr, heldr vil ek gjalda fèt, ok mun vingott ímóti koma; lengi hafa vorir frændr viðhnippst, vera má, at í kyn kippi; mun ek þegar gjalda fèt, því eigi vil ek reiði engilsins; nú ef þèr gengr til vinátta við mik, [þá muntu vera mín hlíf ok skjöldr, en ef þèr gengr til fègirni, ok ágángr við mik[1], sem ek ætla heldr at vera mun, þá má enn vera, at sjálft sýnist. Halli tók við fènu. Ok á sama hausti var boð á Möðruvöllum, ok kom Halli þar; þá var Bessi, sonr hans, kominn út, ok var at boðinu. Guðmundr setti Halla hit næsta sèr, ok hafði haft frètt af viðskiptum þeirra Ljóts ok Halla, ok mælti svâ: hvörsu líkar þèr þar í dalnum út? Halli kvað sèr vel líka. Guðmundr mælti: eru menn vel við þik út þar? en hann kvað þat með góðum hætti. Þat er sagt, sagði Guðmundr, at þú hafir fè upptekit af Ljóti fyri litla sök. Halli svarar: eigi er þann veg jafnt, ek leitaða eptir með rèttendum, ok kaus hann þann kost, er honum gegndi betr, ok máttu hèr sjá silfrit. Já, segir Guðmundr, sè ek, at þú þikkist vel leikit hafa, en svâ segir mèr hugr um, at rauðt mun sjá í skörina fyrir hinar þriðju vetrnætr; vil ek þat nú ráða þèr, at þú komir eigi út þángat, síðan mun ek kaupa þèr hèr land, en ábyrgjast þik eigi út þar. Halli svarar: vel er þetta boðit, en vera þikki mèr þar á þeir brestir, at ek vil þat eigi, ok mun ek reyna enn meirr, ok fer ek eigi af þeim sökum enn burt.

[1]) *frá [ v. í B, C, D, S.*

síðan fór Bessi Hallason með honum, ok kvomu þeir út at jólum í dalinn. þórir bauð Halla til jólaveizlu á Grund, þar var kyrkjubær, en Bessi, son hans, fór heim. [þórir[1] lèt fara andvirki, þvíat heyfátt var heima um jólin, er áleið[2]. þau ein orð fóru af Halla til eyrna Valla-Ljóti um skipti þeirra, er heldr voru óvingjarnlig. En eptir jólin bjóst Halli brott; ok þann morgun hittust sauðamenn af Grund ok Völlum, spurðust tíðenda, ok ræddu um, hvorir betr mundu veitt hafa um jólin, ok fylgdi hvórr sínum bónda; sagði þóris maðr eigi þar jafnvel skemt hafa verit: þvíat enginn er skemtunarmaðr betri, enn Halli, er þar var um jólin. Húskarl Ljóts spurði, hvenær Halli mundi heimfara; húskarl þóris kvað hann affaradag jólanna fara mundu. þórir spurði húskarl, er hann kom heim, hvat hann hefði manna fundit; en hann sagði. þórir frètti, hvat þeir hefði haft at tala; en sauðamaðr sagði allt þat, sem farit hafði. Já, kvað þórir, vel er sagt, en þú, Halli! skalt hvörgi fara í dag, ok segir honum hvat tilbarr, ok svâ, hvat þeir höfðu rædt húskarlarnir: er mèr ekki um, at þeir segi um ferðir þínar, er ok mèr þar grunr á, at svâ fari, sem Guðmundr sagði, at Ljótr mundi verða þèr drjúgr í málunum. Halli svarar: hvat er okkar Ljóts ímilli, nema gott? þórir mælti: skuggi er honum í málum ykkrum[3]. Nú skal ek fara, kvað Halli. þórir svarar: þá skulu þèr

[1]) mælti ok, *ofaukið í A, C.* [2]) *frá* [ *v. í D, S.* [3]) eptir endat tal ok ráðlagning Þóris, mælti Halli, *b. v. S.*

fylgja húskarlar mínir 13, en mèr er þúngt, ok má ek ekki af því fara; Halli kvað þess eigi þurfa mundu.

5. Síðan fóru þeir upp um Hörðabrekku[1]. þá mælti Halli: farið nú aptr, því at nú á ek skamt heim, ok munu mèr aungvir fyri sitja; þeir gjörðu svâ, sem Halli mælti. Sauðahús Halla voru á götunni. þá [mælti förunautr[2] Halla: menn eru þar, [sagði hann[2]. Halli svarar: má vera, at þat sè Bessi, son minn. [Hann svaraði[2]: þat eru ekki vorir menn: þeir voru 12 saman, ok einn í blám kyrtli, ok hefir öxi snaghyrnda í hendi. Far þú heim ok seg Bessa, at Ljótr þikkist eiga smá erendi við mik, ok er engi þörf þín hèr at vera. Hann tók þegar á rás mikilli. Halli var girðr í brókum, ok hafði skikkju yfir sèr, hann kastaði henni af sèr; hann hafði hjálm á höfði ok broddstaung í hendi, en girðr sverði, ok gengr ímóti þeim, ok hjá fram. þá mælti Ljótr: dvöljum eigi við atgaungu, ok tökum hann. þeir ráða at honum; en hann gengr snúðigt, ok komst hjá fram, er hann fór forbrekkt, ok fá þeir ekki við hann fest, er þeir gengu við brekkunni; síðan nam hann staðar á slèttu nokkurri. þá mælti Ljótr: nú hælist hann un við oss, er hann stendr hærra, enn vèr. Halli svarar: ek mun njóta frækleiks ok fráleika, en bíða eigi. Ljótr mælti: bíða mundi Karl, afi þinn, þá er þeir áttu enn efra hlut heimsins, ok aldrí lèt hann eltast, sem geit. Halli svarar:

---

[1]) Höfðabrekku, *E, F.* [2]) *þannig S;* mæltu förunautar, *A og hin;* sögðu þeir, *A og hin;* þeir svöruðu, *A og hin.*

staðar skal ok nema, ok berjumst við tveir, er þat sómi þinn, en hitt skömm. Ljótr svarar: eigi er á þat at líta, enda skal ok svâ vera. Halli mælti, hvat gefr þú mèr at sök? Ljótr segir: sú er sökin, at þú skalt eigi optarr kenna mèr helgihaldit; nú ef þèr hefir gott tilgengit, ok vili engillinn gefa þèr sigr, þá muntu þess atnjóta; en ef þat var með fègirnd ok ágáng, þá hafðu minna hlut, ok sjái hann mál okkart, ok muntu nú njóta þess hálfs[1] hundraðs silfrs, er þú tókst af mèr, ok haldit síðan; Ljótr gekk at honum með járnaðan skjöld. Halli lagði til Ljóts í skjöldinn, ok kom í bóluna svâ hart, at sverðit festi. Ljótr snaraði þá skjöldinn svâ fast, at sverðit brast í tánganum; en síðan hjó Ljótr Halla banahögg; þeir færa hann til sauðahússins, ok kvomu heim á bæinn, ok segja tíðendin, ok lýsti Ljótr vígi Halla á hendr sèr. Bessi ferr þegar á fund Guðmundar, ok sagði honum þessi tíðendi; hann kvað þat farit hafa eptir getu sinni. Bessi bað hann taka við málinu: en ek vil fara utan. Þá voru aftekin hólmgaungu lög öll ok hólmgaungur.

6. Guðmundr tók við málinu, ok býr til alþíngis, ok fjölmennti mjök. Þá var leitat um sættir af vinum Ljóts; hann var fjölmennr, ok hafði traust margra höfðíngja; en svâ lauk því máli með frænda afla Ljóts ok vinastyrk, at hundrað silfrs var goldit fyri víg Halla, en þat hálft hundrað silfrs, er Ljótr galdt Halla, þar kom ekki fyri, þvíat Ljótr vildi, at þat kæmi fyri vanhyggju

[1]) annars, *b. v. C.*

sína; en vinir hans báðu, at hann tæki þat hálft hundrað undir sèr, ok vildi hann þat með aungvu móti, sagði þat litit vera fyri sætt Ljóts, ok hólmgaungu-boð Halla. Guðmundr undi illa við málalyktum, en varðveitti fè til handa frændum Halla. Skip kom út um sumarit í Eyjafirði, ok var þar kaupstaðr mikill; þeir sóktu út þángat Svarfdælir; þar voru þeir í för þorgrímssynir, systur[1] Ljóts, ok húskarlar hans, ok tóku sèr varníng; þar var ok sá maðr, er Sigmundr hèt. þeir dalbyggjarnir voru sofnaðir í dalverpi nokkru; en í lýsíngina kom at þeim maðr, ok mælti: viti þèr, at Eyfirðíngar eru öðrumegin óssins? ok fór ek at segja yðr, at þèr varist þá, þvíat þeir eru ekki trúligir, ok gakktu út, þorvarðr! ok tölumst við, sagði Sigmundr. þorvarðr svarar: ekki þarf ek viðrtals yðvars nokkrs, þvíat mèr þikkir þú ótrúligr; þorvarðr gengr þó út or tjaldinu með honum á hólinn, ok töluðust þar með; þá komu þar at þeim 9 menn svartklæddir. þorvarðr vildi þá aptr snúa; en sá, er hann hafði teygðan með sèr, kippti honum í flokk þeirra; þeir báru vopn á hann þegar, ok vógu hann þar; Sigmundr vildi hefna hans, ok var honum haldit; þat verk gjörði Hrólfr gípa með svikum ok í orðum. En er Guðmundr hitti hann, kvað hann Hrólf illa gjört hafa, at gánga á sættir manna, sagði þat illa reyfa mundu. Hrólfr kvaðst ekki at sættargjörð verit hafa. En Ljótr tók eptirmál um víg þorvarðar, frænda síns. Guð-

[1]) *þannig líkliga rèttara C; sbr. blaðs.* 207 *og* 217; systir, *A*, *È*, *F*; bræðr, *B*, *D*, *S*.

mundr sendir orð Ljóti, at hann vill sættast við hann: ok vilda ek, at þú hefðir hèr fullar sæmdir fyrir, ok sagði sèr þetta verk heldr mislíka, ok lèt svâ bezt fara mundu hèraðs-stjórnina, at þeir stilti menn at illvirkjum slíkum. Á þíngi kvomu til vinir beggja þeirra; var þá um sættir leitat, ok var til þess nefndr Skapti þóroddsson[1], vin Ljóts, með umleitun margra annarra. Ljótr kvaðst eigi enn vera mundu þverlyndr í slíku, en sagði þó slík verk illa upphefjast, ok kvað mörgum minna þikkja fyrir, at gjöra slíkt, enn í fyrstu, kvað enn[2] mega sýnast annarra[3] ágáng fyrri við sik meirri, enn mótgjörðir sínar við aðra. þorvarðr var bættr 2 hundruðum silfrs. Hrólfr undi betr við síðan, enn áðr, ok lifði 2 vetr uppfrá því.

7. Skip kom út um sumarit, ok var þar á Böðvar Sigmundarson[4] ok Bessi Hallason; þeir hitta skjótt Guðmund; hann sagði þeim, hvat í hafði gjörzt, ok hvar komit var mál manna. Böðvar var hófsamr ok stiltr vel, ok sagði sèr vel líka forsjá Guðmundar, en sagði sèr leiðt allt sundrþikki manna í hèraðinu, ok kvaðst enn mundu utan fara, ok vera eigi viðriðinn. Ok um vetrinn, er Guðmundr var eigi heima, komu menn utan með[5] Ólafsfirði frá Kvíabekk til kaupa; sá hèt Ásmundr, er fyri þeim var, ok keypti til 6 hundraða, ok kvaðst allt mundu útgjalda. Böðvar kvaðst vildu, at Guðmundr sæi honum til handa skuldastaði. Ásmundr svarar: kunnugt mun þat, at vèr gjöldum skuldir vorar. Böðvar

---

[1]) Þórðarson, *E, F.* [2]) ekki, *D. S.* [3]) *þannig hiðrètt;* annann, *öll.* [4]) Sigurðarson, *hin.* [5]) úr, *B, C, D, S.*

svarar: þá vil ek, at þú færir híngat fèit; en Ásmundr[1] kvaðst vilja, at hann tæki út þar vöruna; ok lýkr svâ, at þeir kaupa þessu, en síðan fara þeir á brott. Guðmundr kom heim; þeir sögðu honum kaup sín; hann svarar: eigi skyldu þessi kaup verit hafa, ef ek hefða heima verit. Nú líða jólin, ok er veðrátta góð; þá bað Böðvar þá Bessa fara at heimta vöruna; en Guðmundr kvað þat óráðligt, at gánga í greipr þeim Svarfdælum: ok ætla ek þó, at eigi veiti Ljótr þèr ágáng. Fóru þeir þó 4 saman; ok er þeir kvomu úti Ólafsfjörð, þá var varan eigi búin, því margir höfðu keypt, enn hann einn íbundinn skyldunni við Böðvar. þeir höfðu haft ferjur út þángat, er Austmenn áttu; ok er dvölin var laung, þá rak á frost mikit, svâ at eigi mátti á skipum fara. Ásmundr kvað þeim heimilt þar at vera; Böðvar kvaðst þat mundu þekkjast, ok voru þeir þar hálfan mánuð hríðfastir; síðan gjörði þurrafrost ok færðir góðar, ok leggr fjörðinn, svâ at ekki mátti á skipum fara. þá mælti Ásmundr: verið kátir ok velkomnir með oss, Böðvar! En hann kvað þat vel boðit: en fá oss heldr leiðtoga, ok munu vèr gánga. Ásmundr kvað þat síðr sitt ráð: ok vilda ek vel skiljast við yðr; svâ verðr at vera, segir Böðvar. þeir fóru 12 saman til heiðarinnar, þartil skiptast vegir heiðarinnar; þá þykknaði veðrit ok dreif; færðin var þúng, en Böðvar var ófrárr ok óvanr gaungu, ok ætluðu til Svarfaðardals um nóttina til Narfa; veðrit gjörðist myrkt, ok vissu þeir

[1]) Böðvar, *C*, *S*.

ógjörla, hvar þeir fóru. þá mælti Böðvar: villist þèr nú vegarins, en náttmyrkrit [við sik[1]. þeir lèttu eigi fyrr, enn þeir drápu fótum í húsum nokkrum í náttmyrkrinu; þeir drápu þar á dyr, en menn sátu þá við elda; þá er gengit til dyra, ok spurt, hvörìr komnir væri. Böðvar spurði: hvörr býr hèr, eðr hvat heitir bær sjá? þorgrímr býr hèr, Ljótólfsson[2], en bærinn heitir at Upsum, ok vill bóndi, at þèr gángið inn, þvíat eigi er úti vært, bauð hann mèr svâ at segja yðr, hverìr sem úti væri. Böðvar svarar: eigi vilju vèr fyrr inngánga, enn bónði býðr sjálfr. Maðrinn gengr inn, segir þorgrími, at þeir menn, sem komnir eru, vilja at honum boð þiggja ok láta mikiliga. þorgrímr gengr út, ok spyrr, hvörìr komnir væri: ok þiggið hèr at vera í nótt. Böðvar svarar, ok kvað suma vera Íslenzka, en suma Norræna, ok nefnir sjálfan sik. þorgrímr gekk inn fyrir, ok bað þá niðrsetjast ok þiggja beinann: ok skal ekki boði aptra, en kvað aðra eigi síðr öfusu-gesti þar vera, ok annarra eigi minni von verit hafa; þorgrímr lèt gjöra þeim elda. Sigmundr var þar á búi, er nefndr var fyrri, fóstbróðir sona[3] þorgerðar Ljótsdóttur[4]; honum bregðr mjök við, segir þorgrími leyniliga frá skilnaði þeirra þorvarðar, frænda hans[5]. þorgrímr kvað þat mál ekki til sín taka: ok vil ek þeim vel veita, er aungvir eru ílls af mèr verðir, ok vil ek, at menn sèu þeim trúir, er mik hafa

[1]) er komit, *D, S.* [2]) *þannig* (Ljót. son), *A;* Ljótsson, *B, C, D, S;* Bessason, *E, F.* [3]) Þorvarðssonar, *S.* [4]) *rèttara mun* Ljótólfsdóttur, *sbr. blaðs.* 207 *og* 214 *hèr at framan.* [5]) sins, *A, E, F.*

heimsóktan. þar eru þeir um nóttina. þorgrimr býr um hurðina, ok bað aungvan mann fyrri hurðum uppljúka, enn hann vildi: en sá skal hörðu mæta er afbregðr. Sigmundr leitaði eigi at; en þeir sváfu fast; innangengt var í fjósit, ok svâ kemst hann í brott; þá var rofit veðrit ok var jarðfjúk; hann fèkk sèr skip, ok kom um nóttina til Hofsár til Bjarnar, ok vakti hann af svefni; hann spurði, hverr kominn væri; Sigmundr segir til. Björn spyrr, hví hann fari svâ óðliga. Hann kvað nauðsyn tilreka: ok muntu nú mega hefna bróður þíns. Hvörìr eru komnir? segir Bjarni. Hann svarar: Böðvar, bróðir Halla, ok ætlar nú inn til Eyjafjarðar. Bjarni svarar: ekki samir vel, at kveikja ófrið, at gjörðum sættum, en sjá maðr er saklauss, ok aldrei verit við skipti manna hèr á landi, væri nærr miklu at, ef Hrólfr væri, ok sæmdi þó eigi vel; kann ek ok kappi þorgríms frænda, at honum mun þikkja svívirðíng í um gesti sína, ef at þeim er illa farit. Sigmundr svarar: eigi skiptir þat[1] at höggum til, er þeir voru afteknir, er skaðinn er at, enn mannlæður slíkar lifa, sem þú ert, ok má oss hugkvæmt þikkja, þá er bróðir þinn var drepinn í griðum fyrir oss, nú villtu eigi hefna hans; hann fær sèr menn, ok verða 8 saman. Björn kvaðst vilja hitta Ljót, frænda sinn, stóðst eigi ámælisorð Sigmundar ok hans kumpána, fóru þeir á Völlu. Ljótr spyrr, hvat Björn vilì, er hann ferr um nætr. Björn svarar: ek ætla mèr at fara ok hefna þorvarðar, frænda[2]

[1]) *þannig S;* þik, *hin.* [2]) bróður, *D, S.*

míns. [Ljótr mælti: er Hrólfr kominn? Eigi er þat, segir Bjarni, hèr er kominn Böðvar, bróðir hans í dal[1]. Ljótr mælti: eru þetta þín ráð, frændi! at drepa saklausan manninn, ok gánga á sættir? ok fer ek ekki þessa ferð, ok leggja virðíng við þat, at sækja fram ok heim bróður[2] minn. Björn[3] mælti: eigi munu vèr þurfa at sækja heim bróður[2] þinn, til þess at ná þeim; sitjum nú fyri þeim, er þeir fara burt. Sigmundr svarar: vèr munum sjá för þeirra. Ljótr kvaðst eigi mundu fara. Þeir fóru í burt; ok er þeir fóru, þá mælti Sigmundr: komu vèr til Tjarnar til þeirra feðga Þorsteins ok Eyólfs; þeir voru harðir menn ok ofrhugar. [Svâ gjörðu þeir[4]. Björn mælti[5]: liðs vil ek biðja þik, at eigi fari óvinir vorir um þveran dalinn í friði. Hann kvað þat einsætt, ok rèðst til ferðar með þeim; en Eyólfr, son hans, var farinn upp í Sauðadal.

8. Nú er at segja frá Böðvari, at hann býst um morguninn, ok hans förunautar. Þorgrímr mælti: ekki er mèr um, Böðvar! at þú farir almannaleið, ek veit gjörla, at maðr hefir burt komizt í nótt, ok mun sagt hafa um ferðir þínar, en ek vilda, at ekki yrði at yðr, er þèr hafið mik heimsóktan. Böðvar kvað honum vel fara: ek mun ok svâ gjöra. Þeir snúa nú á leiðina, ok fóru þó almannaleið. Sigmundr tók til orða í liði Bjarnar: nú sè ek þá, ok eru þeir fyrir oss komnir. Síðan sóktu þeir fast eptir þeim, ok fundust á Rísum[6] uppfrá Dalsbæ, milli bæanna

---

1) *frá* [ *b. v. B, C, D, S; v. í hin.* 2) son, *D, S.* 3) *þannig D, E, F, S;* Þorsteinn, *rángt í A, B, C.* 4) *frá* [ *b. v. E, F.* 5) til Þorsteins, *b. v. E, F.* 6) Hrisum, *D.*

ok Hellu, er Narfi bjó. Menn fara þarna, segir Böðvar, ok hvat munu þeir vilja? Bessi svarar: ekki munu þeir gott vilja, ok má vera, at vèr drukknum nærri landi. Böðvar mælti: eigi skulu vèr renna. Bessi svarar: ekki ætla ek þat, segir hann, ok munu vèr hèr bíða. Böðvar ok Bessi ok stýrimaðr, þeir voru fremstir, voru þeir 7 saman; en þeir Björn voru 11 saman. Þá mælti þorsteinn: förum at með ráðum, eigi er sýnt, hve vegnar svâ búit, þeir hafa vígi nokkut, en menn harðsnúnir, ok sæki sumir á bak þeim, [ok vertu hèr, þorgrímr! Í því bili hljóp maðr mikill at baki þeim[1], var þar ok kominn Eyólfr þorsteinsson. Þá mælti Böðvar: höldumst vèr við, ok hlífum oss. Björn var fremstr í atsókn. Þorsteinn skaut spjóti at Hávarði Austmanni, ok setti á hann miðjan; þat spjót þrífr Böðvar, ok sendir þat aptr, ok hæfir þorstein, ok varð honum at skaða; ok í því kom Eyólfr á bak Böðvari, ok hjó hann banahögg; ok í því þrífr Eyólfr til Bessa, ok rendi fótskriðu at honum ok í lið þeirra, ok bað þá Björn, at ráða til hans; hann hljóp at honum ok vó hann, ok mælti: vaskliga förstu enn, Eyólfr! hafði Bessi vegit Sigmund áðr. Þar fèll Böðvar, Bessi, Hávarðr Austmann, ok einn af förunautum þeirra, ok þorsteinn af Svarfdælum ok Sigmundr. Þeir gjöra orð Narfa, at hann sæki líkin. Hann kunni þessu illa, því hann var vinr hvorutveggju; hann ríðr á Möðruvöllu, ok sagði Guðmundi; hann kvað þetta mikla óhamíngju orðna. En þeir Björn

[1]) *frá* [ *v. í B, C, D, S.*

ok Eyólfr gjöra ráð sitt. Eyólfr kvað þat sýnast ráð, at hitta Ljót: þóat nokkr ýfis[1]-orð fylgi, þá er þar þó traust, mun hann mèr ásjá veita, mun ek hèr ekki dveljast, ef þú gjörir eigi svâ, þvíat þú mátt ekki traust veita. Björn kvað hann letja, at mannahefndir færi fram. Eyólfr kvaðst ætla, at því fastari mundi hann til trausts, sem þeir þyrfti meirr: ok er þetta eitt til, ok þann veg helzt komnar[2] mannahefndir frænda hans af voru tilstilli. þeir fara nú ok hitta Ljót, ok segja honum, at þeir hafa mannhefndir framdar eptir frændr þeirra. Ljótr mælti: eigi er gott, at eiga vonda frændr, þeir koma ok[3] í vandkvæði, ok er nú ok eigi gott til atgjörða. þeir fara at hitta þorgrím. þá mælti Ljótr: því tókstu við óvinum vorum, þorgrímr frændi? Hann svarar: þat eina sæmdi mèr, þótt nú kæmi til lítils, þá var þat þó mitt, er ek gjörða, en þat Sigmundar, er hann gjörði, ok er því fjærri orðit, er ek vilda at væri. þá mælti Ljótr: betr mundi, ef þessi ráð hefði höfð verit, en óráðligt sýnist mèr yðr, at sitja í búum yðrum í milli Tjarnar ok Upsa; kveð ek þat nú betr sama, at vèr sèum allir saman, heldr enn þeir drepnir, sem melrakkar í grenum, ok mun þá þikkja koma til vorra kasta, at veita lið at málum yðrum; ok mun ek nú leita fyrir at vera, en ek er tregr til stórvirkjanna, en þó þikki mèr íllt, at láta hlut minn fyri nokkrum manni. þorgrímr mælti: slikt liggr nú fyrir, eða hvat skal gjöra

[1]) ýfru, *E;* ýfrug, *D, S.* [2]) komið, *D;* koma, *E, S.*
[3]) oss, *B, C, D, S;* opt, *E.*

af Eyólfi, er mest er í sökum bundinn ok stórvirkjum? Ljótr svarar: hann má vera með mèr fyrst, en síðan mun ek senda hann [suðr á Hjalla, ok koma honum þar utan, en aðra suma[1] skal senda[2] til Hermundar Illugasonar, en 2 til Þorkels Eyólfssonar, ok væri þá auðveldt um sættir at leita, ef þeir kæmist utan; en Björn skal með mèr vera, ok eitt yfir okkr gánga.

9. Allt gekk þetta svâ fram. Eyólfr fór utan, ok var í þíngamanna-liði í Englandi. Narfi var at ræðu við Guðmund, ok þótti honum því verri þessi tíðendi, sem þeir frèttu gjörr, þó fór hann með Narfa útá ströndina til boðs, ok frètti þá glöggt um fundinn. Guðmundr mælti: eigi[3] hafa þeir gott orð af, ok er mikill skaði at um[4] slíka menn, er svâ urðu vel við, en sjálfir saklausir, ok uppgánga þeir nú Svarfdælar, ok munu vel við una; eðr hvörsu eru þeir varir um sik Björn ok Þorgrímr? [Hann sagði: opt er Björn heima með fámenni, ok svâ Þorgrímr. Gott hefir Þorgrímr[5] af málinu; en þó er Ljótr forstjóri þeirra, eðr hvörsu varr er hann um sik? Hann sagði, at Ljótr væri varr um sik. Eigi uni ek nú þó, at svâ búit sè, sagði Guðmundr: vil ek nú hafa við ráð þín, ok sækja út í dalinn, ok forvitnast, ef vèr mættum ná nokkrum þeirra. Narfi kvaðst heimill til þess: er ek nú búinn, er mèr ok kunnug öll gaung ok leynivegar, en gæfu-vant er til slíkra ráða. Guðmundr kvaðst á mundu hætta; ok fóru þeir út í dalinn.

[1]) þrjá, *B, C, S.* [2]) *frá* [ *v. í D.* [3]) *v. í B, C, D, S.*
[4]) missa, *C.* [5]) *frá* [ *v. í A, E, F; b. v. hin.*

Narfi mælti: Ljótr mun ok ríða hit efra með fjöllunum ok ofan at Vallabæ. Guðmundr mælti: hèr munu vèr sitja ok bíða, en þú forvitnast tíðenda af bænum! Ljótr átti sauðahús skamt frá þeim. Þat var til tíðenda á bænum, at þeir frændr voru þar komnir allir til boðs, ok höfðu þeir eigi þat vitat. Þat var vandi Ljóts, at vera snemma á fótum, ok sjá um verk sitt ok fènað; en þeir Guðmundr sátu í túngu einni milli gilja tveggja í skóginum, ok sá, at maðr gekk frá bænum í svörtum kyrtli, ok hafði bryntröll í hendi; hann ferr inní húsit, ok rekr út fèt; þá bað Guðmundr þá uppspretta ok taka hann höndum, en bera eigi vopn á hann. Ljótr sèr þat, ok snýr undan, en hafði fyri sèr bryntröllit, ok hljóp í gljúfrit fram; en þar var undir hörð fönn reyndar í gilinu, ok rennir hann ofan eptir gilinu, ok sakaði hann ekki. Guðmundr mælti þá: þar fór hann núna, ok skaut eptir honum spjóti, ok hæfir í bryntröllit. Ljótr tók upp spjótit, ok fór heim. En Guðmundr fór í skóginn, ok mælti: handgóðr er Ljótr, ok er slíkum mönnum vel farit; hann er óhlutdeilinn, en sjálfr fullhugi ok ráðkænn; þat eitt ráð lá honum til, er hann hafði, ok mun hann vitat hafa áðr, at fært var í gilit; bíðum nú, ok vitum, hvörjar tiltekjur hann hefir; látum eigi þá elta oss, þó föru vèr nú helzti svipliga. En er Ljótr kom heim, þá varðveitti hann spjótit, þat var gullrekit. Þeir spurðu, hvaðan honum kæmi þat spjót. Hann svarar: Guðmundr enn ríki sendi mèr þat. Þeir spurðu, hverr með færi. En Ljótr kvað ekki

öðrum at því hlýta: ok gjörði hann þat sjálfr; þeir kváðu hann því oflengi leynt hafa. Hann kvað eigi þat vera: ek vissa þat, at ek mundu yðr eigi stöðvat fá, ef þèr hefðuð þetta fyrri vitat, en oss mundi þat illa sækjast, ok ofráð vera við þá Eyfirðínga; ok lætr Ljótr eigi þessum málum snúa áleiðis um fjörráð við sik. Ok liðr nú fram at þíngi, ok varð þat allfjölmennt; kvomu þeir Norðlendíngar, Ljótr ok Guðmundr; fór Guðmundr með vígsmálit á hendr Ljóti. Nú gengu menn um sættir at leita. Þeir Ljótr ok Skapti fundust, vinir, ok töluðust við, ok segir Ljótr honum allan atburðinn um viðskipti þeirra Guðmundar: ok ef við megum semja mál okkar, mun ek ekki til þessa taka, ok förum við at hitta Guðmund, ok ræðum við hann. Skapti svarar: vel er meðfarit þínar hendr, ok skal ek allan hlut í eiga. Já, sagði Ljótr, undan snèra ek þá, ok sýndist mèr þá eigi at bíða, hvert orð sem á lèki; nú vil ek, at þú færir Guðmundi spjótit; Skapti bað hann fara með sèr; Ljótr kvað svâ vera skyldu: ok má ek vel sjá hann. Guðmundr heilsaði Skapta, ok mælti: því sýndist þèr, at veita Ljóti gaunguliðᅟ? Skapti kvað svâ bera til: ok ekki er þat til óvinfengis gjört við þik; en spjót þetta vill Ljótr at þú hafir, ok kvað þik sendt hafa. Guðmundr svarar: svâ var þat þèr sendt, Ljótr! at ek ætlaða þat til lítilla sæmda. Ljótr svarar: síðan svâ hefir tilsnúizt, þá gjöri ek mèr þat ekki til fjár, spjót þetta. Hann kvaðst þat gjarnan vilja: en sverð þetta skaltu hafa; þat var gersemi mikil. Þá mælti

Ljótr til Guðmundar: þigg af mèr sverð þetta, en send mèr eigi annat spjót þesshâttar, en lúkum svâ málum okkrum, at þú þikkist halda öllum sóma þínum, ok lúkum svâ fjandskap okkrum. Svâ skal vera, sagði Guðmundr. Björn var eigi á þíngi, því hann var sendr út til Grímseyjar með ráði Ljóts, ok var á laun með þeim manni, er þrándr hèt; Björn sagði honum orðsendíng Ljóts, at hann var þángat sendr til þíngs, til ásjar ok trausts um þíngit: en hann mun lúka málum fyri mik. þrándr kvað þá fara mundu með slíku, sem verða mætti.

**10.** Hrólfr var heima um þíngit; en á þínginu voru málin reifð; kvaðst Ljótr vilja bjóða utanferð manna, ok fèsekt virðuliga, ok lögðu margir hinir smærri menn hit verra til; hinir deildu sèr góðan hlut af, ok þótti vel[1], at hvörr næði sættum, en Guðmundr fengi sóma af. Svâ kemr, at Ljótr vill, at Skapti gerði af hans hendi; en Guðmundr vill sjálfr gera fyri sína hönd, var svâ ok; urðu þeir vel ásáttir, ok skyldi Skapti gerð uppsegja, ok varð þar hjá fjölmenni mikit. Skapti mælti: þat látu við jafnt í þessum málum: fyrisát fyri Böðvari ok víg Sigmundar, Bessa víg ok þorvarðs, en fyri kaupmannsins víg 2 hundruð silfrs, en fyri þat skal annat gjaldast, er kom fyri víg þorvarðar; en 9 menn skulu eigi eiga útkvæmt; Björn skal gjalda hundrað, ok vera þar með frjáls, ok gjalda 2 sumr á leið, ok sættust at þessu. En Björn var í eynni með þrándi

[1]) þat Ljóti at, E.

vel haldinn. Ok einn dag um þíngit fýstist Björn at róa með þrándi; en hann kvað þess aungva þörf: ek vilda, at aungvar umsátur væri um þann mann, er Ljótr sendir mèr, ok óvænna er til trausts af smáskipum, enn á eynni. Ekki mun þat saka, segir Björn; ok rèru þann dag 30 skipa frá eyjunni, ok flest smá; veðr var gott, ok voru menn kátir, þvíat skipin lágu nær. þá mælti þrándr: skip ferr þar inneptir firðinum, ok kenni ek ferju Guðmundar, eðr hvörir munu þar vera? eða viti þèr nokkut til, hvort Hrólfr gípr er á þíngi? þeir svara fiskimenninnir, at hann væri heima. þrándr mælti: hann mun hèr kominn, ok ætlar á fund þinn, Björn! ok muntu verða kendr fyrir oss, ok munu vèr illa verjast af smáskipunum, en menn eigi haldinorðir, en þeir hafa stórskip[1] ok fjölda manna; búumst þó við, at vörn verðr lítil; ok róa nú upp at eyjunni. þá mæltu ferjumenninnir: geysa þeir nú róðrinn af miðunum, ok kann vera, at þeir uggi oss. þá mælti Hrólfr: sækjum eptir þeim; ok gjöra þeir svâ, ok fundust skjótt. þá spurði Hrólfr, hvort Björn væri á skipi. þrándr svarar: leiddu svâ getur um. Hrólfr mælti: selið fram hann, ok leggið yðr eigi í hættu ok fè yðart, þvíat þèr hafið ekki lið; [virðið fyrir[2] yðr vandkvæði, ok gjörið yðr ekki heimilis-sök á hendr yðr. þrándr svarar: ekki âttu góðan hlut í málum manna, er þú setr þik fram fyrir höfðíngja, ok má af þvílíku standa vandræði, en villt eigi halda gjörðir

[1]) skjótt skip, *C.* [2]) fyrrið, *B*, *C*, *D*.

höfðíngja, ok gjörir þú í slíku sáttrof, ok kveikir svâ upp með höfðíngjum fullan fjandskap, kann ok vera at (þú) skapir Birni slíkan hlut, sem bróður hans, ok af þèr hafa hlotizt þessi víg öll; eðr hvat hefir þú spurt af þínginu? eru menn eigi sáttir? ok er þat óvandi þinn, þannin at sættast fyrst, en drepa menn síðan, ok eigi muntu í fyrstu hríð ná honum. Vèr munum ná honum, sagði Hrólfr, en drepa yðr. þrándr svarar: villtu fè taka? Hrólfr svarar: sjálfdæmi vort. Björn svarar: illa gefast sjálfdæmin, ok hættum heldr til, hvörsu at ferr. þrándr svarar: eigi skortir oss fè, en dreng fær varla slíkan, sem þú ert. Björn kvað margt mundi ígjörast, áðr þeir næði honum. þrándr kvaðst vilja lúka málunum: ok kemr nú til mitt. Hrólfr mælti: nú þegar skaltu uppgjalda 2 hundruð silfrs fyri Björn. þrándr svaraði: erfið verða oss gjöldin svâ þraung; en skipamenn halda upp gjöldum með honum, ok fóru snauðir til lands, ok skildi svâ með þeim þrándi ok Hrólfi. Ljótr kom heim af þíngi, ok hittust þeir Björn, ok segir hvorr öðrum þau tíðendi, er gjörzt höfðu. Ljótr kvað þránd eigi ámælis verðan, en Hrólfr sýnir skaplyndi sitt, ok hefir honum títt verit til gjaldanna; nú er hægra hjá: vèr egum at gjalda Guðmundi 2 hundruð silfrs á leið, nú munu vèr þat greiða, en eigi annat, ef þeir Hrólfr láta þat með ósæmd laust. Ljótr gjörði Guðmundi orð, ok kvaðst sjá sýnan ágáng í slíku, ok bað hann setja Hrólf; hann kvað svâ vera skyldu, ok kvað hann opt til óvirð-

íngar hafa stýrt, ok greiddi hann aptr allt fèt eyjarmönnum; en Ljótr skipaði fyri sína hönd bæði við Þránd ok Guðmund, svâ at hvorutveggjum likaði vel, ok þótti Ljótr hinn mesti höfðíngi; ok lýkr þar viðskiptum þeirra Guðmundar hins ríka; en Guðmundr hèldt virðíngu sinni allt til dauðadags; ok lýkr þar þessari sögu.

# SAGAN

AF

# VEMUNDI OK VÍGASKÚTU.

# Saga af Vemundi ok Vígaskútu[1].

Þorsteinn höfði hèt maðr, hann bjó á Hörðalandi[2], ok var hann faðir þeirra Eyvindar ok Ketils hins Hörzka. Þat var eitt sinn í tali þeirra bræðra, at Eyvindr kvoðst heyra gott af Íslandi sagt, ok fýsti bróður sinn, Ketil, til Íslands-ferðar með sèr, eptir andlát föður síns. Ketill vildi eigi fara, en bað Eyvind svâ víðt nema land, at þeim ynnist báðum til vel, ef honum líkaði þar landskostir. Eyvindr fór til Íslands, ok kom skipi sínu í Húsavík á Tjörnesi[3], ok nam Reykjardal uppfrá Vestmersvatni[4], ok bjó á Helgastöðum, ok þar var hann heygðr. Náttfari, sá er Garðari hafði út fylgt, hafði eignat sèr áðr Reykjardal, ok markat til á viði, hversu víðt hann skyldi eiga. En er Eyvindr fann hann, gjörði hann honum tvo kosti, at hann skyldi eiga Náttfaravík, ella alls ekki; þángat fór Náttfari. Ketill fór til Íslands at orðsendíng Eyvindar, bróður síns, ok seldi áðr jarðir sínar austr; hann bjó

[1]) Saga af Vígaskútu, sem öðru nafni kallast Reykdælingasaga, *B.* [2]) Hörkslandi, *B.* [3]) Tjörnnesi, *E.* [4]) Hestmannsvatni, *B, C.*

fyrstr á Einarsstöðum í Reykjardal; hann var faðir Konáls, föður Einars, er þar bjó lengi. Eyvindr átti mörg börn; synir hans voru þeir Helgi á Helgastöðum, er þeir eru viðkendir, hann druknaði á Grímseyjarsundi, ok Áskell goði, er bjó í Hvammi, faðir Vígaskútu ok Þorsteins; Vemundr kögr ok Herjólfr at Mývatni voru ok dóttursynir[1] hans; en Vemundr átti dóttur Þorkels svarta. Dætr Eyvindar voru þær Þorbjörg, er átti Þormóðr or Laxárdal, ok Fjörleif[2], er átti [Þórir leðrháls, son[3] Þorsteins Gnúpu-Bárðarsonar; þeirra synir voru þeir Vemundr kögr, Herjólfr ok Hallketill í Húsavík, Áskell ok Hávarðr, er bjó í Fellsmúla. Eysteinn hèt maðr, hann var Mánason, ok Rómlendr[4] at kyni; hann bjó í Rauðaskriðum við Fljótsheiði, hann var ójafnaðarmaðr mikill; Mýlaugr hèt nábúi hans, hann bjó á Mýlaugsstöðum; hann var barnfóstri Hávarðs Fjörleifarsonar; Mýlaugr var auðigr maðr ok síngjarn[5]. Eysteinn fór til við 6ta mann, ok tók fyri Mýlaugi 4 mælihlöss skíðaviðar, ok hafði með sèr heim, því at hann vildi eigi selja honum; opt hafði hann fengit honum áðr viði, ok hafði eigi fyri goldit. Mýlaugr sagði til Hávarði, en Hávarðr Áskeli goða, móðurbróður sínum. Áskell kvað Eystein eigi vera jafnaðarmann Mýlaugs viðreignar, ok vildi hann sjálfr tilvekja um málit við Eystein, sem hann gjörði um vorit. Eysteinn lagði gerð undir Áskel um þetta mál, því at hann var maðr rèttlátastr í

1) *ágizkað í samanhengi við það eptirfylgjanda ;* synir, *öll handr.*
2) Fjörleifr, *B*, *C*. 3) Þorleikr Hálsson, *B*; Þ. Hallsson, *C*.
4) útlendr, *B*, *C*. 5) saungjarn, *B*, *C*.

sættargerðum, hverir sem í hlut áttu. Áskell gjörði Mýlaugi við jafnmikinn, ok 12 aura silfrs fyri sakastaði[1]; þá var goldit silfrit þegar, en viðrinn þar litlu síðarr, ok kvoðst Eysteinn optarr skyldu undir Áskel leggja mál sitt; ekki taldi Áskell á því. Þat mund[2] kom þorsteinn bollkamr eða bolltaung úti Hrossavík[3], systurson þeirra Áskells, ok átti í skipi; hann fór til Hávarðar, ok lèt bera varnað sinn til Eyjafjarðar, ok þótti ekki áverða nema starf eitt, ok seldi þar Eysteini or Rauðaskriðum 3 hundruð lèrepta ok klæða[4] fyri 10 hundruð, ok bauð Eysteini at flytja til skips í Húsavík verðit, áðr 4 vikr eru af sumri; Hávarði þótti þat í illa skuldastaði seldt, þá er hann vissi, en hèlzt kaup sem áðr. Ok er vora tók, þá heimti þorsteinn at Eysteini; hann kvað þorstein eigi þurfa at annast um. Ok annat sinn, er þorsteinn kom at heimta at Eysteini, þá svaraði Eysteinn: ek hefir, segir hann, seldt öðrum mönnum[5] lèreptin, nú geldst mèr seint af þeim, sem ek á at heimta at; en verr hefir mèr gengit[6], enn ek hugða til, at kaupa við þik, þvíat lèreptin voru verri, enn ek ætlaða. þorsteinn kvað Eystein óspilltan[7] varníng tekit hafa. Ok nú þikkir sinn veg hvorum þeirra; ok [þar kom nú mál þeirra[8], at Eysteinn kvað þat mundu bezt, at heimta ekki fyri varnínginn, ok láta þar niðrfalla þat mál, sem nú var komit. Hávarðr svarar, at nú fór svâ, sem

---

1) sjálfræði, *E.* 2) haust, *B, C.* 3) Krossavík, *C.* 4) klæði, *C, E.* 5) manni, *B, C.* 6) greiðst, *B, C.* 7) óspunninn, *B, C.* 8) Hávarðr kom nú svâ máli sinu, *B, C.*

hann grunaði, ok hann gat til þá, þegar er þorsteinn sagði honum kaup þeirra; ok þar kom nú máli með þeim, at þeir skildu. Hávarðr mælti: þat sýnist mèr fyriliggja, at [leita til Áskels[1] um þetta mál, sem öll onnur, þau er [hans sómi[2] liggr við ok frænda hans, ok er sá líkastr, at rètta þetta mál við Eystein. þorstein kvoðst eigi vilja kæra frændr sína um þetta mál, ok bauð nú Eysteini hólmgaungu, þá hann varnaði honum gjaldsins. Ok nú tókst hólmgángan með þeim, ok varð hún með því móti, at þorsteinn hjó af Eysteini skjöldinn, ok nær undan honum fótinn; tók hann þar 3 merkr silfrs, ok svâ fèkk hann þar vöru sína alla; ferr hann nú utan, ok þikkir hann mikit hafa vaxit af þessu máli. En frá Eysteini er þat at segja, at fótr hans var græddr, ok gekk hann jafnan haltr síðan, er hann hafði barizt við þorstein.

2. Svâ er sagt, at Háls[3] Fjörleifarson gerði bú at Tjörnum í Ljósavatnsskarði, ok þar gjörðist vinátta mikil ímilli Eysteins í Rauðaskriðum. Björn hèt maðr, hann var frændi þeirra Fjörleifarsona; hann kemr einhvörju sinni at hitta Háls[4] Fjörleifarson, ok beiddi hann nokkrs tilbeina um ómegð sína: ok svâ, at gefa nokkut til utanferðar mèr. Háls sagði, at hann mundi annast ómegð hans, ef frændr hans Háls vildi beina til útferðar honum. Björn rèð þat nú af, at hann ferr nú til Reykjardals at finna frændr sína, ok hann kemr at kveldi til Eysteins, ok varð þeim

1) *þannig B, C;* vara þik við, *A, E.* 2) *þannig B, C;* liðsemi, *A;* liðsinni, *E.* 3) Hali, *B, C.* 4) Hala, *C.*

margt talat, ok ræddu um hinar ok aðrar tiltekjur, er Björn ætlaði at hafa; ok þá spurði hann Eystein, hverju hann ætlaði til at beina til utanferðar hans. Villtu tilvinna nokkut þat, er hæfiligt er, eða nenna? Eigi kvaðst hann flugumann vilja vera, þóat Eysteinn vildi þat. Eysteinn segir: ek skal gera þèr kost einn fullgóðan: þú skalt reka 15 geldínga til Háls, frænda þíns, þá sem ek á, ok þó með leynd á þessari nótt, ok setja þar inn ok byrgja, en kasta vöttum þínum ok staf hjá vökinni þar á tjörninni. Björn fór nú eptir ráðum Eysteins, ok rak 15 geldínga til Háls, frænda síns, á laun um nóttina; en Eysteinn fèkk honum fararbeina, ok fór hann utan[1] austr í fjörðum[2] með ráði Eysteins. En frá því er at segja, hvat Eysteini gekk til þess, er hann bauð honum, at kasta niðr stafnum ok vöttunum hjá vökinni, en hann hugði at menn skyldu þat ætla, at hann væri drukknaðr, ok ætla, at hvarf hans mundi af því vera. Um morguninn eptir fór Eysteinn í ransókn, ok með honum Þorkell Þorgeirsson[3] frá Ljósavatni, ok komu þeir til Háls, ok báðu þar ransóknar; ok hann ransakaði, ok fann geldínga sína 15 innibyrgða í geldíngahúsi Háls, ok beiddist sjálfdæmis af honum. En Háls brást ókunnugr við þetta mál, ok vildi fyrir aungvan mun festa grið fyri þetta mál, er hann hafði aungvan grun[4] um sauði Eysteins þessa, er þar voru komnir, eðr hvörju faraldi þeir hefði þar komit; ok var þat nú hans ör-

1) *v. í C.* 2) fjörðu, *C.* 3) *þannig líkliga rèttara, sbr. blaðs.* 238; Geitisson, *eða* Gettisson, *A og hin.* 4) um þetta mál, *ofaukið í A og hin.*

endi, at fara á fund frænda sinna, Áskels goða ok Hávarðar, ok segir þeim til þessa, þat sem hann mátti af vita. Þeir svöruðu ok sögðu honum, at nú hafði svâ farit vinátta þeirra Eysteins, sem von var, at hann mundi eigi vel gefast hvorki öðrum, nè þèr; kváðu þeir mjök í bætr bera, er hann hafði einskis mâtt[1] á leið koma[2] um [þenna áburð[3]. Ok nú var sú ráðagerð Áskels, at þeir mundu utan fara báðir[4], Háls ok Vemundr, í Eyjafirði. Nú er eigi lángt at bíða, áðr enn frèttist hvarf Bjarnar, [ok þótti mönnum þat með undarligu móti vera; ætluðu margir, at þat mundi hafa saman borit hvarfit Bjarnar[5] ok sauðanna [Eysteins; kváðu þat mikit í huga mönnum einatt, at eigi væri örvænt við fèþurfi Bjarnar ok grunnsæri, en við slægð ok illgirni Eysteins, ok mundu þeir[6] með nokkru móti hafa verit báðir á einu ráði; töldu eigi ólíkligt, at þann veg mundi Eysteinn [helzt mega þikkjast[7] reka svívirðíngar sinnar, er hann fèkk af Þorsteini bolltaung[8], at láta frænda hans verða fyri þvílíku ámæli, sem meirr mundi þikkja líkligt vera, at Háls fengi af þessum hlut; þótti þat ok undarligt, ef hann færi svâ djarfliga með, ok gengi svâ gegnt at um ransóknina, nema hann vissi nokkut til áðr. Nú ferr mâlit til þíngs, ok lauk því svâ, at Háls var sekr um sauðatökuna, fyri því, at Áskell vildi eigi svara fyri hann.

1) *þannig E;* máls, *A og hin.* 2) komit, *B, C.* 3) *þannig E; eyða í A;* þetta efni, *B, C.* 4) bræðr, *b. v. B, C.* 5) *frá [ v. í B, C.* 6) *þannig B, C;* Eysteinn kvað (kváðu, *E.*) þat nokkut íhugaverðt ok óreyndt, at eigi væri örvænt við fèþurfi B. grunnsæi, en við slægð Eysteins ok illgirni þeirra norðr, *A, E.* 7) *þannig B, C;* eigi heilt virðast mega, *A, E.* 8) bolstaung, *sum.*

3. Nú er at segja frá ferð þeirra Háls ok Vemundar, at þeir fóru utan, ok fundu Björn frænda sinn, ok spurðu, hverju atgegndi um ferðir hans. Hann varð fárr við kvomu þeirra, ok fann þat til utanferðar sinnar, at hann þóttist svâ helzt mega forðast ómegð sína. Háls kvað þat mundu aungu gegna; hann[1] segir, hvörsu fór með þeim Birni[2], at hann hafði heitit honum, at annast ómegð hans, ef bræðr Háls[3] vildu tilbeina til utanferðar honum; ok nú segir Vemundr, at hann hafi ekki komit at finna þá; ok þikkjast þeir bræðr nú skilja, at hann muni eigi it sanna uppi láta, ok leita nú eptir við Björn, þartil er hann lætr uppi it sanna, hversu farit hafði með þeim Eysteini; ok nú tóku þeir Vemundr Björn á sitt vald. Þeir Háls fara aptr til Íslands þegar hit nærsta sumar, ok koma sínu skipi í Húsavík, ok hafa nú Björn þar með sèr. Þat var ráðagerð Vemundar, at leyna Birni, þartil er þeir fyndi Áskel goða; Háls sagði þá þegar Katli, bróður sínum, er hann kom til skips. Nú láta þeir skamt at bíða, áðr þeir fara á fund Áskels, ok segja sem nú var komit málinu, ok þikkir honum nú vel hafa gengit, ef Háls mætti fá rètting síns máls, ok safnar nú at sèr mönnum, þartil er þeir verða saman 60, ok fara þá þegar til Eysteins, ok hugðust at koma þar á óvart; en þat bar svâ til, at Eysteinn hafði þar ekki færra lið fyri. Þeir Áskell ok frændr hans bera upp sitt mál, ok duldi Eysteinn alls þess um þat, at svâ væri, sem þeir sögðu. Þá var

1) en, *C.* 2) *ágizkað;* Eysteini, *öll.* 3) hans, *B, C.*

Björn til leiddr, ok sannar hann sögu Áskels; ok eigi dylr Eysteinn at síðr. Ok nú biðr hann liðs þorkel, son þorgeirs Ljósvetníngs; en hann sagði, at hann mundi eigi gott mál tilbera, ok kvaðst þat vita, at Áskell vildi aldrei [fylgja raungu máli; sagði þá ok hafa sannanarmann sögu sinnar: ok berr sá ímóti því, er þú segir, ok er þat Björn, frændi Fjörleifarsona[1]; lauk hann svâ sínu máli, at hann vildi ekki[2] lið veita honum um þetta mál. Áskell lèt nú stefna Eysteini um illmæli þat, sem hann hafði við Háls um sauðatökuna til alþíngis. Aungvir menn urðu til at svara fyrir Eystein; ok nú verða þær málalyktir, at Eysteinn varð sekr. Ok þegar þeir koma heim af þíngi, þá reið Áskell þángat með flokk sinn til Eysteins, ok ætlaði at taka hann af lífi. En í öðru lagi er þat at segja frá Eysteini, at honum hafði í hug komit, at eigi væri örvænt, at þvílíkar málalyktir mundi verða á þínginu, sem nú voru, ok þótti honum þurfa nokkurra orræða í at leita, ef duga skyldi, ok kom þat í hug, at eigi væri ráðit, hve lángt tóm þeir gæfi honum til ráðagerðar, þegar þeir kæmi af þínginu, ef hann sættist eigi áðr fyrr; ok nú varð þat hans orræði, at hann safnaði saman öllu gánganda fè, því sem hann átti, ok rak inní húsin, ok lagði eld í húsin, ok brendi upp allt saman, bæinn ok fènaðinn, ok svâ hjónin öll þau, sem verit höfðu hjá honum; en frá því segja menn ýmist, hvat honum sjálfum varð fyrir; er þat sögn sumra manna, at hann hafi farit utan

[1]) Hjörleifsson, *likl. rángt í B, C.* [2]) *frá* [ *v. í B, C.*

suðr á Eyrum; ok er þat þeirra sögn, at hann hafi farit[1] í Vík austr, ok þaðan farit suðr til Danmerkr; en sumir segja, at hann muni hafa brunnit með hjónum sínum; ok vitu vèr þó eigi, hvort honum hefir heldr at bana vorðit; en jarðir þær, sem þar voru eptir, urðu nú sektarfè.

4. Hánefr hèt maðr, hann bjó í Óþvegins-túngu; fátt verðr frá honum vel sagt í þessari sögu, ok var hann óorðsæll maðr; hann græddi mikit fè, en þó hèldust lítt hjónin hjá honum. Svå er sagt, at Hánefr ferr til fundar við Vemund, ok bauð heim[2] þorkötlu, dóttur hans, ok ætlaði hann sèr þat mjök til trausts við aðra menn; Vemundr var engi jafnaðarmaðr kallaðr, ok vænti Hánefr af slíku, at hans hlutr mundi eigi fyri borð vera borinn, þóat hann bæri eigi ávalt gott mál til handa. þat er at segja, at Vemundr þá barnfóstr, ok ferr Hánefr nú heim, ok þikkir sín för allgóð orðin. Nú verðr Áskell varr við þetta, ok þótti þat kynligt, at Vemundr vildi þiggja barnfóstr at svå skitligum manni, sem hann kvoðst hyggja at Hánefr væri, lèt ok þat líkligt þikkja, at hann mundi af honum nokkut íllt hljóta. Vemundr kvað þetta ekki svå vera, sem hann talaði, lèt Hánef vera vingóðan mann, ok kvað hann hafa sèr marga góða gripi gefna, ok kallaði sèr vel líka við hann, ok kvað hann vera góðan dreng. Áskell kvað eigi mundu lángt bíða, áðr hann mundi vita, hversu góðr drengr hann er: en hann þikkist

[1]) sèzt, *B, C.* [2]) honum at fóstra, *C.*

nú hafa fengit sèr örugt traust; ok nú hætta þeir umræðunni. Þorleifr hèt maðr, hann var kallaðr melrakki; hann kemr til Hánefs, ok skorar á hann til vistar; þá hafði húskarl Hánefs á burt hlaupit litlu áðr, ok tekr Hánefr við Þorleifi. Þat var siðvandi Hánefs, at hann lèt hvern dag gánga í haga til sauða sinna, ok lèt telja. Maðr hèt Hrafn, hann bjó at Lundarbrekku í Bárðardal, hann var góðr bóndi. Svâ er sagt, at Hrafni hvurfu geldíngar 16, ok spurði ekki til, ok þóttust menn eigi vita, hvat af var orðit. Þat er at segja, at Þorleifr melrakki varð varr við, at Hánefr hvarf margopt[1] or hvílu sinni um nætr, ok þar kom, at hann forvitnaðist hvörju gegna mundi; ferr hann nú út, ok leitar hans, ok í einni brekku fellr hann; ok er hann stóð upp, er blóð á hendi honum; ok nú hyggr hann at, hvar hann væri skeindr, er hann sá, at hann var blóðugr, ok varð hann ekki þess varr; ok nú grunar hann, hvörju gegna mundi. Þar voru hrísrunnar nokkrir, sem hann var, ok þar hittir hann jarðhúss munna; þar var þann veg umbúit, at þar var borinn fyrir hrísflekkr[2], ok stúngit ígegnum hríslum, ok var svâ at sjá, ef eigi var allt atgengit, sem þar, er heilir runnar stóðu. Nú ferr hann í jarðhúsit, ok þreifast þar fyri; hann hittir þar gærur ok sauðahöfuð, grábíldótt fann hann þar eitt, ok var þat mjök auðkennt; þat tekr hann á burt, ok byrgir aptr eptir sèr á þann veg, sem áðr var. Síðan kendi hann reykjarþef; ok því nærst sá hann eld, ok var

[1]) *þannig E;* margt, *A og hin.* [2]) hrisfleki, *B;* hrisflóki, *C.*

ketill yfir eldinum, ok þar var maðr hjá, ok kennir hann Hánef, húsbónda sinn, ok gengr nú atfram at eldinum, ok lætr illa at Hánef, er hann er at slíku um nætr. Hánefr kvað húsfreyju rekkju illa, en sagði sèr annt um daga, svâ at hann mátti þá eigi at vera. Ok nú býðr hann Þorleifi elds[1]; en hann kvaðst eigi þat vilja, ok segir, at hann mundi eigi lengr með Hánefi vera, ok kvað sèr vera illan grun á hans máli, ok þar skilja þeir; ferr hann nú þartil, er hann kemr til Hrafns, ok varðveitti áðr höfuðit, þat sem hann fór með. Vel fagnar Hrafn honum, ok spurði, hví hann væri frá Hánef. Þorleifr taldi hvorntveggja þeirra geðlausan, ok hann hafði því í burt farit. Nú varð Hrafni rædt um sauðahvarfit, ok varð þann veg í orðum Þorleifs, at honum þóttu menn aungvan gaum at gefa slíkum hlutum, er ekki skal eptir leita þvílíkum hvörfum, er svâ eru stödd. Hrafn spurði, ef hann vissi nokkut til, hvert eptir mun vera at leita. Ekki vildi hann þó segja Hrafni greiniliga til, áðr enn Hrafn gaf Þorleifi hundrað silfrs; ok nú sýnir Þorleifr honum höfuðit ok markit[2]. Fara þeir nú til jarðhússins, ok fundu þar ekki; þeir þóttust vita, at Hánef mundi hafa grunat, at Þorleifr mundi varr við orðit hafa, ok hafði nú á burt borit. Þeir Hrafn hitta nú Hánef, ok bera þetta á brýn honum, at hann muni vera nokkrs afvaldr um sauðatökuna; en hann duldi alls um þat. Þorleifr segir Hánef þann grun,

[1]) til elds, *B;* til ölds, *C.* [2]) ok kendi Hrafn, *b. v. C.*

sem hann þóttist af hafa, ok eigi dylr Hánefr at síðr. Hrafn bauð þat, at hafa jafnmarga sauði aptr, sem Hánefr hafði tekit frá honum; eigi vildi Hánefr þat; ok nú skiljast þeir. Fóru þeir Hrafn heim, ok þikkist hann nú víst vita, at Hánefr hefir stolit frá honum geldíngunum. Þat er nú at segja, at Hánefr ferr til fundar við Vemund, vin sinn, ok segir honum illmæli þat, sem haft var at honum. Vemundr spyrr, ef hann væri nokkrs afvaldr um þetta mál; en Hánefr kvað þat fjærri fara, ok biðr nú Vemund styðja sitt mál; hann kvað svâ vera skyldu.

5. Maðr hèt Steingrímr Örólfsson[1], Þórðarsonar slítanda; hann var mikill maðr fyri sèr ok góðr bóndi; hann var kvongaðr maðr, ok hèt Ástríðr kona hans. Þorbjörn hèt maðr, er bjó á þeim bæ, er á Áskógi[2] heitir, þat er á Gálmaströnd; Þorbjörn hefir átt 2 sonu, er við þessa sögu koma at nokkru, [hèt annar Steinn[3], en annar Helgi; þeir voru efniligir menn, ok enn mun sagt verða frá þeim síðarr í sögunni. Dóttir Þorbjarnar er nefnd Astríðr; þá konu átti Steingrímr Örólfsson, er fyrr var nefndr. Steingrímr bjó at Kroppi í Eyjafirði; svâ var sagt, at hann væri frændi Hrafns, er bjó á Lundarbrekku í Bárðardal. Nú er þat fyrst at segja, at Hrafn sendi Þorleif melrakka til Steingríms, frænda síns, í Eyjafjörð, ok vildi eigi hætta honum þar með sèr, ok kvað hann vera góðverðan frá sèr, svâ sem honum hafði drengiliga farit í málum þeirra

[1]) Örnólfsson, *E.* [2]) Árskógi, *B, C, alstaðar.* [3]) *þannig B, C;* sá eini hèt Hersteinn, *A og hin.*

Hánefs; kvaðst þat vilja, at hann hlyti þar ekki íllt af, segir, at hann mun koma um vetrinn at finna hann. Þorleifr kemr nú á fund Steingríms, ok tekr hann vel við honum at orðsending Hrafns, ok er hann nú með honum. Um vetrinn finnast þeir frændr, ok var þat í ráðagjörðum þeirra, at Hrafn skyldi selja jarðir sínar norðr, ok fara síðan vestr í nánd Steingrími, ok stefna Hánef um sauðatökuna, en þá kvoðst Steingrímr vilja taka við málinu síðan. Nú ferr Hrafn svâ með, sem honum var ráð tilgefit, at hann stefndi Hánef um vorit; ok síðan fór Hrafn á burt þaðan or sveit með allt sitt í Eyjafjörð. En frá því er nokkut at segja, hvern veg Hánefi brá við stefnuna, at hann fèkk sèr hest, ok reið þegar á fund Vemundar, ok segir honum, hvar nú var komit málinu; ok nú lætr hann ásannast fyri Vemundi, at hann var valdr sauðatökunnar, ok biðr hann nú ásjár. Vemundi þótti illa, at Hánefr hafði dult hann tökunnar, ok sagði, at allt þótti honum nú óhægra hlut í at eiga, er hann hafði eigi áðr vitat; en þó er svâ sagt, at Vemundr tekr handsölum á öllu fè hans, en hafði heim dóttur sína. Nú verðr Áskell brátt varr við þetta, ok býðr hann Hánef til sín, ok þótti hann vera þræls efni; segir nú, sem fyrr, at íllt mun af honum hljótast; kvað eigi ólíkt því farit hafa, sem hann gat til fyrir öndverðu, þá er þeir Vemundr töluðust við, þá er hann þá barnfóstr at honum. Steingrímr ferr nú með málit til alþíngis, ok lauk því svâ, at Hánefr varð sekr um

sauðatökuna. Hrói hèt maðr; hann bjó norðr í Öxarfirði, á þeim bæ, er heitir í Klifshaga; hann var mikill bóndi fyri sèr. Svâ er sagt, at Steingrímr gaf Hróa hundrað silfrs til þess, at drepa Hánef, ef Vemundr sendi hann í Raufarhöfn til skips: þvíat hann vill þar koma honum utan á Slèttunni; en Steingrímr kvoðst mundu varða at Gásum, at eigi kæmist hann þar utan; ok þetta vill Hrói; ok fara menn nú heim af þínginu. Vemundr ferr sandleið heim á Öndórstaði til bús síns í Reykjardal, ok kom hann í Hraunsás hjá Mývatni; þar bjó kona sú, er þorgerðr hèt; hún átti son, er þorkell hèt, hann var úngr maðr ok frækiligr. Vemundr biðr, at son hennar fari með honum norðr á Slèttu til skips, kvoðst gott þikkja, at slíkir menn færi með honum, sem þorkell var, er svâ eru vænligir; hún leyfir, ok þikkir allmikit fyri; en þó ferr hann með Vemundi. Nú ferr Vemundr at finna Áskel, frænda sinn, ok ræðst um utanferðina Hánefs við hann; en Áskell latti utanferðina, ok bauð honum þar at taka við Hánef, ok sjá þat ráð fyri honum, sem honum líkaði; segir honum þann grun, sem hann þóttist vita á með þeim Steingrími ok Hróa í Klifshaga, en kvað aungva von, at hann mundi á burt komast í Eyjafirði, svâ at Steingrímr yrði eigi varr við. Vemundr kvoðst þat eina vilja, at koma honum á burt. Aungvan hlut vil ek í því eiga, kvað Áskell, ok far þú með, sem þèr líkar, en mikit íllt mun af Hánefi hljótast. Vemundr sendi orð Háls, bróður sínum, at hann komi á hans fund; þó kom honum þat í hug,

at eigi væri ráðit, hversu at menn vikist við um hans orðsending; ok því gjörir hann þat ráð heldr, at sendimaðrinn beri til orða Áskels þeim mönnum, sem hann vildi tilnefna; hann sendir annann mann til þóris geitbegs[1], er bjó í Laxárdal, á þeim bæ, er í Holti heitir. þórir bjóst til sels, þá er sendimaðrinn kom. þórir neitti ferðinni, áðr orð Áskels komu til; en þá var hann þegar búinn. Ljót at þverá í Laxárdal hitti hann, er þá var at skálasmíði sem óðast, ok hinn þriðja þórodd harðjaxl á Mánahjalla; hann var enn í selför; þessir köstuðu þegar niðr verki sínu, er Áskels orð komu til, en eigi fyrr. þessir menn allir fara nú með Vemundi, þar er ok Hánefr í för með þeim; þeir voru 18 saman, ok fara nú síðan þann veg, sem leiðir lágu; taka gistíngarstað í Reykjahverfi með þeim manni, er Geirrekr hèt; hann var vinr Vemundar; hann bauð, at hafa Hánef þar á laun, þartil at skip kæmi at náðugliga, svâ at honum mætti utan koma, ok kvoðst þat þikkja ráðligra, enn sjá meðferð, er Vemundr ætlaði at hafa, ok sagði, at Hrói í Klifshaga hafði fè tiltekit, at drepa Hánef, af Steingrími, ef honum gæfi færi á, ef þángat væri fars leitat, sem þú ætlar nú til: ok því einu hefir hann þarum játat, at hann mun þat gjarnan enda vilja, ef hann má því ákoma. Hitt er líkara, segir Vemundr, at hann gefi at þessu aungvan gaum, ok munu vèr fara þann veg, er vèr höfum áðr ætlat. þú munt því ráða, segir Geirrekr, ok annann veg mun reynast, enn hann Hrói

[1]) geitskeggs, *C.*

láti hjá sèr liða þat, sem hann er heitbundinn í við vini sína. Þeir Vemundr kögr fara nú í Öxarfjörð, ok yfir Jökulsá at ferju hjá Akrshöfða; sá maðr hèt Þórðr, er þar bjó; þar hafa þeir dagvörð at Þórðar. Svâ er sagt, at Þórðr ætti þræl, er fyrr var nefndr; hann hafðist þat at um daginn, er þeir Vemundr kvomu, at hann ók heim viði; ok þegar er þrællinn varð varr við, hvörir komnir eru, þá veltir hann af hlassinu; síðan tekr hann á rás mikla, ok rennr þartil, er hann lítr Hróa í Klifshaga, meðan þeir Vemundr mötuðust; ok nú segir hann Hróa, at Vemundr var kominn í Akrhöfða við 18da mann, ok þat, at þar var Hánefr í för, ok kvoðst þræll-inn nú vilja launa bróka vaðmálit, er hann hafði gefit honum. Hrói sendi þrælinn at vita, hvörja leið þeir færi, hvat fremra, eða hvat efra, um hálsa. Þórðr í Akrhöfða bauð Vemundi at sitja þar, ok sagði þat nú um þrælinn, at hann hafði í burt hlaupit, þá er þeir höfðu komit, ok kvoðst ætla, at hann mundi hafa farit til Hróa, ok gert hann varan við kvomu þeirra. Vemundr vill fara, sem hann hefir ætlat, ok kvað Hróa ekki mundu þikkja undir um ferð þeirra. Þat er nú at segja, at Hrói safnar liði, ok hefir 30 manna, áðr hann fór heiman; vildi fóstra hans þreifa um hann, áðr enn hann fór heiman, ok þóttist hún þá gjörst vita, hvern veg honum mun farast; hún finnr á fæti honum, en annarstaðar þótti henni vel vera.

6. Nú ferr Hrói með föruneyti sínu 30 manna, ok sátu fyri þeim Vemundi í einstígi nokkru;

höfðu þeir eigi lengi þar verit, áðr Vemundr kom með flokk sinn at einstíginu. Ok nú hlaupa þeir Hrói upp fyri þeim, ok biðr hann Vemund nú, at hann fái Hánef í hendr þeim, ok fari aldrei með slíkt illmenni: heldr láttu mik sjá fyri honum, segir hann, þat er mèr líkar. Nei, segir Vemundr, eigi munda ek þat vilja, Hrói! at þú kæmist þegar svâ auðveldliga at hundraðinu því, sem þú tókst af Steingrími til höfuðs Hánef, at ek seli hann nú þegar fram þèr í hendr; verði þèr at sækja eptir betr, ef þèr vilið, segir hann. Nú slær þegar í bardaga með þeim, ok skýtr þegar Vemundr spjóti til Hróa í rist hans; en Hrói sendi þegar aptr spjótit til þorkels ígegnum hann, en hann var sonr þorgerðar í Hraunsási. þóroddr harðjaxl vo Helga, bróður Hróa. þat er nú sagt, at þeir vildu aptr hverfa þóroddr ok Hánefr, en Vemundr vill þat eigi. Ok nú kemr þar Áskell við 30 manna, ok vildi sætta þá; er svâ sagt, at hann fór þegar, er hann spurði atferðina Vemundar, ok þótti þess eins von vera, at eigi kæmi þeir skemdarlaust fram ferðinni fyrir Hróa, ok kallar nú mikit á orðit, ok kvað þó þá betra at sættast, enn síðarr. Nú kemr þar til fundarins sá maðr, er þórhallr hèt; hann bjó í Hafrafellstúngu, góðr ok skilríkr; hann var með 30 manna; hann gerir nu tvo kosti: bað þá gera annathvort, at kjósa hvorn er þeir vildi, at þeir hætti at berjast, eðr hann mun ráðast til bardagans með þeim: ferr þá, sem auðit verðr; ok nú láta þeir af at berjast. Svâ er sagt, at fallnir voru af liði Hróa: Helgi, bróðir hans, ok þrællinn, en af Vemundi: þóroddr harðjaxl ok

Þorkell, er fyrr var getit; Hánefr var ok fallinn, þótti þat fám mönnum skaði, þóat hann væri drepinn. Nú er þegar slegit í sætt málinu með því móti, at Áskell skal gera um þeirra ímilli. Sú var gerð Áskels, at vígin skulu ástandast Þorkels ok Helga, bróður Hróa, Hánefs ok þrælsins, en Þórodd skal bæta hundraði silfrs; land var goldit í Reykjahverfi, ok voru þat ráð Áskels. Eru þeir nú sáttir eptir þetta, ok fara nú hvorutveggju til sinna heimkynna. Nú segir Áskell, at nú hafði því nær farit, sem hann gat til, ok þótti þessi för betr ófarin. Vemundr kvað hvörn sínum forlögum fylgja verða, sagði nú hvorntveggja mega vel við una sinn hlut, ok segir, at þá mun hverr deyja, er feigr er.

7. Þá gjörði vetr mikinn þareptir hinn nærsta, ok eiga þeir fund Reykdælar at Þverá at Ljóts hofgoða, ok þat sýndist mönnum ráð á samkomunni, at heita til veðrabata; en um þat urðu menn varla ásáttir, hvörju heita skyldi; vill Ljótr því láta heita, at gefa til hofs, en bera út börn, ok drepa gamalmenni; en Áskeli þótti þat ómæliligt, ok kvað aungvan hlut batna munu við þat heit; sagðist sjá þá hluti, at honum þótti líkara til at batna mundi, ef heitit væri; ok nú spyrja menn, hvat þat væri; en hann sagði, at ráðligra væri at gjöra skaparanum tign í því, at duga gömlum mönnum, ok leggja þar fè til, ok fæða upp börnin. Ok svâ lauk nú þessu máli, at Áskell rèð, þóat margir menn mæltu ímóti í fyrstu, ok öllum þeim, er rèttsýnis voru, þótti þetta vera vel mælt. Einhverju sinni kom Ve-

mundr at máli við Áskel, ok bað hann ljá sèr ferju at fara úttil Flateyjar eptir veiðiskap, kvoðst hann bæði mundi flytja at Áskeli ok sèr; hann sagðist ljá ferjuna þegar hann vildi. Áskell átti þar mikil faung í eynni, ok hafði þann mann settan til at geyma, er Kálfr er nefndr; ekki er hann sagðr mikilmenni. Nú ferr Vemundr, þartil er hann hittir Kálf, ok biðr hann, at greiða sèr faung þau, er Áskell átti í hans varðveizlu, ok kvaðst vera eptir sendr. Kálfr svaraði, at hann kvaðst seldt hafa faungin þeim or Áskógi, þorbirni ok sonum hans, ok sagði nú Stein nýfarinn á brutt, ok at hann hafði kú viðtekit af þeim. Já, sagði Vemundr, þá varð ek heldrtil seinn, en þat væri makligt, at ek dræpa þjóf þinn, ok mættir þú þann veg eigi svíkja fleiri góða menn, sem Áskel, ok muntu vera hinn versti maðr. Kálfr svarar, at hann ætti ekki refsíng á þessu: lát mik fara á fund Áskels, ok vil ek gjarnan, at hann gjöri minn hlut, sem hann vill. Nú fara þeir á fund Áskels, Kálfr, ok segir Vemundr honum þat, sem um var. En Áskell sagði, at ekki skulu þeir um þetta deila þurfa, ef verðit gyldist; vil ek nú, segir Áskell, gefa þèr, Kálfr! kúna, ok biðr hann nú afla sèr heyja um sumarit, ok sækja sèr aðra kú heim til sín, ok kvaðst þá vilja gefa honum, ok kendi sèr völd um þat harðrètti, er hann hafði þolat af Vemundi, ok virði þat til vorkunnar við Kálf. Ok jafnan sýndi Áskell þat, at hann var fáum mönnum líkr sakir rèttdæmis, er hann hafði manna ámillum, ok drengskapar við hvörn mann.

8. En at[1] vori bað Vemundr Áskel ferju sinnar til Grímseyjar á reka þeirra Áskels; sá maðr er nefndr Máni, er geymdi rekann þann, er Áskell átti þar. Ok nú segir Áskell Vemundi, at hann hafði mælt við Mána á vorþíngi, at hann skyldi selja rekana, ef hann gæti, en ef nú væri eigi seldt, þá skyldi Vemundr meðfara. Vemundr kom nú til Grímseyjar, ok dró upp skip í varir Áskels; en þar lágu skip fyri, ok tekr Vemundr þat ráð, at hann hratt út skipinu, ok lèt fljóta um ýla; gengu síðan til Mána, ok spyrr eptir fánginu; en Máni kvaðst seldt hafa, sem Áskell skipaði áðr. Vemundr segir, at hann var nú eptir sendr fánginu, ok kveðr Mána nú illa hafa meðfarit, ok vill hann þá enn eigi fara erendislaust; tekr síðan hval framá ferjuna, er þeir áttu feðgarnir or Árskógi. Ok í því bili kom þorsteinn í eyna, ok mæltust þeir við nokkr orð, ok vill Steinn eigi róa eptir honum, ok skiljast þeir nú at sinni. Nú kemr Vemundr kögr á fund Áskels, ok segir honum, hvörsu farit hafði, ok bauð honum af fánginu slíkt, er hann vildi. Lèt Áskell illa yfir ferðinni, ok kvaðst aungvan hlut vilja hafa af því, er Vemundr stæli, en sagði Mána hafa svâ meðfarit, sem hann hafði skipat honum, ok segir, at Vemundr vill þat opt ónýta, sem hann leggr til með honum, þótt honum gegndi hvergi verr þat at hafa. Ok nú segir Vemundr, at eigi skal hann hafa utan flutt farminn til þess, at engi njóti, lætr flytja í bú sitt, segir, at nýta skal fángit, þóat Áskell vill eigi hafa. Nú kemr Steinn at hitta Steingrím, mág sinn, ok

[1]) annat, *B.*

segir honum þau óskil, er þeim feðgum voru gjör af Vemundi um hvaltökuna. Steingrímr kveðr þá skulu gera eptir dæmum Áskels, ok segir, at þá skal ekki áskilja um hvalfjósir nokkrar, ok bað þá láta vera kyrt.

9. Þat er nú at segja, at skip kom í Eyjafjörð eitthvört sinn við Knarareyri, [sem opt kann við at bera[1], þó helzt sè hèr nokkut frá sagt at sinni; þat skip var viði hlaðit at miklum hluta; ok annat skip kemr á Gásum mjök í þat mund, sem hit fyrra. Herjólfr frá Mývatni ok Vemundr, bróðir hans, koma til kaupa. Herjólfr átti skála á velli, ok vildi kaupa til góðan við, ok bauð nú um Vemundi, at vera fyri sína hönd. Hann fór nú, ok falaði viðinn at Austmanni fyrir Herjólf, ok þar var með kerviðr[2], er hann vildi kaupa, ok var hvorutveggi góðr viðrinn. Ok nú segir Austmaðrinn, at Steingrímr frá Kroppi hafi áðr virðt[3] viðinn fyri 3 hundruð einlit, en hafði goldit áðr fyri kerviðinn í öðru lagi 6 aura. Vemundr hèldt enn fram málinu, ok bauð hann hálft verðit mórennt fyri viðinn, en allt mórennt fyri kerviðinn; sagði honum eigi verra við sik vera at kaupa, enn við Steingrím, en hefði þó verðit meira fyri. Austmaðrinn kvaðst mundu hafa seldt honum, ef hann hefði fyrri komit með þvílíku verði, sem Steingrími: en segist nú ekki mundu taka litla mútu, til at bregða þessu kaupi mínu, þar sem ek hefi orðit áðr ásáttr við annann mann. Nú sèr Vemundr, at hann fær ekki atgjört at svâ búnu, en vildi þó fyri hvern mun fá viðinn keypt-

[1]) *b. v. B, C.* [2]) kjörviðr, *C, E, allstaðar.* [3]) veðjat, *B, C.*

an; ok nú kaupir hann at einum manni[1], ok gefr honum til eyri silfrs, at hann segði í hávaða þar við skipit, at Steingrímr hefði keypt við at Gásum, ok hann mundi nú ekki þessa viðar þurfa, er hann hafði þar áðr varðat[2] fyri sína hönd; ok þegar er sjá saga kemst við veðri þar at skipinu, þá keypti Vemundr þá þegar viðinn þann, er hann hafði áðr falat. Ok nú segir Herjólfr honum til, er hann vill eigi hafa þenna við, er keyptr var í brygð við annann mann, ok kveðst munu ná enn þeim viði, er menn hefðu eigi áðr keyptan. Vemundr segir, at honum líkar þat vel, þótt hann vilì eigi hafa viðinn, kvað ósýnt, at betra mundi hann viðtaka, eða betra kaup at fá, enn sjá var keyptr með þvílíku verði. Herjólfi kvoðst betra þikkja, þótt hann fengi harðari kosti á um viðinn, ok væri ekki tvímæli á síðan, hvort hann ætti, eðr aðrir menn. Vemundr kvað því margan lítilmenni vera, at sèr lætr allt í augum vaxa, þótt smátt komi til. Vemundr geldr nú þegar fyri viðinn, ok þá lætr hann þegar heim flytja viðinn. Svâ er sagt, at nú þrýtr hrossin fyri þeim, ok er kjörviðrinn eptir í Hnjóskudal á Vetrliðastöðum við þíngarvað[3], en annar kemst heim. Nú verðr Steingrímr þessa brátt varr, hvörn veg farit hefir um viðinn, ok segir, at hann muni ekki kunna Austmann um þetta, ok þótti honum hafa vel farit; ok eigi vill hann hafa verðit, er hann hafði reidt fyri kerviðinn, kvaðst annathvort skyldu missa hvorutveggja, eðr hafa allan viðinn, þann er hann hafði keypt. Svâ er

[1]) þræl, *B, C.* [2]) verðat, *B, C.* [3]) Þíngsvað, *E.*

sagt, at Steingrímr sendi þorleif melrakka ok Hrafn, verkstjóra sinn, at vitja viðarins, hvort Vemundr hefði látit heim draga viðinn. Ok nú er ekki at segja fyrr frá þessari ferð, enn þeir koma til þíngsvaðs, ok finna þar þræla Vemundar; er sá sagðr fundr þeirra, at þeir þorleifr drepa þrælana Vemundar, en taka á burt kerviðinn, ok hafa heim með sèr, ok segja Steingrími, hvat er þeir höfðu atgjört; en hann lèt vel yfir þessari ferð, ok kvað þá ekki skulu síns í varða[1] um þetta mál. Nú er þat at segja þessu nærst, at Vemundi þikkir mjök seinkast heimkoma þrælanna, ok ferr nú síðan at leita þeirra, ok finnr þá við þíngavað drepna, ok hulda með viðinum, ok nú sèr hann, at á burtu er kjörviðrinn; nú bregðr honum mjök í brún, ferr nú þegar at finna Áskel, kvaðst ekki una við svâ búit, at eigi kæmi hèr nokkut fyri, ok segir honum nú þat, sem á var orðit. Áskell sagði honum, at varla sýndist honum þann veg, kvað ekki meira at vorðit, enn honum þótti von at, svâ illa sem Vemundr hafði þetta mál upptekit fyri öndverðu fyri viðakaupit. Vemundr bað nú Áskel at eiga hèr nokkrn hlut í, svâ at þetta mál mætti til skila gánga, svâ at eigi hlytist verra af, enn nú var at orðit.

10. þat var sagt, at á Möðruvöllum bjó Eyjólfr Valgerðarson; sendir Áskell honum orð, at hann komi til móts við hann at Tjörnum í Ljósavatnsskarði, ok vildi, at þeir sendi þetta mál milli þeirra Steingríms ok Vemundar, ok

[1]) virða, *B*, *C*.

þótti, sem minna mundi af verða, ef þeir hittust eigi sjálfir, er hvorutveggi var kappsmaðr mikill, en miðlúng góðgjarnir, ok sýndist þat sáttvænligra, at þeir Eyjólfr semdi þeirra ámilli; hann sendi ok þau orð, at Eyjólfr forvitnaðist af Steingrími, hvort hann mundi vilja una við svâ búit, ok at Eyjólfr skipaði málum fyri hans hönd, sem honum líkaði, en Áskell taki málum fyri Vemund. En Steingrímr kvað þá allvel komit sínu máli, at Eyólfr sæi fyri, ok setti niðr sem honum líkaði. Ok nú finnast þeir at ákveðinni stundu, Áskell ok Eyjólfr, ok ræða mál með sèr; ok var sú gerð þeirra, at jöfn skulu vera kjörviða takan, er hvorr hafði tekit frá öðrum, ok þræla drápit, er heimamenn Steingríms höfðu drepit við þíngvað. En svâ er sagt frá orðum Vemundar, þá er hann vissi gerðina, at hann kvoðst eigi mundu rjúfa gerð þeirra, en segði þat þó með, at hann þóttist ekki hafa fyri þrælana sjálfa. Nú býðr Áskell honum af sèr at þiggja hvort er hann vill, fè fyri þræla sína, eða þrælana sjálfa; en Vemundr kvoðst hvorki þiggja vilja af honum fè, nè mansalsmenn, ok kvaðst heldr við svâ búit una mundu, sem honum var þá ætlat.

11. Þat er nú at segja, at Háls kemr á fund Áskels, frænda síns, at hann vildi láta biðja konu til handa sèr. Áskell spyrr, hvar hans hugr leikr á um þetta mál. Háls svarar, at hann vill fá þeirrar konu, er Helga hèt, ok var Granadóttir, er bjó á Granastöðum[1] í Eyjafjarðardölum, ok biðr Áskel vera fulltíngismann þessa máls fyri

[1]) Árnastöðum, B, C.

sína hönd. Ok Ákell ferr með Hálsi, ok vekr um bónorðit við Grana, ok bað hann gera sinn vilja um þetta mál, ok gefa Hálsi konuna. Grani svarar, at Áskell skyldi ráða þeim nokkra staðfestu, ok vera þeim jafnan ásjáandi, lèt þess þurfa mundu fyri sakir ofstopa Háls ok hlutdeilni; ok nú takast þessi ráð, ok rèð Áskell undir þau Helgastadi; tókust nú ástir með þeim, ok voru þau þó eigi samlik í lundarfari. Nú er þat fyrst at segja, at Hrafn á Hóli á Kræklingahlið skyldi fá dóttur þess manns, er Atli hèt; hann bjó á Grund í Bárðardal; ok nú biðr Hrafn, at Steingrímr fari með honum í brúðferðina, ok svâ gerði hann; fara nú til þess, er þeir koma til Atla. Sá maðr er nefndr til sögunnar, er Örnólfr hèt, hann var kallaðr hrella; hann bjó á þeim bæ, er heitir á Álstöðum; Örnólfr var maðr auðigr at gripum ok lausafè. Þat er sagt, er Hrafn var at brullaupi sínu, er Atli gipti dóttur sína, at Steingrímr falaði yxni tvö rauð at Örnólfi, 6 vetra gömul, þat voru góðir gripir; en hann mat yxnin fyri 5 hundruð; en Steingrímr bauð við stóðhross, ok varð kaup þeirra, at Steingrímr skyldi gefa til hálfmörk silfrs, at hann næði kaupinu. Eigi vildi Steingrímr á brutt hafa yxnin, fyrr enn Örnólfr sæi hrossin. Steingrímr sendir nú húskarla sína 2, at færa Örnólfi hrossin 2, ok hafa þeir nú á burt með sèr yxnin, ok ætluðu heim með at fara til Steingríms. Þeir koma til Lauga í Ljósavatnsskarð um kveldit, ok setja inn yxnin, eru þeir þar um nóttina. En þá var haustboð undir Felli at Vemundar, ok

kvomu þángat gaungukonur 2, ok sögðu Vemundi yxna kaupit. Nú kemr Vemundr at máli við Háls, ok bað hann, at halda þar nú háttum at boðinu, en hann kvaðst eiga heimanferð fyri hendi; hann ferr nú við 4ða mann á Jarlstaði til Örnólfs, ok kveðst vilja kaupa yxnin til þess, at gefa Áskatli, kvoðst engin yxn eiga þau áðr, at honum þætti honum gefandi. Nú segir Örnólfr kaup þeirra Steingríms, ok þat með, at þeir hefði þegar í burtu farit með yxnin. Þá brást[1] við griðkona ein, ok kvaðst hafa sèt yxnin á stöðli um dagin, ok kvað þat aungvu gegna, er hann segði. Örnólfr kvað þat verit hafa hinu hvítu, enu 5 vetra gömlu yxnin, ok hèldt einninn sögu sinni, sem áðr; þótti einskis örvænt fyri Vemundi, ef hann vissi eigi hit sanna, en hugði, at hann mundi heim snúa þaðan, ok vildi hann þat eina láta af sèr hljótast um mál þeirra, at honum mætti ekki um kenna. Vemundr ferr nú at leita yxnanna, ok grunaði sögu hans. Þeir koma nú til Tjarna, ok svâ til Lauga, ok var nær, sem þeim væri vísat til yxnanna; taka í bruttu, ok hafa heim með sèr undir Fell um morguninn. Vemundr vildi gefa Áskatli yxnin; hann spyrr Vemund, hversu hann hefir fengit; hann sagði, sem farit hafði. Áskell vill fyri aungvan mun þiggja, þegar hann veit, hversu farit hafði. Nú tekr Vemundr til sín yxnin, ok lætr ala til jóla, ok skal Svartr vaka yfir um nætr. Áskell lèt illa yfir, ok kvað Vemund mundu eigi fyrr afláta óspektinni, enn nokkut íllt hlytist af honum, ok kvað þat líkara, at Steingrímr mundi

[1]) vaðst, *B*, *C*.

eigi vilja hafa svâ búit þvílíka svívirðíng, sem þú hefir nú gert honum. Vemundr kvaðst eigi síðr eiga at sjá til síns hlutar við Steingrím, ok kvaðst gjarnan vilja, at hann findi þat nokkut sinn. Áskell bað Vemund, at hann skilaði aptr yxnunum; en hann kvað þat mundu fjærri fara, at hann vilì hafa sókta þá til einskis annars, enn at senda þá nú aptr þegar, ok kvað Steingrími svâ munu þikkja, sem hann mundi nú eigi þora at halda þeim, ok kvaðst ekki þat gera. Nú skiljast þeir Áskell ok Vemundr, ok þikkir sinn veg hvorum þeirra. Nú koma þeir heim húskarlarnir, þeir er Steingrímr hafði sendt eptir uxunum, ok segja honum til svâ búins, hvat af þeim var orðit; en hann lèt þegar leita eptir, fèkk hann til ferðarinnar þorleif melrakka; hann kaus Hrafn verkstjóra at fara með sèr. Nú fara þeir til þess, er þeir koma til Vemundar, ok gánga til fjóss. þorleifr spurði Hrafn, hvort hann vildi taka uxana, eða varðveita þann manninn, er vakir; Hrafn kaus, at sjá fyri manninum. Nú ráðast þeir inní fjósit, ok leiðir þorleifr út uxana; en Hrafn gengr nú fyrst þartil, er Svartr var, ok varðveitir hann á þá leið, at hann rak öxi í höfuð honum, ok veitti honum þegar banasár, ok kvaðst þat ætla, at hann mundi eigi segja Vemundi frá þeirra ferð. Nú ráðast þeir á veginn ok fara óþyrmiliga með uxana yfir heiðina, er heitir Fljótsheiði; kom þeim þat eina í hug, at Vemundr mundi eptir þeim fara, ok vilja því firrast hann, sem þeir mega; ok er lýsa tekr nokk-

ut, en uxarnir þreyttust, víkja þeir af götunni, ok leita sèr hælis undir bökkum, þar er sízt mátti þá sjá. Nú er frá því at segja, at einhver griðkona fór í fjós at Vemundar, ok vildi vekja Svart, ok kvað hann eigi vera trúlyndan, er hann vakti svâ ódyggiliga; en hann vaknar eigi við kall hennar; nú þrífr hún á honum, ok verðr vör við, at hann er drepinn, hleypr inn með ópi miklu, ok segir Vemundi, at Svartr var dauðr, ok þóttist Vemundr þegar vita, hverju gegna mundi; býst nú þegar til ferðar við 12ta mann, ok ætlar, at leita þeirra, er verkit hafa unnit; hann sendir þegar eptir Konáli á Einarstaði, at hann komi til liðs við hann; Konáll fór ok við 12ta mann; ok er þeir finnast, fagnar Vemundr honum vel, ok skipta þeir liði, ok riðu þeir Konáll götur til Ljósavatnsskarðs yfir fljótit; en Vemundr leitar á Fljótsheiði, ef þeir hefði eigi komizt yfir fljótit; hann hafði sporhunda, er Konáll hafði átt; ok nú finna hundarnir uxana; þá spruttu þeir þorleifr upp ok útá fljótit, ok höfðu allt á kafi. þeir Vemundr hleyptu nú eptir þeim, en þeir þorleifr fóru á hól nokkrn; þá kvomu þeir Vemundr þar, ok sækja at þeim. Vemundr skaut spjóti á hólinn, ok kom á þorleif[1] miðjan, ok flaug ígegnum hann. Hrafn þrífr spjótit, ok sendir ofan aptr at þeim, ok steyptist så dauðr af baki, er fyri varð. Hrafn hljóp á bak hesti sínum, ok hleypir, sem mest má hann, þartil er hann kom heim, ok sagði Steingrími um sína ferð, sem vorðit var. En þeir hverfa aptr með uxana,

[1]) þrælinn, *B, C.*

ok hjó (Vemundr) höfuð af hvorutveggja nautinu, ok sagði, at Steingrímr skal aldrei þeirra njóta þaðanaf. Ok nú ferr Vemundr á fund Áskels, ok segir honum, hvat milli þeirra Steingríms hafði þá borit. Áskeli þótti farit hafa, sem honum kom í hug, ok von var, ok býðst enn til at sætta þá, ef hann skal ráða fyri hönd Vemundar; nú játar Vemundr hans ummælum. Þá sendi Áskell orð Eyjólfi Valgerðarsyni, at taka málum fyri hönd Steingríms, ok koma til móts við hann at Laugum í Ljósavatnsskarði; ok þar finnast þeir, eptir því, sem Áskell beiddist; ok nú tóku þeir til at tala um málin, ok var sú sættargerð þeirra, at vígin ástandast, Þorleifs melrakka ok þess manns, er Hrafn vó með því spjóti, er Þorleifr hafði bana af fengit; en fyri uxana 6 hundruð, ok virðt til vöru; en Svartr skal koma fyri þat, er teknir voru uxarnir frá Steingrími í fyrstunni, ok skapraun, sem Vemundr gjörði honum. Ok nú segir Vemundr, at hann þikkist enn aldrei bætr hafa haft fyri þrælana, þá er drepnir voru við Þíngsvað; en Áskell bað hann láta þat eigi ofarr komast, ok sagði, at hann mátti vel viðuna, er menn vildu honum jafnan sáttar unna, hver endimi sem hann tæki til bragðs, ok kvað hann eigi vera meðal-óspektarmann; ok eru nú sáttir enn um sinn.

12. Svâ er sagt, at eitthvert sumar skyldi Steingrímr etja hestum sínum á Ljósvetníngaleið við Hnjóskdælskan mann nokkrn; þar koma þeir Reykdælar, Áskell ok Vemundr ok Fjörleifarsynir. Þeir Vemundr ok Háls koma til þeirra

manna, er at soðníng voru, ok beiddi Vemundr þá, at þeir mundu gefa honum hrútshöfuð hvítt, er var hjá þeim; þeir spyrja, hvat honum skal þat, en kváðust þó eigi mundu spara við hann, ef honum þætti máli varða, at hann næði því; hann kvað þeim fara vel; ok nú svíðr hann lítt um höfuðit, ok varðveitir síðan þat sem honum sýndist. Þeir fara nú á burt þaðan, finna þann mann, er Þorgeirr er nefndr, ok er kallaðr smjörhríngr; frá honum er þat sagt, at engi fæða væri (honum) jafngóð, sem smjör ok brauð; hann var kallaðr lítill skilamaðr; ok nú segir Vemundr til Þorgeirs: þat er vel, at ek hefi þik fundit, ok kallar hann frænda sinn: vil ek gjarna gefa þèr mat, meðan við erum hèr, ok kvað þat makligast vera, at hann rækist ekki þar á öðrum mönnum; en Þorgeirr tekr því vel, ok kvað Vemund mundu góðan dreng vera. Þat er sagt, at Áskell varð varr við þetta, ok kvaðst eigi vita von í, at Þorgeirr væri þeim nokkut skyldr, ok kallar þat óvitsamligt, at gefa slíkum óvendismanni mat sinn, sem Þorgeirr var, kvaðst eigi vita, hvat undir slíku bjó. En Vemundr gaf aungvan gaum at orðum hans, ok sitr nú á tali við Þorgeir, svâ sem hann væri dygandismaðr, ok þat varð í ræðum þeirra, at Vemundr gjörði honum kaupakost; Þorgeirr spurði, hverr sá væri, kvaðst gjarnan vilja við hann kaupa. Vemundr kögr svarar, at hann mun fá honum vetrvist, ef Þorgeirr vill þat vinna til, at ljósta Steingrím um daginn með sauðarhöfði fyrir augum öllum mönnum. Þorgeirr bað hann gefa ráðit til, en kvað sèr eigi munu áræðit bila.

Vemundr kvað svâ vera skyldu; ok nú segir hann þorgeiri, at þar skal etja hestum um daginn, ok Steingrímr á hest at etja: skal ok nú ráð tilleggja með þèr, at þú dragir sauðarhöfuðit, er ek fæ þèr, á staung þína, ok gángir mjök at hestavígunum, sem þú ert vanr, en kvað Steingrím fylgja hesti sínum, ok vera í hvítri skyrtu, ok hafa hlaðbúna húfu á höfði, ok kvað hann vera skrautmenni hit mesta; ok þá bað hann þorgeir láta ríða staung sína at höfði Steingríms, svâ at sauðarhöfuðit kæmi á háls honum, sem harðast: en ek mun vera nær at duga þèr, segir Vemundr. þorgeirr svarar: vitr maðr ertu, ok er þetta ráð af mikilli fyrirhyggju sett; ok nú var þetta kaup ráðit með þeim. þat er sagt, at Áskell mælti við Vemund, áðr hestarnir voru framleiddir, at hann sæti hjá kyrr um daginn, ok ætti aungvan hlut í um hestakeyrslunnar, ok þótti þat þá líkara, ef hann sæti hjá, ok skipti sèr ekki af. Vemundr sagði: opt þikki þèr ek ekki ráðþægr um þá hluti, er þú villt mèr kenna, þótt mèr væri þat betra at hafa, ok nú finn ek, hvörsu óvitrligt þat er, ok nú vil ek svâ gera, sem ek ætti jafnan, at taka með þökkum þín heilræði, kvað svâ vera skyldu, sem hann vildi. Ekki vissi Áskell kaupit þeirra Vemundar ok þorgeirs. Ok nú leiða menn saman hestana, ok fór þat eptir því, Vemundr gat til, at Steingrímr keyrði hest sinn sjálfr, ok er vígit gott; hleypr þorgeirr þar hjá, ok er málóði mjök; menn gefa at því aungvan gaum, ok þikkir ekki nýtt um þat. Ok í einhverri hvíld, þar er menn varði minnst, þá

lýstr þorgeirr Steingrím mikit högg með sauðarhöfðinu á hálsinn, ok kallar nu á Vemund, at hann skyldi duga honum; en Steingrímr hleypr þegar eptir honum, ok mágar hans með honum, Steinn ok Helgi, ok vó Steingrímr[1] þorgeir, ok fèkk honum nú vetrvistina, ok tók þar nú starf af Vemundi; nú snýr hann aptr, ok kvaðst þessa höggs hefnt hafa. Vemundr hafði nú vel hlýdt ráðum Áskels, ok hafði setit kyrr hjá um daginn; en nú þóttust allir vita, at þetta voru hans ráð, er þorgeirr bað hann dugnaðar eptir höggit. Nú var þar þraung mikil af mönnum, ok býðr nú Áskell enn sætt fyri þetta. En Steingrímr sagði, at jafnan hefði hann sæzt, ok kvað þá aungva sætt halda vilja, ok segir, at nú mun ekki af verða sættinni, ok kvað eigi mega þá verr verða, enn áðr, þá er þeir voru sáttir kallaðir. Ok nú vill Áskell gefa Steingrími 3 gripi, sverð ok skikkju ok gullhríng, ok voru þat miklar gersemar; en hann vill aungvan þiggja; nú hefir Eyjólfr tekit við gripunum, er Áskell bauð honum, þvíat Steingrímr vildi eigi viðtaka. Fara menn nú heim at leiðinni með aungri sætt, ok una nú hvorugir vel við sinn hlut; þóttist Steingrímr aungva sætt hafa haft fyri skömm þá, er honum var ger; en Vemundr þóttist nú verr vera orðinn í miklum óþokka við Steingrím, ok þó telr hann ekki at því, ok þat líkar honum illa, ef eigi skulu bætr koma fyri þorgeir, ok kallar hann fyri sèr drepinn hafa verit. Áskell bað hann þat aldrei gjöra, at heimta bætr fyri mannfýlu þá, ok kvað hann svâ mega

[1]) *þannig, líkliga rèttara B, C;* Steinn, *A, E.*

gjöra sik berastan at því, at þorgeirr hafði hans ráðum framfarit; ok unir nú Áskell illa við þat, er honum þikkir Vemundr jafnan valda því, er illa er, en þótti þat þó illa, er hann fèkk aungvum sættum ákomit milli þeirra; ok skilja þeir nú at sinni.

13. þat var 2 vetrum síðarr, enn þat, sem nú var frásagt, eptir alþíng um sumarit, at Steingrímr kvaddi Hrafn verkstjóra til selgerðar, ok kvað á, hvörsu lengi hann skal at vera. Hrafn [segir, at[1] þat var 2 vikna verk, ok sagði at hann lèt eigi vinna þat, er meira lá við, enn riga at slíku. Steingrímr spyrr, hvat þat er. Hrafn svarar: at hefna sauðarhöfuð-höggsins, er þú vart lostinn með á leið um sumarit fyri 2 vetrum af þorgeiri smjörhríng. Steingrímr kvað hann eigi mega meira fyrigjalda, enn lífit; en Hrafn sagði þá eigi ómakligri at kenna af nokkrs, er þorgeir höfðu þess eggjat, ok kvað hann ekki þat, af sjálfum sèr hafa tekit. Steingrímr kvaðst eigi þat vita: en þó hefi ek annat hugsat þèr verkit, enn ek sagða þèr; Hrafn spyrr, hvört þat er. Nú vil ek senda á Hól í Kræklíngahlíð eptir Hrafni, bið hann at koma á minn fund; þú skalt ok koma í Hörgárdal eptir þeim manni, er Gnúpr heitir, hann býr á þeim bæ, er á Öxnhóli heitir, ok er góðr bóndi; síðan far þú á Gálmaströnd eptir þeim mágum mínum, Steini ok Helga, ok bið þessa menn alla at koma á minn fund. Hrafn kvað sèr þetta betr hendt, enn vera at selgerðinni; nú ferr hann á fund þessara manna,

[1]) *þannig B, C;* en, *A.*

ok sagði þeim sitt örendi; voru þeir þegar uppi, er Steingríms orð komu til; ok svâ er sagt, at Gnúpr mundi farit hafa fyrri, þótt fyrr hefði komit verit, at því er hann sagði Hrafni; fara þeir nú allir á fund Steingríms; hann fagnar þeim vel. Nú ríðr hann heiman við 20asta mann, ok norðr til Reykjardals, ok riðu snemma aptans heiman, taka hvíld á Fljótsheiði, gagnvart Öndórstöðum, ok áðu þar, ok er svâ sagt, at þeir sofnuðu allir. Smalamaðr Konáls fór í þat mund þar nærri at fè sínu; ok nú sèr hann hesta marga, en vissi ekki von manna ferða, snýr nú heim þegar, ok segir Konáli þat, sem hann hafði sèt. Konáll þóttist vita, hvörir vera mundu, ok býst nú við, ok sendir eptir Vemundi, ok hann fór þegar á fund Konáls, ok hafa þeir nú 20[1] manna báðir saman. Nú er þat at segja, at nú vaknaði Steingrímr, ok sjá nú manna farir til Öndórstaða, ok þikkjast þeir nú skilja, at menn hafa orðit varir við þá, taka nú hesta sína, ok fara nú á bak, ok sjá eigi færi sitt á Vemundi at sinni, ok þótti Steingrími þat ráðligt, at þeir snöri heimleiðis. En þeir Gnúpr ok Steinn svöruðu, at aldrei vildu þeir við þetta heim snúa, ok þóttust vita hæðilig orð Vemundar við þá, ef þeir snúa aptr við þetta; kvóðu nú vænna, at snúa til Mývatns ok drepa Herjólf, síðan þeir náðu eigi Vemundi; ok þángat riðu þeir um nóttina, ok fengu þat ráð, at Þorsteinn blindíngr, heimamaðr Steingríms, skyldi ríða til húss, ok hafa lýng eða mosa í sekkjum, ok láta vísa sèr

[1]) margt, *B*, *C*.

til Möðrudalsheiðar, svâ sem hann ætlaði sèr til skips, ok teygja Herjólf svâ út; ok þetta ráð gekk svâ fram, sem þeir ætluðu, at þann veg varð honum útkomit; þeir Gnúpr ok Steinn hlaupa nú at honum, ok leiða hann frá dyrunum; en þorsteinn gætti hurðarinnar, at engi mætti útkomast, þótt vildi. Svâ er sagt, at Gnúpr mat ekki við aðra menn, at vega at Herjólfi. Ok nú riðu þeir heimleiðis; þeir koma til Fjörleifartópta í Bárðardal; Hrafn af Hóli lýsti þar víginu Herjólfs fyri Fjörleifu, móður hans, ok lèt, sem hann skyldi drekka, ok fèkk sèr þat til örenda. Hún sagði, at Herjólfr mun goldit hafa Vemundar, ok kvað hann ok hefna mundu, ok sagði, at varla var hún enn frændlaus eptir, kvoðst við þat mundu una, at hefnt mundi verða. Nú ríða þeir Steingrímr á fund Eyjólfs, ok segja honum vígit; en honum kvoðst þat illa þikkja, at eigi var Vemundr heldr fyrir orðinn, eðr Háls; en Steingrímr sagði, at eigi hefði þeir náð Vemundi: en þó vildu vèr, at hann hefði fyrir orðit. Eyjólfr kvaðst ekki mundu at þessu telja, ok bauð, at leita um sættir milli þeirra. Steingrímr kvoðst nú sættast, ef þeir vildi, en sagði þó þat með, at eigi hefði þeir þá haldit sættina, er líkara var til. Svâ er sagt, at Eyjólfr sendi orð Áskatli, at þeir hittist at Laugum[1], ok sagði, at Steingrímr vildi nú sættast á öxamálit. Áskeli þótti þat enn vænligast, at taka sætt af Steingrími, ok mætti enn svâ niðrfalla ófriðrinn at sinni ámilli þeirra; ok fór hann til fundar við Eyjólf. Var sú sættar-

[1]) lögum, *B*, *C*.

gjörð þeirra, at gjalda hundrað silfrs fyri víg Herjólfs, en Gnúpr ok þorsteinn skal fara utan, ok aldrí útkvæmt eiga; ok þat efnir þorsteinn; en Steinn ok Hrafn af Hóli skyldu vera utan 3 vetr; þessi sekt skal áfalla hit 3ja sumar á Eyjafjarðarleið, þá skyldu þeir útlægir falla. Ok nú líðr sjá stund, ok er ekki sagt frá viðrskiptum þeirra á þessu máli, til leiðar hit 3ja sumar. Ok þegar er sú stund er liðin, þá er þat sagt, at Vemundr kögr mælti við konu sína, þegar eptir leiðina, at hún skyldi sjá um bú þeirra, en hann kvoðst mundu ríða til Eyjafjarðar, ok þræll hans með honum. Nú ríða þeir til frændkonu Vemundar, er þorgríma hèt; hún bjó á Vindheimum í Hörgárdal; Vemundr kögr spurði at Gnúpi, ef hann væri heima at búi sínu. Hún kvoðst þat gjörr vita um morguninn, ok sagði, at hann ætlaði at fara eptir fiskum til Gása, ok spurði, hvört Vemundr vill fara; en hann sagðist eiga örendi við Gnúp, ok kvoðst hann hitta vilja. Ok nú fèkk hún honum þræl, er hún átti, er nefndr er Melkólfr; ok nú fara þeir Vemundr 3 saman, ok hitta Gnúp fyri utan Laugaland á Melunum, ok voru þeir 3 saman, höfðu farit með honum þrælar hans 2; ok þar sló þegar í bardaga; þrælarnir börðust á. Vemundr batt áðr hesta sína, ok kvað nú vera makligan fund þeirra, at þeir voru jammargir; Gnúpr kvaðst eigi mundu átelja þat; hvorutveggi þeirra hafði skjöld; þeir sóktust lengi. Ok um síðir hjó Vemundr undan Gnúpi fótinn; ok nú stóð hann á knjám, ok bauð enn bardagann; en Vemundr kvað þá hætta mundu at

sinni, ok nú sendir hann heim Melkólf, ok sagði hann vel hafa dugat. Vemundr ríðr nú, ok þræll hans með honum útá Gálmaströnd í Arnarnes, ok spurði at þeim Steini ok Helga, mágum Steingríms; en honum var sagt, at Helgi var at smíð í Skagafirði, en Steinn var farinn útí Hrísey til veggjahlöðslu. Vemundr bað Galta skips, er þar bjó, at hann mundi ljá honum út til Grímseyjar, ok vildi, at færi með honum þorvaldr, son Galta; ok hann lèði honum hvorutveggja. Fara þeir nú 3 út til eyjarinnar; ok þar hittu þeir svein einn í eyjunni, ok spurði Vemundr, hvörs son hann væri; en hann kvoðst vera son móður sinnar. Ok nú áttu þeir kaup saman, Vemundr ok sveininn, at Vemundr skal gefa honum höðnukið til þess, at hann segi honum, hvort Steinn ok húskarlar hans liggja at naustinu um nóttina, eðr heima á bænum[1]; sveinninn skal gneggja þar á höfðanum um kveldit, ef þeir fara til naustsins, en fara hvergi, ef þeir væri heima. Ok um kveldit, er hann hafði rekit fè á brott, þá kom hann á höfðann fram, ok gneggjaði, sem hann mátti mest. Nú þikkist Vemundr vita, at Steinn man hafa farit til naustanna, ok bregða þeir nú við skjótt, ok fara hvatliga til naustsins; ok þá sá hvorir aðra, ok voru nú hvorirtveggju á ferð til naustsins, sem þeir megu. Svâ er sagt, at Vemundr skaut snærisspjóti, ok kom á skjaldarsporðinn Steins, ok nísti hann við rist honum skjöldinn. Steinn laust í sundr spjótskaptit með öðrum fætinum, ok rann til naustsins síðan, sem

[1]) *Hèr byrjar skinnbókarbrotit D, sem framvegis er fylgt.*

hann mátti; Vemundr bað hann eigi renna; en Steinn gaf at því aungvan gaum. Ok nú er svâ at segja, at þorvaldr, son Galta or Arnarnesi[1] fèll í naustdyrunum fyri Steini; ok þá vildi Steinn laupa útá ferjuna, ok ætlaði at verjast þaðan; en þá kom Vemundr kögr at í því, ok veitti Steini þegar banasár. Ok nú fara þeir Vemundr þegar á brott, ok hafa með sèr lík þorvalds; ekki gjöra þeir at húskörlunum. Vemundr hittir nú Galta, ok segir honum tíðendin, ok rèð honum þat, at fara til Laufáss á skipi með fè mikit ok allt skuldalið sitt, ok þaðan í Reykjardal til fundar við sik, ok hèt honum bótum fyri víg þorvalds, sonar hans. Vemundr vildi fara it iðra[2], ok riðr hann í Kræklíngahlíð, ok varð varr við, at Rafn[3] af Hóli var í einhverjum starfa, ok vildi taka hesta sína ok [skera mön[4] á; ok nú víkr Vemundr (þángat), ok kvað Rafn hafa sýnt sik í mótgángi jafnan við sik, ok þá frændr alla, kvað hann nú skulu hafa fyri þat nokkut, þótt eigi væri mikit; hleypr síðan Vemundr at Rafni, ok hjó af honum höndina, ok kvað hann þó oflítit hafa; snýr hann nú síðan heim norðr, ok segir Áskeli allt af ferðum sínum. En þar er frá at segja nokkut, at húskarlarnir þeir, sem verit höfðu hjá Steini í eyjunni, þeir fara nú á fund þorbjarnar, föður hans, ok segja honum tíðendin; hann bregðr við skjótt ok ferr til Galta; ok er hann kom þar, var hann allr á brottu; ok nú ferr hann þegar yfir fjörðinn, ok ætlaði, at þeir Vemundr ok Galti mundu hafa farit báðir samt. En Galti tók þat ráð, sem Vemundr

[1]) Arnarholti, *hin.* [2]) neðra, *hin.* [3]) *þannig allst. D.* [4]) manskera, *hin.*

lagði til með honum, ok var nú kominn á leið með lausafè sitt, ok ætlaði at flytja til Reykjardals. Ok nú koma þeir Þorbjörn eptir Galta; ok þótti Þorbirni hann hafa mjök efldan Vemund til þessara verka, er hann fèkk honum bæði skip ok son sinn til ferðarinnar, ok kveðst þó skyldu bæta honum sonar dauðann með því, at hann höggr Galta banahögg, en tekr upp lausafèit allt, ok flytr heim til sín. Nú spurðust víða þessi tíðendi. Svâ er sagt, at Áskell sendir orð Eyjúlfi, at þeir fyndist í Ljósavatnsskarði á Hálsi; Eyjólfr kom til mótsins. Sú var sættargjörð þeirra, at Gnúpr ok Rafn skyldu báðir bótalausir, er þeir höfðu ekki á brott farit, sem skyldt var; Steinn falli úhelgr, en víg Þorvalds skal vera til sýknu Helga Þorbjarnarsonar, en Galta skal bæta hundraði silfrs; þeir Vemundr ok Háls skulu falla úhelgir um Eyjafjörð, nema þeir fylgi Áskatli; Helgi skyldi ok falla úhelgr fyri norðan Hnjóská, nema hann væri í för með Eyjúlfi Valgerðarsyni.

14. Maðr[1] hét Narfi, hann var frændi þeirra Vemundar, ok bjó í Laxárdal. Svâ er sagt, at maðr hèt Hafsteinn, ok var Þengilsson, hann bjó á þeim bæ, er at Höfða heitir; hann átti dóttur, er Þóra er nefnd, hennar bað Helgi, son Þorbjarnar or Árskógi, ok var hún honum föstnuð, ok ákveðin brúðlaupsstefna, ok skal Hafsteinn [inni hafa boðit[2]. Svâ er sagt, at Vemundr kom at máli við Narfa, frænda sinn, ok taldi um fyri honum, at honum væri þat til, at kvænast, ok

[1]) Vemundr tók brúðina, *fyrisögn kap. í D.* [2]) hafa tilboðit, *A.*

kveðst hann vera mundu fulltíngsmaðr áðr[1], ef hann vill, ok nefnir til þóru, dóttur Hafsteins í Höfða. Narfi kvað þat vera óvænt stofnat: þvíat hún er áðr, segir hann, föstnuð Helga or Árskógi, en líkar mèr, segir hann, kvonfángit, ef þú mátt ná til handa mèr þessi konunni. Ok um haustit fara þeir Vemundr 10 saman útí Höfðahverfi á þann bæ, er heitir at Borðatjörn[2], þar bjó sú kona, er Ísgerðr heitir; þar taka þeir gistíng; hún var mikil fyri sèr, ok fjölkunnig mjök; svâ er sagt, at hún var vinkona Vemundar; hún lagði þau ráð til, at þeir færi til nausta, ok biði þar, ef nokkura veiði bæri í hendr þeim um morguninn, ok kvað þá koma mundu brúðmennina: man ek, segir hún, vera í umsjá um yðvart mál. Ok nú fara þeir Vemundr, sem fyri þá var lagt. Steinfiðr hèt maðr, hann var fróðr maðr ok fjölkunnigr nokkut; honum Steinfinna var boðit til boðsins til skemtanar mönnum. Svâ er sagt, at brúðrinn sat úti í dýngju sinni um daginn, ok margt kvenna hjá henni. Ok þá er búit var til, at þær komi inn konurnar, þá sendi Hafsteinn húskarl sinn eptir þeim, at þær færi inn or dýngjunni. Húskarlinn tók í hönd henni[3], ok leiddi ok hana eptir sèr; ok [er þau komu út, þá gjörði[4] á myrkr svâ mikit, at þau máttu ekki sjá fyri sèr; ok þá var húskarlinn sleginn mikit högg meðal herðanna ok um höfuðit, en bilr mikill kom at henni, svâ at hún fauk í einu allt ofan til naustanna; þá kom kall mikit í naust-

[1]) at, *A.* [2]) Bárðatjörn, *B*, *C hèr og frv.* [3]) Þóru, *hin.*
[4]) þá þau skyldi gánga, kom, *B*, *C.*

dyrnar, ok var um rædt, at þeir skyldu hafa hendr á henni þóru, ef þeim væri svâ mikit um, at varðveita kost hennar, sem þeir hefðu látit. þeir Vemundr hlaupa nú or naustdyrum, ok fara á bak. Vemundr setti þóru í knè sèr, ok riðu þeir nú á brott með brúðina, ok fara þartil, er þeir koma í Hnjóskadal, ok mjök svâ til þverár; þar bjó sá maðr, er Gunnsteinn hèt; en þá dvaldist ferð þeirra, ok var þat af fjölkýngi Steinfinns, sem enn man sagt verða síðarr. Ok er þeim Hafsteini þótti í úvænt efni komit vera, þá er húskarlinn sagði þeim sögu sína, at hann var lostinn mikit högg, en brúðurin á brottu tekin, ok þá sagði hann gjöra svâ mikit myrkr, at aldrei vissi hann, hvert hún hvarf; en þeir Hafsteinn þóttust þat vita, at af fjölkyngi mundi verit hafa myrkrit, ok af ráðum Vemundar ætluðu þeir þetta mundu verit hafa, ok ræddu margt um þetta sín ámilli. Svâ er frá Steinfinni at segja, at hann sat[1] upp[2], ok horfði í jörðina fyri sik fram, ok mælti við engan mann. þá spyrja þeir, ef hann þóttist nokkut tilvita, hvat af þóru var orðit; en hann kveðst þat gjörla mega vita, ok sagðist þó eigi mundi segja þeim, nema þeir gefi honum til 3 merkr silfrs. þeir sögðu, at þat þótti þeim lítit til at vinna, ef nokkut mætti þá þessi svívirðíng afþvost þeirra máli; en Helgi segir þat fè vel komit, er honum var gefit. Steinfinnr segir mörgum mein at heimskunni, ok kallar þat úvitrligt, er þeir þóttust ekki tilvita, hvat af brúðinni var orðit. Ok

[1]) *sá, B, C.* [2]) *v. í hin.*

nú segir Steinfinnr, at Ísgerðr hafði þar komit frá Borðatjörn, ok rekit fótaskinn sitt um höfuð honum húskarlinum, ok af því varð myrkrit, ok svâ vindrinn sá, er henni feykti ofan til naustanna; hann sagði, at þeir Vemundr höfðu þar verit í naustinu, ok tóku þar við þóru ok reiddu brott; ok nú kvað hann heldr mundu seinka ferðinni þeirra Vemundar. Helgi fór nú [við 20asta mann[1]; en þeir voru allir eptir, Hafsteinn bóndi, ok Steingrímr ok þorbjörn or Árskógi, faðir Helga. Nú fara þeir Helgi, ok finna þá Vemund við þverá, ok sló þegar í bardaga þar í brekkunni við þá Vemund ok hans förunauta; þar fèllu 3 menn af liði Vemundar, en 2 af Helga. Húskarl Gunnsteins frá þverá var þar skamt brott frá, er þeir börðust; hann hljóp heim, ok sagði Gunnsteini til; en hann fór þegar at skilja þá, ok sagði, at hann mundi Vemundi veita, ef Helgi vildi eigi fráhverfa með festarkonu sína; ok nú skiljast þeir; fór Helgi heim með konuna, ok gjörði brúðlaup til hennar. Vemundr fór til Áskels, ok sagði honum til svâ búins, ok varð Áskeli illa við, ok þótti hann mjök kleins[2] hafa til þessa máls, ok kvað hann jafnan láta skamt ámilli óspektanna. Ok nú sendir Áskell enn orð Eyjúlfi Valgerðarsyni, at hann komi til móts við hann, ok fyndist at Hálsi; ok nú tala þeir um málin, ok var sú gjörð þeirra, at jafna saman vígunum, en víg Narfa skal koma fyri heimsóknina ok [burttöku konunnar[3]; en hinir menninnir 4, skolu vera jafnir, er þar fèllu.

1) með 20 manna, *B*, *C*. 2) *þannig D;* dyrfst, *hin.* 3) *þannig A, B, C, E;* brott taka konuna með, *D.*

15. Svâ[1] er sagt, at Helga Granadóttir ljóp nú frá búi Háls, bónda síns, ok heim til föður síns, ok hitti ekki Áskel. Háls ferr nú á fund Áskels, ok biðr hann eiga lut at við Helgu, at hún færi heim aptr til búss síns; en Áskell segist mundu engan lut at eiga með þeim, svâ ferliga sem þau lètu jafnan, ok kvað þau ekki vilja af því hafa, er þeim var ráðlagt. Vemundr ferr nú einhvern dag á Jarlstaði til fundar við Örnólf rellu, ok falar gripi at honum, ok svâ beiddist hann, at taka mál af honum á hönd Steingrími um hálfa mörk silfrs, þá er eptir hafði verit öxna verðsins, þeirra er hann hafði seldt Steingrími; en Örnólfr segist eigi munu selja honum málit, nema Áskell vilì þat. Þá beiddist Vemundr, at Örnólfr færi á fund Áskels með honum, ok vildi [vita, ef Áskell samþikti þat, at Vemundr taki við[2] málinu; ok nú fara þeir á hans (fund), ok bera upp fyrir honum. Áskell kveðst eigi vilja, at Vemundr tæki við málinu af Örnólfi; [ok bauð Áskell nú at taka við málinu af Örnólfi[3] á hönd Steingrími, ok kvaðst vildu, at þeir Vemundr ok Steingrímr ættist ekki íllt við, ef svâ mætti vera. Örnólfr bað Áskel með fara, sem hann vildi; ok nú lèt Áskell hann hafa 2 merkr silfrs, ok skiljast nú við svâ búit. Þat er sagt, at Vemundr kom at máli við konu sína einhvern dag, ok segir, at hann mundi fara á bròtt erenda sinna, ok kveðst ekki heim mundu

[1]) Af Vemundi kögr ok Steingrími, *fyrisögn kap. í D.*
[2]) *þannig A, B, C, E;* hann gjarna viðtaka, *D.* [3]) *v. í hin.*

koma í bráð, sagðist þá mundu fara til Vöðlaþíngs með Áskeli. Hann ferr nú heiman, ok þartil, er hann kemr í kaupáng til manns, er þórðr hèt; hann bjó á Völlum, ok var góðr bóndi; en nú nefndist Vemundr Björn, ok kveðst vera rekunarmaðr einn, ok sagðist þar vildu bíða þíngs, ok beiddi hann bónda viðtöku þessa stund. þórðr bóndi bað hann kaupa sèr mat með sverðinu því, er hann hafði í hendinni. Hattarmaðr[1] vill eigi vera vopnlauss, ok vill heldr vinna til matar sèr torfverk. Bóndi þóttist þurfa, at láta gjöra garð um tún sitt fyri þíngmönnum, at eigi beittu þeir upp völlinn. Tók Björn nú við verkfærum; en bóndi átti heimanferð fyrir höndum, ok vísar hann nú gestinum á verkit, ok sagði honum, hvat hann skyldi vinna. Ok nú feldi Björn gaflað í búðartópt Steingríms, ok síðan rak hann þángat naut í búðartóptina, ok gjörði þar, sem hann mátti, úreinligast. Nú koma þángat húskarlar Steingríms, ok skyldu tjalda búðina, en þeir höfðu engi verkfæri haft með sèr; nú þótti þeim eigi vel í hendr sèr búit, at tóptin var full af torfi ok grjóti. Björn bauð at ljá þeim verkfærin, er hann fór með; en þeir vildu þat gjarna. Nú segir hann þeim, at þar var rètt at grafa torfit á vellinum til búðarinnar; en þeir tóku þat ráð, ok þikkir þat starfminna, enn sækja til lengra, ok gjöra nú svá, þartil er upp var gjör tóptin. Nú kom bóndi heim, ok taldi mjök á höndr Birni, er þetta hafði af hans völdum verit, ok segir þar gjört mikit jarðarspèll ok

[1]) hinn komni maðr, *hin.*

lagabrot í þeim lut. En Björn kvað svâ mundu um verða búit, at bóndi mætti þessu vel una, tók nú ofan hattinn, ok kendi bóndi þar Vemund kögr, ok bauð hann at taka málit til meðferðar ok eptirkæru, segir, at þetta hefir af honum hlotizt, ok væri þat makligast, at hann rètti lut bónda; ok nú handsalaði bóndi honum landit, ok er nú við hann at eiga um þetta mál. Húskarlarnir segja nú Steingrími til þessa, ok hann þóttist þegar vita, at þetta voru ráð Vemundar. Nú koma menn á þíng, Áskell ok frændr hans, þar kom ok Steingrímr. Svâ var sagt, at Steingrímr átti þann bróður, er þorvarðr hèt, hann var Örnólfsson ok Ýngveldar, ok kölluð allra systir; hann bjó á þeim bæ, er í Kristnesi heitir; hann var vitr maðr, en miðlúngi þótti hann góðgjarn. Nú finnast þeir á þínginu, Áskell ok Steingrímr, ok segir Áskell Steingrími, at hann hafði tekit sök á hönd honum; en Steingrímr segir þat mundu með engum vandræðum verða skulu sinna vegna, ok bað Áskel fyrirráða þann veg, sem hann vildi, ok galdt Áskeli 2 merkr silfrs; en Áskell bauð Vemundi at hafa fè þat, en hann vill eigi hafa fè Áskels. Áskell vill nú, at niðrfalli sökin Vemundar við Steingrím; ok þetta lèt Vemundr sèr líka fyri bæn Áskels, ok fara nú heim sáttir af þínginu[1].

16. Nú er frá því at segja, at Háls kemr einhverju sinni á fund Áskels, ok berr upp vannkvæði sín fyrir hann, segir, at varla þóttist hann

[1]) Víg Steingríms ok Áskels goða, *fyrisögn næsta kap. í D.*

mega búi halda, ef Helga, kona hans, kemr eigi heim, ok biðr Áskel nú lut í eiga, ok vita, ef hún vildi enn láta at hans orðum. Áskell hèt nú, at eiga lut í með þeim, ef Háls vill því heita í móti, at láta batna samfararnar við hana. Svâ er sagt, at Áskell bjóst til ferðarinnar með [20asta mann[1], ok var í ferð með honum Vemundr ok Háls. Ok nú fara þeir þartil, er þeir koma þar, sem heitir Leyníngsbakki; ok þá mælti Áskell, at þar vildi hann vera grafinn, þá er hann andaðist, ok þótti þar vera gott landsleg, ok sagði, at hann vildi ekki fè hafa með sèr. Nú svara þeir frændr hans, at þess skyldi lángt at bíða, at hann þyrfti niðr at grafa. Síðan aka þeir til Eyjafjarðar ok upp með Eyjafjarðará, ok nær gagnverðt Stokkalöðum. Vemundr ok Háls ríða framfyrir, ok sjá þeir, at menn gánga brott or laugunni, ok kenna, at þar var Steingrímr ok nokkurir menn með honum; ok þá mælti Háls: við hefir Steingrímr enn leitat, at þvâ af sèr svívirðíngina, er þú lèzt ljósta hann með sauðarhöfðinu, ok þó man honum þat tregt veita, áðr hann fá alla afþvegit. Ok nú segir Áskell, at honum þótti helzt tröll toga túngu or höfði honum, er hann mælti slíkt, segir, at meiri von væri, at þeir hefði heyrt, hvat hann hafði mælt, er hann var forviðris, en Áskell kveðst heyra í gegn veðrinu, ok var mjök laung stund fram til þeirra Vemundar, en þó kvað hann nú svâ búit vera mundu. Þeir ríða nú í Eyjafjarðardal til Grana, ok voru þar um nóttina. Nú beiðir Áskell Grana,

[1]) 20 *manns, hin.*

at Helga, dóttir hans, mundi verða í ferð með þeim, ok hèt nú því á mót, at Háls skyldi betr við hana vera hèðanaf, enn áðr hafði hann verit, en elligar kveðst hann mundu heimta út peninga hennar, ok láta hana þá heim fara, ef eigi betraðist um af hans hendi; ok Grani vill enn gjöra, sem Áskell beiddi. Nú bjuggust þeir á brott þaðan snemma um morgininn, ok var Helga í þeirra ferð, ok Grani lèt aka Áskeli til Vöðlaheiðar. En er þau koma gagnverðt Kroppi, þá sá þau 30 manna renna til árinnar; ok nú bað Áskell, at þeir skyldu undir stakkgarðinn, er þar var hjá þeim, ok æja hestum sínum, en síðan bað hann þá gánga fram á bakkann ok verjast þaðan, ef eigi væri allt friðt af Steingríms hendi, ok þótti nú vera mega, at eigi þyrfti nú at dyljast við, hvort Steingrímr hefði heyrt fyrra dags þat, sem Háls mælti. Ok nú gánga þeir fram á bakkann; en svâ er sagt, at âin var ísuð, ok var ótraustr ísinn á ánni. Áskell spurði þá, hvat Steingrímr vildi, er hann fór svâ hvatliga; en Steingrímr kvað nú mál, at efna heitstrenging sína, ok kvað nú fleiri munu gjalda Vemundar, enn þá, er þess væri makligir. Nú er svâ sagt, at þar sló þegar í bardaga, er þeir voru komnir í skotmál. Þá sá Steingrímr, at seint mun at vinnast, meðan þeir gângast eigi nærr, enn svâ, sem þá var, ok þikkir nú þat eina til, at þeir leiti yfir ísinn at þeim Áskeli. Nú mælti Áskell til Steingríms, ok bað hann varliga fara á ísinn, ok kvað hann ótraustan. [En Helgi or Árskógi svaraði, ok kvað þá munu sára mjök, Áskel ok förunauta hans, ok

hann mundi fyri því slíkt mæla, ok letja þá atgaungunnar. Þá segir Örnólfr Þorvarðsson[1], at honum þikkir atsóknin þeirra Steingríms úvænlig[2]. Þá tók Helgi or Árskógi þat bragða, mágr Steingríms, at hann stakk spjótskaptinu niðr á ísinn, ok hljóp svâ á bakkann upp at þeim Áskeli. Háls hjó þegar framan í fáng Helga, svâ at hann fèll á bak aptr útá ána, ok fèkk þegar bana. Svâ er sagt, at nú hjóst niðr spaungin undir þeim Steingrími. Sumir vilja þat segja, at Vemundr skyti til Steingríms með spjóti, þá er hann vildi upp or vökinni á ísinn, ok yrði honum þat at bana, en sumir segja, at hann druknaði þar í vökinni; 2 menn druknuðu aðrir, enn Steingrímr, 2 menn voru ok drepnir af hans förunautum, Helgi, mágr hans, ok einn maðr annar. Svâ er sagt, at Áskell bað þá nú hvata í brott, sem þeir mega; ekki er þess getit, at hann týndi neinum manni í bardaganum; ráðast þau nú til ferðar. Þeir ríða nú fyri, Vemundr ok förunautar þeirra, ok ræða um, at mjök vel hefði atborizt, er Steingrímr var afráðinn, ok þótti þeim vel hafa gengit leikrinn. Frá því er at segja, at sá maðr hafði verit í ferðinni með Steingrími, er Þórir er nefndr, hann var son Ketils flatnefs; hann hafði rennt fótskriðu yfir ísinn, ok leyndist þar þá, er hann sá, hversu Steingrími hafði farizt; þar heitir því Kárapollr[3], sem hann var staddr; nú, er hann þóttist vita, at þeir Áskell mundu brott farnir frá áinni, þá hljóp hann undan ísinum ok uppá bakkana. Þá Vemund

1) *rèttara mun:* Þorvarðr Örnólfsson, *sbr. bls.* 275. 2) *frá [ v. í hin.* 3) Káravöllr, *A.*

hafði nú mjök brátt borit undan fram. Þat er frá Þóri at segja, at hann hleypr nú fram eptir þeim Áskeli; ok er hann kom at sleðanum, þar sem (þau) óku, þá hjó hann þegar til Áskels goða, ok kom í höfuðit; hann snýr nú þegar aptr til árinnar, ok rennir enn fótskriðu yfir ísinn, ok ferr nú til sinna förunauta, ok sagði þeim frá sinni ferð; þeim þótti hann hafa haft gott erendi; fara þeir nú heim, ok una sinni ferð illa. Frá Áskatli er þat at segja, at hann bað Helgu binda um höfuð sèr, ok ekki skyldi hún gjöra vart við um áverkann, ok kveðst gjarna vilja, at hèr lytist ekki íllt af, ef hann mætti því viðkoma; ok hún gjörði, sem hann beiddi, ok gat ekki um þetta, ok vissu þau tö ein þenna atburð; þau komust á Háls um aptaninn. Ok um morgininn snemma vekr Áskell þá, ok biðr uppstanda hvatliga, ok kveðst heim vilja til dagverðar um daginn; ok nú fara þau, ok komast yfir Fljótsheiði. Nú sagði hann þeim, at hann hafði sár fengit, ok hversu þat hafði atborizt, ok kveðst fyri því eigi fyrr hafa tilsagt, at hann vissi kapp frænda sinna um þat, at þeir mundu eigi hafa skilit við svâ búit, ef þeir vissi þá þegar; en hann kveðst gjarna vilja, at engir menn hlyti íllt af vígi hans, ok bað þá vera sáttgjarna, frændr sína, ok kvað þá þat bezt af at gjöra, at stöðva óhöppin sem mátti; sagði ok, at hann þóttist þat jafnan gjört hafa um þeirra mál, at firra þá vandræðum, sem hann mátti, ok bað þá nú þess minnast um þenna lut, er honum þótti svâ miklu máli skipta; segir ok, at hann vildi gjörð þeirra

Eyjúlfs Valgerðarsonar ok Hávarðs, ok hafði hann þegar sett ráðit allt fyrir Hávarði um gjörðina, hvern veg hann vildi vera láta. Nú andast Áskell goði, ok þótti mönnum þat mikill mannskaði, þvíat hann hafði verit mikill höfðíngi ok vinsæll; nú veita þeir honum þvílíkan umbúnað, sem hann hafði fyrisagt, ok þótti nú þessi tíðendi helztí fljótt at hendi hafa komit. þessi tíðendi spyrjast nú víða, ok þótti öllum mikit atorðit í fráfalli slíkra manna, þótt Áskell væri mörgum mönnum meirr harmdauði, enn Steingrímr, þá var þó hvortveggi mikill höfðíngi. Nû er svâ sagt, at Eyjúlfr sendi orð Hávarði, ok svâ þorsteini, syni Áskels, ok Vemundi, ok öðrum frændum hans, þeim sem nokkrs voru verðir, skyldu þeir koma á Möðruvöllu til sáttarfundar; en því er Skútu Áskelssonar ekki hèr viðgetit, at hann var þá ekki á Íslandi, ok hafði hann verit utan um hríð. Ok nú koma menn til fundarins; er svâ sagt, at Einar Konálsson, fóstri Eyjúlfs, átti mikinn lut í sáttmálum millum manna; er nú umleitazt, ef þorsteinn eða frændr hans vildu sættir taka. þorsteinn segir: at því hefir ek jafnan hugan, þá ek hefi verit viðstaddr, þá er faðir minn var við málaferli manna, at jafnan vildi hann firra menn vandræðum, heldrenn æsa þá fram at óhöppunum, ok svâ mikinn hug, sem hann lagði á jafnan, at sætta menn, þá lízt mèr, segir hann, sem gjarna mundi hann vilja, at hèr gjörðist eigi vandræði af á milli manna þessu máli, er hann tekr svâ mjök sjálfan; nú man ek eigi hitta mèr betra ráð, enn líkja sem

mest eptir því, sem ek vissi, at hann gjörði, ok mun ek eigi níta[1] sættunum. Kemr nú þar, at menn vilja, at Eyjúlfr ok Hávarðr gjöri um málin eptir því, sem Áskell hafði beidt fyrir öndverðu. Ok er þeir höfðu sáttir á vorðit á málit, þá biðja þeir þorstein koma til sín, ok (með) öðrum mönnum þeim, sem þar voru viðstaddir. Var sú sættargjörð þeirra Hávarðar ok Eyjúlfs, at vígin Áskels ok Steingríms skyldu ástandast, en hinir 3 förunautar Steingríms, er þar lètust, skulu koma fyri tilferðina þeirra Steingríms, en goldin aptr eyìn mikla fyri víg Helga or Árskógi; ok voru nú veittar trygðir á milli manna, nema fyri Skútu, hann var utanlands; þeir skyldu fara utan, ok vera aldri í Norðlendínga fjórðúngi, meðan Fjörleifar synir væri á lífi. Eyjúlfr seldi nú gripina í hendr þorsteini ok Hávarði, þá er Áskell hafði honum selda eptir rútshöfuðs höggit. Ok nú skiljast menn vel sáttir, ok undu nú vel þessum málalyktum. En frá Vemundi kögr er þat at segja, at hann varð sóttdauðr, en þótti þó vera inn mesti garpr, meðan hann lifði[2].

17. þat er nú fyrst at segja, at þorsteinn býr í Hvammi eptir Áskel, föður sinn, ok var hann vinsæll maðr; hann seldi af hendi goðorð þeirra Skútu. Svâ er sagt, at annat sumar eptir kom Skúta til Íslands, ok var hann með þorsteini, bróður sínum, um vetrinn, ok var laungum hljóðr á þeim vetri, ok þikkir sèr nær höggvit hafa verit, ok þóttist engar bætr hafi hafa

[1]) neita, *hin.* [2]) Saga Vígaskútu, sonar Áskels, *yfirskrift næsta kap. í D.*

fyri víg föður síns. Ok um vorit eptir skiptu þeir bræðr fè sínu ok föðurarfi; skal Skúta hafa lausafè or skiptinu, ok hann var til þess ætlaðr, at hefna föður þeirra, ef hann mætti, þvíat hann var í engum trygðum við menn um þessa sök; en þorsteinn skal hafa landit í Hvammi ok halda búinu. Nú kaupir Skúta sèr land at Mývatni, ok bjó þar, sem nú heitir at Skútustöðum, gjörðist brátt mikilhæfr maðr í mörgu lagi, sem enn man heyra mega síðarr í sögunni. þorbergr hèt maðr, ok var kallaðr höggvinkinni, ok ekki vinsæll við alþýðu manna; hann átti 2 sonu, hèt annar þorsteinn, en annar Ölvir enn spaki. Geiri Austmaðr[1] bjó á Geirastöðum fyri norðan Mývatn; hann átti 3 sonu, er enn eru nokkut við þessa sögu hafðir, hèt son hans [einn Örn[2], annar Glúmr, enn þriði þorkell; þeir voru allir miklir menn fyri sèr. Arnórr hèt maðr ok var þorgrímsson, ok bjó í Reykjahlíð fyri norðan Mývatn; hans synir voru þeir þorfinnr ok Böðvarr; Arnórr var mikill kappi ok góðr bóndi, ok jafnan er frá honum vel sagt, þar sem hann kemr við sögur ok málaferli manna. Hallr hèt maðr, er bjó at Sandfelli við Mývatn, skamt frá Geirastöðum; hann átti dóttur, er þorkatla hèt[3].

18. Eitthvert sumar kemr skip af hafi í Húsavík, þóat svâ bæri optarr at; þat skip âttu bræðr 3, Vagn hèt einn, ok var kallaðr spjót, annar Nafarr, ok var kallaðr sax, Skefill inn þriði, ok var kallaðr sverð; þeir voru miklir menn fyri

---

1) hèt maðr, *hin.* 2) *þannig B, C; v. í A, D;* einn Amar, *E.* 3) Frá Glúmi, *fyrisögn næsta kap. í D.*

sèr. Svâ er sagt, at hverr þeirra bræðra átti þat vopn, sem við var kendr; þeim þótti þau í bezta lagi sinnar eigu, ok lètu sèr aldrí hendi fyrigánga, ok þat segja menn, at öll þessi vopn væri forkunnar góð. Þeir voru kunníngjar Glúms Geirasonar, ok ætluðu þángat til vistar til þeirra feðga, Geira ok Glúms, þvíat Glúmr hafði boðit þeim þángat til vistar. Nú áttu þeir annríkt mjök, ok varð eigi tóm, at sækja Austmennina, sem ætlat hafði verit, ok þótti þeim feðgum, sem þat mundi engu skipta, þótt þeir kæmi nokkurum nóttum síðarr, enn þeir höfðu umrædt í fyrstu. Svâ er sagt, at (þess) varð varr Þorbergr at Mývatni, eðr enn heldr Arnarvatni[1], ok ferr hann þegar til skips, ok bauð Austmönnum til sín; en þeir segja, at þeir munu fara til Glúms. Já, segir Þorbergr, er ekki þat, sem mik grunar, at nú mun vera liðinn sá tími, er til var tekinn, at eptir þeim skyldi hafa farit verit? Þeir sögðu, at svâ var: kann vera, segja þeir, at Glúmi sè annsamt, ok eigi hann eigi tóm at koma eptir okkr, en hann mun þikkjast vita, at svívirðíngarlaust mun vera. En hitt þætti mèr líkara, sagði Þorbergr, at honum mundi þat í hug koma, at þeir væri lítt tilfærir, at taka við frjálsum mönnum þeim, er nokkuru skipti, hversu við var gjört, þvíat svâ eru þeir feðgar fátækir at fèmunum, segir Þorbergr, at nær er úti annar biti, þá er annar er etinn. Nú hlýða þeir nokkut á þetta, sem hann sagði; ok þartil taldi hann um fyri þeim, at þeir játta, at fara þángat til vistar

[1]) Arnvatni, *B*, *C*.

til þorbergs; ferr hann nú heim, ok lætr vel yfir sinni ferð. Nú er svâ sagt, at Glúmr kemr til skips annann dag, ok sagðist þá vera kominn eptir þeim bræðrum, ok vildi þá heim flytja til sín; en þeir sögðu, at þorbergr hafði þar komit um daginn áðr, ok sögðust nú vera ráðnir, at fara þángat til vistar, ok kvoðust nú eigi vildu því bregða. þá svarar Glúmr, er þeir höfðu sagt honum umtalit þorbergs, ok svâ þat, hversu hann hafði átekit þeim feðgum, þá segir Glúmr: engi maðr mun þat kunna at segja, at honum þorbergi verði fèskortrinn, en fleiri munu þat segja, at hann láti færrum mönnum verða gagn at sínu fè; ok þótti honum illa, er þeir skyldu vera með svâ vândum manni, sem þorbergr var. Nú lætr þorbergr bráðt koma eptir kaupmönnum, ok lætr flytja þá heim til sín, ok var við þá forkunnar vel. Svâ var sagt, at þorbergr sendi Ótrygg, heimamann sinn, at færa útí eyjar fè þat, er slátrat skyldi til jóla, ok svâ naut ok kapla; ok áðr hann færi heiman, bað hann Ótrygg færa eina merina í hlöðu Glúms á náttarþeli, ok haga svâ til, at enginn yrði varr við. Nú ferr hann, sem fyri var mælt, ok vissi þó enginn, hvat þessu skyldi, kemr heim síðan, ok segir honum til svâ búins; ok nú þikkir þorbergi hann hafa vel gjört. Um morgininn kemr þorbergr snemma inn, ok vekr menn upp, ok segir, at honum var horfit merhryssi gott, ok vill, at menn fari at leita: ok mun svâ eptir at sjá, segir hann, at af manna völdum mun vera, ok get ek, at stolit sè hrossinu. þá svara sumir, at aungva menn

þóttust (þeir) sjá líkliga til þess. Eigi má þat vita, segir hann, þar sem hèr sitja þrotsmenn samtýnis hjá oss, ok eru þeir feðgar líkligastir til, at valda þessu, Geiri ok synir hans, þvíat þeir eru áræðismiklir, ef þeir þurfa nokkrs við, ok munu vær þángat fara at rannsaka. Svâ er sagt, at þorkell Geirason var nú ekki hèr við þessi mál, þvíat hann var útlendis. Nú biðr þorbergr Austmennina verða í ferð með þeim at rannsaka, kvað þá nú sjá mega, at því var vel ráðit, er þeir höfðu heldr haft þessa vistina, enn með Glúmi. En Austmenn kvoðu þat vera verra manns bragð, enn Glúms, at stela frá mönnum, ok segjast eigi mundu þángat fara til at rannsaka. Er svâ sagt, at þorbergr ferr nú ok menn með honum; ferr hann nú ok heldr djarfliga, er hann þóttist vita, hversu takast mundi ferðin, ok koma nú til Glúms, ok beiða hann rannsóknar; ok þeir feðgar láta uppi rannsóknina; leitar hann nú vannliga, ok hittir ekki, þartil er hann kemr at einhverri hlöðu, ok þar í löðunni fann hann merina, ok kvað þá vera verri menn, enn þeir lètu yfir, eða margir aðrir, er þeir skyldu vera sannreyndir at þjófskap. þá svaraði Glúmr, ok kvað sèr á þessu engan kunnleika vera, ok kvað hann vera sjálfan líkligastan til, at hafa þetta bragð gjört, en snúa nú síðan á aðra menn, ok kvað mönnum þat miklu kunnara, at hann var vondr maðr. Öllum þótti þetta illa vera orðit, þvíat þeir voru vinsælir menn, frændr. Nú spurði þorbergr, ef Glúmr vildi nokkuru bæta fyri þetta, ok fèlli þar málit niðr, sem nú var komit; en Glúmr

kvað þat fjarri fara, at hann mundi hèr neinu fyri bæta, er hann mátti engan grun vita sèr á hendr. Þorbergr kvað þó hèr mundu verða nokkut fyrir at koma, þóat honum væri leiðennt[1] gjört um bótina. Glúmi kvaðst því betr þikkja, er meira kæmi fyrir, ef sá gyldi, er makligastr væri. Ok nú skilja þeir ræðuna at sinni, ok ferr Þorbergr nú heim, ok þikkist vel hafa leikit. Spurðist þetta nú víða, ok þótti mönnum þetta illa orðit, þvíat fleiri menn unnu góðs lutar Glúmi, enn Þorbergi, ok vænta enn, at hèr muni önnur raun á verða um þetta mál, enn nú var fyrst orðrædt af alþýðu. Nú sitja hvoritveggju í kyrðum um vetrinn. Svâ er sagt, at Þorbergr hittir Þorgeir goða[2] frá Ljósavatni, þvíat vinátta var milli þeirra, ok segir[3] hann ráða um þetta mál, hversu með skal fara; segir, at hann þikkist þar eiga mikit traust um ráðagjörðir sínar, sem hann var. Þorgeirr bauð, at búa til málit á hönd Glúmi; en Þorbergr kvað [þá þann upp kominn, sem honum var mest at skapi[4]; ferr nú heim síðan. Ok er voraði, bjóst hann at fara stefnuför til Glúms, ok biðr nú menn til fararinnar með sèr; hann ræðir um við vetrtaksmenn sína, ef þeir vilja verða í ferð með honum; en þeir voru þó tregir til, ok fóru þó um síðir við fortölur Þorbergs. Býst hann nú heiman, ok voru þeir 18 saman; þeir höfðu kaldt veðr um daginn; fara þeir nú þartil, er þeir koma á Geirastaði. Þeir Glúmr sátu við eld, þá er þeim var sagt, at

[1]) *þannig* (leiðænnt), *D*; leiðint, *hin*. [2]) hofgoða, *B*, *C*. [3]) beiddi, *hin*. [4]) hann þá hafa fengit mann fyri sik, *B*. *C*.

menninnir fóru at bænum; nú laupa þeir til klæða sinna, ok vopnast, ok gánga síðan í dyr út; ok nú senda þeir eptir mönnum, at veita þeim lið. Svâ er sagt, at þeir Glúmr voru 8 saman þar fyri, þá er þorbergr kom. Nú koma þeir þorbergr at bænum, ok ríða þegar í túnit, ok stefnir þorbergr þegar Glúmi um þjófskap. Svâ er sagt, at þá er hann hóf stefnuna, hljóp hann Geiri or dyrunum út ok at honum þorbergi, ok hjó til hans; en þorsteinn, son þorbergs, brâ við skildi; ok þá hljóp Glúmr at, ok hjó til þorsteins, ok veitti honum þegar bana; nú laupa út allir þeirra menn, ok til bardagans; ok nú veitir þorbergr Geira sár á fæti. þá kom at Hallr frá Sannfelli[1] við 10da mann, ok fór þegar til með Glúmi, ok þeir 10, sem með honum voru. Ok nú var skamt at bíða, áðr Skúta kemr þar til með 10da mann; ok nú ræðir hann til sinna manna, at þeir skulu gánga á hæð nokkura, er þar var hjá þeim, ok vildi hann hvorigum veita, ok kvað þeim betr gánga, sem skyldi, segir ok, ef sá yrði brott gjörr af vígunum, at þá mundi reynast bráðt, hverr ríkastr væri at Mývatni. þá kom þorfinnr Arnórsson at ríðandi, ok ferr þegar til bardagans með Glúmi; ok svâ er, at þorfinnr hjó framan í andlit þorbergi, ok var af því hann kallaðr höggvinkinni. Í þessu bili kemr at Arnórr or Reykjahlið með 12ta mann, ok gengr hann þegar í milli manna, ok skildi þá. þar fèllu allir Austmenninnir, en sinn húskarl var fallinn af hvorum; en Ótryggr, er áðr var frásagt, var

[1]) Sandfelli, *hin.*

særðr til ólífis, ok græddi Glúmr hann, því at hann sagði, hversu farit hafði um merina, þá er Þorbergr bauð honum at leiða hana í hlöðu Glúms; ok varð nú bert illmælit af Þorbergs hendi við Glúm. Er nú leitat um sættir milli þeirra, ok kom svâ, at þeir skulu gjöra um málin, Þorgeirr goði frá Ljósavatni ok Arnórr or Reykjahlíð. Sú var gjörð þeirra, at ágengust vígin húskarlanna; en áverki Ótryggs, er hann var særðr til ólífis, ok enn aðrir 2 menn líflátnir af liði Þorbergs, skulu koma fyrir áverka Geira; en sá áverki, er Þorbergr hafði fengit, skal vera fyri tilförina ok ill málaefni, er hann hafði með svikum at farit; þeir vóru ok allir drepnir Austmenninnir, er með Þorbergi voru, ok lágu þeirra víg kyrr, svâ at engi þeirra var fè bættr; þeir voru brott gjörvir þaðan or sveitinni Geiri ok Glúmr, feðgarnir, ok er svâ sagt, at Geiri bjó í Krossfirði á Geirastöðum. Svâ er sagt, at Glúmr fèkk Ingunnar Þórólfsdóttur, Veleifssonar[1]; þeirra son var Þórðr; ok þótti Glúmr vera mikill maðr fyri sèr, sem enn má nokkut marka í þessum frásögnum[2].

19. Þat er sagt, at Þorkell Geirason kom út um sumarit í Húsavík, vetri síðarr, enn þessir atburðir voru, er nú var frásagt, ok fór hann til vistar til Ófeigs í Skörð. Ófeigr var þá 18 vetra gamall, ok þat segja menn, at þeir Þorkell væri jafngamlir. Maðr er nefndr Þorsteinn, ok var kallaðr varastafr, hann bjó í Laxárdal;

---

[1]) *þannig* (Vel. s.), *D; v. í hin.* [2]) *yfirskrift nærsta kapítula D:* Af Þorkeli Geirasyni.

hann var hólmgaungumaðr mikill ok illr viðreignar. þat er sagt, at hann gjörir heimanferð sína einhverju sinni þess erendis, at biðja þorkötlu, dóttur Halls frá Sandfelli; en Hallr sagði, at hann mundi eigi gipta dóttur sína svâ vondum manni, sem hann var, ok kvað þat mörgum mönnum kunnigt vera, at varla fèkst meiri ójafnaðarmaðr, enn þorsteinn var. Nú bauð þorsteinn Halli hólmgaungu, sagði þá reyna mundu, hvorr ráða skal kosti konunnar; en Hallr nennir varla at gánga undan því, en þóttist þó vera vanfærr, at gánga í mót þvílíkum berserk, sem þorsteinn var. Ok nú finnast þeir Hallr ok þorkell Geirason, ok sagði Hallr þorkeli, hvern vanda honum hefir til handa borit, ok svâ, at ráðin var hólmgángan með þeim þorsteini varastaf. þorkell kvað Hall nú missa Glúms, bróður síns, ok sagði hann þá eigi mundu þurfa at gánga á hólm við þorstein, ef hann væri hèr, svâ vingott[1] sem með ykkr var. Nú bauð þorkell, at hann skyldi gánga á hólm fyrir hönd Halls; en hann kvaðst þat gjarna vilja þiggja af honum. Hallr lèt nú taka sverðit Skefilsnaut; ok er þorkell skyldi á hólm gánga, fèkk Hallr honum sverðit í hendr, ok kvað þat bíta mundu. þat er nú at segja, at þeir Ofeigr ok þorkell söfnuðu at sèr mönnum, ok bjuggust nú til hólmsins, ok voru þeir saman 40 manna [ok hèldt Ofeigr skildi fyri þorsteini [eða þorkatli[2]; þorsteinn hafði ok 40 manna. þorsteinn hèt maðr, ok var kallaðr

[1]) *þannig A, B, C, E;* þingott, *D.* [2]) *v. í hin.*

kjúgr[1]; hann var vanr at halda skildi fyri nafna sínum, ok svâ var þá. Ofeigr hèldt nú skildi fyri þorkatli, ok gánga þeir nú á hólminn; er svâ sagt frá viðskiptum þeirra, at þorkell hjó þorstein banahögg. Ok þegar er þorsteinn var fallinn, þá mælti Ófeigr til þorsteins kjúgs, at nú vill hann, at þeir gángi á hólminn, ok reyni með sèr: höfu við nu áðr haft skemtan af þeirra bardaga, skulu við nú skemta öðrum mönnum nokkura stund; en þorsteinn vill fyrir engan mun í móti mæla, er honum var svâ á hólm skorat. Ok nú gánga þeir á hólminn, ok lauk því máli svâ, at þorsteinn fellr fyrir Ófeigi. Svâ er sagt, at þorkell vill nú lâta bera aptr sverðit í kumlit, þar sem þat var tekit til handa honum; en Hallr kvað þat fjarri skulu fara, at engi maðr skuli njóta svâ góðs gripar, ok segir, at eigi skal aptr bera sverðit; en þorkell rèð, at sverðit var þángat borit. Fara menn nú heim af hólmstefnunni, ok þótti mönnum þat vera landhreinsan, at þeir nafnar voru drepnir. Svâ er sagt, at um nóttina eptir ena nærstu bar þorkeli Skefil í drauma, ok kvað þorkel munu vera góðan dreng, ok þakkaði honum, hve hann hafði drengiliga dugat, ok svâ sverðit haft: en ef þú hefðir eigi viljat, at aptr hefði verit borit sverðit, þá mundir þú hafa goldit þess í nokkuru, en nú man fara með okkr annann veg, þvíat nú skal hvorgi illa hafa, svâ vel sem þèr hefir farit, ok vil ek gefa þèr sverðit, þvíat ek þarf þess nú ekki, en þú ert svâ vaskr maðr, at ek ann þèr

[1]) krigr, *A;* kreggr, *B, C.*

allvel at njóta. Ok nú vaknar þorkell, ok var þar komit sverðit, ok þótti honum þat allgóðr gripr, ok barr þat lengi æfi. þorkell setti bú saman, ok bjó hann þar í enum ytrum Skörðum, ok þótti inn bezti bóndi. Spjótit Vagnsnaut átti síðan þorvarðr þorgeirsson. Saxit var ok upptekit or kumli Nafars, ok þótti öll vopnin vera forkunnar góð, sem jafnan bar raun á, ef þau voru til nokkrs höfð; enn eru hèr nokkr merki til sögð. Svâ er sagt, at skip kom út við Knarreyri[1] eitthvert sumar, ok Skúta ferr til skipsins, ok vo hann þann fyrstan mann í hefnd föður síns; sá maðr hafði verit í ferð með Steingrími, þá er þeir Áskell börðust ok Steingrímr, sem sagt er fyrr í Reykdæla sögunni frá viðskiptum þeirra; annann mann drap hann litlu síðarr, er þar hafði verit á þeim fundi. Eptirmâl var veitt um þessa menn bâða, ok bætti þorsteinn þá, bróðir Skútu, með sínu fè, sem rædt var í mâldögum með þeim bræðrum. En ekki kunnu vær með sannendum at segja atburð um líflát þessara manna; en þat vitu vær, at þetta var in fyrsta hefnd Skúta eptir Áskel goða, föður hans[2].

20. þórir[3], son Ketils flatnefs, er fyrr var frásagt at vo Áskel goða, hann varð sekr eptir víg Hróars Túngu-goða [sunnan um land[4], er hann hafði at verit með þeim Móðólfssonum í þeirri sveit, er heitir Skagahverfi, er þeir börðust þar, sem nú heitir Hróa-stúnga, þat er í milli Fors[5]

[1]) Knareyri, *C.* [2]) *fyrisögn nærsta kapítula í D:* Skúta vo Þóri á þíngi. [3]) Þorsteinn, *E allstaðar.* [4]) fyri sunnan land, *hin.* [5]) Þórs, *A, B, E.*

ok Hörstaða[1], ok á milli lækja tveggja, er þar falla ofan af heiðinni. Svâ er sagt, at þórir ferr á fund Eyjúlfs Valgerðarsonar, at vita um hèraðs vist[2] norðr þar, þvíat hann var nokkut skyldr honum ok þó lítt; nú biðr hann Eyjúlf, at staðfestast þar í hèraðinu, er hann kom út[3]. Eyjúlfr bað lýsa sýknu hans á Hegraness leið[4], ok taldi hann vera sýknan, ef engi talaði á móti, ok svâ á Vöðla leið; svâ var gjört, ok fèkst þar hvortveggja sýknan, þegar er beidt var; síðan skal biðja á Ljósvetnínga leið, ok þótti Eyjúlfi þat líkast, at þar mundi í móti mælt sýknu hans, en taldi hann vera frjálsan, ef þar fengist [sýknu hifit[5]. þar kom Eyjúlfr til leiðarinnar, ok svâ þorgeirr frá Ljósavatni, ok sat þórir í milli þeirra höfðíngjanna. Svâ er sagt, at Skúta kemr nú at máli við þorstein, bróður sinn, ok spyrr, hvort hann vill heldr vinna á þóri, eða setja ráðin til, ok sagði þá eiga honum mikla harma at gjalda, er hann hafði drepit föður þeirra: skaltu fyri því kjósa um, sagði Skúta, at ek mun gjöra þat, sem þú vill síðr, þvíat eigi mun auðveldt þikkja at svâ búnu, at komast yfir hann, ok eigi berr okkr at minni nauðsyn til, þótt torveldt sè at ná honum, at reka okkara harma við hann; en þorsteinn þóttist til hvorskis vera vel færr. Ok nú þóttist Skúta sjá, at þetta mundi verða meirr til hans taka, ok setti þau ráð til, at þorsteinn skal bjóða þorgeiri sætt fyri sekt þess manns, er hann hafði fyri ráðit, ok lúka þegar fyri

1) *þannig:* Horst', *D;* Hörshliðar, *hin.* 2) sína, *b. v. C.* 3) *v. í B, C.* 4) þingi, *hin.* 5) *þannig D;* sýkna hans, *hin.*

sakir fjölskyldar þeirrar, er hann átti at[1] annast; ok nú verðr svâ, sem hann setti ráð til, at þorsteinn bauð fyri vottum sættina, ok þorgeirr kvoðst vilja, at þorsteinn gengi til handsalanna, ok þó með fá menn. Skúta var þar með þorsteini, ok duldist hann. Ok nú, þegar at Skúta mátti atkomast, þá hjó hann þegar til þóris með öxinni Flugu, ok veitti honum banasár. þá mælti Skúta: veiddi[2] Fluga Flatnefjúnginn[3], þótt hann sæti milli tveggja goðanna. Ekki mátti nú lúkast handsölin fyri þraung þeirri, er þar var. Svâ er sagt, at Skúta komst í burtu or þraunginni, ok á bak hesti sínum, ok hleypti þegar í brutt í skóginn, ok var bæði runnit ok riðit eptir honum, ok varð honum þó ekki náð, ok komst hann svâ undan. Fara menn nú heimleiðis, ok undu þeir Eyjólfr illa við þenna atburð, ok þorgeirr, þvíat þeir vildu hafa haldit hendi yfir manninum. Annann dag eptir, þá er smalamaðr þorgeirs goða hafði rekit fè sitt, þá hittir hann mannþann, er finna vildi þorgeir, ok kvaðst vera sekr, ok vildi biðja hann dugnaðar ok viðtöku, en þorði þó eigi at láta sjá sik, ok biðr hann koma þángat í skóginn, ok kvaðst þar mundu bíða, en bað hann þó aðra menn ekki láta vara verða við þetta, enn þorgeir. Smalamaðr ferr nú, sem honum var boðit, ok segir þorgeiri; en hann grunaði hverju gegna mundi, ok fór nú til skógar við 10da mann, ok lætr hann eptir

[1]) *hèr byrjar en máða og ólæsiliga síða í skinnbrotinu D, er þvî A fylgt.* [2]) náði, *B, C.* [3]) *þannig E;* flatnefinginum, *A, B, C.*

mennina við skóginn. En þeir fóru 2 einir í skóginn, þorgeirr ok smalamaðr hans, ok fundu nú hvergi hinn seka manninn, ok ferr þorgeirr nú heim aptr við svâ búit.

21. Nú er þar til at taka, at Grímr heitir maðr, er þórðr gellir hafði sektan um áverka eitthvert sumar á þíngi; hann kemr á fund þorgeirs einhverju sinni, ok bað hann at taka við sèr, ok kvaðst mjök vera þurfandi dugnaðar, en kvaðst þat hafa frètt, at þorgeirr væri góðr drengr, ok sagðist því fyrst hafa á hans fund sókt, at hann vænti af honum nokkurra hjálpráða. En þorgeirr kvaðst mundu veita honum ásjá, ef hann vægi Skútu; nú kaupa þeir þessu saman. Síðan sendi þorgeirr Grím til þorbergs höggvinkinna, at hann rèði honum ráð til at drepa Skútu. Sú var ráðagjörð, at Grímr skal fara á fund Skútu, ok biðja hann dugnaðar, ok segja sèr alla[1] af hendi vera, ok at engu gagni vilja koma, ok biðja hann þar vistar ok ásjá, ok bað hann vera færivandan. Nú ferr hann, sem fyrir hann var lagt, ok barr upp erendi sín fyri Skútu, ok bað hann þar vistar ok ásjá, ok kveðst mjök þurftygr vera; ok svâ kemr, at Skúta tekr við honum, ok hèt, at hann mundi þar vera um vetrinn; ok þar var hann þann vetr, ok veitti Skúta honum vel vistina, enda kunni Grímr vel at þiggja, ok leitaði hann aldrei til, at vinna á Skútu. Um vorit, er þat sagt, at þeir fara til netja báðir saman, einhvern dag, Skúta ok Grímr, er þar var í vatninu; ok er þeir hafa farit um hríð, þá

[1]) *hèr byrjar aptr brotið D.*

losnar skóþvengi Skútu, ok dvaldist hann at, ok batt þvenginn; ok þá veitti Grímr honum tilræði, ok hjó til Skútu; en Skúta var þann veg búinn, at hann var í kufli, ok hafði brynju undir kuflinum; festi öxi Gríms í kuflinum, en Skúta sakaði ekki; ok nú greip hann Grím höndum, ok spurði, hve hann var svâ hverflyndr ok ótrúrr. En hann segir þegar, at þorgeirr hafði hann þángat sendt at drepa Skútu, ok nú bað hann sèr griða; en Skúta hèt honum aungu um þat, en vita þóttist hann, at þetta voru ráð þorbergs[1]. Svâ er sagt, at Skúta færði Grím útí einn hólm í Mývatni, ok alnaktan; síðan batt hann hann þar í hólminum við einn staur, ok kvað hann þar mundu búa verða um hríð, nema þorgeirr byrgi honum. Nú ferr Skúta heim, ok sendi þorgeiri orð um þetta. En þorgeirr spurði, ef þeir vildi nokkut viðhjálpa manninum; en þeir kváðust aldrí hirða, hvar hann var, ok kvóðust eigi mundu duga honum; ok lèt hann þar líf sitt í hólminum, ok ángraði mest sultr ok mýbit, er hann var í engum klæðum[2].

22. Maðr hèt Ólafr, ok annar þorgautr; þeir voru sekir menn, ok þó var þeim margt vel gefit: þeir voru menn vænir ok kurteisir ok góðir fardrengir. Svâ er sagt, at þeir koma einhverju sinni á fund þorgeirs goða, ok báðu hann ásjá; ok var kaup þeirra með sama móti, ok þeirra Gríms hafði verit, at hann mun veita þeim ásjá, ef þeir dræpi Skútu. Ok nú sendir

---

1) *þannig A, B, C;* þorgríms, *D, E.* 2) *fyrisögn næsta kapítula í D:* Enn svik við Skútu.

hann þá til þorbergs höggvinkinna, vinar síns, með þeim erendum, sem fyrr, at hann gæfi enn ráð til, at ná Skútu; ok nú koma þeir á hans fund, ok sögðu honum sín erendi, þau sem þorgeirr hafði boðit til hans. Gott þótti þorbergi, at þorgeirr lèt eigi fyrivinnast um þetta mál, kvaðst at vísu enn skulu til gefa nokkr ráð; nú var önnur ráðagjörð hans, enn it fyrra sinn: þeir hafa nú varníng Norrænan með sèr frá þorbergs, ok skulu segjast hafa komit út á Eyrum suðr, ok teljast vera frændr þeirra Skefils, ok segja, at því fóru þeir norðr þángat, at þeir vilja bæði heimta bætr fyri vígin, ok svâ fè þat, sem þeir höfðu átt bræðr, ok þorbergr vildi eigi láta aftakast: skorið þá til vistar við Skútu, ok ásjá um mál ykkat; farið fyrst suðr um vatnit, ok þaðan at húsi. Ok nú fara þeir svâ með öllu, sem þeim var fyrisagt, koma nú á fund Skútu, ok bera upp erendi sín, ok tók hann við þeim, sem þeir beiddu. Svâ var sagt, at þar voru þeir, ok var Skúta vel til þeirra, ok hverjum manni líkar vel við þá. Ok um jól um vetrinn, eða litlu fyri jólin, fellr þar voðmeiðr, ok kemr einhver kona at Skútu, ok bað hann atgjöra; ok hann ferr til þegar, ok þeir með honum vetrtaksmenn hans; tekr nú Skúta, ok styðr herðum sínum undir miðt trèit, en þeir Ólafr ok þorgautr setja nú kvíslatrè undir endana; þá hjó Ólafr til Skútu. Skúta hljóp nú undan trènu, ok fèll þat niðr á milli þeirra, ok kom eigi á hann höggit; hann var þá vopnlauss, þvíat Fluga stóð við vegg; þá hljóp þorgautr at honum

með reidda öxina, ok vildi þegar höggva til hans. Ok nú þreif hann upp eitt trè, er lá hjá honum, ok laust við öxinni með viflinni, er konur voru vanar at hafa til þvottar, ok svâ laust hann harðt við, at öxin hrott brott or hendi honum þorgauti; ok þá er svâ sagt, at Skúta greip þegar öxina, ok hjó þegar Ólaf banahögg með þeirri öxi. En frá lífláti þorgauts segja menn misjafnt; sumir segja, at Skúta lèti hann koma í Hrafnaskèr, ok sendi þorbergi orð, at hann veitti honum nokkura björg, ef hann vildi; en sumir segja, at hann dræpi hann þegar; ok hvort sem þat var heldr, þá hefir hann bana af fengit. Nú eignast Skúta fè allt þat, sem þeir höfðu þángat haft. Nú verða þeir vísir þorgeirr ok þorbergr, ok þótti þeim miklu viðauka sína svívirðíng, er þeir fengu, því heldr sem þeir lögðu meiri stund á at ná Skútu, ok una nú stórilla sínum lut, en lètu þar fè mikit, ok þótti þeim þat þó miklu verra, er Skúta skal njóta mega fjárins, en kunna þó eigi tilkall at veita, ok þóttust þá verða berir í svikum við hann, ef þeir kallaði til fjárins; ok varð nú af því þar niðr at falla þessi mál, sem þá var komit[1].

23. þormóðr hèt maðr, er bjó í Laxárdal á Máfahjalla[2], hann var kvongaðr maðr, ok hèt kona hans þorbjörg, hún var systir Vígaskútu. þau þormóðr áttu son, ok var nefndr Eyjúlfr; hann var vænligr maðr, ok óx þar upp heima með feðr sínum ok móður. Maðr hèt þorsteinn,

[1]) *fyrirsögn næsta kapítula í D:* Víg Bjarna. [2]) *þannig* (Máfvahjalla) *D;* Mánahjalla, *hin.*

hann bjó á þeim bæ, er á Mýri heitir; hann var ok kvângaðr maðr, ok átti þá konu, er þorgerðr er nefnd, hún var systir Vígaglúms at þverá or Öxarfirði; þau áttu þann son, er Bjarni hèt; hann var mikill maðr þegar á únga aldri, ok ramr at afli. þau Bjarni voru því vön jafnan um haustum, at fara til þverár at heimboði, ok nú gjöra þau enn svâ á einhverju hausti; tekr Glúmr við þeim forkunnar vel, ok voru þar þá stund, sem þeim líkaði. En er þau búast heim at fara, þá gaf Glúmr Bjarna, frænda sínum, hest rauðan, 6 vetra gamlan, ok kveðst mundu fá honum annann hest, ef nokkurir væri hvassari enn sjá. Ok nú fara þau heim frá heimboðinu, ok setr Bjarni þegar hestinn tilheys, ok var allvel varðveittr; ok um sumarit eptir var honum mikil forvitni, hve bítast vildi hestrinn; ræddi hann um, at hann vill etja við hest, er átti þorkell Geirason or Skörðum, ok var ákveðit, at þeir skulu etja at miðju sumri hestunum á Máfahjalla; en feðgar áttu grân hest föxóttan, ok seldi mönnum jafnan hross undan [til slátrs[1], en áttu ekki skap til, at etja hestinum. Svâ er sagt, at saman koma hestarnir einhverju sinni þeirra þormóðar ok Bjarna, ok bitust svâ, at í blóði var hvorrtveggi. Húskarl Bjarna kemr nú á fund hans, ok segir hann frá, er (hann) hafði sèt báða hestana albitna, ok kvað hvorutuggja vera hestinn alrauðan[2]. Ok þá sendi Bjarni orð þorkeli, at eigi mundi þeir etja hestunum, segir ok, hvat tilbar, at hans hestr var nú ekki ötufærr. þat ætlaði

[1]) *v. í hin.* [2]) einnin, *hin.*

Bjarni, at þeir Eyjúlfr mundi hafa att hestunum, ok þormóðr, faðir hans, ok því mundu þeir þann veg vera, at af mannavöldum mundi orðit hafa, ok því bauð [hann þeim at 8 viknum sumars[1]; en þormóðr bað Eyjúlf, son sinn, fyrirráða, hvort etja skal, eðr eigi; en hann vill etja láta. Nú voru hestarnir framleiddir, ok voru góð vígin, þartil er gengnar voru 11 lotur; þá tekr hestr Eyjúlfs undir kinnarkjálka á hesti Bjarna, ok hèldt þar lengi, þartil at Bjarni fór til, ok laust hestinn af takinu; en Eyjúlfr snèrist nú við, ok laust hestinn, ok hraut stafrinn harðt af hestinum, ok kom á öxl Bjarna; ok nú voru þegar skildir hestarnir; gengr Eyjúlfr at Bjarna, ok mælti, at þetta hefir honum verr tekizt, enn hann vildi: skal ek, segir hann, raun tilgjöra, hvort mèr var þetta voðaverk, eðr eigi; nú vil ek, segir hann, gefa þèr 60 geldínga til þess, at þú kunnir mik eigi um þetta, ok máttu þá skilja, at ek munda eigi vilja, at svâ hefði atborizt. Bjarni kveðst þessu litlu síðr valdit hafa; þikkist hann nú vita, at þeir munu eigi att hafa hestunum; fara menn nú síðan heimleiðis. Ok um haustit at rèttum, drógu þeir Eyjúlfr út 60 geldíngs. Nú spyrr þormóðr, hvat sauðir skulu þeir, sem út voru dregnir; en Eyjúlfr kveðst hafa gefit Bjarna sauðina. þá segir þormóðr: bæði ætla ek, segir hann, at höggit var mikit, enda er miklu launat; ok þegar eptir, er hann hafði þetta mælt, þá snýr hann Bjarni at honum, ok hjó hann

[1]) Bjarni Þormóði, at etja hestunum við hann at 4ðu viku sumars, *hin.*

banahögg; ok nú vill hann eigi þiggja geldíngana. Eyjúlfr var nú fámennr, svâ at hann mátti ekki ná Bjarna; ok nú segir hann móður sinni, at hann má finna þorstein[1], frænda sinn, at um þetta mál, ok svâ Einar Konálsson, ok beiða þá ásjá um með sèr. En þorbjörgu, móður hans, þótti mest traust at Skútu, ok kvað honum verr mundu þikkja, ef aðrir væri fyrr atsóktir, enn hann. Nú gjörir hann svâ, at hann hitti Skútu, ok segir honum sín erendi; ok hann tekr við honum forkunnar vel, ok hèt þegar sinni ásjá um þetta mál, tók hann nú við Eyjúlfi. Nú ferr Bjarni á fund Glúms at þverá, frænda síns, ok segir honum vígit. Glúmr segir, at hann vill, at Bjarni sè þar með honum um vetrinn, ok til þess, er lyki málum þessum, ok þótti vera gagnsakir í málinu. Bjarni sagði, at honum þótti lítilmannligt, at flýja bú sín, ok fór hann af því heim; en þó vildi Glúmr, at hann hefði eigi heim farit á því mæli. Eyjúlfr vekr nú til við Skúta, frænda sinn, þrjá tíma um tilbúnað málsins, ok tók hann vel it fyrsta sinn, ok kvað enn vera gott tóm til þess; en í annat sinn kvað hann munu finnast gagnsakir í málinu; ok it þriðja sinn, þá Eyjúlfr hafði þetta mál upp við Skútu, þá kvaðst Skúta vilja hefnd láta fyri koma. Ok þá beiddist Eyjúlfr at taka við málinu, en hann hafði áðr Skútu í hendr fengit; en hann varnaði honum þess; ok nú verða þeir frændr andorða um þetta, ok við þat skilja þeir, at sinn veg þótti hvorum. En bráðliga, eptir tal þeirra, ferr Eyjúlfr heiman einn-

[1]) þorkel Áskelsson, *C.*

saman, ok þartil er hann kom á Mýri[1], ok nemr þar staðar undir garði einhverjum háfum; ok nú sèr hann, hvar Bjarni fór einnsaman til sauðahúss, ok skal rýja sauði [fyrr enn aðrir menn[2]; nú setr hann hurð fyrir húsit. Eyjúlfr gengr nú þángat, ok þokar hann hurðinni frá dyrunum; þá tók Bjarni til hendinni, ok vill láta fyri dyrnar; þat sèr Eyjúlfr, ok er svâ sagt, at hann höggr af Bjarna höndina, er hann rètti út hjá hurðinni, fyri framan úlfliðinn. Bjarni hljóp nú út með öxi, ok bað Eyjúlf bíða sín; ok svâ gjörði hann. Ok þegar er Bjarni kom eptir, þá hjó hann til Eyjúlfs með annari hendi, ok þegar af honum skjöldinn ok í jörðina niðr síðan; þá hjó Eyjúlfr milli herða Bjarna, ok var þat banahögg. Nú ferr Eyjúlfr á fund móður sinnar ok Skútu, ok sagði þeim til þessa. Svâ er sagt, at nú líkar Skútu forkunnar vel, ok þikkir nú gott lut í at eiga með honum, er hann vildi nokkut at manna vera sjálfr, ok kallar hans ferð góða vera[3].

24. Svâ er sagt, at þorgerðr, móðir Bjarna, ferr þegar á fund Glúms, bróður síns, ok segir honum þessi tíðendi, ok svâ selr hún honum vígsmálit, ok biðr hann taka við eptirmálinu; hann gjörir svâ. Glúmr harmaði þetta mjök, ok þótti vera ill tíðendi, ferr nú á fund Eyjúlfs Valgerðarsonar, ok segir honum atburðinn. Eyjúlfr vill, at þeir fari allir í málatilbúnaðinn, kvað vera nauðsyn, at slík mál lægi eigi kyrr. Svâ er sagt, at Glúmr ferr nú fyrir í njósn með 10da mann til

[1]) háfan hól, *hin.* [2]) *v. i hin.* [3]) *fyrisögn næsta kapítula i D:* Víg Hávarðar.

Hnjóskadals, ok þaðan til Gnúpsskarðs[1], svâ í Bárðardal, ok átu dagverð þar í dalinum at þess manns, er Áslákr hèt; þar var stafkarl einn á búi, ok þótti förunautum Glúms gaman, at glettast við karl; Glúmr bað þá ekki glettast við hann, meirr enn hann vildi, kvað þat vera lítilmannligt at erta gamalmenni; ok nú láta þeir hann lausan. En karl fór þegar á brott, er hann mátti í sjálfræði vera, ok þartil, er hann kom á þann bæ, er heitir í Ísólfstúngu, en þar bjó sá maðr, er Hávarðr hèt, ok móðir hans. Nú sagði hann Hávarði, at allólíkr var hann þó öðrum mönnum Glúmr, ok kvað hann engan einn lut til þess hafa, at honum væri betr farit, enn öðrum. Mikit tekr þú af, sagði Hávarðr, eðr hvat er nú svâ nýtt um þetta? Nú sagði karl honum, hvaðan hann var atkominn, ok hve farit hafði með förunautum hans (Glúms) ok honum, áðr Glúmr átti lut í með oss, ok lofaði hann Glúm í hverju orði, sem hann kunni. Ok nú bað Hávarðr móður sína gefa karli mat; en hann bjóst heiman, ok fór á fund Skútu, vinar síns, ok sagði honum um ferðir Glúms, þat sem hann vissi til. Vel þætti mèr þat, sagði Skúta, at Glúmr kæmi híngat til vor, ok vildi ek gjarna, at hann fengi erendi, ef hann kemr hèr. Nú ríðr Glúmr yfir fjallit ok hans förunautar. Svâ er sagt, at maðr hèt Gautr, hann bjó þar, sem heitir í Gautlöndum; hann átti góðan hund, er Flóki hèt; ok þat sama kveld gó Flóki einart á fjallit upp; ok þá þóttist Gautr vita, at manna mundi von af fjallinu ofan; ok nú sendi hann þegar hjón sín

[1]) Gnúpsdals, *hin.*

öll til Skútu, ef hann þyrfti nokkut manna við. Ok nú er þeir Glúmr koma þar í nánd, heyrir hann manna mál, ok skilr, at nokkr njósn man kominn vera um þeirra ferð, en vildi eigi láta teppa sik þar, svâ at hann mætti eigi þegar aptr, at hann vildi; ok snúa þeir nú aptr á leið, þartil er þeir finna Eyjúlf ok förunauta hans á Hálsi. Skúta segir nú, at honum þótti Gautr minna hafa veitt sèr í njósninni, enn hann mundi vilja, þá er seinkaðist kvoman Glúms; þóttist hann nú vita, at Glúmr man hafa vorðit varr við mannafararnar, ok snúit þá aptr, er hann skildi njósnina komna vera fyri þeim. Svâ er sagt, at Skúta vill nú verja þeim vaðit á fljótinu, ok hafði hann nær hundrað manna, áðr þeir koma til móts við hann, Einarr ok þorsteinn bróðir hans, eptir orðsendíng Skútu. Nú koma þeir Eyjúlfr ok Glúmr til vaðsins með 2 hundruð manna; ok því nær var sagt, at þeir Skúta hefði ok, þvíat Arnórr or Reykjahlið veitti honum. þat er sagt, at þetta var við Eyjarvað, ok voru nú sínumegin hvorir með flokkana. Eyjúlfr talar til Glúms, at rètt var, at búa þar mál til, er þeir mætti framast komast, svâ at þeim væri úhætt. Ok nú íhugar Glúmr málit, ok fèkk hann nú þat ráð, at þeir skulu heyjast við Skútu þeir Eyjúlfr: en Márr, son Glúms, er þá var 18 vetra gamall, skal ríða til Mývatns við 10da mann, at stefna Eyjúlfi þormóðssyni; hann kom þar snemma um morgininn, ok barði á hurð; en Hávarðr or Ísólfstúngu var þar þá, ok gekk hann þá til hurðarinnar; en Márr rak á honum spjótit, Hávarði, ok vo hann þar, en síðan stefnir hann Eyjúlfi. Eptir

þat ferr hann á fund föður síns, ok segir honum til, hvat hann hefir atsýst á þeirri stundu, sem hann hefir á brottu verit. Vel líkar þeim Glúmi ok Eyjúlfi förin Márs, ok báðu hann hafa þökk fyri, segja nú Skútu, at Hávarðr mun eigi bera optarr njósnina. Skúta skaut nú yfir vaðit snærisspjóti, ok kom á þann mann, er þrándr hèt, hann var góðr bóndi, ok er svâ sagt, at hann fèkk þegar bana. Nú mælti Eyjúlfr, at þar væri þann veg varit mönnum í hvorumtuggja stað, at mannskæð mundi verða deilan þeirra. Ok nú eiga þeir lut í Eyjúlfr ok Einarr, at þeir mundi vilja sættast á málit, ok þar kom, at þeir játtuðu báðir þeirra ummælum þessara mála. En sú var sættargjörð þeirra Eyjúlfs ok Einars, at stafshöggit, er Eyjúlfr laust Bjarna, ok orðin þormóðar, skulu óhelga hann sjálfan: Eyjúlfr skal vera utan 3 vetr, ok fara þá til búa sinna, er hann kemr aptr: Bjarna skal bæta hundraði silfrs, þat skal Glúmr láta koma í hendr þorgerði, systur sinni, en móður Bjarna. En þat var ráðit á laun, at Skúta skal fá þorlaugar, dóttur Glúms, ok skal Skútu svâ heima standa hundraðit, at Glúmr gyldi því minni heimanfylgjuna, en þó vissi þat ekki fyrst alþýða manna; ok nú skiljast þeir at sinni vel sáttir. Svâ er sagt, at Skúta bað þorlaugar, ok fèkk hennar; þá var Álfildr önduð, er Skúta hafði fylgt áðr, ok Kolli hafði átt á Sauðanesi. þat segja menn, at þorlaug hafi átta 3 bændr; fyrst átti hún Skútu, þarnærst þann mann, er Eldjárn hèt, ok var kallaðr enn mildi, hann var farmaðr ok góðr drengr; síðarst átti hana Arnórr kerlíng-

arnef, ok eru göfgir menn frá þeim komnir, ok þótti hún vera mikill skörúngr[1].

25. Nú er þat fyrst at segja, at þorgeirr, son þóris flatnefs, kemr at máli einhverju sinni við þórodd goða af Hjalla í Ölfusi, frænda sinn, at hann gæfi honum nokkut ráð, til þess at koma Skútu til alþíngis, ok þóttist þorgeirr eiga at sjá þar til föðurhefnda við Skútu. þóroddr kvaðst eigi mundu batna við hans kvomu, enn sjá þikkist hann bragð til þessa, segir, at búðir þeirra standa it nærsta fyri vestan á; ok nú gaf hann þat ráðit til, at þeir skulu hafa búðartópt Skútu fyri gáng[2] um sumarit, ok svâ bað hann þorgeir reisa þar upp ás, ok skera á karlhödda[3] á endanum: ok væntir mik, segir þóroddr, at Skúta mundi koma til þíngins[4] at sumri, ef þann veg er meðfarit, þvíat svívirðíng man honum at þikkja, þá er hann veit. þessa meðferð hefir þorgeirr, sem nú var frásagt. Ok er menn koma heim í hèröð, var mjök fjölrædt um þetta, hvort Skúta man þola þorgeiri þessa svívirðíng, ok þikkir þat hvergi ólíkara, at hann mundi hefna vilja, svâ sem hann er áðr farinn[5] við flesta menn, þóat minna væri tilgjört við flesta menn, enn nú var. þat er sagt, at þetta kemr til eyrna Skútu, ok lèt hann, sem hann vissi eigi, allt þartil, er menn búast til þíngs annat sumar eptir, þá ferr hann á fund Arnórs or Reykjarhlíð, ok segir honum, at hann vill, at þeir ríði til þíngs um

1) *fyrisögn nærsta kap. í D:* Skúta drap Þorgeir. 2) þíng, *hin.* 3) *eða* karlhöða; karlhöfða, *hin.* 4) *þannig D.* 5) framr, *hin.*

sumarit; ok nú safna þeir at sèr mönnum, ríða heiman, sem leiðir liggja til þíngsins. En er þeir koma á völluna efri, þá bað Skúta Arnór ríða til búðar með liðinu, en hann kveðst eiga annat erendi af út at snúa. Nú reið Arnórr með flokkinn til búðar Skútu, ok tjalda búðina. En Skúta snýr þángat, sem hann sá mann gánga með viðar byrði; ok nú skiptir hann klæðum við þenna mann, en tekr upp byrðina, ok gengr vestr yfir á með, ok hefir viðaröxina í hendi sèr. Þeir hlupu nú at, menn Þorgeirs, ok föluðu viðinn, en færa hann í reikoð; ok nú sèr hann Þorgeirr, ok bað þá vera láta; ok þá er hann átti lut í þessu, þá fèll ofan byrðrinn, ok í því reiðir hann upp öxina, Skúta, ok veitti Þorgeiri þegar banasár. Nú hljóp Skúta þegar til sinna manna, ok fara þeir á bak, ok riðu brott af þínginu; fara nú þartil, er Skúta var kominn or allri hættu; þá riðr Skúta heim til búss síns; en Arnórr snýr aptr til þíngins með allan flokkinn, ok svâ til búðarinnar. Mál eru nú tilbúin á hönd Skútu, ok Glúmr galdt fyrir hann hundrað silfrs þar á þínginu. Fara menn nú heimleiðis. Ok er þeir finnast Skúta ok Glúmr, sagði Glúmr honum, hvar þá var komit, at sæzt var á málit, ok hann hafði goldit fyri vígit. Skúti sagði, at þat mundi hann aldri gjört hafa, ef hann hefði ráðit, ok kveðst honum eigi þökk fyri kunna. Glúmr kvað hann meiri svívirðíng af mundu hafa fengit, ef eigi hefði þetta verit atgjört, sem nú var frásagt, ok þótti sinn veg hvorum, sem jafnan voru

þeir eigi samlyndir mágar. Eldjárn inn mildi Áskelsson kom út á skipi sínu í Eyjafirði nokkuru síðarr, hann var farmaðr mikill; ok hann kemr á fund Glúms, ok sitja þeir á tali allan dag, svâ at engi vissi, hvat þeir töluðu. Ok litlu síðarr sendi Glúmr mann til Mývatns, ok bauð hann þorlaugu, dóttur sinni, til boðs, ok bað hana hafa gripi sína með sèr, ok svâ nokkut lausafè; en sumir menn vilja þat segja, at Skúta sendi hana heim til Glúms, þá er vesnaði með þeim, ok þóttist Skúta gjöra þat til svívirðíngar Glúmi. En hin frásögn er hèr höfð, at Skúta væri eigi heima, þá er sendimaðrinn kom eptir þorlaugu, ok var hann farinn norðr á Strandir at rekum; hún ferr nú á fund föður síns at hans orðsendíngu. Nú urðu menn bráðt varir við, hvat verit hafði í talinu þeirra Glúms ok Eldjárns, þvíat þá gipti hann þorlaugu, dóttur sína, Eldjárni, ok fóru þau þegar á brott ok utan, ok þótti mönnum þetta vera mikil tíðendi, ok þóttust vita, at Skúta mundi þessa hefna, ef hann mætti því viðkoma[1].

26. Ásbjörn hèt maðr, hann var frændi þorlaugar ok ónytjúngr mikill; hann varð sekr á vorþíngi í Skagafirði; hann kemr nú á fund Skútu, ok biðr hann dugnaðar, þvíat þau þorlaug höfðu veitt honum fyrri í ásjá; ok Skúta hèt honum ásjá, ef hann færi sendiför hans til Glúms. Ásbjörn kveðst eigi vilja vera flugumaðr. Skúta sagði þat eigi vera hans færi: þú skalt fara

[1]) *fyrisögn næsta kap. í D:* Af Glúmi.

á hans fund, ok mæla þessum orðum, at þú þikkist þurfandi, at hann gjörist forsjámaðr ráðs þíns, ok seg, at þitt vandræði er mikit, er þú hefir beðit af vígaferlinu, ok get ek, at þann veg beri til um fund ykkarn, at hann sè í þíngreið; en hans skaplyndi er þat, at hann er maðr þrautgóðr, ef menn þurfa hans, ok enn mætti svâ verða, ef þú gjörir þitt mál líkligt, enda viti hann, at þú ert hjálplauss, at hann mælir, at þú farir til þverár, ok bíðir hans þar, til þess er hann kemr heim af þínginu; þá skaltu svâ svara, at meirr er þreyngt mínu máli, meðr því, at hugr býr lítill í brjósti: seg, at þú hræðist mennina, ok vildir heldr koma á hans fund, er þú hittir hann einnsaman; ok með því, at Glúmr er armvitegr[1] ok vel skapi farinn, kann vera, at þar leggi hann til nokkut ráð; ok þess skaltu biðja, at finna hann í Mjaðmardal[2], er gengr upp frá bænum at þverá, ok sel hans standa; lát þat þar sýnast, sem þú mant hugboðit hafa, at finna hann at ákveðnum degi ok stund; ok ef þetta gengr fram, skaltu njóta frá mèr, ok mun ek þá veita þèr dugnað, enda vinn þú þat eina til, at þèr samir vel; ok þessu játtar Ásbjörn. Svâ er sagt, at hann hittir nú Glúm, þá er hann var kominn á leið á Öxnadalsheiði, ok ríðr hjá honum, ok segir sitt erendi, ok þau orð öll, er áðr voru sögð. Glúmr kveðst eigi þat vita, at hann ætti honum góða luti at launa: en fyri þá sök, at þú sýnir þik vinlausan, ok lætr, at hèr liggi við

[1]) *þannig D;* góðbrjóstaðr, *hin.* [2]) dalnum, *hin.*

líf þitt, þá vil ek, at þú farir norðr til þverár, ok biðir þar minnar heimkvomu. Hann svarar: vel er leyst vandræðit ok mikilmannliga, en þó hefir ek eigi dyrfð til, at sækja þángat, er margir menn eru fyrir, ok aldrí örvænt, hvörr úvinum mætir. Glúmr svarar: þú ert blauthugaðr: en at þú skilir, at ek vil þèr hjálpir veita, þá kom þú í Mjaðmardal[1] at ákveðinni stundu til selja minna, þvíat þar man eigi fjölmenni fyrir. Hann svarar: þann kost hefir þú boðit, er mèr líkar; skiljast þeir nú. Ferr Glúmr til þíngs, en Ásbjörn ferr til Skútu, ok segir honum, hvar komit er. Skúta segir: vel hefir þú leyst þitt erendi, ok ver nú með mèr. En er atlíðr þessum tíma, þá býst Skúta heiman, ok þeir Arnórr, með 30 manna; þeir ríða nú norðan, ok koma vestr yfir Vöðlaheiði, ok á hjalla þann, er heitir Rauðahjalli; þar stíga þeir af baki. þá mælti Skúta til Arnórs: nú munu þèr eiga hèr dvöl um hríð, en ek man ríða inn með hlíðum, ok vita, ef nokkut verðr til fengjar, lángt hefir nú verit, síðan vær höfum hitt menn or hèröðum. Hann ríðr með vopnum sínum, ok sèr, er hann reið í dalinn, at maðr ríðr neðan eptir dalnum upp frá þverá, mikill, í kápu grænni, ok kennir hann þar Glúm. þá stígr Skúti af hestinum; hann hafði vesl yfir sèr tvískipt, svart ok hvítt; hann lèt hestinn í rjóðr eitt, ok gengr síðan upp til selsins, ok var Glúmr þá kominn í selit; þat var þann dag, er þeir skyldu finnast, Glúmr ok sendimaðr Skútu.

[1]) Mjaðardal, *A*, *B*; Meiðardal, *C*.

Skúta hafði Flugu í hendi ok hjálm â höfði; þar segja menn eigi einn veg frá; sumir segja, svâ sem hèr er sagt, at þat væri öx, ok heiti Fluga, en sumir segja, at þat væri sverð, ok hèti Fluga; en hvort heldr var, þá hafði Skúta þat vopn jafnan í hendi, ok svâ var nú þetta sinn. Nú gengr Skúta at sels dyrunum, ok laust á vegginn, ok víkr síðan hjá selinu aptr. Glúmr gekk þá út, ok hafði ekki í hendinni, ok sèr nú eigi manninn; hann snýr þá hjá selinu, ok kom í hug, at maðrinn var údjarfr, at hann mundi eigi traust til bera, at gánga at sels dyrunum. Nú víkr Skúta milli hans ok dyranna; ok er Glúmr sèr þat ok kennir manninn, þá hopar hann undan, en árgljúfr voru nær selinu; Skúta biðr hann bíða. Glúmr segir, at þat mundi mælt, at eigi væri fjarri, hvorr þeirra betr væri vígr, ef þeir eru jafnbúnir til: en eigi vil ek gánga á vopn þín, ok hopar hann at gljúfrinu; en Skúta sækir nú at honum. Ok er Glúmr kom at fram, þâ steyptist hann ofan fyri gljúfrin. En Skúta leitar þar ofan, er gánga mátti, ok sèr í gljúfrinu, hvar kápuna rak ofan; hann leypr at, ok leggr til kâpunnar; þá heyrir hann, at mælt er yfir honum uppi: þat er lítil fremd, segir sá, at spilla klæðum manna. Skúta leit upp, ok kennir þar Glúm; hafði hann vitat raunar, at þar var tó undir, er hann fór ofan, ok rèð hann því til, at hann sá eigi færi at bíða. Þâ mælti Skúta: á þat áttu at minnast, Glúmr! at nú hefir þú runnit ok beðit eigi Skútu. Satt er þat, segir Glúmr, en vilja

munda ek, at þú rinnir eigi skemra, áðr sól settist í kveld. þá kvað Glúmr þetta:

Hálfs[1] eyris met ek hverjan
hrísrunn fyrir á sunnan,
vel hafa viði[2] skógar
vargfæðanda[3] borgit.

þar skilr með þeim; ferr Glúmr heim, ok safnar liði, ok segir, hvert vèlræði var fyrir hann sett af úvina hendi, lèzt ok vilja, at þat mætti bráðt gjaldast; hann fær á litilli stundu 60 manna, ok ríða síðan upp í dalinn. Skúta gekk til hests síns, ok reið með hlíðinni, ok gat nú at sjá, hvar fjöldi manna reið, ok veit, at þat má honum eigi endast, ef þeir fá staðit hann, leitar nú ráðs: brýtr af skaptinu spjótit, ok hefir fyri staf: tekr af hestinum söðulinn, en snýr veslinu, ok reið nú at sauðum, ok hóar fast á fèit. Nú koma þeir eptir honum förunautar Glúms, ok spyrja, ef hann hefði sèt mann nokkrn sköruligan ok með vopnum ríða fram um leitit. Skúta kvaðst víst sèt hafa manninn ríða fram um leitit, hann kvaðst sjá, at maðrinn fór hvatliga, ok dró þá í sundr, er leitit bar í milli þeirra. þeir spyrja, hvat er hann hèt. Skúta segir: ek heiti Margr at Mývatni, en Fárr í Fiskilækjarhverfi. þeir sögðu: af skætingu villtu svara oss ok spotti. Skúta segir: ek kann aldrí sannara at segja; ok þá skilr með þeim. þat er sagt, at Skúta tekr vopn sín, ok reið hvatliga til sinna manna. En hinir finna Glúm, ok segja honum, at þeir fundu þann mann, er þeim

[1]) háls, *D.* [2]) viðr, *A;* viðir, *hin.* [3]) vargi opt um, *hin.*

svaraði með spotti, ok kvaðst heita Margr í Mývatnshverfi, en Fárr í Fiskilækjarhverfi. Glúmr segir: nú hefir yðr orðit ráðfátt nokkut: þar hafi þèr hitt Skútu; eðr hvat mátti hann sannara segja, þvíat í Mývatnshverfi er hverr skúti við annann, en í Fiskilækjarhverfi hittir hvergi skúta, ok hefir nú nær lagt með oss, ok eptir skulu vær enn ríða; ok koma nú at hjallanum, ok eru þeir Skúta þar fyrir; en þar var einstígi upp at gánga, ok er þar betra at verja með 30 manna, enn sækja at með 60. Þá mælti Skúta: svâ er nú, Glúmr! at þú hefir kost tilgefit at sækja eptir mèr, má nú vera, at þú þikkist þín eiga í at hefna fyrir undanhaldit, þvíat allknáliga hèlttu undan, ok bart gott áræði til at hlaupa í gilit. Glúmr segir: satt er þat, at mèr leizt þat ráð, en kunnir þú hræddr at verða, þá er þú lèzt vera sauðamaðr Eyfirðínga, ok leyndir vopnum þínum, ok ætla ek, at eigi rinnir þú skemri leið. Skúta segir: hversu sem hèrtil hefir verit, þá sæk nú at með hálfu fleira lið, en vær munum hèr bíða, ok eltast eigi lengra. Glúmr segir: ek ætla, at vær munum nú skilja at sinni, verðr nú virðt, sem má, í hverjum stað. Nú ríðr Glúmr heim til Þverár með sínum mönnum, ok ekki bjó hann þetta mál til. Skúta kveðst ætla, at eigi mundi honum auðit verða at koma Glúmi fyrir, ok sagði, at þat mundi undan bera, at hann yrði honum at skaða, ok ferr hann nú heim við sínum mönnum[1].

[1]) *fyrisögn næsta kap. í D:* Svik við Vígaskútu.

27. Nú er þat fyrst at segja, at þorbergr höggvinkinni gjörir heimanferð sína til fundar við þann mann, er Arnórr hèt, hann var at, ok smíðaði skot um skála Skútu, ok gaf honum hálft hundrað silfrs til, at hann skyldi leyna þeim mönnum þar í skotinu hjá sèr, er annar hèt Játgeirr, en annar Eyjúlfr; þeir voru sekir menn, ok hafði þorbergr þá sendt til at vinna á Skútu; ok nú var þetta kaup þeirra Arnórs ok þorbergs. Eigi var Skúta heima, þá er þorbergr hafði þar komit; hann kemr nú heim, ok var honum vel fagnat, sem líkligt var; gengr Skúta nú til, ok lítr á smíðina Arnórs, ok hefir hann ekki vopna í hendi. Arnórr telgdi þá með knífi, en tálgöxin lá þar hjá honum. Nú hleypr ofan þilit ok menninnir fram; þikkist Skúta nú sjá bragð þeirra, varð honum nú þat fyrir, at hann þreif upp tálgöxina, ok hjó hann Arnór banahögg, ok kvað hann eigi optarr sik svíkja skulu. Ok nú kallar Skúta á sína menn, ok segir þeim, hvert vèlræði var fyrir hann sett; en húskarlar hans hlupu til, ok drápu flugumennina; en Skúta hefir silfrit, þat er Arnórr hafði haft af þorbergi höggvinkinna. þetta mál var tilbúit á hönd þorbergi til Eyjarþíngs, ok var þar sæzt á málit: skal þorbergr gjalda fyri fjörráðit hálft hundrað silfrs, en þorbergr skal fara á brott þaðan or sveitinni, ok til Lundarbrekku í Bárðardal, ok þótti þá líkligra til, at af mundi taka óþokkan milli þeirra, ef þeir sætist eigi svâ nær, sem áðr hafði verit; ok færir þorbergr þegar bú sitt[1].

[1]) *fyrisögn næsta kap. í D*: Enn flugumaðr sendr.

28. Maðr er nefndr Auðgisl[1], hann var frændi Þorbergs höggvinkinna, ok hinn mesti únytjúngr þótti hann vera; hann kemr einhverju sinni á fund Þorbergs, frænda síns, ok skorar á hann til nokkurra tillaga við sik. En Þorbergr kvað hann eigi verr tilfallinn at afla sèr fjár, enn sik, ef hann hefði þrifnað til, en fá kveðst hann mundu til utanferðar honum, ef hann vægi Skútu. En Auðgisl kveðst litlu verra eiga at launa Skútu, enn honum, en kvaðst þó [nær mundu honum leggja[2], ef hann vildi; ok nú setti hann sjálfr þau ráð til, at hann man brjóta fatakistu Þorbergs, ok taka á brott feld hans ok kyrtil ok sverð, gánga síðan fyrir hann, ok heitast við hann sjálfan, ok taka meira, ef hann vildi eigi þetta gefa honum, en fara síðan til Skútu, ok biðja hann ásjá, ok sagði hann eigi gruna mundu, ef hann færi þann veg með. Þorbergi kveðst þetta þikkja fèfrekt, en kvað þó líkligt, at svâ mundi gánga, ok vill hann fyri því þenna kost. Svâ ferr Auðgisl með sínu máli, sem áðr var frásagt, ok kemr á fund Skútu, ok beiddi hann viðtöku ok ásjá; spurt hafði Skúta, at sönn var saga hans, ok tók hann við honum. Svâ er sagt, at Skúta hafði látit gjöra sèr lokrekkju; en þar var svâ umbúit, at ketill var upp yfir rekkjuna, ok reist upp haddan yfir katlinum, ok voru þar á festir hríngar, til þess, at eigi mætti svâ[3] at koma rekkjunni, at

1) Auðgils, *A*, *C*, *allstaðar*. 2) verr mundu öðrum veita, enn sèr, *hin*. 3) *hèr endar höfuðskinnbókar-brotið D, og er því A fylgt aptr.*

Skúti yrði eigi varr við; var af því haddan uppreist, at hann vaknaði við, ef hún fèlli; ok jarðhús átti hann undir rúmi sínu, ok annann jarðhúss munna í sauðahúsum sínum. Ekki vissu þetta fleiri menn, enn Skúta, ok fóstra hans, er Sigríðr hèt, at væri þann veg umbúit, ok svâ unni hann henni mikit, at hann trúði henni einni, at vita með sèr slíka hluti. En er Auðgils hafði þar verit hálfan mánuð, þá var þat um eina nótt, at Skúta gekk or rúmi sínu, ok læsir hlemminn, er hann kemr aptr til rúmsins, ok leggst nú niðr; síðan rèð Auðgils til, er hann var sofnaðr, ok stè í rekkjugólfit, ok þegar hljóp niðr gólfit undir honum; þá fèll haldan á katlinum, þvíat hann hafði komit við festina. Ok nú vaknar Skúta í því bili við þetta allt saman; ok nú leggr hann á Skútu miðjum; en Skúta bregðr upp fætinum, ok lagði hann í fótinn â honum; nú hljóp Skúta þegar upp, ok veitti honum banasár, en tekr nú til sín gripina, þá er þorbergr hafði átt, ok eptirleitar hann við þorberg, ef þetta væri nokkut af hans ráðum; en hann kvað þat fjarri fara, ok kvað Auðgils stolit (hafa) frâ sèr gripunum, en barit á honum á svâ gert ofan. Nú bjó Skúta þetta mál ekki til, ok fèll þetta þar niðr.

29. Einhverju sinni kemr þorbergr á fund þorgeirs goða, ok sagði, at honum þótti eigi vel veita við Skútu, þóttist fá mikit manntjón af honum, en fengit aungvar bætrnar, ok biðr nú þorgeir, at eiga hlut í um, sín sakir, at Skúta yrði

afráðinn; honum kvoðst illa hugr um segja, en játar þó at vita, hversu til vill takast um sinn. Um vorit á vorþíngi safnar þorgeirr at sèr mönnum, ok fór upp í Reykjardal á laun, ok hafði 2 hundruð manna til Lauga, ok ætlaði at sitja þar fyri Skútu, er hann ríðr til Eyrarþíngs. Skúta hafði 60 manna, ok vissi hann aungva von til ferðar þorgeirs. Nú sèr Skúta hrossfjölda mikinn, ok þikkist eigi vita, hverju gegna mundi, bað nú Arnór or Reykjahlíð vera fyri liðinu, en hann vill ríða til húss at Reykjum; nú ferr hann til bæjarins einnsaman, ok síðan at hrossum þorgeirs, ok hittir hann einn mann þar af liði þorgeirs, er gætti hrossana. Sá maðr sagði allt, hvörju gegndi um farir þorgeirs, ok spurði, ef hann vissi nokkut til Skútu; en hann kvað þat fjarri fara. Nú spurði Skúta, hvörir þar sæti í brekkunni stund frá þeim; en maðrinn kvað þann heita Vestmann, er fyri þeim var, ok í litklæðum var: en hinir 2 fengnir honum til fylgdar við hann, ok skulu þeir, segir hann, njósna um ferðir Skútu, þvíat þorgeirr vill finna hann. Nú skiljast þeir, ok reið Skúta hjá þeim Vestmanni; hann var í kufli; ok nú fleygir Skúta til Vestmanns spjóti, ok kvað hann nú mega sjá þann manninn, sem hann hafði áðr at leitat; en spjótit kom á Vestmann miðjan, ok fèkk hann þegar bana. Skúta hleypti nú á burt ok til sinna manna; en hinir fóru á fund þorgeirs, ok segja honum til svâ búins. Nú eggjar þorbergr mjök, at ríða eptir Skúta; en þorgeirr vill þat eigi, ok

kvoðst eigi mundu optarr til leita við Skútu. Þetta mál var nú borit til Eyrarþíngs, ok sættust þar á þínginu: guldu þeir Þorbergr ok Einarr hundrað silfrs fyri vígit Vestmanns; ok þá lèt Þorgeirr þat til, at ef hann næði bótunum, at sitja aldrei síðan um líf Skútu. Nú fara þeir heim af þínginu, voru nú sáttir, ok efndi Þorgeirr þat vel, at hann setti aldrei fjörráð fyri Skútu.

30. Svâ er sagt, at þeir koma at máli við Þórodd goða Eyvindarson, frænda sinn, synir Þóris flatnefs, hèt annar þeirra Þórðr Illugi, en annar Björn; þeir báðu hann ráðagjörðar til at drepa Skútu Áskelsson, þvíat hann hafði drepit föður þeirra ok bróður hans. Þóroddr vill nú þreifa um þá, ok þóttist gjörr vita, hvat þeir voru, ok þótti honum Þórðr Illugi ólíkligr til hefnda, ok bað þá koma önnr misseri í þat mund, ok sagðist þá munu gjörr vita hýbýli Vígaskúta, ok sagðist þá heldr mega vita, hverja meðferð hafa skyldi. Burt fara þeir at sinni bræðr, ok ætla at vísu at koma á hans fund á nefndri stundu, ef nokkut mætti þeir reka rèttir sinnar svívirðíngar. Nú kemr Þóroddr at máli við þann mann, er Þorgrímr hèt, hann var Óttarsson, Þorgrímssonar, ok systrúngr Þórodds at frændsemi; nú segir hann Þorgrími, at hann var heitbundinn í við þá bræðr, frændr sína, ok sonu Þóris flatnefs, ok kunna at segja þeim nokkut af hýbýlum Vígaskútu at Mývatni, ok ráðit þeim ráð til hefnda eptir föður sinn ok frændr: en

mèr er þar ókunnigt, segir hann, at svâ búnu; nú trúi ek þèr bezt, at fara með mínum örendum vestr þángat; en þat skal vera með því móti ok tilstilli, at ek vil, sagði þóroddr, at þú látir þik áskilja við einhvörn húskarl minn, ok vinna á honum, síðan skaltu hlaupast í burtu ok til Skútu, ok biðja hann ásjá, ok skaltu fíflast á Sigríði, fóstru hans, ok gefa henni margt, en tala aldrei um Skútu við hana, ok far til þíngs at sumri til fundar við mik. þorgrímr mælti mjök í móti, en fór þó með öllu, sem þóroddr mælti fyri: vinnr nú á húskarlinum, ok hleypr á burt síðan, ok norðr á fund Skúta, ok bað hann viðtöku. En Skúti segir, at honum þikkir kynligt, at hann fór norðr þángat, sagði sèr margt vera torsóttligt sagt frá þóroddi, en tók þó við honum, ok var hann þar vel haldinn. Hann tekr sèr bráðt af at skipta við Sigríði, fóstru Skúta, ok gat ástir hennar, þvíat Skúta bannaði þat ekki, en þó grunaði hann þorgrím; var hann þar um vetrinn. Ok um sumarit vill hann fara til þíngs at hitta þórodd; ok nú ferr hann, ok segir þóroddi til þessa, þat er hann mátti afvita um háttu Skúta, ok þótti þóroddi ekki færi at svâ búnu. Illt þótti þorgrími at starfa í þessu, þvíat Skúta var vel til hans. þóroddr rèð þeim Illuga ok Birni at fara til Ölvis hins[1] * * * * * * gánga þeir Illugi ok Björn í jarðhúsit með ljósi, en Ölvir var hjá jarðhúss munnanum. þeir gánga nú eptir jarðhúsinu, ok koma at þar,

[1]) *Hèr enda at fullu A, B, C; í D, sem enn hefir 1 blað sèrílagi, af hvörju fyrri síðan þó er gjörmáð og öldúngis ólæsilig,*

sem um festina var búit; ok nú skáru þeir festina, ok lètu síga hógliga niðr hödduna; nú lúka þeir upp jarðhúss munnanum, ok þá kom kaldr blær á Skúta or jarðhúsinu, ok vaknar hann við, ok stóð nú upp. Ok í því bili lagði Illugi spjóti á Skútu; en Skúta hjó yfir höfuð Illuga ok í höfuð Birni, ok mælti í því, at eigi hefði allir haldinorðir verit; ok nú var hann þó því sári særðr, er hann leiddi til bana. Illugi barr nú Björn, bróður sinn, á brott af jarðhúsinu, ok var hann mjök sárr; ferr hann nú síðan á brott, ok þeir Ölvir allir saman, ok andaðist Björn bráðliga af því sári, sem Skúta hafði veitt honum. Þorgrímr bauð nú Sigríði með sèr at fara; en hún ásakaði hann mjök um þetta, ok kvað þá Skútu hafa újafnt viðhaft: er hann trúði þèr vel, en þú hefir nú svikit hann; ok þó ferr hún nú brott með honum á þeirri nótt, ok giptist honum síðan. Nú er þat sagt, at mál var tilbúit um víg Skútu, ok varð Þórðr Illugi sekr um vígit Skútu, ok skal hann vera utan 3 vetr; en þeir halda upp bótum fyri raðin ok tilförina vígs Skútu, Þóroddr goði ok Ölvir enn spaki, sonr Þorbergs höggvinkinna, ok voru nú sáttir at kalla. Þótti mörgum mönnum þat eigi fyrr hafa at hendi borit, enn líklígt var, um málit Skútu, at hann væri afráðinn; en þó er þat eina satt af honum at segja, at hann var vitr maðr ok inn mesti fullhugi, ok margir

*er niðrlag sögunnar, sem hèr fylgir; en eigi er líkligt, að hèr vanti meira í, enn ólæsiligu síðuna, álíka og 1½ bls. prentaða; E hefir og niðrlagsbrotið.*

gengu ekki betr, enn til jafns við hann, þótt miklir þættist fyri sèr vera, en eigi þótti hann öllum jafnaðarmaðr vera. Höfu vær nú hèr lok þessarar frásagnar, ok þakki nú hverr, sem verðt þikkir!

---

# Hèr hefr Vígaglúms sögu.

Íngjaldr hèt maðr, son Helga hins magra, hann bjó at Þverá í Eyjafirði[1]; hann var forn goðorðsmaðr ok höfðíngi mikill, ok þá aldraðr mjök, er sagan gerðist; hann var kvângaðr maðr, ok átti 2 sonu, Steinólf ok Eyjólf; þeir voru menn vel mannaðir, ok voru báðir fríðir sýnum. Íngjaldr var einlyndr ok fálátr, údæll ok fasttækr; hann lagði lítinn huga á kaupmenn, vildi ekki yfir sèr hafa þeirra ofsa, ok ef hann girnist af kaupmönnum nokkut at hafa, þá sendi hann aðra menn til, en fór eigi sjálfr. Skip kom enn[2] eitt sumar í Eyjafjörð; Hreiðarr hèt stýrimaðr, ættstórr, hann átti bú á Vors í Noregi, manna vaskastr ok vinsælstr. Eyjúlfr Íngjaldsson var opt við skip um sumarit, ok áttu þeir Hreiðarr margt

[1]) Helgi hèt maðr, ok var kallaðr Helgi hinn magri, hann var son Eyvindar Austmanns ok Rafförtu, dóttur Kjarfals Íra konúngs; Helgi átti Þorunni hyrnu, dóttur Ketils flatnefs, sonar Bjarnar bunu, hersis í Noregi; hann var ríkr ok kynstórr, ok bjó í Raumsdal í Raumdælafylki, þat er milli Suðrmæra ok Norðmæra. Helgi hinn magri nam Eyjaförð allan frá Siglunesi, bjuggu þau Þórunn hyrna, kona hans, í Kristsnesi í Eyjafirði, ok eru frá þeim komnir Eyfirðíngar; þau áttu son þann, er Íngjaldr hèt, hann bjó at Þverá í Eyjafirði, sem nú er kölluð Múkaþverá, *í stað þess undanfarna þannig C.* [2]) *v. í C.*

saman í vinfengi; Hreiðarr sagði honum, at hann vildi hèr vistast um vetrinn, kveðst vera fúsastr til Íngjalds at frásögn annarra manna; Eyjúlfr segir föður sinn ekki hafa þat í vanda lagt, en þó lèzt hann mundu umsýsla. Ok er hann kemr heim, ræddi hann um við föður sinn, at hann skyldi taka við stýrimanninum, ok kveðst ætla góðan dreng vera ok mikils verðan, ok tjáði málit fyrir honum vel um stýrimanninn. Íngjaldr segir: ef þú hefir boðit honum áðr, hvat mân þá tjá við at mæla? mun ek þá hljóta fè at kosta, en þú munt hafa starf fyrir, ok lèzt aldri útlendan mann með sèr haft hafa, ok lèzt enn ófúss vera. Þá segir Eyjúlfr: eigi er enn við honum tekit utan þitt ráð, en þat er ok bæði, at ek hefir litt til ráða hlutast, ok vill þú, at ek ráða litlu, ef sá maðr skal hèr eigi vist hafa, er ek hefi hegat boðit. Íngjaldr segir: nú skaltu ok ráða þessu, sem þú vill, at stýrimaðr fari hegat við annann mann, ok vil ek ekki á leggja við hann fyri þínar sakir, en þú skalt hafa allan starfa fyri þeim, en ek mun kostnað framleggja; hann segir: þetta líkar mèr vel at svá sè. Ferr hann annann dag ok hittir Hreiðar, ok segir honum málavöxt; hann lætr vel yfir; er hann þagat flutr með varníng sinn. Ok er þeir höfðu verit eigi lengi, þá varð Hreiðarr varr við, at þar skyldi vera jólaveizla fjölmenn; Íngjaldr var fárr við hann, ok þó vel. Einn dag kallar Hreiðarr Íngjald í útibúr, þar sem varníngr hans var inni; ok hann [gerir su[1]. Þá mælti Hreið-

[1]) gekk þángat, *C.*

arr, ok bað hann velja af varnínginum þat, er hann vildi. Íngjaldr lèzt engis girnast fjár hans, en kallar honum vel fara. Hreiðarr segir: ek hefi þó hugleidt nokkut, hvat þú þarft af oss at þiggja; ek hefi komit á nokkura bæi hèr í Eyjafirði, þá er beztir eru, ok sè ek engi herbergi slík sem hèr, en skálabúnað hefir þú eigi svâ góðan, at eigi sè þvílíkr á öðrum bæum; hann tók or sínum hirzlum svâ góðan skálabúnað, ok gaf Íngjaldi, sem engi hafði betri áðr komit hegat til Íslands. Íngjaldr þakkaði honum vel, ok var nú allgott vinfengi þeirra í millum. Síðanum vetrinn segir Eyjúlfr, at hann vill utan fara með Hreiðari um vârit; hann svaraði því óbráðt. Eyjúlfr segir: hví villtu eigi flytja mik? líkar (þèr) eigi vel við mik? Allvel, segir hann, en lítil munu föður þínum þikja vistarlaun mín, en eigi mun ek honum illu launa, at flytja son hans á brott, er honum er hverr sómi at; en ef faðir þinn lofar, þá flyt ek þik gjarna á brott, ok kann ek þökk mikla, at þú farir þá. Nú bjuggu kaupmenn ferð sína; ok er þeir voru búnir, leitar Eyjúlfr enn eptir um utanferð sína við Hreiðar; hann sagði honum sinn vilja: lèzt ekki vilja gera í móti föður hans um hans utanferð. Síðan segir hann föður sínum farfýsi sína, ok svâ, hversu farit hafði með þeim Hreiðari. Íngjaldr segir, at fáir drengir munu slíkir, sem Hreiðarr: ok með þessi þinni meðferð, ok at[1] reyndum drengskap, leyfi ek þèr ferðina, ok þikja betr, at þú farir með honum, enn með öðrum.

[1]) hans, *a. r. B.*

2. Síðan fóru þeir utan, ok komu við Noreg. Hreiðarr bauð Eyjúlfi marga kosti um vistartekjur; en hann vildi eigi þiggja þat, er hann bauð. Hreiðarr mælti: hvat villtu þá þinna ráða? Hann segir: eigi veit ek. Þá segir Hreiðarr: girnist þú ekki til konúnga, eða annarra höfðíngja, er þar heimill vârr tilbeini; þá var Hákon Aðalsteinsfóstri [yfir Noregi[1]: sýnist mèr slíkum höfðíngjum gott at þjóna, yðr stórum mönnum ok líkligum til góðrar fylgdar. Hann segir: vanfærr em ek at fylgja konúngum, en þó kann vera, at þat gengist eptir mínum vilja, en þó neita ek því. Hreiðarr spyrr: hvat villtu þá? Hví dregr þú undan at bjóða mèr til þín, þvíat þat vil ek? Lítill hugr er mèr á því, segir Hreiðarr. Eyjúlfr spyrr: hví sætir þat? Ek nenni eigi at veita þat, sem þèr er eigi gott at þiggja, þar er mèr þikir þú góðs eins verðr frá mèr. Forvitni er mèr á, hví þat sætir. Þat muntu nú vita verða, þó samir mèr illa frá at segja: bróður á ek mèr þann, er Ívarr heitir, við egum bú báðir saman ok allan fjárlut, ok unnumst við mikit, en við erum þó eigi skapglíkir um þat, at honum þikja illir Íslenzkir menn, svâ at þeim er eigi vært þar[2]; en hann er í víkíngu hvert sumar; en þá er hann kemr heim, ferr hann með [10da mann eða tólfta[3] til mín, ok skulu allir þeim þjóna, þeir er fyrir eru, ok munu þeir allir til þín vera svâ illa, at þar er þèr at engum kosti vært. Hann segir:

[1]) *b. v. C.* [2]) er hann er, *b. v. B, C.* [3]) 10 menn eða 12, *B, C.*

forvitni er mèr á, hversu þeir láta, ok ertu saklauss, ef þú lætr uppi vistina. Hreiðarr segir: mèr er vandt við bróður minn, er mèr færir gjafar þær, sem hann færir mèr, ok hann fær beztar til, at eigi skilì okkr á um þik, en mèr mun þúngt þikja, ef þeir gumsa þik ok spotta. Mjök villtu þat undan draga, segir Eyjúlfr, at ek fara til þín, eða hverneg mun hann við mik vera? eigi mun hann berja á mèr. Hreiðarr segir: bardaga verra mun þat: hann hefir marga vânda menn með sèr, allt þat, er þú mælir eða gerir, munu þeir afleiðis færa fyri þèr. Eyjúlfr segir: engi skapraun er þat, ef maðr veit nokkut af áðr, er þat úvizka, at bera eigi slíkt, ok mun þat ekki viðnema. Hreiðarr segir: vandi er þá á báðar hendr: þú ert vinr minn, en hann er bróðir minn, ok ann ek honum mikit. Þat varð, at hann fór heim með Hreiðari til vistar á Nes. Ok þá er Ívars var heim vân, þá tók Eyjúlfr loðkápu, ok hafði hvern dag, en hann var mikill maðr, ok sat hjá Hreiðari jamnan.

3. Nú kemr Ívarr heim, ok er gengit í mót honum vegliga ok fagnat með blíðu. Þá spurði hvârr þeirra annann tíðenda, eða hvar Hreiðarr hefði verit um vetrinn; en hann lèzt á Íslandi verit hafa; en þá spurði Ívarr engra tíðenda; en hvârt er, kvað hann, þar hjá þèr maðr, eða kvikendi? þat er hrúga eigi lítil. Eyjúlfr segir: ek em Íslenzkr maðr, ok heiti ek Eyjúlfr, ok ætla ek hèr at vera í vetr. Þess get ek, kvað Ívarr, at eigi sè úhapplaust hèr á bæ, ef Íslenzkr maðr skal hèr vera. Hreiðarr segir: ef þú ert

illa við hann, svâ at honum er eigi við vært, þá mun okkur frændsemi eigi góð vera. Illu heilli hefir þú til Íslands farit, ef af þeim sökum skulu vèr þjóna Íslenzkum mönnum, eða láta ella frændr vâra eða vini, ok ek veit eigi, hví þèr sýnist at fara til ennar vestu þjóðar, ok frelst hefir þú þik um tíðenda sögn við mik. Annann veg er, kvað Hreiðarr, þar eru heldr margir góðir drengir. Ívarr segir: eigi er sjá þó sæmiligr í öndveginu totabalsinn[1]; en þá er Ívarr sá, at bróður hans þótti miklu varða um mann þenna, þá tók hann minna af, enn áðr, við Íslendínga: en hvat muna ek þá heldr, enn kalla hann Hrúgu? En Eyjúlfr lèzt því nafni mundu vel kunna; en allt þat, er hann gerði eða mælti, þá færðu þeir afleiðis. Vigfúss hèt maðr, hann var hersir, ok rèð fyrir á Vors; hann var Sigurðarson, Víkíngakárasonar; hann átti dóttur þá, er Ástríðr hèt. Vinátta var þar mikil í millum þeirra bræðra ok Vigfúss, ok höfðu sinn vetr hvârir jólaveizlu með öðrum, ok skulu þeir bræðr nú búast við jólaveizlu; en allt hafði Hreiðarr fyribúit, ok skyldi hann þá bjóða mönnum, ok bað Eyjúlf fara með sèr: ok er mèr eigi[2] forvitni á, hversu þeir láta at þèr. Mèr er þúngt, segir Eyjúlfr, ok má ek eigi fyri því fara. Aptan þann, sem hann var heiman farinn, ok þeir koma í sæti, þá mæltu förunautar Ívars: nú er Hrúga heima, en Hreiðarr eigi, nú munu vèr hafa gleði sem oss sýnist. Vèr skulum nú, segir Ívarr, hyggja at nokkut, hvat oss hæfir: hèr erum við bræðr,

[1]) *þannig A;* tötrabassinn, *B;* totabassinn, *C.* [2]) *v. i C.*

ok egum fè báðir saman, ok berr hann alla áhyggju fyrir, en ek enga, en sá er einn maðr, er hann vill veita, ok gerum vèr svâ, at honum er varla við vært, en hann er við oss saklauss, ok skal engi maðr mæla í mein honum, meðan Hreiðarr er eigi heima. þeir segja nú vel fallit til gamans at hafa nokkut. þá mælti Ívarr: af litlum manndóm tali þèr, hèr þjóna oss allir, ok höfum vèr gaman af öllu, sem oss lystir, en aðrir hafa starfa ok áhyggju; ok þótt sjá maðr hefði drepit bróður minn, þá ætta ek ekki at gera honum til meins fyrir Hreiðars sakir, ok engum skal hlýða at gabba hann, ok nú skal hann eigi Hrúga heita lengr. Ok um morgininn mælti Ívarr við Eyjúlf: villtu fara í skóg með oss ok skemta þèr? Ok hann játti því, ok ferr með þeim, ok höggva þeir sèr trè ok flytja heim. Eyjúlfr hefir sverð ok handöxi. Ívarr mælti: þat ræð ek þèr, Íslendíngr! ef sèr ferr hverr vârr, at þú farir heim fyri myrkr. Síðan ferr sinn veg hverr um skóginn, ok fór Eyjúlfr einn sèr; þá ferr hann af loðkápunni, ok lagði á ofan sverð sitt, er hann hafði í hendi; en hann gekk í skóginn ok skemti sèr, ok hafði exi, ok hjó trèin þau, sem honum sýndist. En er áleið daginn, tók at drífa, ok vill hann þá heim, ok kom þar, er loðkápan hafði legit, ok var hún á brottu, en sverðit var eptir; hann sèr sópat snjánum, sem kápan hefði dragnat, en viðbjörn[1] hafði komit ok dregit kápuna, hafði varla aflit til haft upp at halda, er björninn var úngr ok

[1]) hiðbjörn, *B*; urðbjörn, *C*.

nýkominn or híðinu, ok eigi mannsbani vorðinn. Síðan fór hann, ok sá, at björninn sat fyrir honum, brá hann sverði, ok hjó af trýnit við augun uppi af dýrinu, ok hafði þat í hendi sèr heim. En Ívarr kom heim fyrri, ok saknar Eyjúlfs, ok mælti: ógegnliga[1] höfum vèr farit, ok illa skilizt við vârn förunaut, honum er ókunnigt á skóginum, en þar vân margra skæðra dýra, ok mun margrædt um, ef hann kemr eigi heim, svâ sem áðr voru vèr við hann, ok ræð ek, at vèr leitim hans, þartil er vèr finnum hann. En er þeir komu útfyri dyr, þá kom Eyjúlfr í mót þeim, ok fagnaði Ívarr honum vel, ok spurði, hví hann væri blóðugr; en hann sýndi þeim þat, er hann hèldt á. Þá mælti Ívarr: þat uggi ek, at þú sèr sárr. Ver kátr fyri þat, ekki sakar mik. Þá mælti Ívarr: úvitrligt bragð, at spotta úkunna menn! hann hefir sýnt vaskleik í þessum hlut, þar er ek veit eigi, hvârt nokkr vârr mundi til verða. Ok annann aptan kom Hreiðarr heim. Ívarr mælti: hví ertu svâ hljóðr, bróðir? ertu hugsjúkr um hann Hrúgu? hvat væntir þik, hversu ek mun við hann hafa búit? Hreiðarr segir: þat mun nú okkr víst máli skipta, hversu þú hefir þat gert. Hann segir: hvat muntu nú tilvinna, at ek sè við hann sem þú? Hann segir: ek mun gefa þèr gullhríng þann, er við egum báðir saman, ok þèr hefir góðr þótt lengi. Hann segir: eigi mun ek ágirnast föðurarf þinn, en við hann mun ek vera hèðanaf sem við þik sjálfan, ok skal hann nú sitja hjá mèr, en

[1]) ógeymiliga, *B.*

eigi hjá þèr. Síðan virðu þeir hann vel báðir, ok sá, at þat rúm var vel skipat, er hann sat í; ok leið nú svâ fram[1].

4. Nú koma menn til jólaveizlu til þeirra bræðra; en þá er tólfmenníngr var skipaðr til at sitja, ok settir hlutir til, hverr nærst skyldi sitja Ástríði, dóttur Vigfúss hersis, ok hlaut Eyjúlfr ávallt at sitja hjá henni, en engi maðr sá þau fleira viðtalast, enn aðra menn; en þat ræddu margir, at því mundi þann veg í móti berast, at honum mundi þar konu auðit verða; slítr veizlu þeirri, ok var hún veitt stórmannliga, ok menn með gjöfum á brott leystir. Eyjúlfr var 4 sumur í víkíngu, ok þótti enn mesti garpr ok framgaungumaðr, fèkk gott orð ok mikit fè. Þat var einn vetr, at sá maðr kom þar á Vors, er Þorsteinn hèt, ok var frændi þeirra bræðra, ok átti bú á Upplöndum; hann sagði til vandræða sinna, at berserkr sá, er Ásgautr hèt, hafði skorat á hann til hólmgaungu fyri þá sök, at hann synjaði honum systur sinnar, ok bað þá fjölmenna[2] sik til hólms, at eigi gengi sjá víkíngr á efni hans, sagði hann þó fellt hafa marga menn[3] sína, sagði, at hann mundi láta systur sína, ef þeir vildi hann eigi efla: em ek ekki traustr til hólmgaungu, nema ek njóta yðvarrar[4] gæfu við; þeir nenntu eigi at synja honum fararinnar. Nú fóru þeir með honum á Upplönd, ok höfðu 30 manna með sèr, ok koma í þann stað, er þeir skulu finnast; þá leita þeir við menn sína, hverr

[1]) til jóla, *b. v. B*; um hrið, *b. v. C.* [2]) fulltingja, *B.* [3]) vini, *C.* [4]) yðvarra ráða ok, *C.*

þat vildi vinna sèr til konu, at gánga á hólm við Ásgaut; en þótt konan þætti fýsilig, þá varð þó engi búinn at vinna þetta til. þá beiddu þeir bræðr, at Eyjúlfr myndi halda skildi fyrir hann; þá segir Eyjúlfr, kvaðst þat við engan mann gert hafa, ok eigi fyri sik sjálfan: ok mân mèr eigi gott þikja, ef hann er drepinn í höndum mèr, þiki mèr engi fremd í þessu; en ef sveinn sjá verðr drepinn í höndum oss, skulum vèr þá heim fara með svâ guru, eða skal þá tilfá annann ok enn þriðja? ok vex þá svâ vâr úvirðíng, svâ sem margir falla fyrir oss, ok lítil virðíng mun á för vârri, ef vèr förum við þat aptr, at hans sè úhefnt, ef hann fellr fyrir oss; biðì þèr mik, at ek gánga heldr á hólm við berserkinn, þat er veitanda vinum sínum, en þetta vil ek eigi veita. þeir þakka honum vel, ok þótti þeim þó mikit í ábyrgð, er hann var. Hann segir: svâ sýnist mèr, sem engum vârum sè aptrkvæmt, ef hans er eigi hefnt, ok þiki mèr þá verra at berjast við berserkinn, ef frændi yðvarr er áðr drepinn; síðan gengr hann fram, en Ívarr bauð at halda skildi fyrir honum. Eyjúlfr segir: vel er þat boðit, en mèr mun mest umhugat, ok er satt it fornkveðna, at sjálfs hönd er hollust; gengr á hólm síðan. Berserkrinn mælti: skal sjá við mik berjast hrúnkinn[1]? Eyjúlfr mælti: er eigi þat, at þèr ægi við mik at berjast? kann þat vera, at þèr sè eigi vel farit, er þú æðrast mikinn mann, en gambrar yfir litlum. Ekki er mèr þat eignat, segir hann, en lögin

[1]) hrúnkrinn, *B.*

